Karl Marx
og
Friedrich Engels

# ÚRVALSRIT

í tveimur bindum

2. bindi

HEIMSKRINGLA
Reykjavík 1968

ÞESSI ÚTGÁFA ER HELGUÐ
HUNDRAÐ OG FIMMTÍU ÁRA
MINNINGU KARLS MARX

KARL MARX

# Stéttabaráttan í Frakklandi 1848–1850

## Inngangur

*eftir Friedrich Engels*

(Þessi inngangur Engels var á sínum tíma mjög afbakaður af hinni hentistefnusinnuðu forystu þýzkra sósíaldemókrata. Í marz 1895 birti W. Liebknecht í „Vorwärts", aðalmálgagni flokksins, nokkra hluta inngangsins, sem hann hafði valið eftir eigin geðþótta, og það þannig, að hann birti allt, sem hann gat notað til að rökstyðja friðsamlega taktík, andvíga valdbeitingu. (Engels í bréfi til P. Lafargue, 3. apríl 1895). Í þessu tilefni skrifaði Engels Kautsky 1. apríl 1895: „Mér til mikillar undrunar sá ég í dag, að í „Vorwärts" hefur verið birtur útdráttur úr inngangi mínum, án þess að mér væri um það tilkynnt fyrir fram, og hann er svo afbakaður, að ég kem þar fram sem friðelskandi tilbiðjandi lögmætisins umfram allt. Ég er því feginn, að nú skuli allur textinn birtast í „Neue Zeit", svo að þessi smánarblettur verði af mér þveginn."

En inngangurinn birtist ekki í heilu lagi, hvorki í „Neue Zeit" né í sérprentun ritsins árið 1895. Samkvæmt eindreginni kröfu forustu þýzka sósíaldemókrataflokksins, sem í bréfum til Engels hélt því fram, að hætta væri á nýjum sósíalistalögum í Þýzkalandi, varð Engels að fella niður hvössustu málsgreinar inngangsins, þar sem talað var um komandi vopnaða baráttu öreiganna gegn borgarastéttinni.

Forusta þýzkra sósíaldemókrata, sem komizt hafði yfir skjalasafn Marx og Engels, leitaðist við að nota þessa styttu útgáfu á inngangi Engels til stuðnings hentistefnu sinni og vildi þess vegna aldrei birta hana í heilu lagi.

Í heilu lagi var inngangur Engels fyrst gefinn út í Sovétríkjunum.)

Rit það, sem hér birtist í nýrri útgáfu, var fyrsta tilraun Marx til að skýra ákveðið tímabil samtímasögunnar út frá efnahagslegum aðstæðum, í samræmi við hið díalektíska viðhorf hans.

Í Kommúnistaávarpinu hafði þessari kenningu verið beitt til að marka útlínur nútímasögunnar, og í greinum eftir okkur Marx í „Neue Rheinische Zeitung" hafði hún stöðugt verið notuð til útskýringar á pólitískum atburðum líðandi stundar. Hér var hins vegar um það að ræða, að sýna fram á hið innra orsakasamhengi í framvindu nokkurra ára atburðarásar, sem bæði var örlagarík og dæmigerð fyrir alla Evrópu, þ. e. a. s., samkvæmt tilætlun höfundar, að útskýra hina pólitísku atburði sem afleiðingar dýpri orsaka, í grundvallaratriðum efnahagslegra.

Þegar metnir eru einstakir atburðir eða lengri atburðarásir samtímasögu, er aldrei kleift að leita uppi hinar dýpstu efnahagslegu orsakir þeirra. Jafnvel nú á dögum, er prentaðar heimildir eru orðnar svo ríkulegar, er það meira að segja í Englandi ómögulegt að rekja frá degi til dags þróun iðnaðarins, verzlunarinnar á heimsmarkaðinum eða breytingar framleiðslutækni svo nákvæmlega, að hægt sé hvenær sem er að draga almennar ályktanir af þessum margflóknu og síbreytilegu gerendum; þar að auki verka hinir mikilvægustu meðal þeirra oft langan tíma á bak við tjöldin, áður en þeir birtast skyndilega á yfirborðinu. Ljósa yfirsýn yfir efnahagssögu ákveðins tímabils öðlast menn því aldrei samtímis, heldur aðeins eftir á, eftir söfnun heimilda og úrval úr þeim. Hér eru hagskýrslur ómissandi hjálpartæki, og þær verða alltaf aftur úr. Við rannsókn samtímasögu er það því oft óhjákvæmilegt, að líta á þennan mikilvægasta þátt hennar sem stöðugan, gera ráð fyrir að efnahagsaðstæður í upphafi viðkomandi tímabils haldist óbreyttar í rás þess, eða í mesta lagi að reikna aðeins með þeim breytingum, sem spretta af sjálfum hinum augljósu atburðum og eru því einnig auðraktar. Hin díalektíska rannsóknaraðferð neyðist því oft til að einskorða sig við að rekja pólitíska baráttu til hagsmunaárekstra milli þjóðfélagsstétta og stéttabrota, sem ákvarðaðar eru af undangenginni efnahagsþróun, og útskýra einstaka stjórnmálaflokka sem mismunandi nákvæma pólitíska tjáningu þessara stétta og stéttabrota.

Að sjálfsögðu hlýtur þessi óumflýjanlega vanræksla samtímabreytinga á hinum efnahagslegu aðstæðum, grundvelli þeirra atburða, sem rannsaka skal, að leiða til mistaka. En öll skilyrði fyrir yfirgripsmeiri skráningu á nútímasögu eru jafnframt forsendur að mistökum, og lætur það þó enginn aftra sér frá því að fást við nútímasögu.

Þegar Marx byrjaði á þessu verki, var enn erfiðara en ella að forðast umgetin mistök. Á byltingarárunum 1848–1849 var með öllu ókleift að fylgjast með þeim efnahagsbreytingum, er áttu sér stað samtímis, eða öðlast yfirsýn yfir útlínur þeirra. Sama

máli gegndi um fyrstu útlegðarmánuðina í London, veturinn 1849–1850. Einmitt um það leyti tókst Marx verkið á hendur. Og þrátt fyrir þessar óheppilegu aðstæður gerði hin trausta þekking hans á efnahagsástandi Frakklands fyrir febrúarbyltinguna, svo og pólitískri sögu byltingarinnar sjálfrar, honum það kleift að lýsa atburðunum á slíkan hátt, að hið innra samhengi þeirra birtist í óviðjafnanlega skýru ljósi, enda stóðst verkið síðar tvöfalda prófraun af hálfu Marx sjálfs.

Fyrsta prófraunin byggðist á því, að með vorinu 1850 gafst Marx aftur tími til hagfræðilegra rannsókna, og þá fyrst og fremst á efnahagssögu síðustu tíu ára. Þannig fann hann staðreyndalegar sannanir fyrir því, sem hann hafði áður hálft í hvoru gizkað á af ónógum forsendum: að hin alþjóðlega verzlunarkreppa ársins 1847 hafði getið af sér febrúar- og marzbyltingarnar, og að blómaskeið iðnaðarins, sem hófst á miðju ári 1848 og náði fullum vexti á árunum 1849 og 1850, hafði blásið nýju lífi í afturhald Evrópu. Þetta atriði hafði úrslitaþýðingu. Þar sem í fyrstu greinunum (þær birtust í janúar-, febrúar- og marzhefti „Neue Rheinische Zeitung, tímariti um stjórnmál og efnahagsmál", Hamborg 1850[1]) er enn þá augljós von um að orka byltingarinnar blossi brátt upp á nýjan leik, segir hið sögulega yfirlit, sem við Marx sömdum í sameiningu fyrir síðasta hefti tímaritsins (maí-október) endanlega skilið við þessar tálsýnir: „Ný bylting getur aðeins siglt í kjölfar nýrrar kreppu. En hún er jafn óumflýjanleg og hin síðarnefnda". Þetta var eina verulega breytingin, sem nauðsynleg var. Túlkun atburðanna í fyrri köflunum og skilgreiningin á innra orsakasambandi þeirra þurfti alls engra breytinga við, eins og sýnt er fram á í framhaldi frásagnarinnar frá 10. marz til hausts 1850, sem er að finna í hinum sama yfirlitskafla. Ég bætti því þessu framhaldi inn í nýju útgáfuna sem fjórða kafla hennar.

Síðari prófraunin var enn strangari. Strax eftir valdarán Loðvíks Bonaparte 2. desember 1851 tók Marx að nýju til meðferðar sögu Frakklands frá 1848 til þessa síðasta atburðar, sem að sinni batt enda á byltingartímabilið (Der 18. brumaire des Louis Bonaparte, 3. útgáfa, Meissner, Hamborg, 1885.) Í þessum bæklingi er aftur lýst því tímabili, sem hér er til umræðu, þótt í styttra máli sé. Sé þessi síðari lýsing, skrifuð í ljósi atburðar, sem gerðist meira en ári síðar og hafði úrslitaþýðingu, borin saman við hina fyrri, kemur í ljós, að höfundurinn þurfti mjög litlar breytingar að gera.

Rit þetta hefur enn fremur sérstaka þýðingu vegna þess, að

[1] Neue Rheinische Zeitung. Politisch-ökonomische Revue – tímarit gefið út af Marx og Engels í Hamborg mánuðina janúar til október 1850. – *Útg.*

þar er fyrst sett fram kjörorð það, sem verkalýðsflokkar um heim allan tjá með kröfur sínar um nýskipan efnahagsmála: þjóðfélagseign á framleiðslutækjum. Í öðrum kafla, þar sem rætt er um „réttinn til vinnunnar", sem nefndur er „hið fyrsta og ófullkomna kjörorð, sem tjáir byltingarkröfur verkalýðsstéttarinnar", segir svo: „En að baki réttinum til vinnu standa yfirráð yfir auðmagninu, að baki yfirráðum yfir auðmagninu eignarhald á framleiðslutækjum, yfirfærsla þeirra í hendur hinnar sameinuðu verkalýðsstéttar, þ. e. a. s. afnám bæði launavinnu og auðmagns, svo og hins gagnkvæma sambands þeirra." Hér er því – í fyrsta sinn – mótuð sú kennisetning, sem greinir nútíma verkalýðssósíalisma frá hinum ýmsu tegundum aðalborins, borgaralegs eða smáborgaralegs sósíalisma annars vegar, og sameignardraumórum útópísks eða sjálfsprottins verkamannakommúnisma hins vegar. Enda þótt Marx síðar meir víkkaði þessa kennisetningu og bætti við hana kröfunni um þjóðfélagsumráð yfir vöruskiptum, er hér, eins og ljóst má verða af Kommúnistaávarpinu, ekki um annað að ræða en einfalda afleiðingu höfuðsetningarinnar sjálfrar. Nokkrir spekingar í Englandi hafa reyndar nýlega bætt því við, að „dreifingartæki" skuli einnig tekin í eigu verkalýðsins. Þeim mundi reynast erfitt að útskýra nánar, hver þessi efnahagslegu dreifingartæki, aðskilin frá framleiðslu- og verzlunartækjum, eru nema þeir eigi við pólitísk dreifingartæki: skatta, fátækrahjálp o. s. frv., að meðtaldri Sachsenwald-gjöfinni[1] og öðru slíku. En í fyrsta lagi eru þessi dreifingartæki nú þegar í eigu félagsheildarinnar, ríkis eða bæjarfélaga, og í öðru lagi stefnum við einmitt að afnámi þeirra.

———

Við upphaf febrúarbyltingarinnar voru hugmyndir okkar allra um forsendur og þróun byltingarhreyfinga mjög undir áhrifum undangenginnar sögulegrar reynslu, og þá fyrst og fremst hinnar frönsku. Það var einmitt hún, sem hafði mótað alla sögu Evrópu síðan 1789, og sem enn á ný hafði nú orðið tilefni til almennrar umbyltingar. Það var því auðskilið og óhjákvæmilegt, að hugmyndir okkar um eðli og framvindu hinnar „þjóðfélagslegu byltingar", byltingar öreiganna, sem á dagskrá var tekin í París í febrúar 1848, væru mjög mótaðar af minningum frá árunum 1789–1830. Og þegar uppreisninni í París fylgdu eftir sigursælar uppreisnir í Vín, Mílanó og Berlín, og öll Evrópa til landamæra Rússlands komst á hreyfingu; þegar í júní var háð í París fyrsta stórorustan í valdabaráttu borgarastéttar og öreiga; þegar jafn-

[1] Sachsenwald (Saxaskóg) fékk Bismarck ríkiskanzlari árið 1871 að gjöf frá keisaranum, Vilhjálmi I. – *Útg.*

vel sigur hinnar fyrrnefndu skelfdi svo mjög borgarastétt allra landa, að hún leitaði aftur hælis í örmum hins nýsigraða afturhalds aðals og konungavalds, – þá vorum við ekki í neinum efa um, að hin miklu úrslitaátök væru hafin, að þeim mundi ljúka á samfelldu, löngu og atburðaríku byltingarskeiði, sem þó gæti aðeins endað með lokasigri öreiganna.

Eftir ósigra ársins 1848 aðhylltumst við ekki tálsýnir hinna smáborgaralegu lýðræðissinna, sem fylktu sér um „bráðabirgðastjórnir“ í útlegð. Þeir væntu skjóts úrslitasigurs „alþýðunnar“ yfir „kúgurunum“, en við gerðum hins vegar ráð fyrir langvarandi baráttu milli gagnstæðra afla, er leyndust innan raða „alþýðunnar“, eftir að „kúgurunum“ hefði verið steypt af stóli. Hinir smáborgaralegu lýðræðissinnar bjuggust við nýrri byltingu á hverjum degi; við lýstum því yfir þegar haustið 1850, að lokið væri a. m. k. fyrsta þætti byltingarskeiðsins, og einskis væri nú að vænta fyrr en næsta heimskreppa skylli á. Fyrir þetta vorum við fordæmdir og lýstir svikarar við byltinguna af þeim sömu mönnum, sem síðar friðmæltust því nær undantekningarlaust við Bismarck, svo fremi að Bismarck vildi líta við þeim.

En sagan hefur einnig afsannað þáverandi skoðanir okkar, leitt í ljós, að þær voru tálsýnir einar. Hún hefur gengið enn lengra: hún hefur ekki aðeins afhjúpað villur okkar, heldur gjörbreytt baráttuskilyrðum öreiganna. Baráttuaðferðir ársins 1848 eru nú orðnar úreltar í öllu tilliti, og að þessu atriði er rétt að gefa hér nánari gaum.

Allar byltingar hingað til hafa leitt af sér, að ein valdastétt kom í stað annarrar, en allar valdastéttir hafa hingað til verið í miklum minni hluta gagnvart hinum undirokaða fjölda. Þannig var ríkjandi minnihluta steypt af stóli, annar minnihluti tók í hans stað við ríkisvaldinu og umbreytti ríkisstofnunum til samræmis við hagsmuni sína. Hér var ætíð um að ræða þann minnihluta, sem efnahagslegt þróunarstig leyfði og krafðist yfirráða hans. Einmitt þess vegna, og aðeins þess vegna, gat það átt sér stað, að hinn undirokaði meirihluti tæki annað hvort virkan þátt í umbyltingunni, í þágu umgetins minnihluta, eða tæki henni a. m. k. með jafnaðargeði. En ef sleppt er hinu hlutstæða inntaki hverrar byltingar um sig, var sameiginlegt form þeirra það, að þær voru byltingar minnihluta. Jafnvel þegar meirihlutinn lagði hönd að verki, var það – meðvitað eða ekki – í þjónustu minnihlutans. Þannig gat hinn síðarnefndi – og stundum fyrir eitt saman mótspyrnuleysi fjöldans – komið fram sem fulltrúi allrar alþýðu.

Eftir fyrsta meiri háttar sigurinn klofnaði oftast hinn sigursæli minnihluti. Annar hluti hans var ánægður með það sem

unnizt hafði, en hinn vildi ganga lengra og setti fram nýjar kröfur, sem a. m. k. að vissu marki samrýmdust raunverulegum eða sýndarhagsmunum alþýðu manna. Stundum tókst að hrinda þessum róttækari kröfum í framkvæmd, en oftast aðeins um stundarsakir, og hinn hægfara armur náði aftur undirtökunum, svo að hinir síðustu landvinningar glötuðust að einhverju eða öllu leyti. Hinir sigruðu töldu sig þá svikna, eða kenndu tilviljun um ófarir sínar. Í raun og veru var málum oftast nær þannig farið, að ávextir hins fyrsta sigurs voru ekki tryggðir fyrr en með síðari sigri róttæka flokksins. Þegar þetta var fullkomnað og augnabliksnauðsyn þannig uppfyllt, hurfu hinir róttæku sigrar þeirra aftur af sjónarsviðinu.

Allar byltingar nýju aldarinnar, frá og með hinni miklu ensku byltingu á sautjándu öld, bera þessi einkenni, sem virtust óaðskiljanlegur þáttur allrar byltingarbaráttu. Svo virtist sem þau giltu einnig um baráttu öreiganna fyrir frelsun sinni, og það því fremur, sem einmitt árið 1848 voru þeir menn örfáir, sem höfðu a. m. k. einhverja hugmynd um, í hverri átt þessarar frelsunar var að leita. Öllum fjölda öreiganna var jafnvel eftir sigurinn í París með öllu óljóst, hverja stefnu ætti upp að taka. En hreyfingin var staðreynd, sprottin upp af sjálfsdáðum og eftir eðlisávísun, en óútrýmanleg. Hafði hér ekki skapazt einmitt það ástand, þar sem bylting gat heppnazt, að vísu undir forustu minnihluta, en í þetta sinn ekki í þágu minnihlutans, heldur samkvæmt raunverulegum hagsmunum fjöldans? Ef svo auðvelt hafði verið á öllum lengri byltingarskeiðum að vinna alþýðuna til fylgis við líkindalæti hins framsækna minnihluta, hvernig gat þá hugsazt, að hún mundi síður ljá eyra hugmyndum, sem ekki voru neitt annað en raunsönn endurspeglun hennar efnahagslegu aðstæðna, ljós og skynsamleg tjáning á þörfum hennar, sem hún hafði ekki enn öðlazt skilning á, þótt hún fyndi óljóst til þeirra? Reyndar hafði byltingareldmóður fjöldans nær alltaf, og oftast mjög fljótt, vikið fyrir þreytu, eða jafnvel andstæðu sinni, þegar blekkingin hafði afhjúpazt og vonbrigðin komið í hennar stað. En hér var einmitt ekki um blekkingar að ræða, heldur um framkvæmd hagsmunamála yfirgnæfandi meirihluta þjóðfélagsins, hagsmunamála, sem að vísu voru fjöldanum enn ekki ljós, en hlutu að verða það í framkvæmdinni, þar sem þau tækju á sig auðsýnilega mynd. Og þegar við það bættist, eins og sýnt er fram á í þriðju grein Marx, að vorið 1850 hafði þróun hins borgaralega lýðveldis, sem spratt upp úr „þjóðfélagsbyltingu" ársins 1848, sameinað öll völd í höndum stórborgarastéttarinnar – sem ofan á allt annað var konungssinnuð – og á hinn bóginn þjappað öllum öðrum þjóðfélagsstéttum, jafnt bændum

sem smáborgurum, saman utan um öreigana, svo að eftir sameiginlegan sigur gátu það ekki orðið þær, heldur öreigarnir, þroskaðir af reynslunni, sem öðluðust úrslitaaðstöðu – voru þá ekki fyrir hendi öll skilyrði til að bylting minnihlutans þróaðist yfir í byltingu meirihlutans?

Sagan hefur nú hrakið skoðanir okkar og allra, sem svipaðs sinnis voru. Hún hefur sýnt fram á, að hið efnahagslega þróunarstig meginlandsins var þá hvergi nærri nógu þroskað fyrir afnám kapítalískra framleiðsluhátta; hún hefur sannað þetta með hinni efnahagslegu byltingu, sem síðan 1848 hefur breiðzt út um allt meginlandið og innleitt stóriðjuna fyrir alvöru í Frakklandi, Austurríki, Ungverjalandi, Póllandi og nú síðast Rússlandi, en gert úr Þýzkalandi iðnaðarveldi í fremstu röð – og allt þetta á kapítalískum grundvelli, sem þannig reyndist mikillar útþenslu megnugur frá því, sem var árið 1848. En einmitt þessi iðnbylting hefur skýrt línur stéttaskiptingarinnar, útrýmt ýmsum millibilsfyrirbærum frá handiðnaðartímabilinu og í Austur-Evrópu jafnvel allt frá tímum handiðju, skapað raunverulega stórborgarastétt og ósvikinn stóriðjuverkalýð og ýtt þeim fram á fremsta svið sögunnar. Þannig hefur barátta þessara tveggja höfuðstétta, sem árið 1848 var hvergi til utan Englands nema í París og í hæsta lagi í nokkrum stórum iðnaðarmiðstöðvum, breiðzt út um alla Evrópu og skerpzt miklu meira en hugsanlegt var 1848. Þá voru enn til hinir ýmsu sósíalísku sértrúarflokkar, hver með sitt sérstaka guðspjall; í dag er komin í stað þeirra kenning Marx, augljós og almennt viðurkennd, sem setur höfuðmarkmið baráttunnar skýrt fram. Þá var alþýðan enn þá sundruð eftir stað og þjóðerni og aðeins tengd saman af sameiginlegum þjáningum; hún var pólitískt vanþróuð og sveiflaðist ráðvana milli sigurvímu og örvæntingar. Í dag er í þess stað kominn sameinaður og alþjóðlegur her sósíalista, sem sækir stöðugt fram og þroskast með degi hverjum að fjölda, skipulagningu, aga, einingu og sigurvissu. Ef jafnvel þessum volduga öreigaher hefur enn ekki tekizt að ná takmarki sínu, ef honum er ókleift að berjast til sigurs í einni stórorustu, heldur verður að sækja frá einni vígstöðu til annarrar í harðri og langvinnri baráttu, þá sýnir þetta nægilega ljóst, hversu ómögulegt var árið 1848 að umskapa þjóðfélagið með einni skyndiárás.

Borgarastétt, klofin í tvo konungssinnaða arma,[1] sem framar

[1] Hér er átt við „legitimista", áhangendur hinnar „lögmætu" Bourbon-konungsættar, sem var við völd í Frakklandi til ársins 1792 og síðan aftur á endurreisnartímabilinu (1815–1830), og „orleanista", áhangendur Orleans-ættarinnar, sem komst til valda eftir júlíbyltinguna 1830 og var steypt af stóli í febrúarbyltingunni 1848. – *Útg.*

öllu öðru krafðist öryggis fyrir fésýslustarfsemi sína, og andspænis henni öreigastéttin, sigruð að vísu, en þó enn hættulegur andstæðingur, sem í æ ríkara mæli fylkti um sig smáborgurunum og bændum; stöðug hætta á vopnaðri uppreisn, sem þó gaf enga von um endanlega lausn málanna – þannig var ástandið, eins og skapað fyrir stjórnlagarof hins þriðja Bonaparte, keisaraefnisins í lýðræðisgervi. Með hjálp hersins batt hann 2. desember 1851 endi á hið ótrygga ástand og tryggði þar með Evrópu innanlands frið, sem einmitt leiddi yfir hana nýtt styrjaldartímabil.[1] Tími byltinga að neðan var fyrst um sinn á enda; í hönd fór tími byltinga að ofan.

Hið imperíalistíska afturkast ársins 1851 var ný sönnun fyrir vanþroska stefnumiða öreiganna á þeim tíma. En einmitt það sjálft skóp skilyrði, sem leiddu til frekari þroska þeirra. Innanlands friður tryggði óhindraðan uppgang iðnaðarins og nauðsynin á að finna hernum eitthvert starf og beina um leið byltingarhneigðum út á við leiddi til styrjalda, sem Bonaparte reyndi að nota til að færa út landamæri Frakklands, undir því yfirskini, að hann væri að berjast fyrir viðurkenningu „þjóðernisreglunnar". Eftirlíkjandi hans, Bismarck, tók upp sömu stefnu í Prússlandi; hann framkvæmdi sitt eigið stjórnlagarof, sína eigin byltingu að ofan, árið 1866 gegn þýzka sambandinu og Austurríki, og ekki sízt gegn hinu sundraða prússneska þingi. En Evrópa var of lítil fyrir tvo Bonaparta, og því sýndi kaldhæðni sögunnar sig í því, að Bismarck velti Bonaparte úr sessi, og Vilhjálmur Prússakonungur endurreisti ekki aðeins hinn þýzka keisaradóm, heldur franska lýðveldið þar á ofan. Niðurstaða alls þessa var sú, að í Evrópu var sjálfstæði og eining stórþjóðanna – nema Pólverja – orðið að staðreynd. Að vísu innan nokkuð þröngra landamæra, en þó nægði það til þess, að þjóðernisleg vandamál lögðu ekki lengur stein í götu framþróunar verkalýðsins. Grafarar byltingarinnar frá 1848 höfðu framkvæmt erfðaskrá hennar. Og við hlið þeirra var nú aftur að rísa upp hinn ógnvekjandi erfingi frá 1848, öreigastéttin, skipulögð í alþjóðasambandi sínu.

Eftir stríðið 1870–71 hverfur Bonaparte af sviðinu og sögulegu hlutverki Bismarcks er lokið, svo að hann breytist aftur í venjulegan „júnkara". En lokaþáttur þessa tímabils er Parísarkommúnan. Undirförul tilraun Thiers til að afvopna þjóðvörðinn í París leiddi til sigursællar uppreisnar. Það kom aftur í ljós,

---

[1] Á stjórnarárum Napóleons III. tóku Frakkar þátt í Krímstríðinu (1854–55), háðu stríð við Austurríki vegna Ítalíu (1859), tóku þátt í styrjöldum Englendinga við Kína (1856–58 og 1860), byrjuðu að leggja undir sig Indó-Kína, skipulögðu herferð til Sýrlands (1860–61) og Mexíkó (1862–67) og háðu styrjöld við Prússa 1870–71. – *Útg.*

að í París er ekki framar möguleg nein bylting önnur en bylting öreiganna. Eftir sigurinn féllu völdin verkalýðsstéttinni í skaut sjálfkrafa og án andspyrnu. Og aftur kom í ljós, að enn þá, tuttugu árum eftir þá atburði, sem lýst er í þessu riti, var verkalýðnum ókleift að halda þessum völdum. Annars vegar brást Frakkland Parísarborg og horfði aðgerðarlaust á, er henni blæddi út undan skotvopnum MacMahons; hins vegar eyddi kommúnan orku sinni í ófrjórri baráttu milli tveggja flokka, sem klufu hana: Blanquista (meirihlutinn) og Proudhonista (minnihlutinn), sem hvorugir vissu, hvað til bragðs átti að taka. Hinn auðunni sigur ársins 1871 reyndist jafn árangurslaus og skyndiárásin 1848.

Eftir ósigur Parísarkommúnunnar álitu menn að hin herskáa öreigastétt væri endanlega grafin. En reyndin varð þveröfug, einmitt eftir kommúnuna og þýzk-franska stríðið byrjar mesti uppgangur hennar. Algjör umbylting stríðsvélarinnar með herkvaðningu allra vopnfærra íbúa, sem leiddi til þess, að herirnir skiptu nú milljónum, með áhrifameiri og áður óþekktum skotvopnum og sprengiefnum, batt annars vegar enda á hið bonapartíska styrjaldartímabil og tryggði friðsamlega þróun iðnaðarins, því að nú var ekki hugsanlegt annað stríð en heimsstyrjöld með áður óþekktum ógnum og algjörlega ófyrirsjáanlegum afleiðingum. Hins vegar leiddi hún, vegna ört vaxandi herkostnaðar, til stóraukinnar skattpíningar, og hrakti þar með fátækari stéttir þjóðfélagsins í arma sósíalismans. Innlimun Elsass og Lothringen, sem var beinasta tilefnið til hins óða vígbúnaðarkapphlaups, æsti borgarastéttir Frakklands og Þýzkalands hvora upp á móti annarri, en fyrir verkalýð beggja landa varð hún nýtt sameiningartákn. Og afmælisdagur Parísarkommúnunnar varð fyrsti alþjóðlegi hátíðisdagur verkalýðsins.

Styrjöldin 1870–71 og ósigur kommúnunnar höfðu, eins og Marx sagði fyrir, fyrst um sinn flutt þungamiðju evrópskrar verkalýðshreyfingar frá Frakklandi til Þýzkalands. Í Frakklandi hlutu að sjálfsögðu að líða mörg ár, áður en verkalýðurinn næði sér eftir blóðtökuna í maí 1871. En í Þýzkalandi, þar sem iðnaðurinn var í hröðum uppgangi og blómgaðist enn meira við tilkomu frönsku milljarðanna,[1] var vöxtur hinnar sósíaldemókratísku hreyfingar þó enn hraðari og gagngerari. Vegna þess þroska, sem þýzkir verkamenn sýndu við notkun hins almenna kosningaréttar, sem innleiddur var 1866, er nú hægt að sýna með óvefengjanlegum tölum fram á hinn furðulega vöxt flokksins. 1871: 102 000, 1874: 352 000, 1877: 493 000 sósíaldemókratísk atkvæði. Þar næst kom viður-

[1] Hér er átt við stríðsskaðabætur þær, sem Frakkar greiddu Þjóðverjum samkvæmt friðarsamningnum í Frankfurt og námu fimm milljörðum franka. – *Útg.*

kenning yfirvaldanna á þessum góða árangri í mynd sósíalistalaganna; flokkurinn sundraðist í bili, og atkvæðatala hans lækkaði 1881 niður í 312 000. En hann náði sér fljótt eftir þetta áfall, og nú, við hin erfiðu skilyrði bannlaganna, án blaðakosts, án opinberra samtaka, án félags- og fundafrelsis, tók fylgi hans að vaxa enn hraðar. 1884: 550 000, 1887: 763 000, 1890: 1 427 000 atkvæði. Þá gafst ríkisvaldið upp. Sósíalistalögin voru afnumin, atkvæðum sósíalista fjölgaði enn upp í 1 787 000, svo að þau voru orðin meira en fjórðungur greiddra atkvæða. Ríkisstjórnin og ráðandi stéttir höfðu reynt öll ráð – öll voru þau til einskis. Allir embættismenn, frá næturverði til ríkiskanzlara, höfðu í milljónatali öðlazt áþreifanlegar sannanir fyrir vanmætti sínum frammi fyrir hinum fyrirlitnu verkamönnum. Ríkisvaldið hafði tæmt vopnaskemmu sína, verkamenn höfðu aðeins byrjað á sinni.

En þýzkir verkamenn höfðu unnið í þágu málstaðar síns enn eitt afrek auk hins fyrsta, sem var uppbygging hins sterkasta, agaðasta og hraðast vaxandi af öllum verkalýðsflokkum. Þeir höfðu fært félögum sínum í öllum löndum nýtt og hárbeitt vopn, er þeir sýndu þeim, hvernig á að nota hinn almenna kosningarrétt.

Almennur kosningaréttur hafði lengi verið í gildi í Frakklandi, en hafði fengið óorð á sig vegna þess, hvernig hin bónapartísku stjórnarvöld misnotuðu hann. Eftir kommúnuna var ekki fyrir hendi neinn verkalýðsflokkur, sem gæti notfært sér hann. Einnig á Spáni hafði hann gilt, síðan lýðveldi var stofnað þar, en þar í landi hafði ætíð verið venja, að helztu stjórnarandstöðuflokkar tækju ekki þátt í kosningum. Hin svissneska reynsla af almennum kosningarrétti var einnig allt annað en uppörvandi fyrir verkalýðsflokk. Byltingarsinnaðir verkamenn í rómönskum löndum höfðu vanizt því að líta á almennan kosningarétt sem gildru, sem blekkingartæki stjórnarvaldanna. Í Þýzkalandi var þessu á annan veg farið. Þegar í Kommúnistaávarpinu hafði innleiðsla almenns kosningarréttar verið gerð að einu fyrsta og mikilvægasta baráttumáli öreiganna, og Lassalle hafði tekið aftur upp þessa kröfu. Þegar Bismarck neyddist til að leiða í lög almennan kosningarrétt, þar eð hann sá enga aðra leið til að afla pólitískum áætlunum sínum fjöldastuðnings, notuðu verkamenn hann strax eftir eigin höfði, og kusu August Bebel á fyrsta ríkisstjórnlagaþingið. Og alla tíð síðan hafa þeir notað kosningarréttinn þannig, að það hefur borið ríkulegan árangur og orðið fyrirmynd verkamönnum allra landa. Eins og komizt er að orði í stefnuskrá franskra marxista, hafa þeir breytt kosningarréttinum úr blekkingartæki, eins og hann hefur verið hingað til, í tæki til frelsunar (transformé, de moyen de duperie qu'il a été jusqu'ici,

en instrument d'émancipation.)[1] Og jafnvel þótt hinn almenni kosningarréttur hefði ekki borið annan ávöxt en þann, að hann gerir okkur kleift að telja raðir okkar á þriggja ára fresti; að hin reglubundna atkvæðafjölgun, hraðari en búizt hafði verið við, eykur jafnt sigurvissu verkamanna sem hræðslu andstæðinganna og verður þannig ein bezta stoðin undir áróðri okkar; að hann veitir okkur nákvæmar upplýsingar um styrkleik okkar sjálfra, svo og andstöðuflokkanna, gefur okkur þannig bezta hugsanlegan mælikvarða til að haga athöfnum okkar eftir, og verndar okkur fyrir ótímabærri varkárni engu síður en ótímabærri dirfsku – jafnvel þótt þetta væri eini ávinningur okkar af kosningarréttinum, væri það miklu meira en nóg. En hann hefur fært okkur miklu meira. Kosningaáróðurinn hefur reynzt óviðjafnanlegt tæki til að ná sambandi við alþýðuna þar sem hún stendur okkur enn fjarri, og neyða alla flokka til að verja skoðanir sínar og athafnir gegn árásum okkar frammi fyrir alþjóð. Þar að auki hafa fulltrúar okkar í ríkisþinginu öðlazt vettvang, þar sem þeir geta talað við andstæðinga sína á þingi og alþýðuna utan þings af miklu meira frelsi og áhrifavaldi en í blöðum eða á fundum. Hvaða stoð var ríkisstjórninni og borgarastéttinni í sósíalistalögunum, þegar kosningaáróður og sósíalískar þingræður gengu stöðugt í berhögg við þau?

En með þessari árangursríku notkun hins almenna kosningarréttar hafði skapazt ný baráttuaðferð öreigastéttarinnar, og hún tók nú mjög hröðum framförum. Það kom í ljós, að stofnanir ríkisins, hið skipulagða form yfirráða borgarastéttarinnar, veita verkalýðnum enn fleiri möguleika til að berjast gegn þessum sömu stofnunum. Nú var byrjað að taka þátt í kosningum til héraðsþinga, bæja- og sveitastjórna, fagdóma o. s. frv., og barizt var við borgarastéttina um hverja þá stöðu, sem nægilega stór hluti öreigastéttarinnar réði einhverju um. Þetta leiddi til þess, að borgarastétt og ríkisstjórn fóru að óttast miklu meir löglegar en ólöglegar athafnir verkalýðsflokksins, kosningasigra meir en uppreisnir.

Einnig á þessu síðara sviði höfðu baráttuskilyrðin sem sé breytzt verulega. Uppreisn í gömlum stíl, götubardagar með götuvígjum, sem fram að 1848 höfðu alls staðar ráðið úrslitum, var nú úrelt aðferð.

Rétt er að gera sér engar tálsýnir í þessu efni: raunverulegur sigur uppreisnarmanna yfir hernum í götubardaga, sigur af því tagi, sem einn her vinnur á öðrum, er afar sjaldgæfur. Uppreisn-

[1] Þessi setning er tekin upp úr inngangi þeim, sem Marx skrifaði að stefnuskrá franska verkamannaflokksins. Hún var samþykkt á flokksþinginu í Le Havre 1880. – *Útg.*

armenn höfðu því einnig mjög sjaldan reiknað með honum. Þeir reyndu aðeins að draga úr baráttuvilja hersins eftir siðferðislegum leiðum, sem í baráttu milli herja tveggja landa koma lítt eða ekki til greina. Ef þetta tekst, brestur herinn kjark, eða stjórnendur hans missa tökin á ástandinu, og uppreisnin hrósar sigri. Takist það hins vegar ekki, sannast það, jafnvel þegar herinn er í minnihluta, að betri vopnabúnaður hans og betri þjálfun, sameinuð forusta, skipulegri notkun heraflans og betri agi, ræður úrslitum. Það mesta, sem uppreisnarmönnum getur tekizt í raunverulegum hernaðarátökum, er bygging einstaks götuvígis og vörn þess eftir viðeigandi reglum. Gagnkvæmur stuðningur, uppbygging eða notkun varaliðs, í stuttu máli allt það samstarf og samtenging einstakra herdeilda, sem þarf til að verja heilt borgarhverfi, svo að ekki sé talað um heila stórborg, hlýtur að vera miklu ófullkomnara og oftast með öllu óframkvæmanlegt. Einbeiting heraflans að einum úrslitastað kemur þannig ekki til greina. Óvirk vörn verður þannig aðalbaráttuaðferðin; árásaraðgerðir felast í allra hæsta lagi í einstökum útrásum og hliðarárásum, en takmarkast oftast nær við töku vígstöðva, sem herinn hefur þegar yfirgefið. Við það bætist, að herinn ræður yfir stórskotaliði og fullbúnum, þjálfuðum verkfræðideildum, sem uppreisnarmenn vantar í flestum tilfellum hvort tveggja. Það er því engin furða, þótt jafnvel þeir götubardagar, þar sem barizt var af mestum hetjuskap – í París í júní 1848, í Vín í október 1848, í Dresden í maí 1849 – enduðu með ósigri uppreisnarmanna, þar eð stjórnendur árásarliðsins, sem ekki voru heftir af neinum pólitískum fyrirvörum, höguðu athöfnum sínum eftir hrein-hernaðarlegum sjónarmiðum og hermenn þeirra reyndust tryggir.

Hinir mörgu sigrar uppreisnarmanna fram til 1848 stafa af ýmsum orsökum. Í París í júlí 1830 og í febrúar 1848, eins og í flestum götubardögum á Spáni, stóð á milli uppreisnarmanna og hersins borgaravarðlið, sem annað hvort gekk beinlínis í lið með uppreisnarmönnum, eða kom með óákveðinni afstöðu sinni hiki á herinn og afhenti þar að auki uppreisnarmönnum vopn. Þar sem þetta borgaravarðlið barðist frá upphafi gegn uppreisninni, eins og í París í júní 1848, hlaut hún að bíða ósigur. Í Berlín 1848 sigraði alþýðan að nokkru leyti vegna þess, hve fjölgaði í liði hennar aðfaranótt og að morgni 19. marz, að nokkru leyti vegna þreytu og ills aðbúnaðar hersins, og að nokkru leyti vegna þess að yfirstjórn hans lamaðist. En í öllum tilfellum vannst sigurinn vegna þess að herinn brást, stjórnendur hans reyndust ófærir um að taka ákvarðanir, eða þá vegna þess að hendur þeirra voru bundnar af öðrum.

Jafnvel á tímum hinna klassísku götubardaga var þannig í götuvíginu siðferðilegur stuðningur frekar en efnislegur. Það var tæki til að veikja baráttuvilja hersins. Tækist að halda því, þar til það takmark náðist, var sigurinn unninn; tækist það ekki, táknaði það ósigur. Þetta er það höfuðatriði, sem ber að hafa í huga, einnig þegar rannsakaðir eru sigurmöguleikar hugsanlegra götubardaga framtíðarinnar.

Reyndar voru þessir möguleikar þegar árið 1848 orðnir mjög takmarkaðir. Borgarastéttin hafði alls staðar gengið í lið með ríkisstjórnunum, „menntun og auður" fögnuðu og aðstoðuðu herinn, sem réðist gegn uppreisnarmönnum. Götuvígið hafði tapað töfrum sínum, hermaðurinn sá nú ekki lengur að baki þess „alþýðuna", heldur uppreisnarmenn, niðurrifsmenn, ræningja, úrhrök þjóðfélagsins; herforingjarnir höfðu með tímanum tileinkað sér aðferðir götubardaganna og gerðu ekki lengur bein og óvarin áhlaup á framhlið hins ófullkomna vígis, heldur þræddu utan með því eftir görðum og húsum. Og þetta bar nú í níu af hverjum tíu tilfellum góðan árangur.

En síðan hefur enn mikið breytzt, og allt hernum í hag. Stórborgirnar hafa að vísu stækkað mikið, en herirnir enn þá meira. París og Dresden hafa ekki fjórfaldazt að stærð síðan 1848, en setulið þeirra hefur stækkað miklu meira en það. Setuliðið getur með hjálp járnbrautarsamgangna meira en tvöfaldazt á 24 klukkustundum, á 48 klukkustundum getur það orðið að óvígum her. Vopnabúnaður þessara stórauknu hersveita er orðinn miklu fullkomnari. Árið 1848 voru það (ásláttar) framhlaðningar, nú eru það aftanhlaðningar, sem hægt er að skjóta úr fjórum sinnum lengra, tíu sinnum nákvæmar og tíu sinnum hraðar. Þá voru notaðar veikburða kúlur og ruslaskot, nú handsprengjur, og ein þeirra getur tætt í sundur bezta götuvígi. Þá voru notaðir til múrbrota hakar, en í dag dýnamítsprengjur.

Frá sjónarmiði uppreisnarmanna hafa hins vegar öll skilyrði versnað. Uppreisn, sem nýtur samúðar allra þjóðfélagsstétta, mun tæplega endurtaka sig; í stéttabaráttunni munu millistéttirnar tæplega nokkurn tíma fylkja sér svo einhuga um öreigastéttina, að afturhaldsflokkurinn, sem borgarastéttina styður, verði hverfandi lítill. „Alþýðan" mun þannig alltaf verða klofin, og þar með hverfur eitt af því, sem 1848 var mestur stuðningur í. Jafnvel þótt fleiri þjálfaðir hermenn yrðu í liði uppreisnarmanna, verður þeim mun erfiðara að vopna þá. Veiði- og lúxusbyssur vopnabúðanna – ef lögreglan tekur þær þá ekki úr umferð áður – standast ekki skotvopnum hermanna snúning, þótt í návígi sé. Fram til 1848 gátu menn búið sér til sjálfir nauðsynleg skotfæri úr púðri og blýi, nú þarfnast hver byssa sérstakra skothylkja, sem eiga það

eitt sameiginlegt, að þau eru framleidd í stóriðju og þar af leiðandi ókleift að búa þau til upp á eigin spýtur, svo að flestar byssur eru ónothæfar, ef menn komast ekki yfir viðeigandi skotbirgðir. Og enn fremur eru hin nýju stórborgahverfi, byggð síðan 1848, með löngum, beinum og breiðum strætum, eins og sköpuð handa hinum nýju skotvopnum. Enginn byltingarmaður, nema brjálaður væri, mundi velja sér til götubardaga hin nýju verkamannahverfi norðan og austan til í Berlín.

Þýðir þetta, að götubardagar muni ekki gegna neinu hlutverki í framtíðinni? Alls ekki. Það þýðir aðeins, að síðan 1848 hafa baráttuskilyrðin mjög versnað fyrir óbreytta borgara, en batnað að sama skapi fyrir herinn. Götubardagar í framtíðinni geta þannig því aðeins orðið sigursælir, ef einhver önnur atriði vega upp á móti þessari óhagstæðu aðstöðu. Þeir munu því sjaldnar eiga sér stað í upphafi mikillar byltingar, en síðar í rás hennar, og verða að byggjast á sterkari liðsafla en áður. Og þessi liðsafli mun þá líklega, eins og í París, í stjórnarbyltingunni miklu, og síðan 4. september og 31. október 1870,[1] taka beina árás fram yfir varnartaktík götuvígjanna.

Nú skilur lesandinn máske, hvers vegna ráðandi stéttir reyna að koma okkur aftur niður á það stig, þar sem byssa og sverð ráða úrslitum, hvers vegna við erum í dag sakaðir um hugleysi, vegna þess að við efnum ekki lengur umsvifalaust til götuuppþota, af því að við erum fyrirfram vissir um ósigur, og hvers vegna beint er til okkar svo áköfum bónum um að leika aftur hlutverk fallbyssufóðursins.

Þessir herrar eyða bónleitum sínum og ögrunum gjörsamlega til einskis. Við erum ekki svo heimskir, að við látum að vilja þeirra. Þeir gætu allt eins krafizt þess af óvinum sínum í næsta stríði, að þeir skipi liði sínu eftir reglum Friðriks mikla, eða í þéttskipuðum fylkingum à la Wagram eða Waterloo, og vopnaðir tinnubyssum. Ef baráttuskilyrði milliríkjastríðs hafa breytzt, hafa þau ekki síður gert það, hvað stéttabaráttuna snertir. Tími skyndiárása, byltinga, sem voru framkvæmdar af fámennum upplýstum minnihluta í fararbroddi óupplýsts fjölda, er liðinn. Þegar um er að ræða algjöra umsköpun þjóðskipulagsins, verður alþýða manna að taka virkan þátt í henni og hafa skilið, um hvað er að ræða, fyrir hvað hún á að hætta lífi sínu. Það höfum við lært af sögu síðustu fimmtíu ára. En til þess að alþýðunni skiljist hvað ber að gera, er nauðsynleg langvarandi og þolinmóð vinna. Einmitt þessi vinna er það, sem við nú fáumst við, og

[1] Hér er átt við 4. september 1870, en þann dag var stjórn Loðvíks Bonaparte steypt og lýst yfir lýðveldi, og 31. október sama ár, er Blanquistar gerðu misheppnaða tilraun til uppreisnar gegn „Þjóðvarnarstjórninni". *Útg.*

það með slíkum árangri, að andstæðingunum liggur við örvæntingu.

Jafnvel í rómönskum löndum gera menn sér nú æ betur ljóst, að endurskoða verður hinar gömlu baráttuaðferðir. Alls staðar hverfa hinar óundirbúnu árásir í skuggann, alls staðar hefur verið líkt eftir hinu þýzka fordæmi í notkun kosningarréttarins, til að ná valdi á öllum aðgengilegum stöðum. Í Frakklandi, þar sem jarðvegurinn hefur í meira en hundrað ár verið grafinn sundur af einni byltingu eftir aðra, þar sem ekki er til neinn flokkur, sem ekki hefur tekið sinn þátt í samsærum, uppreisnum og öðrum byltingaraðgerðum, þar sem ríkisstjórnin af þessum sökum getur alls ekki verið viss um hollustu hersins, og þar sem öll skilyrði til sigursællar skyndiuppreisnar eru miklu betri en í Þýzkalandi – jafnvel í Frakklandi verður það sósíalistum æ ljósara, að þeir geta ekki unnið neinn varanlegan sigur, nema því aðeins að þeir vinni fyrst á sitt mál yfirgnæfandi meirihluta alþýðunnar, þ. e. a. s. í þessu tilviki bændurna. Hægfara vinna, fólgin í útbreiðslu – og þingstarfsemi, hefur einnig hér verið viðurkennd sem næsta verkefni flokksins. Árangurinn lét ekki standa á sér. Flokknum hefur ekki aðeins tekizt að ná yfirráðum í mörgum bæja- og sveitastjórnum, heldur sitja nú fimmtíu sósíalistar á þingi, og þeir hafa þegar velt úr sessi þrem ríkisstjórnum og einum forseta lýðveldisins. Í Belgíu s. l. ár knúðu verkamenn fram kosningarrétt sér til handa og sigruðu í fjórðungi allra kjördæma. Í Sviss, á Ítalíu, í Danmörku, jafnvel í Búlgaríu og Rúmeníu eiga sósíalistar fulltrúa á þingi. Í Austurríki eru nú allir flokkar sammála um það, að ekki sé hægt að meina okkur lengur aðgang að þinginu. Fullvíst er, að við komumst þangað inn, deilan stendur aðeins um það, hvaða dyr séu heppilegastar. Og jafnvel þegar hinn frægi „Zemski Sobor“ kemur saman í Rússlandi, þjóðþing það, sem hinn ungi keisari Nikulás streitist svo mjög gegn, jafnvel þá getum við verið þess fullvissir, að við eignumst þar fulltrúa.

Að sjálfsögðu afsala hinir erlendu félagar okkar sér ekki réttinum til byltingar. Rétturinn til byltingar er reyndar hinn eini sanni „sögulegi réttur“, sá eini, sem öll nútímaríki undantekningarlaust eru byggð á, að Mecklenburg meðtöldu, þar sem aðalsmannabyltingunni 1755 lauk með „erfðasamningnum“, hinni frábæru skjalfestingu lénsskipulagsins, sem enn er í gildi. Rétturinn til byltingar er svo óafturkallanlega viðurkenndur í vitund almennings, að jafnvel Von Boguslawski hershöfðingi byggir aðeins á þessum þjóðarrétti, – rétt þann til stjórnlagarofs, sem hann krefst til handa keisara sínum.

Hvað sem gerast kann í öðrum löndum, hefur þýzki sósíal-

demókrataflokkurinn sérstöðu og þar með a. m. k. fyrst um sinn sérstakt verkefni. Þær tvær milljónir kjósenda, sem greiða honum atkvæði, ásamt æskufólki og konum, sem að baki þeim standa, mynda fjölmennasta og samheldnasta hópinn, höfuðbaráttusveitina í alþjóðaher öreigastéttarinnar. Þessi fjöldi er þegar meira en fjórðungur greiddra atkvæða, og eins og aukakosningar til ríkisþings, héraðsþingkosningar, bæja- og sveitastjórnakosningar og kosningar til fagdóma sýna, fer hann stöðugt vaxandi. Vöxtur hans er svo sjálfkrafa, stöðugur, óstöðvandi og þó kyrrlátur um leið, eins og í náttúrunni. Öll íhlutun stjórnarvaldanna hefur reynzt magnlaus. Við getum nú þegar reiknað með $2^1/_4$ milljón kjósenda. Ef þetta heldur eins áfram, vinnum við til aldarloka á okkar band meirihlutann af millistéttum þjóðfélagsins, smáborgara og smábændur, og verðum úrslitaafl í landinu, sem öll önnur öfl verða að beygja sig fyrir, hvort sem þeim líkar betur eða verr. Höfuðverkefni okkar er að halda þessum vexti stöðugt við, þar til hann vex núverandi stjórnarkerfi sjálfkrafa yfir höfuð, eyða ekki þessari baráttusveit, sterkari dag frá degi, í framvarðaskærum, heldur geyma hana heila til úrslitaátakanna. Og það er aðeins til eitt meðal, sem gæti dugað til að stöðva vöxt hinna sósíalísku baráttukrafta í Þýzkalandi, eða jafnvel snúa þróuninni við um eitthvert skeið. Það er meiri háttar árekstur við herinn, blóðtaka af því tagi, sem gerðist 1871 í París. Þegar til lengdar léti, mundi hreyfingin ná sér eftir þetta. Öll skotvopn Evrópu og Ameríku nægja ekki til að útrýma flokki, sem telur milljónir félaga. En hin eðlilega þróun yrði hindruð, baráttusveitin yrði ekki fyrir hendi á mikilvægasta augnabliki, og úrslitaátökunum mundi seinka, þau mundu lengjast og kosta miklar fórnir.

Kaldhæðni veraldarsögunnar snýr öllu við. Við, „byltingarmennirnir", „niðurrifsmennirnir", þroskumst nú miklu betur í skjóli laganna en með ólöglegum aðferðum og uppreisnum. Flokkar laga og reglu, eins og þeir nefna sig, eiga dauðann vísan við skilyrði þeirra laga, sem þeir hafa sjálfir sett. Í örvæntingu hrópa þeir eins og Odilon Barrot: la légalité nous tue, þ. e. löghlýðnin drepur okkur; en við aftur á móti verðum hraustir og rjóðir af löghlýðninni og virðumst ódauðlegir. Og ef við verðum ekki nógu sturlaðir til að láta reka okkur út í götubardaga, þeim til þóknunar, munu þeir að lokum ekki eiga annars úrkosta en að rjúfa sjálfir þessi lög, sem þeim verða svo þung í skauti.

Fyrst um sinn semja þeir ný lög gegn byltingunni. Og enn er öllu snúið við. Þeir, sem af mestu ofstæki berjast gegn byltingunni í dag – eru það ekki hinir sömu, sem sjálfir gerðu bylt-

ingar í gær? Vorum það við, sem rákum konunginn í Hannover, kjörfurstann í Hessen, hertogann í Nassau, úr þeirra lögmætu erfðalöndum og innlimuðum svo þessi erfðalönd? Og þeir, sem umbyltu þýzka sambandinu og þremur kórónum af guðs náð, kvarta nú undan byltingarstarfsemi? Quis tulerit Gracchos de seditione quaerentes?[1] Hver getur þolað tilbiðjendum Bismarcks að hrakyrða byltinguna?

En jafnvel þótt þeir hrindi í framkvæmd gagnbyltingarlögum sínum og geri þau enn verri, þótt þeir umsnúi öllum refsilögunum, ávinnst þeim ekkert annað en ný sönnun á vanmætti sínum. Ef þeir ætla að koma höggi á sósíaldemókrata, verða þeir að grípa til allt annarra meðala. Hinni sósíaldemókratísku byltingarhreyfingu, sem nú þrífst svo vel einmitt á því að halda lögin, geta þeir aðeins mætt með byltingu af hálfu flokks laga og reglu, sem á sér ekki lífsvon nema hann brjóti lögin. Rössler, hinn prússneski skriffinnur, og von Boguslawski, hinn prússneski hershöfðingi, hafa sýnt þeim einu leiðina, sem e. t. v. dugir gegn verkamönnunum, sem ókleift hefur reynzt að lokka út í götubardaga. Stjórnarskrárbrot, alræðisvald, afturhvarf til einveldisstjórnar, regis voluntas suprema lex![2] Verið hugrakkir, herrar mínir, hér dugir ekki að setja á sig stút, hér þarf að blístra!

En gleymið því ekki, að þýzka ríkið, eins og smáríkin öll og yfirleitt öll nútímaríki, er byggt á samningum, í fyrsta lagi samningum þjóðhöfðingjanna sín á milli, og í öðru lagi samningum þjóðhöfðingjanna við fólkið. Ef annar aðilinn rýfur samninginn, fellur þar með samningurinn allur, og hinn aðilinn er ekki lengur bundinn af honum, eins og Bismarck sýndi okkur svo fagurlega 1866. Brjótið ríkisstjórnarskrána, þá er sósíaldemókrataflokkurinn laus allra mála og getur aðhafzt gagnvart ykkur það sem honum gott þykir. Og hvað hann mun þá gera, á því getið þið ekki vænzt neinna reikningsskila í dag!

Nú eru nærri 1600 ár liðin frá því, að hættulegur byltingarflokkur starfaði í Rómaveldi. Hann gróf undan trúarbrögðunum og öllum máttarstoðum ríkisins; hann leyfði sér að neita því, að vilji keisarans væri æðstu lög, hann var föðurlandslaus, alþjóðlegur, og breiddist út um öll lönd ríkisins frá Gallíu til Asíu og út yfir landamæri þess. Hann hafði lengi starfað í felum neðan jarðar, en fyrir nokkru hafði hann nú álitið sig nógu sterkan til að koma fram í dagsljósið. Þessi byltingarflokkur, sem gekk undir nafninu kristnir menn, átti líka marga fulltrúa í hernum; heilar hersveitir voru kristnar. Þegar þeim var skipað að taka

[1] Hver getur þolað Grakkusbræðrum að kvarta undan uppreisn? – *Útg.*
[2] Vilji konungsins er hin æðstu lög! – *Útg.*

þátt í fórnarathöfnum hinnar heiðnu ríkiskirkju, gerðust hinir byltingarsinnuðu hermenn svo djarfir að festa í mótmælaskyni á hjálma sína sérstök merki – krossa. Venjulegar herbúðarefsingar af hálfu yfirmanna voru árangurslausar. Díókletíanus keisari gat ekki lengur horft aðgerðalaus á, að grafið væri undan reglu, hlýðni og siðferði í her hans. Hann tók rækilega í taumana, meðan tími var til. Hann gaf út lög gegn sósíalistum, réttar sagt kristnum mönnum. Fundir byltingarmanna voru bannaðir, húsakynnum þeirra lokað, eða þau jafnvel rifin, kristin tákn, krossar o. fl., voru bönnuð eins og rauðu vasaklútarnir í Saxlandi. Kristnir menn voru lýstir óhæfir til að gegna ríkisembættum, þeir máttu ekki einu sinni gegna herþjónustu. Þar sem ekki voru til reiðu dómarar, sem væru eins þjálfaðir í að fara eftir „mannorði“ viðkomenda, eins og gagnbyltingarlög herra von Köllers[1] gera ráð fyrir, var kristnum mönnum einfaldlega bannað að reka réttar síns fyrir dómstólum. Einnig þessi sérstöku lög urðu árangurslaus. Kristnir menn rifu þau niður af veggjum í háðungarskyni, því er jafnvel haldið fram, að í Nikodemíu hafi þeir kveikt í höllinni yfir höfði keisarans. Hann hefndi sín þá með hinum miklu ofsóknum á hendur kristinna manna, árið 303 að okkar tímatali. Þær voru hinar síðustu sinnar tegundar. Og þær voru svo áhrifamiklar, að sautján árum síðar var mikill meirhluti hersins orðinn kristinn, og næsti einvaldur yfir öllu Rómaveldi, Konstantín, sem klerkar nefndu hinn mikla, gerði kristindóminn að ríkistrú.

London, 6. marz 1895.
F. Engels.

[1] 5. desember 1894 var lagt fyrir ríkisþingið frumvarp að nýjum sósíalistalögum: það var fellt 11. maí 1895. – *Útg.*

# Stéttabaráttan í Frakklandi 1848–1850

Að fáeinum köflum undanteknum ber sérhver merkari þáttur byltingarannálanna frá 1848 til 1849 fyrirsögnina: Ósigur byltingarinnar.

Það, sem leið undir lok með þessum ósigrum, var ekki byltingin sjálf. Það voru hin arfteknu forbyltingarlegu aukaatriði, mótuð af þjóðfélagsaðstæðum, þar sem ekki höfðu enn þróazt skarpar stéttaandstæður – persónur, tálsýnir, hugmyndir, áætlanir, sem byltingarflokkurinn hafði enn ekki losnað við fyrir febrúarbyltinguna, og ekki febrúarsigurinn, heldur aðeins röð af ósigrum gat losað hann við.

Í stuttu máli sagt: Framfarir byltingarinnar voru ekki fólgnar í hinum beinu, grátbroslegu landvinningum hennar, heldur þvert á móti í sköpun sameinaðrar, voldugrar gagnbyltingarfylkingar, í sköpun slíks andstæðings, að fyrst í ljósi baráttunnar við hann þroskaðist uppreisnarflokkurinn í raunverulegan byltingarflokk.

Rit það, er hér fer á eftir, reynir að sýna nánar fram á þetta.

## I.

## Júníósigurinn 1848

Þegar hinn frjálslyndi bankastjóri Laffitte leiddi kumpána sinn, hertogann af Orleans,[1] í sigurför til Hotel de Ville, eftir júlíbyltinguna, varð honum að orði: „Héðan í frá munu bankastjórarnir stjórna Frakklandi“. Hér hafði Laffitte ljóstrað upp leyndarmáli byltingarinnar.

[1] Hertoginn af Orleans tók við konungdómi undir nafninu Loðvík Filippus. – *Útg.*

Á dögum Loðvíks Filippusar voru völdin ekki í höndum borgarastéttarinnar allrar, heldur aðeins hluta hennar: bankastjóra, kauphallarbraskara, járnbrautaeigenda, eigenda kola- og járnnáma og skóglendis, auk nokkurs hluta af jarðeigendum, sem gengið hafði til liðs við þá – í stuttu máli sagt, hins svonefnda fésýsluvalds. Það sat í hásætinu, setti lög í þingdeildum, úthlutaði ríkisstörfum frá ráðherrum niður í tóbakssala.

Hin eiginlega iðnaðarborgarastétt myndaði hluta hinnar opinberu stjórnarandstöðu, þ. e. a. s. var í minnihluta á þingi. Stjórnarandstaða hennar varð þeim mun skeleggari sem einræði fésýsluvaldsins varð skýrara og sem hún sjálf, eftir að uppreisnir áranna 1832, 1834 og 1839 höfðu verið kæfðar í blóði, áleit völd sín yfir verkalýðsstéttinni tryggari.

Grandin, verksmiðjueigandi í Rouen, sem síðar meir varð einn ofstækisfyllsti talsmaður hins borgaralega afturhalds á stjórnlaga- og löggjafarþinginu, var á fulltrúaþinginu einn harðasti andstæðingur Guizots. Léon Faucher, sem síðar varð kunnur fyrir vanmáttugar tilraunir sínar til að gerast Guizot frönsku gagnbyltingarinnar, háði á síðustu valdaárum Loðvíks Filippusar „pennastríð" í þágu iðnaðarins gegn bröskurum og aðstoðarmönnum þeirra í ríkisstjórninni. Bastiat barðist í nafni Bordeaux og vínræktarhéraðanna allra gegn ríkjandi stjórnarkerfi.

Allar greinar smáborgarastéttarinnar, svo og bændastéttin, voru algerlega útilokaðar frá hinu pólitíska valdi. Í hinni opinberu stjórnarandstöðu eða utan við takmörk „pays légal"[1] voru enn fremur hugmyndafræðilegir fulltrúar og talsmenn umræddra stétta, lærdómsmenn þeirra, málfærslumenn, læknar o. s. frv., í stuttu máli sagt svonefnd menntastétt.

Vegna fjárhagslegra örðugleika var júlíkonungdæmið frá upphafi háð stórborgarastéttinni, og einmitt það leiddi aftur til sívaxandi fjárhagsörðugleika. Ókleift var að samrýma stjórnarkerfið hagsmunum þjóðarframleiðslunnar, án þess að koma fjárhag ríkisins í jafnvægi, jafnvægi milli útgjalda og tekna ríkisins. Og hvernig átti þetta jafnvægi að nást án þess að skerða stjórnarkostnað, þ. e. án þess að gengið væri á hagsmuni, sem jafnframt voru máttarstoðir ríkisins, og án þess að endurskipuleggja skattakerfið, þ. e. án þess að velta verulegum hluta skattabyrðarinnar yfir á herðar stórborgarastéttarinnar sjálfrar?

Sá hluti borgarastéttarinnar, sem að völdum sat og setti lög undir nafni þingsins, hafði þannig beinan hag af að ríkið væri sem skuldugast. Fjárlagahallinn var einmitt helzti grundvöllurinn undir braski þeirra og helzta auðsuppsprettan. Hvert ár jók

---

[1] pays légal – orðrétt: land laganna, hér: handhafar kosningarréttar.

við hallann. Eftir hver fjögur til fimm ár varð ríkið að taka nýtt lán. Og hvert nýtt lán gaf fésýsluvaldinu nýtt tækifæri til að pretta ríkið, sem þannig var af ráðnum hug haldið á barmi gjaldþrots, og það varð að semja við bankastjórana með hinum óhagstæðustu skilyrðum. Hvert nýtt lán gaf enn fremur tækifæri til að féfletta þá, sem lagt höfðu fé sitt í ríkisskuldabréf, með kauphallarbraski, sem ríkisstjórn og þingmeirihluti áttu þátt í. Yfirleitt gerði óstöðugur fjármálagrundvöllur ríkisins og aðgangur að ríkisleyndarmálum, bankastjórum og bandamönnum þeirra á þingi og í hásæti það kleift að kalla fram skyndilegar verðsveiflur á ríkisskuldabréfum, sem ætíð höfðu í för með sér gjaldþrot fjölmargra smærri kapítalista og ótrúlega auðsöfnun braskara í stórum stíl. Þar sem halli á fjárlögum ríkisins var beint hagsmunamál hins ríkjandi hluta borgarastéttarinnar, er auðskilið, að hin „sérlegu ríkisútgjöld" á síðustu stjórnarárum Loðvíks Filippusar voru enn hærri en sérleg stjórnarútgjöld Napóleons: þau náðu nærri á hverju ári upphæðinni 400 milljónir franka, en árlegur heildarútflutningur Frakklands komst sjaldan upp í 750 milljónir franka. Hinar háu upphæðir, sem þannig fóru um hendur ríkisins, gáfu þar að auki tækifæri til verzlunarsamningabrasks, mútna, fjárdráttar og alls kyns klækjabragða. Fjárfletting ríkisins, sem lánardrottnar þess frömdu í stórum stíl, endurtók sig með smærra sniði í sambandi við einstakar ríkisframkvæmdir. Samband þings og ríkisstjórnar endurspeglaðist í samböndum einstakra ríkisstofnana og einstakra atvinnurekenda.

Á sama hátt og ríkisútgjöld eða lán til ríkisins hagnýtti valdastéttin sér byggingu járnbrauta. Þingið velti höfuðútgjöldunum við þær yfir á ríkið og tryggði fésýslubröskurunum hina gullnu ávexti. Mönnum eru í fersku minni hneykslin á þingi, þegar öðru hvoru kom í ljós, að allir meðlimir þingmeirihlutans, að nokkrum ráðherrum meðtöldum, áttu hlutabréf í þeim sömu járnbrautum, sem þeir beittu löggjafarvaldi sínu til að láta ríkið byggja á eigin kostnað.

Á hinn bóginn strönduðu jafnvel hinar smávægilegustu umbætur í fjármálum á áhrifavaldi bankastjóranna. Þannig var t. d. um endurbót póstkerfisins. Rothschild reis gegn henni. Ríkið mátti ekki spilla tekjulind, sem notuð var til að greiða vextina af sívaxandi skuldum þess.

Júlíkonungdæmið var ekkert annað en hlutafélag um hagnýtingu þjóðarauðæfa Frakklands, sem skipti gróða sínum milli ráðherra, þings, 240 000 kjósenda og skylduliðs þeirra. Loðvík Filippus var framkvæmdastjóri þessa félags – Robert Macaire[1]

[1] Robert Macaire – persónugervingur hins slóttuga braskara, túlkaður af

í hásæti. Verzlun, iðnaður, landbúnaður, siglingar, allir hagsmunir iðnaðarborgarastéttarinnar hlutu stöðugt að vera skertir og í mikilli tortímingarhættu á meðan óbreytt valdakerfi var við lýði. „Ódýr stjórn", gouvernement à bon marché, var kjörorð hennar í júlíbyltingunni.

Á meðan fésýsluvaldið setti lög, stjórnaði ríkinu, hafði umráð yfir öllum greinum hins opinbera valds og mótaði almenningsálitið með staðreyndum og með blaðakosti sínum, endurtók sig á öllum þjóðfélagssviðum, frá hirðinni niður í Café Borgne,[1] sami skækjulifnaðurinn, sömu óskammfeilnu svikin, sama viðleitnin til að auðgast ekki á framleiðslu, heldur með hnupli á eigum annarra, og einkum á æðstu stöðum hins borgaralega þjóðfélags gerði vart við sig hin eðlilega útrás illa fenginna auðæfa, taumlaust og gerspillt nautnalíf, þar sem peningar, óhreinindi og blóð renna saman í eitt. Fésýsluvaldið er bæði í atvinnu- og neyzluháttum sínum endurfæðing tötraskrílsins á efsta þrepi hins borgaralega þjóðfélags.

Og þeir hlutar frönsku borgarastéttarinnar, sem ekki áttu hlutdeild í völdunum, hrópuðu: Spilling! Alþýðan hrópaði: A bas les grands voleurs! A bas les assassins![2] þegar sýndir voru árið 1847 á æðsta leiksviði hins borgaralega þjóðfélags hinir sömu hlutir, sem yfirleitt leiða tötraskrílinn í vændishús, á fátækra- og geðveikrahæli, fyrir dómstóla, í hegningarhús eða á höggstokkinn. Iðnaðarborgarastéttin taldi hagsmunum sínum í hættu stefnt, smáborgarastéttin var siðferðilega hneyksluð, alþýðan var í uppreisnarhug. París var yfirfull af ádeilubæklingum – „la dynastie Rothschild", „les juifs rois de l'époque",[3] o. s. frv., sem afhjúpuðu og brennimerktu fésýsluvaldið af mismunandi andríki.

Rien pour la gloire![4] Frægðin borgar sig ekki! La paix partout et toujours![5] Stríðið lækkar gengi verðbréfanna! letraði Frakkland bankastjóranna á gunnfána sinn. Utanríkispólitík þess leiddi þannig til ítrekaðra móðgana hins franska þjóðarstolts, sem brást sérstaklega illa við, þegar innlimun Krakár í Austurríki fullkomnaði ránsherferðina gegn Póllandi, og þegar Guizot veitti „helga bandalaginu" virkan stuðning í svissnesku borgarastyrjöldinni. Sigur frjálslyndra Svisslendinga í þessu gervistríði jók sjálfstraust hinnar borgaralegu stjórnarandstöðu í Frakklandi, og hin

hinum fræga franska leikara Frédéric Lemaître og frægur af skopmyndum Honoré Daumiers. Persóna Roberts Macaire var nístandi háð um veldi fésýslumanna á tímum júlíkonungsdæmisins. – *Útg.*

[1] Café Borgne: samheiti fyrir illræmd kaffihús og knæpur í París. – *Útg.*

[2] Niður með stórþjófana! Niður með morðingjana! – *Útg.*

[3] „Rothschild-konungsættin", „Gyðingar eru konungar okkar tíma." – *Útg.*

[4] Ekkert fyrir frægðina!

[5] Frið, alls staðar og ævinlega!

blóðuga uppreisn alþýðunnar í Palermo verkaði eins og rafmagnslost á lamaðan fjöldann, vakti aftur byltingarminningar hans og -ástríður.[1]

Það, sem flýtti fyrir að hin almenna óánægja syði upp úr og leiddi til uppreisnar, voru tveir efnahagslegir atburðir, alþjóðlegs eðlis.

Kartöflusýkin og uppskerubrestirnir 1845 og 1846 juku á reiði alþýðunnar. Verðhækkanir ársins 1847 leiddu til blóðugra óeirða í Frakklandi eins og annars staðar á meginlandinu. Gegn blygðunarlausu svalli fésýslumannanna stóð barátta alþýðunnar um frumstæðustu lífsnauðsynjar. Í Buzançais voru þátttakendur í hunguruppþotunum teknir af lífi, í París bjargaði konungsfjölskyldan ofsöddum bröskurum undan dómstólunum.

Annar efnahagslegur stóratburður, sem flýtti fyrir byltingunni, var almenn verzlunar- og iðnaðarkreppa í Englandi. Hún gerði vart við sig þegar haustið 1845 með fjöldagjaldþroti járnbrautabraskara; allt árið 1846 dróst hún á langinn vegna ýmissa tilviljana, m. a. yfirvofandi afnáms korntollsins, en haustið 1847 skall hún endanlega á með gjaldþrotum nýlendustórkaupmanna í London, sem leiddu tafarlaust af sér bankagjaldþrot og lokun verksmiðjanna í iðnaðarhéruðum Englands. Áhrifum þessarar kreppu á meginlandinu var enn ekki lokið, þegar febrúarbyltingin brauzt út.

Eyðing verzlunar og iðnaðar af völdum hinnar efnahagslegu farsóttar gerði einræði fésýslumannanna æ meir óþolandi. Í öllu Frakklandi efndi hin borgaralega stjórnarandstaða til áróðurs fyrir umbótum á kosningaskipulaginu, sem áttu að tryggja henni meirihluta á þingi og steypa erindrekum kauphallarbraskaranna úr ráðherrastólum. Í París hafði iðnaðarkreppan enn fremur þær sérstöku afleiðingar að fjöldi verksmiðjueigenda og stórkaupmanna, sem við núverandi aðstæður græddist ekkert á heimsmarkaðinum, sneri sér að innanríkisverzlun. Þeir stofnuðu stórverzlanir, sem með samkeppni sinni komu fjölda kramara og smákaupmanna á vonarvöl. Af því leiddi fjölda gjaldþrota meðal þessa hluta borgarastéttarinnar í París, og um leið byltingarsinnaða afstöðu hennar í febrúar. Sem kunnugt er, svaraði Guizot ásamt þinginu umbótatillögunum með hreinum ögrunum, Loðvík Filippus tók of seint þá ákvörðun að fela Barrot stjórnarmyndun, til átaka kom milli alþýðu og hers, hlutleysi þjóðvarð-

[1] Austurríki innlimaði Kraká í samráði við Rússland og Prússland 11. nóvember 1846. – Svissneska borgarastyrjöldin stóð frá 4. til 28. nóvember 1847. – Uppreisnin í Palermo hófst 12. janúar 1848, og í lok janúar skutu hersveitir frá Napolí á borgina í níu daga samfleytt. (Athugasemd Engels við útgáfuna 1895). – *Útg.*

arins lamaði herinn og júlíkonungdæmið varð að víkja fyrir bráðabirgðastjórn.

Bráðabirgðastjórnin, sem byggði tilveru sína á götuvígjum febrúarbyltingarinnar, hlaut að endurspegla með samsetningu sinni hina ýmsu flokka, sem skiptu sigrinum á milli sín. Hún gat ekki verið annað en samkomulag ólíkra stétta, sem í sameiningu höfðu steypt júlíkonungdæminu, en áttu að öðru leyti andstæðra hagsmuna að gæta. Yfirgnæfandi meirihluta hennar mynduðu fulltrúar borgarastéttarinnar. Fulltrúar lýðveldissinnaðra smáborgara voru Ledru-Rollin og Flocon, fulltrúar hinnar lýðveldissinnuðu borgarastéttar aðstandendur blaðsins „National",[1] fulltrúar konungssinnaðrar stjórnarandstöðu, Crémieux, Dupont de l'Eure o. s. frv. Verkalýðsstéttin átti þar aðeins tvo fulltrúa, Louis Blanc og Albert. Og hvað hlutverk Lamartines í bráðabirgðastjórninni snerti, var hann fyrst í stað ekki fulltrúi neinna ákveðinna hagsmuna, neinnar stéttar, heldur febrúarbyltingarinnar sjálfrar, hinnar sameiginlegu uppreisnar með tálsýnum hennar og ljóðrænu, ímynduðu innihaldi og slagorðum. Reyndar tilheyrði þessi málsvari febrúarbyltingarinnar borgarastéttinni, bæði hvað stöðu snerti og skoðanir.

Ef hin pólitíska valdmiðjun hefur leitt til þess, að París ræður yfir Frakklandi, ráða verkamenn á sama hátt yfir París á tímum byltingarátaka. Fyrsta verk bráðabirgðastjórnarinnar var tilraun til að losna undan þessum yfirgnæfandi áhrifum með því að skjóta máli sínu frá hinni drukknu París til hins allsgáða Frakklands. Lamartine viðurkenndi ekki rétt þeirra, sem börðust á götuvígjunum, til að lýsa yfir lýðveldi, þar eð þess umkominn væri aðeins meirihluti Frakka. Eftir atkvæðagreiðslu þeirra yrði að bíða, og öreigastétt Parísar mætti ekki setja blett á sigur sinn með valdaráni. Borgarastéttin lætur öreigastéttinni eftir frumkvæðið aðeins á einu sviði: í hinni eiginlegu baráttu.

Um hádegisbilið 25. febrúar hafði enn ekki verið lýst yfir lýðveldi, en á hinn bóginn var búið að skipta öllum ráðherraembættum milli borgaralegra meðlima bráðabirgðastjórnarinnar og hershöfðingja, bankastjóra og málafærslumanna úr fylgiliði blaðsins „National". En verkamenn voru nú ákveðnir í að þola ekki, að sigrinum yrði rænt frá þeim á sama hátt og í júlí 1830. Þeir voru reiðubúnir til að hefja baráttuna á nýjan leik og knýja fram stofnun lýðveldis með vopnavaldi. Með þennan boðskap kom Raspail til Hotel de Ville. Í nafni öreigastéttar Parísar skipaði hann bráðabirgðastjórninni að lýsa yfir lýðveldi; ef hún framkvæmdi ekki þessa skipun alþýðunnar innan tveggja klukku-

[1] „National": blað gefið út í París 1830–1851, málgagn borgaralegra lýðveldissinna. – *Útg.*

stunda, mundi hann koma aftur í fararbroddi 200 000 manna liðs. Lík hinna föllnu voru enn ekki kólnuð, götuvígjunum hafði ekki verið rýmt burtu, verkamenn ekki verið afvopnaðir, og eina valdið sem hægt var að tefla gegn þeim, var þjóðvörðurinn. Við þessar aðstæður hurfu snögglega stjórnvizkulegar mótbárur og lögfræðileg samvizkusemi bráðabirgðastjórnarinnar. Áður en tveggja klukkustunda fresturinn var liðinn, blöstu við með stóru letri á öllum múrum Parísar hin sögufrægu orð:

*République française! Liberté, égalité, fraternité!*[1]

Með stofnun lýðveldis á grundvelli almenns kosningaréttar hafði verið útmáð öll minning hinna þröngu takmarka og tilefna, sem knúið höfðu borgarastéttina út í febrúarbyltinguna. Í stað lítils hluta borgarastéttarinnar, höfðu nú allar stéttir hins franska þjóðfélags dregizt inn í hring hins pólitíska valds, neyðzt til að yfirgefa áhorfendasvæði, stúkur og bekki, og koma sjálfar fram á leiksviði byltingarinnar. Með hinni þingbundnu konungsstjórn hvarf allur vottur af þjóðfélagi, sem ætti sér sjálfstæða tilveru andspænis borgaralegu þjóðfélagi, og um leið hin fjölmörgu smáátök, sem þetta gervivald hafði gefið tilefni til.

Þegar öreigastéttin neyddi lýðveldinu upp á bráðabirgðastjórnina, og þar með Frakkland allt, kom hún fram á sviðið sem sjálfstæður stjórnmálaflokkur, en æsti um leið allt hið borgaralega Frakkland til baráttu gegn sér. Árangurinn af sigri hennar var leiksvið til baráttu fyrir endanlegri frelsun hennar, ekki þessi frelsun sjálf.

Þvert á móti hlaut febrúarlýðveldið fyrst í stað að fullkomna vald borgarastéttarinnar, þar sem hún veitti auk fésýsluvaldsins öllum eignastéttum aðgang að hinu pólitíska valdi. Meirihluti stórjarðeigenda, legitimistarnir,[2] losnuðu nú við hið pólitíska vanmætti, sem júlíbyltingin hafði dæmt þá til. Það var ekki að ófyrirsynju, að „Gazette de France“[3] hafði tekið þátt í áróðri stjórnarandstöðublaðanna, né heldur, að Larochejacquelein hafði gengið í lið með byltingarmönnum á þingfundi 24. febrúar. Með hinum almenna kosningarrétti var þeirri eignastétt að nafni til, sem myndar meirihluta Frakka, þ. e. a. s. bændunum, fengið úrslitavald um örlög Frakklands. Febrúarlýðveldið birti völd borgarastéttarinnar í skýru ljósi með því að ryðja úr vegi krónunni, sem auðvaldið hafði skýlt sér bak við.

Á sama hátt og verkamenn leiddu í júlíbyltingunni til sigurs borgaralega konungsstjórn, höfðu þeir nú knúið fram borgaralegt

---

1 Franska lýðveldið! Frelsi, jafnrétti, bræðralag! – *Útg.*
2 Legitimistar: fylgjendur Bourbon-konungsættarinnar, sem ríkti til 1830 – *Útg.*
3 Gazette de France: eitt af elztu blöðum konungssinna í Frakklandi, stofnað á 17. öld. – *Útg.*

lýðveldi. Á sama hátt og júlíkonungdæmið hafði neyðzt til að taka á sig mynd konungsstjórnar, umkringdrar af lýðveldisstofnunum, þannig var febrúarlýðveldið lýðveldi umkringt af félagslegum stofnunum. Öreigastétt Parísar hafði einnig knúið fram þessa tilslökun.

Verkamaðurinn Marche samdi yfirlýsinguna, sem skuldbatt hina nýmynduðu bráðabirgðastjórn til að tryggja tilveru verkamanna með vinnu, skapa atvinnu handa öllum borgurum o. s. frv. Og þegar hún nokkrum dögum síðar gleymdi skuldbindingum sínum og virtist hafa misst sjónar á öreigastéttinni, fóru 20 000 verkamenn í mótmælagöngu til Hotel de Ville undir kjörorðunum: Skipulagning vinnunnar! Myndun sérstaks atvinnumálaráðuneytis! Með tregðu og eftir langar umræður útnefndi bráðabirgðastjórnin sérstaka fastanefnd, sem átti að leita að ráðum til úrbóta á kjörum vinnandi stétta! Nefndina mynduðu fulltrúar handverkssambandanna í París og forsetar hennar voru Louis Blanc og Albert. Luxembourghöllin var fengin henni til húsnæðis. Þannig var fulltrúum verkalýðsstéttarinnar útskúfað úr aðsetursstað bráðabirgðastjórnarinnar, hinn borgaralegi hluti hennar hélt í sínum höndum hinu eiginlega ríkisvaldi og öllum stjórnartaumum, en við hliðina á ráðuneytum fjármála, verzlunar, opinberra framkvæmda, við hlið banka og kauphallar reis eins konar sósíalískt samkunduhús, og æðstuprestar þess, Louis Blanc og Albert, höfðu það hlutverk að leita fyrirheitna landsins, prédika fagnaðarerindið og sjá öreigastétt Parísar fyrir starfi. Gagnstætt öllu veraldlegu ríkisvaldi höfðu þeir ekki til umráða nein fjárlög né framkvæmdavald. Með einu saman höfðinu áttu þeir að kippa máttarstoðunum undan hinu borgaralega þjóðfélagi. Á meðan leitað var að vizkusteininum í Luxembourghöllinni, var í Hotel de Ville slegin sú eina mynt sem gildi hafði.

Og þó gátu kröfumál öreigastéttarinnar í París, að svo miklu leyti sem þau náðu út fyrir takmörk borgarlegs lýðveldis, ekki tekið á sig aðra mynd en skuggatilveru Luxembourghallarinnar.

Ásamt borgarastéttinni höfðu verkamenn gert febrúarbyltinguna, við hlið borgarastéttarinnar reyndu þeir að framfylgja hagsmunum sínum, á sama hátt og þeir höfðu komið verkamanni inn í sjálfa bráðabirgðastjórnina, við hlið hins borgaralega meirihluta. Skipulagning vinnunnar! En launavinnan er hin ríkjandi borgaralega skipulagning vinnunnar. Sérstakt atvinnumálaráðuneyti! En ráðuneyti fjármála, verzlunar, opinberra framkvæmda, eru það ekki hin borgaralegu vinnumálaráðuneyti? Og ef stofna átti auk þeirra sérstakt vinnumálaráðuneyti öreiganna, hlaut það ráðuneyti að verða vanmáttugt, ráðuneyti hinna frómu óska, einmitt eins og Luxembourg-nefndin. Á sama hátt og verka-

menn ímynduðu sér, að þeir gætu áunnið sér frelsi við hlið borgarastéttarinnar, þannig töldu þeir sér kleift að framkvæma innan þjóðartakmarka Frakklands öreigabyltingu, að ósnertum öðrum borgaralegum þjóðum. En franskir framleiðsluhættir eru skilyrðisbundnir af utanríkisverzlun Frakklands, stöðu þess á heimsmarkaðinum og lögum hins síðastnefnda; hvernig átti Frakkland að geta brotið þessi lög án evrópsks byltingarstríðs, sem bærist einnig til einvaldans á heimsmarkaðinum, Englands?

Þegar stétt, sem sameinar í sér alla byltingarsinnaða hagsmuni þjóðfélagsins, hefur á annað borð risið upp, finnur hún í sinni eigin aðstöðu nægt innihald og viðfangsefni fyrir byltingarstarfsemi sína. Hún þarf að sigrast á fjandmönnum sínum og gera á hverjum tíma þær ráðstafanir, sem baráttustaðan krefst og afleiðingar hennar eigin athafna knýja hana áfram. Hún gerir enga fræðilega rannsókn á viðfangefnum sínum. Franska verkalýðsstéttin var ekki í þessari aðstöðu, hún var þess enn ekki umkomin að framkvæma sína eigin byltingu.

Þróun iðnaðaröreiganna er almennt skilorðsbundin af þróun iðnaðarborgarastéttarinnar. Undir stjórn hennar öðlast þeir þá tilveru á þjóðarmælikvarða, sem getur gert byltingu þeirra að þjóðlegri byltingu og skapar fyrst þau nútíma framleiðslutæki, sem síðar verða hjálpartæki við frelsun þeirra. Stjórn hennar rífur upp hinar efnalegu rætur lénsskipulagsins og skapar leiksvið fyrir byltingu öreiganna.

Franski iðnaðurinn er háþróaðri og franska borgarastéttin hefur meiri byltingarferil að baki sér en gerist annars staðar á meginlandinu. En var ekki febrúarbyltingunni stefnt fyrst og fremst gegn fésýsluvaldinu? Þessi staðreynd sannaði að iðnaðarborgarastéttin stjórnaði ekki Frakklandi. Iðnaðarborgarastéttin getur aðeins stjórnað þar, sem nútímaiðnaður hefur umskapað alla eignarhætti eftir sinni mynd, og iðnaðurinn getur aðeins öðlazt þessa aðstöðu, þar sem hann nær undir sig heimsmarkaðinum, því að þjóðartakmörk eru of þröng fyrir framþróun hans. En mikill hluti franska iðnaðarins heldur jafnvel aðstöðu sinni á heimamarkaðinum aðeins með meira eða minna breyttu verndartollakerfi. Þegar franska öreigastéttin á augnabliki byltingar hefur í París völd og áhrif, sem leiða hana til átaks um efni fram, er hún því annars staðar í Frakklandi einskorðuð við fáeinar dreifðar iðnaðarmiðstöðvar, og hverfur að heita má andspænis yfirgnæfandi meirihluta bænda og smáborgara. Baráttan gegn auðvaldinu í þess háþróaða nútímaformi, í brennipunkti þess, barátta iðnaðarverkamanna gegn iðnaðarborgurum, er því í raun aukaatriði í Frakklandi og gat eftir febrúardagana ekki verið aðalinnihald byltingarinnar, því síður sem baráttan gegn minni

háttar arðránsaðferðum auðvaldsins, barátta bænda gegn okri og skuldakröfum, smáborgara gegn stórkaupmönnum, bankastjórum og verksmiðjueigendum, í stuttu máli gegn gjaldþrotsógnuninni, var enn innifalin í hinni almennu uppreisn gegn fésýsluvaldinu. Ekkert var því auðskiljanlegra en að öreigar Parísar skyldu reyna að hrinda fram hagsmunamálum sínum samtímis hinum borgaralegu, í stað þess að setja þau fram sem byltingarstefnumál þjóðfélagsins alls, að þeir skyldu þannig láta rauða fánann víkja fyrir hinum þrílita. Franskir verkamenn gátu ekki stigið eitt skref fram á við, ekki skert hár á höfði hins borgaralega skipulags, fyrr en þróun byltingarinnar hefði vakið til andstöðu gegn þessu skipulagi, gegn valdi auðmagnsins, meirihluta þjóðarinnar, bændur og smáborgara, sem enn stóðu milli öreiga og borgarastéttar, og neytt þá til að viðurkenna öreigana sem forustusveit sína. Þennan sigur gátu verkamenn aðeins keypt við verði hins mikla ósigurs í júní.

Luxembourgnefndin, þetta sköpunarverk Parísarverkalýðsins, getur stært sig af að hafa fyrst ljóstrað upp frammi fyrir allri Evrópu leyndarmáli byltingar nítjándu aldarinnar: frelsun öreigastéttarinnar. „Moniteur“[1] roðnaði af blygðun, þegar hann þurfti að birta opinberlega hina „villtu draumóra“, sem hingað til höfðu verið grafnir í leyniritum sósíalista og aðeins öðru hvoru náð eyrum borgarastéttarinnar sem langt að komnar, sumpart hrollvekjandi og sumpart hlægilegar sögusagnir. Evrópa vaknaði með andfælum af borgaralegum hálfsvefni sínum. Með stofnun lýðveldis voru völd borgarastéttarinnar afnumin samkvæmt hugmyndum öreiganna, sem rugluðu allri borgarastéttinni saman við fésýsluvaldið; samkvæmt ímyndun lýðveldissinnaðra heiðursmanna, sem mótmæltu því, að nokkrar stéttir væru til eða í mesta lagi viðurkenndu þær sem afleiðingu hinnar þingbundnu konungsstjórnar, og samkvæmt hræsnisfullum slagorðum þeirra arma borgarastéttarinnar, sem hingað til höfðu verið útilokaðir frá völdunum. Slagorðið, sem samsvaraði þessu ímyndaða afnámi stéttanna, var fraternité, hið almenna bræðralag. Þessi tilfinningabundna sértekning frá stéttaandstæðunum, þessi væmna sambræðsla andstæðra stéttahagsmuna, þessi draumórakennda upphafning yfir stéttabaráttuna, fraternité – þetta var hið eiginlega lykilorð febrúarbyltingarinnar. Stéttirnar greindust að af einum saman misskilningi, og Lamartine nefndi bráðabirgðastjórnina 24. febrúar: „un gouvernement qui suspende ce malentendu terrible qui existe entre les différentes classes“. Ör-

[1] Moniteur Universel: opinbert málgagn frönsku stjórnarinnar.
[2] „Stjórn, sem eyðir hinum hræðilega misskilningi milli hinna ólíku stétta.“ – *Útg.*

eigar Parísar voru ölvaðir af allri þessari göfugu bræðralagsvímu.

Á hinn bóginn gerði bráðabirgðastjórnin, eftir að hún hafði neyðzt til að lýsa yfir lýðveldi, allt til þess að laga það eftir kröfum borgarastéttarinnar og sveitahéraðanna. Hinni blóðugu ógnarstjórn fyrsta franska lýðveldisins var afneitað með afnámi dauðarefsingar fyrir pólitísk afbrot, blöðin voru opnuð öllum skoðunum, her, dómstólar og stjórnarstörf héldust með fáum undantekningum í höndum sömu embættismanna og áður, enginn af höfuðsökudólgum júlíkonungdæmisins var dreginn til ábyrgðar. Hinir borgaralegu lýðveldissinnar í „National" skemmtu sér við að hafa skipti á konunglegum nöfnum og búningum og gamaldags lýðveldislegum nöfnum. Í augum þeirra var lýðveldið ekkert annað en nýr samkvæmisklæðnaður fyrir hið gamla borgaralega þjóðfélag. Helzta viðleitni hins unga lýðveldis var sú að hræða engan, heldur láta alltaf sjálft skelfast, og vinna sér tilverurétt og afvopna andstæðingana með linkind og undanlátssemi. Gagnvart forréttindastéttum innanlands og einveldisríkjum út á við var því hátíðlega lýst yfir, að lýðveldið væri friðsamt. Að lifa og láta lifa væri kjörorð þess. Við það bættist, að eftir febrúarbyltinguna risu Þjóðverjar, Pólverjar, Austurríkismenn, Ungverjar og Ítalir upp, sérhver þjóð í samræmi við sínar heimaaðstæður. Hvað Rússland og England snerti, gerði órói einnig vart við sig í síðarnefnda landinu, og hið fyrrnefnda var skelft og óundirbúið. Lýðveldið þurfti þannig ekki að mæta neinum þjóðarlegum andstæðingi. Þannig komu ekki til neinir meiri háttar erfiðleikar, sem kynt hefðu undir orku byltingarinnar, flýtt framþróun hennar, hrakið bráðabirgðastjórnina áfram eða velt henni úr sessi. Öreigastétt Parísar, sem leit á lýðveldið sem sitt eigið sköpunarverk, studdi að sjálfsögðu hverja þá athöfn bráðabirgðastjórnarinnar, sem festi rætur þess í hinu borgaralega þjóðfélagi. Þeir létu Caussidière af fúsum vilja nota sig til lögreglustarfa við að vernda eignarréttinn í París, á sama hátt og þeir létu Louis Blanc miðla málum í launadeilu milli verkamanna og meistara. Það var þeim kappsmál að láta frammi fyrir Evrópu ósnertan hinn borgaralega heiður lýðveldisins.

Lýðveldið mætti engri mótspyrnu, hvorki út á við né inn á við. Þar með var það afvopnað. Hlutverk þess var ekki lengur að umskapa heiminn með byltingu, heldur aðeins það að laga sig að aðstæðum borgaralegs þjóðfélags. Af hvílíku ofstæki bráðabirgðastjórnin framfylgdi þessu hlutverki, sést bezt af fjármálaráðstöfunum hennar.

Lánastarfsemi hins opinbera og einstaklinga hafði að sjálfsögðu orðið fyrir miklu áfalli. Lánstraust ríkisins byggðist á

þeirri vissu, að ríkið leyfði fésýslugyðingunum að féfletta sig. En hið gamla ríkisvald var horfið, og byltingin beindist framar öllu gegn fésýsluvaldinu. Sveiflur síðustu verzlunarkreppu í Evrópu voru enn ekki á enda. Enn þá kom hvert gjaldþrotið á fætur öðru.

Einkalánastarfsemi var þannig lömuð, vöruveltan stöðnuð og framleiðslan slíkt hið sama, áður en febrúarbyltingin hófst. Og þar sem einkalán byggjast á því trausti, að borgaralegir framleiðsluhættir í heild sinni, allt hið borgaralega skipulag sé ósnert og ósnertanlegt, hvernig gat þá gengið bylting, sem stefndi í voða grundvelli borgaralegrar framleiðslu, efnahagslegum þrældómi öreiganna, og tefldi Sfinx Luxembourghallarinnar gegn kauphöllinni? Uppreisn öreiganna táknar afnám hins borgaralega lánstrausts, því að hún vegur að sjálfri hinni borgaralegu framleiðslu og skipulagi hennar. Opinber og einkalánastarfsemi eru hinn efnahagslegi hitamælir, sem lesa má af styrkleika hverrar byltingar. Því meira sem þeim hnignar, þeim mun meira vex hiti og sköpunarkraftur byltingarinnar.

Bráðabirgðastjórnin vildi losa lýðveldið við hið andborgaralega yfirbragð. Hún varð því fyrst af öllu að tryggja markaðsgildi þessa nýja stjórnarforms, gengi þess á kauphöllinni. Einkalánastarfsemi náði sér aftur samtímis verðlista kauphallarinnar.

Til þess að losna við allan grun um að hún ætlaði ekki að standa við þær skuldbindingar, sem hún hafði tekið í arf frá konungsstjórninni, til þess að vekja traust á borgaralegu siðferði og greiðslugetu lýðveldisins, greip bráðabirgðastjórnin til auglýsingabragðs, sem var jafn ósæmilegt og það var barnalegt. Fyrir lögmætan gjalddaga greiddi hún lánardrottnum ríkisins 5%, 4½% og 4% vexti. Borgaraleg reisn og sjálfstraust kapítalistanna vaknaði snögglega, er þeir sáu, hve ákaft stjórnin falaðist eftir trausti þeirra.

Fjárkröggur bráðabirgðastjórnarinnar minnkuðu að sjálfsögðu ekki við þetta leikarabragð, sem svipti hana öllu reiðufé. Ekki var lengur hægt að dylja fjárskortinn, og smáborgarar, þjónustufólk og verkamenn urðu að gjalda fyrir hina velkomnu og óvæntu gjöf, sem lánardrottnum ríkisins hafði verið færð.

Því var lýst yfir, að ekki væri lengur hægt að taka út í peningum innstæður sparisjóðsbóka með yfir 100 franka. Upphæðir geymdar í sparisjóðum voru þannig gerðar upptækar og með lögum gerðar að óafturkræfri ríkisskuld. Þannig æsti lýðveldið upp á móti sér smáborgarann sem þegar var í kröggum. Hann fékk í stað sparifjár síns ríkisskuldabréf og varð að selja þau í kauphöllinni og selja sig þannig aftur á vald kauphallarbraskaranna, sem hann hafði barizt gegn í febrúarbyltingunni.

Fésýsluvaldið, sem ríkt hafði á dögum júlíkonungdæmisins, átti sitt æðsta musteri, þar sem bankinn var. Eins og kauphöllin stjórnar ríkislánum, þannig stjórnar bankinn verzlunarlánum.

Þar sem febrúarbyltingin ógnaði ekki aðeins valdi hans, heldur beinlínis tilveru, reyndi bankinn frá upphafi að veikja lýðveldið með allsherjar lánsfjárskorti. Hann sagði fjármálamönnum, verksmiðjueigendum og kaupsýslumönnum fyrirvaralaust upp lánstrausti. Þar eð þetta bragð nægði ekki til að framkalla gagnbyltingu, kom það bankanum sjálfum í koll. Kapítalistar drógu til baka það fé, sem þeir höfðu komið fyrir í bankanum. Eigendur bankaseðla réðust að fjárhirzlum hans og vildu skipta seðlunum í gull eða silfur.

Án valdbeitingar, með fullkomlega löglegum hætti, gat bráðabirgðastjórnin neytt bankann til gjaldþrots; henni var nóg að sitja aðgerðarlaus og láta bankann verða örlögum sínum að bráð. Gjaldþrot bankans – það hefði orðið syndaflóð, sem þurrkað hefði á andartaki út fésýsluvaldið, voldugasta og hættulegasta andstæðing lýðveldisins, hinn gullna grundvöll júlíkonungdæmisins. Og hefði bankinn orðið gjaldþrota, hlaut jafnvel borgarastéttin að líta á það sem neyðarúrræði til bjargar, ef ríkisstjórnin hefði stofnað þjóðbanka og fengið þjóðinni umráð yfir opinberri lánastarfsemi.

En bráðabirgðastjórnin fór þveröfugt að: hún lögbatt gildi bankaseðlanna. Og hún gerði meira: Hún breytti öllum héraðsbönkum í útibú Banque de France og leyfði honum þannig að leggja net sín um allt Frakkland. Síðar veðsetti hún honum skóglendur ríkisins til tryggingar láni, sem hún fékk hjá honum. Þannig styrkti bráðabirgðastjórnin og festi í sessi bankaveldið, sem hún átti að steypa.

Meðan þetta gerðist, kiknaði bráðabirgðastjórnin undir byrði vaxandi greiðsluhalla. Án árangurs bað hún um fórnir í nafni föðurlandsins. Aðeins verkamenn fleygðu til hennar ölmusu. Grípa varð til hetjulegs úrræðis, álagningar nýrra skatta. En á hvern átti að leggja þá? Kauphallarbraskarana, bankastjórana, lánardrottna ríkisins, rentuþega eða iðnrekendur? Það var ekki rétta ráðið til að koma lýðveldinu í mjúkinn hjá borgarastéttinni. Það þýddi að stofna ríkis- og verzlunarlánsfé í hættu frá einni hlið, um leið og reynt var frá annarri að kaupa það við fórnum og niðurlægingum. En einhverjum varð að blæða. Hverjum var fórnað í þágu hins borgaralega lánsfjármagns? Jacques le bonhomme,[1] bóndanum.

Bráðabirgðastjórnin bætti við hina fjóra beinu skatta auka-

[1] Jacques le bonhomme – þannig nefndi franski aðallinn bændur í háðungarskyni. – *Útg.*

skatti, 45 sentímum á hvern franka. Stjórnarblöðin töldu öreigunum í París trú um, að þessi skattur kæmi fyrst og fremst niður á stórjarðeigendum, eigendum milljarðsins frá dögum hins endurreista konungdæmis.[1] Í raun og veru kom hann harðast niður á bændastéttinni, þ. e. yfirgnæfandi meirihluta frönsku þjóðarinnar. Hún varð að greiða kostnaðinn við febrúarbyltinguna, og þannig var hún helzti efniviður gagnbyltingarinnar. 45-sentímuskatturinn varðaði tilveru franska bóndans, og hann lét hann líka varða tilveru lýðveldisins. Lýðveldið var héðan í frá í augum franska bóndans ekkert annað en 45-sentímuskatturinn, og hann leit á öreigastétt Parísar sem eyðslusegg, er lifði þægilegu lífi á hans kostnað. Þar sem bylting ársins 1789 lét það verða fyrsta verk sitt að lyfta byrðum lénsskipulagsins af bændum, kynnti bylting ársins 1848 sig fyrir íbúum sveitanna með nýjum sköttum, til að stofna ekki auðmagninu í hættu og halda ríkisvélinni í gangi.

Aðeins með einu ráði gat bráðabirgðastjórnin losnað við alla þessa erfiðleika og sveigt ríkið inn á nýjar brautir – með því að lýsa yfir ríkisgjaldþroti. Mönnum er enn í fersku minni, með hvílíkri hneykslun Ledru-Rollin vísaði á þjóðþinginu á bug þessari tillögu kauphallarbraskarans Foulds, núverandi fjármálaráðherra Frakklands. Og þó hafði Fould einmitt verið að rétta honum ávöxtinn af vizkutrénu.

Þegar bráðabirgðastjórnin viðurkenndi þær skuldakröfur, sem hið gamla borgaralega þjóðfélag hafði stofnað ríkinu í, gaf hún sig um leið á vald þessa þjóðfélags. Hún var nú orðin aðþrengdur skuldunautur hins borgaralega þjóðfélags, í stað þess að standa andspænis því sem ógnandi lánardrottinn, sem átti að innheimta margra ára skuldakröfur byltingarinnar. Hún varð að festa í sessi hið ótrausta borgaralega skipulag, svo að hún gæti fullnægt skyldum, sem aðeins er hægt að fullnægja innan þessa skipulags. Lánsfjármagnið varð henni lífsskilyrði og tilslakanirnar við öreigastéttina, loforðin, sem henni höfðu verið gefin, urðu að fjötrum, sem varð að sprengja. Frelsun verkamannanna – þótt ekki væri nema slagorð – varð óþolandi ógnun við hið nýja lýðveldi, því að hún var stöðugur steinn í götu endurreisnar lánastarfsemi, sem byggðist á óskoraðri viðurkenningu ríkjandi efnahagslegra stéttaaðstæðna. Það varð því að gera upp sakirnar við verkamenn.

Febrúarbyltingin hafði hrakið herinn frá París. Þjóðvörðurinn, þ. e. borgarastéttin með sinni margvíslegu sundurgreiningu, var eina valdið, sem til var. Einn sér var hann þó enn ekki öreig-

[1] Upphæð, sem greidd var 1825 í skaðabætur aðalsmönnum fyrir eignir, sem gerðar höfðu verið upptækar í borgarabyltingunni í lok 18. aldar. – *Útg.*

unum vaxinn. Þar að auki neyddist hann til þess eftir langvarandi mótspyrnu og allar hugsanlegar hindranir, að opna raðir sínar hægt og hægt og taka við vopnuðum verkamönnum. Þannig var aðeins eitt úrræði til: að tefla einum hluta verkamanna gegn öðrum.

Í þeim tilgangi myndaði bráðabirgðastjórnin 24ra herdeilda „hreyfanlegt varðlið"; í hverri herdeild voru þúsund manns á aldrinum 15–20 ára. Meirihluti þeirra tilheyrði tötraskrílnum, sem í öllum stórborgum myndar fjölmennan hóp, greinilega aðskilinn frá iðnaðaröreigunum. Honum tilheyra þjófar og afbrotamenn allra tegunda, sem lifa á leifum þjóðfélagsins, menn án fastrar atvinnu, flakkarar, „gens sans feu et sans aveu", ólíkir innbyrðis eftir menntunarstigi þeirrar þjóðar, sem þeir tilheyra, en ætíð með lassarónaeinkennum.[1] Á unga aldri, eins og þeir, sem bráðabirgðastjórnin tók í herlið sitt, eru þeir enn móttækilegir fyrir öll áhrif, færir annars vegar um hinar mestu hetjudáðir og fórnarlund, hins vegar um hin svívirðulegustu glæpaverk og fyrirlitlegustu mútuþægni. Bráðabirgðastjórnin greiddi þeim einn franka og fimmtíu sentímur á dag og keypti þá þannig. Hún fékk þeim sérstakan einkennisbúning og aðskildi þá þar með einnig á ytra borði frá múgnum. Til að stjórna þeim voru sumpart skipaðir liðsforingjar úr fastahernum, sumpart kusu þeir sjálfir unga borgarasyni, sem smjöðruðu fyrir þeim með ræðum um fórnardauða fyrir föðurlandið og þjónustu við lýðveldið.

Þannig stóð nú gegn öreigum Parísar her 24 000 ungra, sterkra og djarfra manna, valinn úr þeirra eigin röðum. Öreigarnir hrópuðu húrra fyrir honum, þegar hann gekk um í París. Þeir litu á hann sem forustusveit sína í hugsanlegum götubardögum. Þeir litu á hann sem öreigavarðlið í andstöðu við hinn borgaralega þjóðvörð. Villa þeirra var fyrirgefanleg.

Auk hins hreyfanlega varðliðs ákvað bráðabirgðastjórnin að fylkja um sig liði iðnaðarverkamanna. Marie ráðherra réði 100 000 verkamenn, sem kreppan og byltingin höfðu svipt atvinnu, til vinnu í svonefndum þjóðverkstæðum. Undir þessu glæsilega nafni duldist notkun verkamanna til leiðinlegrar, einhæfrar og ófrjórrar jarðvinnslu fyrir 23 sou í kaup. Þessi þjóðverkstæði voru ekkert annað en ensk „workhouses"[2] undir beru lofti. Bráðabirgðastjórnin áleit, að hér hefði hún myndað

---

[1] Lazzaroni nefndust á Ítalíu stéttleysingjar á tötraskrílsstigi. Einvaldsstjórnir beittu þeim oft til gagnbyltingaraðgerða. – *Útg.*

[2] Fátækralögin frá 1834 í Englandi mæltu svo fyrir, að í stað aðstoðar í peningum eða í fríðu skyldu byggðar vinnustöðvar fyrir fátæklinga. Þessi hús voru nefnd „Bastillur fyrir fátæklinga" og litið á þau sem kvalastaði. – *Útg.*

annan öreigaher gegn verkamönnunum sjálfum. Í þetta sinn skjátlaðist borgarastéttinni um þjóðverkstæðin, eins og verkamönnum skjátlaðist um hreyfanlega varðliðið. Hún hafði skapað uppreisnarher.

En einu markmiði hafði þó verið náð.

Þjóðverkstæði – það var einmitt sama nafnið og Louis Blanc notaði um vinnustaði þá, sem hann prédikaði um í Luxembourghöllinni. Verkstæði Maries, sem komið var upp í beinni andstöðu við Luxembourgnefndina, gáfu með þessu sameiginlega nafni tilefni til blekkingaáróðurs, sem sómt hefði sér vel í spænskum skopleik. Bráðabirgðastjórnin lét í laumi breiða út þann orðróm, að þessi þjóðverkstæði væru fundin upp af Louis Blanc, og þetta virtist þeim mun trúlegra, sem Louis Blanc, spámaður þjóðverkstæðanna, var meðlimur í bráðabirgðastjórninni. Sumpart einlægur, sumpart uppgerður misskilningur borgarastéttarinnar og blekkt almenningsálitið í Frakklandi og Evrópu allri gerði þessi vinnuhús að fyrstu framkvæmd sósíalismans, sem þannig var ásamt þeim settur í gapastokkinn.

Fyrir nafn sitt að vísu, en ekki fyrir innihald sitt, voru þjóðverkstæðin holdtekin mótmæli öreiganna gegn hinum borgaralega iðnaði, borgaralegri lánastarfsemi og borgaralegu lýðveldi. Gegn þeim beindist því allt hatur borgarastéttarinnar. Með þeim hafði hún um leið fundið skotmark, sem hún gæti beint árás sinni gegn, þegar hún væri orðin nógu sterk til að segja skilið við febrúarblekkingarnar. Öll gremja og óánægja smáborgaranna beindist um leið gegn þessum þjóðverkstæðum, sem urðu að allsherjar skotmarki. Þeir reiknuðu með réttlátri reiði út upphæðirnar, sem þessir öreigaónytjungar gleyptu í sig, meðan þeirra eigin kjör versnuðu dag frá degi. Ríkislaun fyrir vinnusvik, þetta er sósíalisminn! muldruðu þeir í barm sér. Þjóðverkstæðin, skrúðmælgin í Luxembourghöllinni, göngur verkamanna um París – þetta álitu þeir orsakirnar að eymd sinni. Og enginn var ofstækisfyllri andstæðingur ímyndaðrar undirróðursstarfsemi kommúnista en smáborgarinn, sem rambaði bjargarvana á barmi gjaldþrots.

Þannig voru í hinum yfirvofandi átökum milli borgarastéttar og öreiga allir yfirburðir, allar mikilvægar stöður, allar millistéttir þjóðfélagsins í höndum borgarastéttarinnar, á sama tíma og bylgjur febrúarbyltingarinnar risu hátt á öllu meginlandinu og sérhver ný póstsending færði nýjar byltingarfréttir, ýmist frá Ítalíu, Þýzkalandi eða fjarlægasta suðausturhorni Evrópu, og hélt þannig við gleðivímu alþýðunnar með nýjum staðfestingum á sigri, sem hún hafði þegar glatað úr höndum sér.

Atburðirnir 17. marz og 16. apríl voru fyrstu skærurnar í hin-

um miklu stéttaátökum, sem þroskuðust í skauti hins borgaralega lýðveldis.

17. marz sýndi hina tvíbentu aðstöðu öreiganna, sem leyfði þeim engar úrslitaaðgerðir. Mótmælaganga þeirra átti upprunalega að sveigja bráðabirgðastjórnina aftur inn á braut byltingarinnar, og ef mögulegt væri, að velta úr sessi hinum borgaralegu meðlimum hennar og fá kosningum til þjóðþings og þjóðvarðliðs frestað. En 16. marz efndi borgarastéttin, sem fulltrúa átti í þjóðvarðliðinu, til mótmælagöngu, fjandsamlegrar ríkisstjórninni. Undir kjörorðinu: A bas Ledru-Rollin![1] ruddist hún upp að Hotel de Ville. Og alþýðan neyddist til að hrópa 17. marz: Lifi Ledru-Rollin! Hún neyddist til að taka gegn borgarastéttinni málstað hins borgaralega lýðveldis, sem henni virtist í hættu stofnað. Hún festi bráðabirgðastjórnina í sessi í stað þess að gera hana sér undirgefna. 17. marz leystist upp í melodramatíska leiksýningu, og ef öreigar Parísar höfðu á þessum degi enn einu sinni sýnt risaafl sitt, var borgarastéttin innan og utan bráðabirgðastjórnarinnar þeim mun ákveðnari í að brjóta þá á bak aftur.

16. apríl var misskilningur, sem bráðabirgðastjórnin og borgarastéttin efndu til. Mikill fjöldi verkamanna hafði safnazt saman á Marsvelli og skeiðvellinum, til að undirbúa kosningar í herráð þjóðvarðliðsins. Allt í einu breiddist með eldingarhraða út um alla París sá orðrómur, að verkamenn hefðu komið vopnaðir saman á Marsvelli, undir forustu L. Blancs, Blanquis, Cabets og Raspails, til að gera þaðan árás á Hotel de Ville, steypa bráðabirgðastjórninni og setja á laggirnar kommúníska stjórn. Hafið var allsherjar herútboð – Ledru-Rollin, Marrast og Lamartine deildu síðar um, hver ætti heiðurinn af því – og eftir eina klukkustund voru 100 000 manns undir vopnum, Hotel de Ville var kringsetið af þjóðvarðliði, herópið: Niður með kommúnista! Niður með Louis Blanc, Blanqui, Raspail og Cabet! kvað við um alla París, og fjöldi sendinefnda lýsti yfir hollustu við bráðabirgðastjórnina, allar reiðubúnar til að bjarga föðurlandinu og þjóðfélaginu. Þegar verkamenn birtust loks fyrir framan Hotel de Ville til að afhenda bráðabirgðastjórninni árangur fjársöfnunar í þágu föðurlandsins, uppgötvuðu þeir sér til undrunar, að borgarastétt Parísar hafði sigrazt á skugga þeirra í vandlega skipulagðri gerviorustu. Hið hræðilega samsæri 16. apríl gaf átyllu til að kveðja herinn aftur til Parísar – það var hinn eiginlegi tilgangur þessa klaufalega skopleiks – og sömuleiðis til mótmælaaðgerða afturhaldssamra skilnaðarmanna í sveitahéruðunum.

---

[1] Niður með Ledru-Rollin!

Hinn 4. maí kom saman þjóðþingið, sem kosið hafði verið með beinum og almennum kosningarrétti. Hinn almenni kosningarréttur reyndist ekki hafa þann töfrakraft, sem lýðveldissinnar af öllum tegundum höfðu gert ráð fyrir. Þeir litu á alla Frakka, eða a. m. k. meirihluta þeirra, sem „citoyens", er ættu sömu hagsmuna að gæta, væru jafn upplýstir o. s. frv. Í þessu kom fram „alþýðudýrkun" þeirra. Í stað hinnar ímynduðu alþýðu sýndu kosningarnar hina raunverulegu, þ. e. fulltrúa hinna ýmsu stétta, sem hún greindist í. Við höfum þegar séð, hvers vegna bændur og smáborgarar hlutu í kosningunum að styðja hina herskáu borgarastétt eða endurreisnarsinnaða stórjarðeigendur. En þótt almennur kosningarréttur væri ekki það töframeðal, sem lýðveldissinnaðir heiðursmenn höfðu talið hann vera, fékk hann miklu mikilvægari hlutum áorkað: hann leysti stéttabaráttuna úr læðingi, gerði millistéttum hins borgaralega þjóðfélags kleift að ganga í gegnum tálsýnir sínar og blekkingar á skömmum tíma, veitti öllum brotum arðránsstéttarinnar aðgang að stjórnartaumunum og afhjúpaði þær þannig, þar sem konungdæmið aftur á móti hafði með takmörkunum sínum að vísu komið óorði á nokkurn hluta borgarastéttarinnar, en skýlt hinum að tjaldabaki og sveipað hann geislabaug hinnar sameinuðu stjórnarandstöðu. Á hinu löggefandi þjóðþingi, sem kom saman 4. maí, voru borgaralegir lýðveldissinnar, aðstandendur blaðsins „National" í meirihluta. Jafnvel legitimistar og orleanistar þorðu fyrst í stað ekki að sýna sig í öðru gervi en gervi borgaralegra lýðveldissinna. Baráttuna gegn öreigunum var aðeins hægt að hefja í nafni lýðveldisins.

Lýðveldið, þ. e. það lýðveldi, sem viðurkennt var af frönsku þjóðinni, hefst 4. maí, ekki 25. febrúar. Þetta var ekki það lýðveldi, sem öreigar Parísar neyddu upp á bráðabirgðastjórnina, ekki lýðveldi með félagslegum stofnunum, ekki sú draumsjón, sem vakað hafði fyrir baráttumönnum í götuvígjunum. Það lýðveldi, sem þjóðþingið lýsti yfir, hið eina lögmæta lýðveldi, er ekkert byltingarvopn gegn hinu borgaralega skipulagi, heldur öllu frekar hin pólitíska endurreisn þess, pólitísk endurstaðfesting hins borgaralega þjóðfélags, í stuttu máli hið borgaralega lýðveldi. Staðfesting þess hljómaði úr ræðustólum þjóðþingsins, og öll borgaraleg blöð, hlynnt eða andvíg lýðveldinu, bergmáluðu hana.

Og við höfum séð, að febrúarlýðveldið var ekki né gat verið neitt annað en borgarlegt lýðveldi, þótt bráðabirgðastjórnin yrði að láta undan þrýstingi öreiganna og lýsa það lýðveldi með félagslegum stofnunum; að öreigar Parísar voru enn ófærir um að yfirvinna hið borgaralega lýðveldi öðru vísi en í ímyndun sinni; að alls staðar, þegar á reyndi, þjónuðu þeir því af hollustu; að

loforðin, sem þeim höfðu verið gefin, urðu að óþolandi ógnun við hið nýja lýðveldi; að allur ferill bráðabirgðastjórnarinnar varð að stöðugri baráttu gegn kröfum öreiganna.

Á þjóðþinginu tók allt Frakkland sér dómsvald yfir öreigum Parísar. Það sagði þegar í stað skilið við hinar félagslegu tálsýnir febrúarbyltingarinnar og lýsti afdráttarlaust yfir borgaralegu lýðveldi án frekari viðbóta. Það útilokaði tafarlaust frá nýkjörinni framkvæmdanefnd fulltrúa öreiganna, Louis Blanc og Albert; það hafnaði tillögunni um stofnun sérstaks vinnumálaráðuneytis og tók með fagnaðarlátum yfirlýsingu Trélats ráðherra: „Nú er aðeins um það að ræða að koma vinnumálum aftur í sama horf og áður."

En þetta allt nægði ekki. Verkamenn höfðu knúið stofnun febrúarlýðveldisins fram með óvirkum stuðningi borgarastéttarinnar. Verkamenn litu réttilega á sig sem sigurvegarana frá í febrúar, og þeir gerðu kröfur við hæfi sigurvegara. Það varð að sigra þá á götum úti, sýna þeim, að þeir hlytu að bíða ósigur, jafnskjótt og þeir berðust ekki með borgarastéttinni, heldur gegn henni. Eins og febrúarlýðveldið með sínum félagslegu tilslökunum krafðist baráttu öreiganna í bandalagi við borgarastéttina gegn konungsvaldinu, þannig var nú önnur orusta nauðsynleg til að losa lýðveldið við hinar sósíalísku tilslakanir, og sýna það opinberlega, að hið borgaralega lýðveldi skyldi ríkja. Borgarastéttin varð að synja kröfum öreiganna með vopnavaldi. Og hin eiginlega fæðing hins borgaralega lýðveldis var ekki febrúarsigurinn, heldur ósigurinn í júní.

Öreigarnir flýttu fyrir úrslitaátökunum, þegar þeir ruddust inn í þjóðþingið 15. maí, reyndu árangurslaust að ná aftur byltingaráhrifum sínum og fengu því einu áorkað, að fangaverðir borgarastéttarinnar náðu á sitt vald hinum atorkusömu foringjum þeirra.[1] Il faut en finir! Á þetta ástand verður að binda endi! Með þessu herópi tjáði þjóðþingið vilja sinn til að knýja öreigana til úrslitaátaka. Framkvæmdanefndin gaf út fjölda ögrandi tilskipana, eins og t. d. bann við fjöldasamkomum. Úr ræðustólum stjórnlagaþjóðþingsins var verkamönnum ögrað, þeir hrakyrtir og dregið dár að þeim. En hið eiginlega skotmark árásarinnar voru, eins og þegar hefur verið sýnt fram á, þjóðverkstæðin. Á þau sigaði löggjafarþingið framkvæmdanefndinni, sem beið þess eins að heyra sinni eigin áætlun lýst yfir með tilskipun þjóðþingsins. Framkvæmdanefndin byrjaði með því að torvelda aðgang að þjóðverkstæðunum, breyta daglaununum í ákvæðislaun, og senda til Sologne þá verkamenn, sem ekki voru

[1] Eftir atburðina 15. maí 1848 voru Barbes, Albert, Raspail, Sobrier og síðar einnig Blanqui handteknir og varpað í Vincennes-fangelsið. – *Útg.*

ættaðir úr París, í orði kveðnu til jarðvinnslu. Þessi jarðvinnsla var aðeins yfirskin til að breiða yfir brottrekstur þeirra, eins og verkamenn skýrðu félögum sínum frá, er þeir komu vonsviknir til baka. Að lokum birti „Moniteur“ 21. júní tilskipun um brottrekstur allra ókvæntra verkamanna úr þjóðverkstæðunum eða kvaðningu þeirra í herinn.

Verkamenn áttu engra kosta völ, annað hvort urðu þeir að svelta eða grípa til vopna. Þeir svöruðu 22. júní með hinni miklu uppreisn, sem varð fyrsta stórorustan milli þeirra tveggja stétta, er þjóðfélag nútímans skiptist í. Þetta var barátta um tilveru eða eyðileggingu hins borgaralega skipulags. Slæðan, sem skýlt hafði lýðveldinu, rifnaði.

Öllum er kunnugt, með hve frábærri hreysti og snilligáfu verkamenn, leiðtogalausir, skipulags- og hjálpartækjalausir, að miklu leyti vopnlausir, héldu sínu í fimm daga gegn hernum, þjóðvarðliði Parísar, hinu hreyfanlega varðliði og þjóðvarðliðinu, sem komið hafði utan af landi. Kunnugt er enn fremur, af hvílíkri grimmd borgarastéttin hefndi þeirrar skelfingar, er slegið hafði á hana, með því að brytja niður meira en 3000 fanga.

Hinir opinberu fulltrúar franskra lýðræðissinna voru svo blindaðir af hugmyndafræði lýðveldisins, að það var ekki fyrr en nokkrum vikum síðar, að þeir fóru að renna grun í þýðingu júníbardaganna. Þeir voru sem ruglaðir af púðurreyknum, sem hið ímyndaða lýðveldi þeirra leystist upp í.

Hinum beinu áhrifum fréttarinnar um júnísigurinn á okkur leyfir lesandinn okkur líklega að lýsa með orðum Nýrra Rínartíðinda frá þeim tíma:

„Hinar síðustu opinberu leifar febrúarbyltingarinnar, framkvæmdanefndin, hafa nú leystst upp eins og þoka frammi fyrir alvöru atburðanna. Flugeldar Lamartines hafa breytzt í eldflaugar Cavaignacs. Fraternité, bræðralag hinna andstæðu stétta, þar sem ein arðrænir aðra, þetta fraternité, sem lýst var yfir í febrúar og skráð stóru letri á ásjónu Parísar, á sérhvert fangelsi, sérhverjar herbúðir, – hin sanna og ófalsaða, hversdagslega tjáning þess er borgarastríðið, borgarastríðið í sinni hræðilegustu mynd, styrjöld vinnu og auðmagns.

Þetta bræðralag logaði fyrir öllum gluggum Parísar að kvöldi 25. júní, þegar París borgarastéttarinnar skrýddist skrautljósum, meðan París öreiganna brann og blæddi út. Bræðralagið stóð nákvæmlega eins lengi og hagsmunir borgarastéttarinnar gátu samrýmzt hagsmunum öreiganna. – Smámunasamir varðveitendur byltingararfsins frá 1793, sósíalískir kerfasmiðir, sem fyrir hönd alþýðunnar betluðu við dyr borgaranna og fengu leyfi til að halda langar ræður og flekka þannig mannorð sitt, meðan enn

þurfti að svæfa öreigana, lýðveldissinnar, sem vildu viðhalda öllu hinu gamla borgaralega skipulagi, að kórónunni einni frádreginni, konungssinnaðir stjórnarandstæðingar, sem tilviljun neyddi til að fallast á brottrekstur konungsættarinnar í stað ráðuneytisskipta, legitimistar, sem ekki vildu afklæðast þjónustubúningnum, heldur aðeins breyta sniði hans, – þessir voru bandamenn alþýðunnar í febrúar. – Febrúarbyltingin var fögur bylting, bylting sem naut almennrar samúðar, því að þeir andstæðu aðilar, sem tóku höndum saman gegn konungsveldinu, lifðu enn þá í sátt og samlyndi, þar eð hin þjóðfélagslega barátta, sem myndaði baksviðið lifði enn ekki nema í skuggatilveru, nam staðar við orðin ein. Júníbyltingin er ljót bylting, fráhrindandi, því að nú er hluturinn sjálfur kominn í stað kjörorðanna, því að lýðveldið sjálft opinberaði höfuð ófreskjunnar, þegar hún svipti af því kórónunni. Lög og regla! var heróp ófreskjunnar, þegar hún svipti af því kórónunni. Lög og regla! var heróp Guizots. Lög og regla! hrópaði Sébastiani lærisveinn hans, þegar Rússar lögðu undir sig Varsjá. Lög og regla! hrópaði Cavaignac, hið miskunnarlausa bergmál franska þjóðþingsins og hinnar lýðveldissinnuðu borgarastéttar. Lög og regla! drundi í skotvopnum hans, þegar þau gengu milli bols og höfuðs á öreigunum. Engin af hinum mörgu byltingum frönsku borgarastéttarinnar síðan 1789 beindist gegn lögum og reglu, því að þær létu ósnert stéttavöldin, þrælkun verkamannanna, hið borgaralega skipulag, hversu oft sem hið pólitíska form þessara valda og þessarar þrælkunar breyttist. Atburðirnir í júní hrófluðu við þessu skipulagi. Vei júní!“ (N. Rh. Z., 29. júní 1848.)

Vei júní! bergmálar um alla Evrópu.

Borgarastéttin neyddi öreigana í París til júníuppreisnarinnar. Það eitt dæmdi þá til ósigurs. Hvorki var það bein og augljós þörf þeirra að steypa borgarastéttinni frá völdum, né heldur gátu þeir risið undir þessu hlutverki. „Moniteur“ varð að gera þeim ljóst, að þeir tímar voru liðnir, er lýðveldið neyddist til að hafa í heiðri tálsýnir þeirra, og það var fyrst ósigur þeirra, er sannfærði þá um, að hin smávægilegasta úrbót á kjörum þeirra er draumsjón ein innan ramma hins borgaralega lýðveldis, draumsjón, sem breytist í glæp, þegar á að hrinda henni í framkvæmd. Í stað krafna þeirra á hendur febrúarlýðveldinu, óhóflegra að formi til, en smásálarlegra og jafnvel borgaralegra að innihaldi til, kom nú hið djarfa byltingarkjörorð: Niður með borgarastéttina! Alræði verkalýðsstéttarinnar!

Um leið og öreigastéttin gerði grafreit sinn að fæðingarstað hins borgaralega lýðveldis, neyddi hún það til að koma fram í hreinni mynd, sem ríki, er hefur það að yfirlýstu markmiði að

viðhalda völdum auðmagnsins og þrælkun vinnunnar. Þar eð borgarastéttin hafði stöðugt fyrir augunum hinn hrjáða, en ósættandi og ósigrandi óvin, öreigana – óvin sem ekki varð útrýmt þar eð tilvera hans er skilyrði fyrir hennar eigin lífi – hlutu hin óhindruðu völd hennar að breytast í borgaralega ógnarstjórn. Þegar öreigastéttinni hafði verið rýmt af sviðinu, alræði borgarastéttarinnar hlotið opinbera viðurkenningu, hlutu millistéttir hins borgaralega þjóðfélags, eftir því sem kjör þeirra urðu æ meir óþolandi og andstaða þeirra við borgarastéttina skarpari, að fylkja sér meir og meir um öreigana. Eins og þær höfðu áður séð orsökina að eymd sinni í uppgangi þeirra, hlaut þeim nú að verða ljóst, að hún lá í ósigri þeirra.

Júníuppreisnin jók sjálfstraust borgarastéttarinnar á öllu meginlandinu og kom henni til að ganga opinberlega í bandalag með léns- og konungsvaldi gegn alþýðunni, en hvert var fyrsta fórnarlamb þessa bandalags? Borgarastétt meginlandsins sjálf. Júníósigurinn gerði henni ókleift að festa völd sín í sessi og stöðva alþýðuna, hálfásátta, hálfóánægða, á neðsta þrepi hinnar borgaralegu byltingar.

Síðast en ekki sízt ljóstaði júníósigurinn upp því leyndarmáli við einvaldsríki Evrópu, að Frakkland yrði undir öllum kringumstæðum að gæta friðar út á við, til að geta háð borgarastyrjöldina innanlands. Þannig voru þjóðirnar, sem hafið höfðu baráttu fyrir sjálfstæði sínu, ofurseldar Rússlandi, Austurríki og Prússlandi, en um leið urðu örlög þessara þjóðlegu byltinga undirorpin örlögum öreigabyltingarinnar, þær voru sviptar yfirborðssjálfstæði sínu gagnvart hinni miklu félagslegu umbyltingu. Ungverjar, Pólverjar og Ítalir geta ekki orðið frjálsir, svo lengi sem verkamanninum er haldið í þrældómi.

Þar að auki tók Evrópa með sigrum helga bandalagsins á sig slíka mynd, að hver ný öreigauppreisn í Frakklandi hlýtur að leiða af sér heimsstyrjöld. Ný bylting í Frakklandi verður neydd til að yfirstíga hin þjóðlegu takmörk og ryðja sér braut á hinu evrópska leiksviði, sem eitt hæfir félagslegri byltingu 19. aldarinnar.

Það var því fyrst júníósigurinn, sem skapaði öll skilyrði fyrir því að Frakkland tæki forustuna í evrópskri byltingu. Það var fyrst eftir að honum hafði verið dýft í blóð júníuppreisnarmannanna, sem þríliti fáninn varð að fána hinnar evrópsku byltingar – rauða fánanum.

Og því hrópum við: Byltingin er dauð! – Lifi byltingin!

## II.

## 13. júní 1848

25. febrúar var lýðveldinu þröngvað upp á Frakkland, en 25. júní byltingunni. Og bylting þýddi eftir júní: umbylting hins borgaralega þjóðfélags, þar sem hún fyrir febrúar hafði þýtt: umbylting stjórnarfyrirkomulagsins.

Baráttunni í júní hafði verið stjórnað af hinu lýðveldissinnaða broti borgarastéttarinnar, og með sigrinum féll henni óhjákvæmilega einnig ríkisvaldið í skaut. Umsátursástandið lagði París mótspyrnulaust að fótum hennar, og úti á landi ríkti siðferðilegt umsátursástand, ógnandi og miskunnarlaus sigurvíma borgarastéttarinnar og smáeigendaofstæki bændanna. Að neðan var því ekkert að óttast.

Með byltingarvaldi verkamanna fóru einnig forgörðum pólitísk áhrif demókratískra lýðveldissinna, þ. e. lýðveldissinna af smáborgaratagi, sem í framkvæmdanefndinni áttu sinn fulltrúa í Ledru-Rollin, á þjóðþinginu í „fjall“-flokknum svonefnda og meðal blaðanna í „Réforme“. Ásamt borgaralegum lýðveldissinnum höfðu þeir 16. apríl gert samsæri gegn öreigastéttinni og í júní barizt með þeim gegn henni. Þannig eyðilögðu þeir sjálfir þann bakhjarl, sem var grundvöllurinn að veldi flokks þeirra, því að smáborgararnir geta aðeins tekið sjálfstæða byltingarafstöðu gegn borgarastéttinni, meðan öreigastéttin stendur að baki þeim. Nú var þeim vísað á dyr. Yfirborðsbandalag þeirra við borgaralega lýðveldissinna var nú rofið af hinum síðarnefndu, sem reyndar höfðu stofnað til þess ófúsir og með undirferli á tímum bráðabirgðastjórnarinnar og framkvæmdanefndarinnar. Þegar þeim nú var útskúfað og þeir forsmáðir af bandamönnum sínum, urðu þeir að undirgefnum vopnasveinum hinna þrílitu,[1] sem þeir gátu ekki fengið til neinna tilslakana, en urðu þó að styðja í hvert skipti sem völdum þeirra, og þar með lýðveldinu sjálfu, var stofnað í hættu af andlýðveldissinnuðum brotum borgarastyrjaldarinnar. Hvað þessi brot, orleanista og legitimista, snerti, voru þeir frá upphafi í minnihluta í stjórnlagaþinginu. Fyrir júnídagana þorðu þeir ekki að koma fram öðru vísi en í gervi borgaralegra lýðveldissinna; júnísigurinn kom eitt augnablik öllu hinu borgaralega Frakklandi til að hylla Cavaignac sem frelsara sinn, og þegar flokkur andstæðinga lýðveldisins gerðist aftur sjálfstæður skömmu eftir júnídagana, neyddi hernaðareinræðið og umsátursástandið í París hann til að fara að öllu með gætni og forsjá.

Síðan 1830 hafði hið lýðveldissinnaða brot borgarastéttarinnar

[1] þ. e. borgaralegir lýðveldissinnar.

með rithöfundum sínum og málsvörum, hæfileikamönnum og metorðastriturum, þingmönnum, herforingjum, bankamönnum og málfærslumönnum fylkt sér um eitt blað í París, „National". Þetta blað átti sín útibú í sveitahéruðunum. Klíkan í kringum „National" var konungsætt hins þrílita lýðveldis. Hún lagði þegar í stað undir sig öll ríkisembætti, ráðuneyti, lögreglustjórn, póstmálastjórn, héraðsstjóraembætti, lausar stöður hærri herforingja. Hershöfðingi hennar, Cavaignac, varð forseti framkvæmdanefndarinnar, og aðalritstjóri hennar, Marrast, varð forseti stjórnlagaþjóðþingsins. Í salarkynnum sínum kom hann um leið fram sem siðameistari hins virðulega lýðveldis.

Jafnvel byltingarsinnaðir franskir rithöfundar hafa af einhverri feimni gagnvart arfgeymd lýðveldisins hjálpað til að útbreiða þá staðleysu, að konungssinnar hafi haft undirtökin á stjórnlagaþjóðþinginu. Það var þvert á móti eftir júnídagana einokað af borgaralegum lýðveldissinnum, og þessi hlið þess kom þeim mun skýrar fram, sem hinir þrílitu lýðveldissinnar glötuðu meira af áhrifum sínum utan þingsins. Ef verja þurfti form hins borgaralega lýðveldis, gat það notað til þess atkvæði demókratískra lýðveldissinna, og ef um innihaldið var að ræða, greindi þá ekki einu sinni orðalagið frá konungssinnuðum brotum borgarastéttarinnar, því að hagsmunir borgarastéttarinnar, efnalegar forsendur stéttarvalds hennar og stéttararðráns eru einmitt innihald hins borgaralega lýðveldis.

Það voru því ekki konungssinnar, heldur borgaralegir lýðveldissinnar, sem mótuðu líf og athafnir þessa stjórnlagaþings, sem að lokum dó ekki né var drepið, heldur rotnaði lifandi.

Allan valdatíma þess, meðan það lék höfuðhlutverkið fremst á leiksviðinu, fór fram stöðug fórnarathöfn að tjaldabaki: stöðugir herréttardómar yfir handteknum júníuppreisnarmönnum eða flutningur þeirra í útlegð án dóms og laga. Stjórnlagaþingið hafði næga sómatilfinningu til að viðurkenna, að hér væri ekki verið að dæma afbrotamenn, heldur ganga milli bols og höfuðs á fjandmönnum.

Fyrsta verk stjórnlagaþjóðþingsins var að skipa nefnd til rannsóknar á atburðunum í júní og 15. maí, og á hlutdeild hinna sósíalísku og demókratísku flokksforingja í þessum atburðum. Rannsókninni var stefnt beint gegn Louis Blanc, Ledru-Rollin og Caussidière. Hinir borgaralegu lýðveldissinnar biðu þess með óþreyju að losna við þessa keppinauta. Til að koma fram hefndaráformum sínum gátu þeir engan fundið heppilegri en Odilon Barrot, fyrrverandi leiðtoga hinnar konungssinnuðu stjórnarandstöðu, persónugerving líberalismans, nullité grave,[1] hinnar vand-

[1] nullité grave: uppblásið núll.

virku þröngsýni, sem átti ekki einungis konungsættarinnar að hefna, heldur einnig þess, að byltingarmenn höfðu lokað honum leiðinni að forsætisráðherraembættinu. Þetta var trygging fyrir fullkomnu miskunnarleysi. Barrot þessi var því útnefndur forseti rannsóknarnefndarinnar, og hann setti á svið fullkomin réttarhöld gegn febrúarbyltingunni, sem draga má saman á eftirfarandi hátt: 17. maí mótmælaganga, 16. apríl samsæri, 15. maí tilræði, 22. júní borgarastríð! Hvers vegna lét hann ekki glæparannsóknir sínar ná allt til 24. febrúar? „Journal des Débats"[1] svaraði: 24. febrúar jafngildir stofnun Rómaborgar. Uppruni ríkjanna er alltaf umvafinn goðsögn, sem menn verða að trúa og mega ekki rökræða um. Louis Blanc og Caussidière voru dregnir fyrir rétt. Þjóðþingið fullkomnaði hreinsunina í sínum eigin röðum, sem það hafði hafið 15. maí.

Þjóðþingið hafnaði áætlun bráðabirgðastjórnarinnar um skattlagningu auðmagnsins, sem Goudchaux hafði tekið upp að nýju, afnam lögin um takmörkun vinnutímans við tíu klukkustundir, innleiddi aftur skuldafangelsi og útilokaði frá kviðdómum þann stóra hluta frönsku þjóðarinnar, sem hvorki kann að lesa né skrifa. Hvers vegna var ekki hægt að hafa sama hátt á um kosningarréttinn? Leitt var aftur í lög tryggingargjald fyrir blöð og félagafrelsi takmarkað.

En í flýti sínum við að endurreisa hinar gömlu borgaralegu tryggingar og eyða öllum sporum, sem öldur byltingarinnar höfðu látið eftir sig, rákust borgaralegir lýðveldissinnar á mótspyrnu, sem stefndi þeim í óvænta hættu.

Engir höfðu í júní barizt af meira ofstæki til að bjarga eignarréttinum og endurreisa lánastarfsemi en smáborgararnir í París – kaffihúsaeigendur, veitingamenn, marchands de vins,[2] smákaupmenn, kramarar, starfsmenn o. s. frv. Búðarliðið hafði mannað sig upp og ráðizt gegn götuvígjunum, til að endurreisa hina eðlilegu hringrás frá götunni inn í búðina. En að baki götuvígjanna stóðu viðskiptamenn og skuldunautar, framan þeirra lánardrottnar búðareigendanna. Og þegar götuvígin höfðu verið eyðilögð, verkamenn brotnir á bak aftur og búðareigendur sneru aftur til húsakynna sinna í sigurvímu, var dyrunum lokað fyrir þeim af bjargvætti eignarréttarins, opinberum erindreka lánardrottna, sem veifaði framan í þá hótunarbréfum: Gjalddagi víxils! Gjalddagi húsaleigu! Gjalddagi skuldakröfu! Lögtak á verzluninni! Gjaldþrota verzlunareigandi!

Verndun eignarréttarins! En húsið, sem þeir bjuggu í, var ekki eign þeirra; búðin, sem þeir höfðu til umráða, var ekki eign

[1] „Journal des Débats: íhaldssamt dagblað, gefið út í París frá 1789. – *Útg.*
[2] marchands de vins: vínsalar.

þeirra; vörurnar, sem þeir verzluðu með, voru ekki eign þeirra. Hvorki verzlun þeirra, né diskurinn, sem þeir átu af, né rúmið, sem þeir sváfu í, voru lengur eign þeirra. Einmitt gegn þeim urðu aðrir að vernda eignarréttinn: húseigandinn, sem leigt hafði húsið, bankastjórinn, sem gefið hafði út víxilinn, kapítalistinn, sem lagt hafði fram fé, verksmiðjueigandinn, sem trúað hafði þeim fyrir að selja vörurnar, stórkaupmaðurinn, sem lánað hafði þeim hráefni. Endurreisn lánastarfsemi! En lánaauðmagnið sýndi nú lífskraft sinn og almætti með því að svipta skuldunautinn, sem ekki gat staðið í skilum, húsnæði ásamt fjölskyldu hans, afhenda fátæklegar eignir hans auðmagninu og varpa honum sjálfum í skuldafangelsið, sem risið hafði að nýju yfir val júníuppreisnarmannanna.

Smáborgararnir sáu með skelfingu, að þeir höfðu mótspyrnulaust gengið á vald lánardrottnum sínum, þegar þeir bældu niður uppreisn verkamanna. Gjaldþrot þeirra, sem dregizt hafði á langinn og dulizt síðan í febrúar, varð eftir júní opinbert.

Nafneignir þeirra höfðu verið látnar óáreittar, meðan enn þurfti að knýja þá til að berjast í nafni eignarréttarins. Nú, þegar búið var að gera upp hinar miklu sakir við öreigana, var hægt að snúa sér að hinum minni, er snertu smáeigendur. Í París námu skuldakröfurnar samtals meira en 21 milljón franka, úti á landi meira en 11 milljónum. Í meira en 70 000 húsum í París höfðu smáatvinnurekendur ekki greitt leigu síðan í febrúar.

Þar sem þjóðþingið hafði efnt til rannsóknar á pólitískum sökum aftur til febrúar, kröfðust nú smáborgararnir rannsóknar á borgaralegum skuldum aftur til 24. febrúar. Þeir söfnuðust saman á kauphöllinni og kröfðust þess með hótunum, að hverjum kaupmanni, er sannað gæti, að hann hefði aðeins orðið gjaldþrota vegna þeirra truflana, er byltingin olli, og hann hefði 24. febrúar staðið vel að vígi, yrði framlengdur greiðslufrestur og lánardrottni hans gert að aflýsa kröfu sinni gegn hæfilegri vaxtagreiðslu. Sem frumvarp að lögum kom þetta mál fyrir þjóðþingið í formi „concordat à l'amiable“.[1] Þingið var á báðum áttum; þá barst allt í einu sú frétt að konur og börn uppreisnarmanna væru að undirbúa við Porte St. Denis beiðni um sakaruppgjöf.

Frammi fyrir hinni endurupprisnu júnívofu sló felmtri á smáborgarana og þingið varð aftur miskunnarlaust. Concordat à l'amiable, vináttusamkomulagi lánardrottna og skuldunauta, var í höfuðatriðum hafnað.

Löngu eftir að fulltrúar hinnar lýðveldissinnuðu borgarastétt-

[1] concordat à l'amiable: vináttusamkomulag.

ar á þjóðþinginu höfðu útskúfað lýðræðissinnuðum fulltrúum smáborgaranna, öðluðust þessi vinslit á þingi sína borgaralegu, áþreifanlega efnahagslegu þýðingu, en smáborgaralegir skuldunautar voru gefnir borgaralegum lánardrottnum á vald. Mikill hluti hinna fyrrnefndu varð gjörsamlega gjaldþrota og afgangurinn gat aðeins haldið starfsemi sinni áfram við slík skilyrði, að þeir urðu ánauðugir þrælar auðmagnsins. 22. ágúst hafnaði þjóðþingið vináttusamkomulaginu, 19. september 1848, mitt í umsátursástandinu, voru Loðvík prins Bonaparte og fanginn í Vincennes, kommúnistinn Raspail, kjörnir fulltrúar Parísar. Borgarastéttin kaus hins vegar gyðinginn, kauphallarbraskarann og orleanistann Fould. Þannig var frá öllum hliðum lýst stríði á hendur stjórnlagaþinginu, gegn borgaralegum lýðveldissinnum, gegn Cavaignac.

Það þarfnast ekki nánari skýringa, hversu fjöldagjaldþrot smáborgaranna í París hafði sínar afleiðingar langt út yfir raðir beinna fórnarlamba og lamaði aftur allt hið borgaralega viðskiptakerfi, samtímis því að greiðsluhalli ríkisins óx að nýju af völdum júníuppreisnarinnar, en ríkistekjurnar lækkuðu stöðugt vegna stöðnunar í framleiðslu, takmarkaðrar neyzlu og minnkandi innflutnings. Cavaignac og þjóðþingið gátu ekki gripið til neins úrræðis annars en nýrrar lántöku, sem beygði þá enn rækilegar undir ok fésýsluvaldsins.

Ef smáborgararnir höfðu uppskorið ávexti júnísigursins í gjaldþroti og lögtaki, höfðu á hinn bóginn janitsjarar[1] Cavaignacs, hreyfanlega varðliðið, hlotið ríkuleg laun af kvenþjóð Parísar, og þessir ungu „bjargvættir þjóðfélagsins“ voru hylltir í salarkynnum Marrasts, riddara þrílita fánans, sem lék í senn höfuðkempu og hirðsöngvara hins virðulega lýðveldis. Þessi samkvæmisforréttindi og miklu hærra kaup hreyfanlega varðliðsins vakti reiði hersins, og jafnframt leystust upp allar þjóðhollustublekkingar, sem borgaralegir lýðveldissinnar og blað þeirra „National“ höfðu á dögum Loðvíks Filippusar notað til að tengja sér hluta hersins og bændastéttarinnar. Sáttasemjarahlutverk þjóðþingsins og Cavaignacs á Norður-Ítalíu, þar sem Frakkar ásamt Englendingum sviku Ítali í hendur Austurríkis – þessi eina athöfn stjórnarinnar eyðilagði átján stjórnarandstöðuár blaðsins „National“. Engin stjórn var óþjóðlegri en sú, sem stuðningsmenn „National“ mynduðu, engin var háðari Englandi, þótt blaðið hefði á stjórnarárum Loðvíks Filippusar daglega heimfært upp á England orð Catos: Carthaginem esse delendam[2]; engin sýndi helga sambandinu meiri undirlægjuhátt, og þó hafði blaðið

[1] Janitsjarar: tyrkneskar úrvalsherdeildir.
[2] Karþagó verður að eyðast.

krafizt þess af Guizot, að hann rifi í sundur Vínarsamningana. Kaldhæðni sögunnar gerði Bastide, fyrrverandi utanríkismálaritstjóra „National", að utanríkismálaráðherra Frakklands, til að hann gæti hrakið sérhverja fyrri blaðagrein sína með sérhverri embættistilkynningu.

Eitt augnablik höfðu herinn og bændastéttin trúað því, að með hernaðareinræðinu kæmi um leið á dagskrá styrjöld út á við og „dýrð Frakklands". En Cavaignac táknaði ekki einræðisvald sverðsins yfir borgaralegu þjóðfélagi, heldur einræðisvald borgarastéttarinnar með hjálp sverðsins. Og nú þurfti hún ekki hermenn til annars en lögreglustarfa. Cavaignac faldi undir yfirborðsstrangleik forn-lýðveldissinnaðrar afneitunar sviplausa undirgefni undir niðurlægjandi skilyrði síns borgaralega starfs. L'argent n'a pas de maître! Peningarnir viðurkenna engan herra! Þetta gamla kjörorð þriðju stéttarinnar göfgaði hann og þjóðþingið allt með því að þýða það á pólitískt mál: Borgarastéttin hefur engan konung, hið rétta form fyrir völd hennar er lýðveldið.

Að fullkomna þetta form, semja lýðveldisstjórnarskrá – í því var fólgið hið mikla verkefni stjórnlagaþjóðþingsins. Umbreyting hins kristilega dagatals í lýðveldissinnað, heilags Bartólómeusar í heilagan Robespierre, breytir jafn litlu um veðurfarið og þessi stjórnarskrá breytti eða átti að breyta í borgaralegu þjóðfélagi. Fyrir utan klæðaskiptin gerði hún ekkert annað en skrásetja fullgerðar staðreyndir. Þannig staðfesti hún hátíðlega staðreyndir lýðveldisins, hins almenna kosningarréttar, sameinaðs þjóðþings með löggjafarvaldi í stað hinna tveggja takmörkuðu stjórnlagaþingdeilda. Þannig staðfesti og reglubatt hún einræði Cavaignacs með því að setja í stað hins stöðuga, ábyrgðarlausa erfðakonungdæmis tímabundna og ábyrga kjörkonungsstjórn: forsetastjórn til fjögurra ára. Þannig gerði hún enn fremur að stjórnlögum hin sérstöku völd, sem skelft þjóðþingið hafði eftir 15. maí og 25. júní fengið þingforsetanum, til tryggingar öryggi sínu. Allur afgangur stjórnarskrárinnar fjallaði um nafngiftir einar. Af vélaverki hins gamla konungdæmis voru rifnar konungssinnaðar áletranir og lýðveldissinnaðar settar í staðinn.

Marrast, fyrrverandi aðalritstjóri „National" og núverandi aðalritstjóri stjórnarskrárinnar, sýndi ótvíræða hæfileika í þessu akademíska hlutverki.

Stjórnlagaþjóðþingið líktist embættismanni þeim í Chile, sem reyndi að lagfæra eignarhald á jörðum með landmælingum, á sama augnabliki og fyrsti hávaðinn heyrðist frá eldgosi því, sem síðan svipti jörðinni undan fótum hans. Á meðan það skilgreindi fræðilega form hins borgaralega lýðveldis, hélt það í raun og veru

ekki völdum sínum nema með afnámi allra formúlna, með ofbeldi sans phrase,[1] með umsátursástandi. Það var framlengt tveim dögum áður en þingið byrjaði á stjórnarskrársamningunni. Áður fyrr voru stjórnarskrár samdar og samþykktar, þegar ferli hinnar þjóðfélagslegu byltingar hafði náð ákveðnum hvíldarpunkti, hinar nýju stéttaaðstæður höfðu festst í sessi og innbyrðis ósátt brot hinnar ríkjandi stéttar gerðu með sér samkomulag, sem gerði þeim kleift að halda áfram baráttunni milli sín og þó útiloka frá henni örmagna alþýðuna. En þessi stjórnarskrá staðfesti hins vegar enga þjóðfélagsbyltingu, heldur augnablikssigur hins gamla þjóðfélags yfir byltingunni.

Í fyrsta stjórnarskrárfrumvarpinu, er samið var fyrir júní, var enn talað um „droit au travail", réttinn til vinnunnar, en það er hin fyrsta ófullkomna formúla, sem öreigastéttin tjáir með byltingarkröfur sínar. Því var nú breytt í droit à l'assistance, réttinn til opinberrar aðstoðar, og hvaða nútímaríki styður ekki fátæklinga sína með einum eða öðrum hætti? Rétturinn til vinnu er í borgaralegum skilningi endileysa, vorkunnarverð fróm ósk, en að baki réttinum til vinnu standa yfirráð yfir auðmagninu, að baki yfirráðum yfir auðmagninu eignarhald á framleiðslutækjum, yfirfærsla þeirra í hendur hinnar sameinuðu verkalýðsstéttar, þ. e. afnám launavinnunnar, auðmagnsins og sambands þeirra. Bak við „réttinn til vinnu" stóð júníuppreisnin. Stjórnlagaþingið, sem í raun og veru setti hina byltingarsinnuðu öreiga „hors la loi", utangarðs við lögin, varð að útskúfa kjörorði þeirra úr stjórnarskránni, grundvallarlögum allra laga, og bannfæra „réttinn til vinnu". En það lét sér þetta ekki nægja. Eins og Platon útilokaði skáldin úr ríki sínu, útilokaði þingið úr sínu ríki um alla eilífð – stighækkandi tekjuskatt. Og stighækkandi tekjuskattur er ekki aðeins borgaraleg ráðstöfun, framkvæmanleg innan ramma ríkjandi framleiðsluafstæðna í meiri eða minni mæli; hann var eina ráðið til að tengja millistéttir hins borgaralega þjóðfélags hinu „heiðarlega lýðveldi", draga úr skuldabagga ríkisins og veita hinum andlýðveldissinnaða meirihluta borgarastéttarinnar viðnám.

Þegar „concordats à l'amiable" voru til umræðu, höfðu hinir þrílitu lýðveldissinnar í raun og veru fórnað smáborgurunum í þágu stórborgarastéttarinnar. Þessa einstöku staðreynd gerðu þeir nú að algildri reglu með banni stighækkandi skatta. Þeir lögðu borgaralegar umbætur að jöfnu við öreigabyltingu. En hvaða stétt gat þá lýðveldi þeirra stuðzt við? Stórborgarastéttina. Og meirihluti hennar var andvígur lýðveldinu. Eins og hún hag-

[1] Ofbeldi sans phrase: nakið ofbeldi.

nýtti sér lýðveldissinnana í kringum „National" til að festa aftur í sessi hið gamla efnahagskerfi, þannig ætlaði hún nú að nota sér hinar endurreistu þjóðfélagsaðstæður til að endurreisa viðeigandi pólitískt skipulag. Þegar í októberbyrjun neyddist Cavaignac til að gera Dufaure og Vivien, fyrrverandi ráðherra Loðvíks Filippusar, að ráðherrum lýðveldisins, þrátt fyrir hávær mótmæli grunnhygginna hreintrúarmanna í hans eigin flokki.

Þótt hin þrílita stjórnarskrá hafnaði öllu samkomulagi við smáborgarastéttina og kynni ekki að tengja neina þjóðfélagsstétt við hið nýja stjórnarform, flýtti hún sér á hinn bóginn að veita þeim þjóðfélagshóp, sem var ofstækisfyllsti og þrákelknasti málsvari hins gamla ríkisvalds, aftur þá embættishelgi, sem hann naut frá fornu fari. Hún festi það aftur í stjórnlögum, að dómarar væru óafsetjanlegir, en við þessu hafði bráðabirgðastjórnin reynt að hagga. Hinn eini konungur, sem hún hafði sett af, reis upp frá dauðum í tylftatali í mynd þessara óafsetjanlegu rannsóknardómara.

Í frönskum blöðum hefur mikið verið skrifað um mótsagnirnar í stjórnarskrá Marrasts, t. d. það, að hún gerði ráð fyrir tveim höfðum ríkisins, þjóðþinginu og forsetanum.

En umfangsmesta mótsögn þessarar stjórnarskrár er fólgin í því, að þeim stéttum, sem hún á að halda í eilífum félagslegum þrældómi, öreigum, bændum og smáborgurum, veitir hún með almennum kosningarrétti aðgang að pólitísku valdi. Og þá stétt, sem hún á að festa í þjóðfélagslegum valdasessi, borgarastéttina, sviptir hún pólitískri tryggingu fyrir þessu valdi. Hún neyðir hana til að laga pólitísk völd sín að lýðræðislegum skilyrðum, sem á hverju augnabliki geta leitt til sigurs fjandsamlegra stétta og stofnað sjálfum grundvelli borgaralegs þjóðfélags í hættu. Af einum aðilanum krefst hún þess að hann stigi ekki skrefið fram á við frá pólitískri frelsun til félagslegrar, af hinum, að hann stigi ekki skrefið aftur á bak frá félagslegri endurreisn til pólitískrar.

Borgaralegir lýðveldissinnar skeyttu lítið um þessar mótsagnir. Jafnskjótt og þeir hættu að vera ómissandi – og ómissandi voru þeir aðeins sem forustusveit hins gamla þjóðfélags í baráttunni gegn hinum byltingarsinnuðu öreigum, nokkrar vikur eftir sigurinn – breyttust þeir úr pólitískum flokki í klíku. Og á stjórnarskrána litu þeir sem baktjaldamakk eitt. Það sem hún átti að festa með stjórnlögum, voru fyrst og fremst völd klíkunnar. Forsetinn átti ekki að verða annað en framlenging á Cavaignac og löggjafarþingið framlenging á stjórnlagaþinginu. Pólitískt vald alþýðunnar vildu þeir gera að hjómi einu og leika sér síðan að þessu gervivaldi til að ógna meirihluta borgarastéttarinnar stöð-

ugt með tvíkosti júnídaganna: Veldi „National"-klíkunnar eða stjórnleysi.

Stjórnarskrársamningunni, sem hófst 4. september, var lokið 23. október. 2. september hafði stjórnlagaþingið ákveðið að hætta ekki störfum, fyrr en búið væri að semja viðbótarlög við stjórnarskrána. Eigi að síður ákvað það nú að blása þegar 10. desember lífi í sitt kærasta sköpunarverk, forsetann, löngu áður en ferill þess var á enda. Það var fullkomlega öruggt um, að þessi stjórnarskrár-homunculus[1] yrði verðugur sonur móður sinnar. Til frekara öryggis var ákveðið, að ef enginn af frambjóðendunum fengi tvær milljónir atkvæða, skyldi í stað þjóðaratkvæðagreiðslu þingið kjósa forseta.

Þessar ráðstafanir voru árangurslausar. Fyrsti dagur hinnar framkvæmdu stjórnarskrár var síðasti valdadagur stjórnlagaþingsins. Í kosningakössunum lá dauðadómur þess falinn. Það leitaði að „syni móður sinnar", en fann í þess stað „bróðurson föðurbróður síns". Sál Cavaignac felldi sína milljón atkvæða, en Davíð Napóleon felldi sínar sex milljónir atkvæða. Sál Cavaignac beið sexfaldan ósigur.

Hinn 10. desember var dagur bændauppreisnarinnar. Á þessum degi hófst febrúarmánuður franskra bænda. Tákn þátttöku þeirra í byltingarhreyfingunni, frumstætt og útsmogið í sínum einfeldnislega þorparaskap, fíflslegt og háfleygt í senn, þessi slægðarlega hégilja, átakanlegi skopleikur, þessi heimskulegi og þó bráðsnjalli anakrónismi, heimssöguleg strákapör og óskiljanlegar dulrúnir fyrir siðmenntaða skynsemi – þetta tákn bar ótvírætt svipmót þeirrar stéttar, sem er fulltrúi hálfsiðunar í skauti siðmenningarinnar. Lýðveldið hafði birzt henni í gervi skattinnheimtumanns, nú birtist hún lýðveldinu í gervi keisara. Napóleon var sá eini, sem nægilega hafði barizt fyrir hagsmunum og óskadraumum þeirrar bændastéttar, sem sköpuð hafði verið árið 1789. Með því að letra nafn hans á ásjónu lýðveldisins, krafðist hún stríðs út á við og uppfyllingar stéttahagsmuna sinna inn á við. Napóleon var bændunum ekki persóna, heldur stefnuskrá. Með fánum og strengjaleik gengu þeir til kjörstaða, og vígorð þeirra voru: Plus d'impôts, à bas les riches, à bas la république! vive l'Empereur! Enga skatta framar, niður með auðmennina, niður með lýðveldið, lifi keisarinn! Að baki keisarans leyndist bændastríðið. Lýðveldið, sem þeir höfðu hafnað með atkvæðum sínum, var lýðveldi auðmannanna.

10. desember var stjórnarbylting bændanna, sem velti ríkjandi stjórn úr sessi. Og frá þessum degi, þegar þeir höfðu steypt rík-

[1] homunculus: mannkríli.

isstjórn Frakklands og sett aðra í staðinn, fylgdust þeir stöðugt með því sem gerðist í París. Eftir að þeir höfðu einu sinni gerzt virkir þátttakendur á leiksviði byltingarinnar, var ekki hægt að þröngva þeim aftur inn í hlutverk hins athafna- og viljalausa kórs.

Aðrar stéttir lögðu sitt af mörkum til að gera kosningasigur bændanna sem fullkomnastan. Fyrir öreigana jafngilti kosning Napóleons afsetningu Cavaignacs, hruni stjórnlagaþingsins, ósigri borgaralegra lýðveldissinna, ógildingu júníósigursins. Fyrir smáborgarastéttina táknaði Napóleon völd skuldunautsins yfir lánardrottninum. Fyrir meirihluta stórborgarastéttarinnar var kosning Napóleons opinber vinslit við flokk þann, sem hún hafði um augnabliksskeið orðið að styðjast við gegn byltingunni, en varð henni óþolandi, þegar hann reyndi að staðfesta augnabliksvígstöðu sína með stjórnarskrá. Napóleon í stað Cavaignacs jafngilti í augum hennar konungdæmi í stað lýðveldis, upphafi að endurreisn konungsveldis; kosning hans var annað hvort feimnislegur hollustuvottur við Orleansættina eða liljuna falda innan um fjólur.[1] Síðast en ekki sízt kaus herinn Napóleon gegn hinu hreyfanlega varðliði, gegn friðardýrkuninni, og krafðist þannig stríðs.

Þannig gerðist það, eins og „Neue Rheinische Zeitung" komst að orði, að einfaldasti maður í Frakklandi öðlaðist margbrotnari þýðingu en nokkur annar. Einmitt vegna þess að hann var ekkert, gat hann táknað allt annað en sjálfan sig. En hversu ólíka merkingu sem hinar ýmsu stéttir kunnu að leggja í nafn Napóleons, voru allar sammála um eitt: Niður með „National"-flokkinn, niður með Cavaignac, niður með stjórnlagaþingið, niður með hið borgaralega lýðveldi. Dufaure ráðherra kvað upp úr um þetta á fundi stjórnlagaþingsins: 10. desember er nýr 24. febrúar.

Smáborgarar og öreigar höfðu því nær í heilu lagi kosið Napóleon, til þess að klekkja á Cavaignac og tryggja með sameiningu atkvæðanna það, að stjórnlagaþingið gæti ekki tekið úrslitaákvörðun. Og þó hafði framsæknasti hluti beggja stétta boðið fram sinn eigin fulltrúa. Napóleon var samnefnari allra flokka, sem tóku höndum saman gegn hinu borgaralega lýðveldi. Ledru-Rollin og Raspail táknuðu hvor um sig sérstaka stétt – hinn fyrrnefndi lýðræðissinnaða smáborgara, hinn síðarnefndi byltingarsinnaða öreiga. Atkvæði þau, sem féllu á Raspail – öreigarnir og sósíalískir talsmenn þeirra fóru ekki dult með það – áttu ekki að vera annað en mótmælaaðgerð, mótmæli gegn forsetaembættinu, þ. e. a. s. gegn sjálfri stjórnarskránni og þar með

[1] Liljan var tákn hinnar lögmætu Bourbon-konungsættar. – *Útg.*

einnig gegn Ledru-Rollin. Þetta var í fyrsta sinn, sem öreigarnir komu fram sem sjálfstæður stjórnmálaflokkur, óháður flokki lýðræðissinna. Þessi síðarnefndi flokkur – lýðræðissinnaðir smáborgarar og fulltrúar þeirra á þingi, Fjallið – litu á framboð Ledru-Rollins með allri þeirri hátíðlegu alvöru, sem þeim er svo tamt að blekkja sjálfa sig með. Þetta var reyndar síðasta tilraun þeirra til að mynda sjálfstæðan flokk andspænis öreigunum. Það voru ekki einungis borgaralegir lýðveldissinnar, heldur einnig lýðræðissinnaðir smáborgarar og Fjallið, sem ósigur biðu 10. desember.

Í Frakklandi stóðu nú Fjallið og Napóleon hlið við hlið – það var áþreifanleg sönnun þess, að hvort tveggja var aðeins lífvana skopstæling á hinum sögulegu fyrirmyndum, er þau tóku nöfn sín frá. Loðvík Napóleon með keisarahattinn og örninn var engu lélegri skopstæling á hinum gamla Napóleon en Fjallið með slagorðum sínum frá 1793 og lýðskrumslátum var á hinu sögulega fjalli. Hin arftekna dýrkun á árinu 1793 leið þannig undir lok samtímis dýrkuninni á Napóleon. Byltingin gat ekki staðið á eigin fótum, fyrr en hún hafði eignazt nýtt og frumlegt nafn, og það gat hún ekki, fyrr en hin byltingarsinnaða stétt nútímans, iðnaðaröreigarnir, tóku við forustuhlutverki. 10. desember stóðu fylgismenn Fjallsins uppi áttavilltir og ráðlausir, því að líkingin við hina sígildu byltingu hafði skyndilega verið rofin af svívirðilegu strákapari bændanna.

20. desember baðst Cavaignac lausnar frá embætti, og stjórnlagaþingið lýsti Loðvík Napóleon forseta lýðveldisins. 19. desember, á síðasta degi einræðisins, hafnaði það tillögunni um sakaruppgjöf fyrir júníuppreisnarmennina. Að afnema tilskipunina frá 27. júní, sem hafði hrakið 15 000 uppreisnarmenn í útlegð án dóms og laga, hefði það ekki jafngilt ógildingu júníbardagans sjálfs?

Odilon Barrot, síðasti ráðherra Loðvíks Filippusar, varð fyrsti ráðherra Loðvíks Napóleons. Á sama hátt og Loðvík Napóleon taldi ekki valdaár sín frá 10. desember, heldur frá samþykkt öldungaráðsins árið 1804, fann hann sér forsætisráðherra, sem taldi stjórn sína ekki hefjast 20. desember, heldur með konunglegri tilskipun 24. febrúar. Sem lögmætur erfingi Loðvíks Filippusar mildaði Loðvík Napóleon stjórnarskiptin með því að halda sama ráðuneyti, sem þar að auki hafði ekki slitnað frá tímanum, þar eð því hafði ekki gefizt tími til að sýna neitt lífsmark af sér.

Leiðtogar hinna konungssinnuðu brota borgarastéttarinnar mæltu með þessari ráðstöfun. Leiðtogi hinnar gömlu konungssinnuðu stjórnarandstöðu, sem án þess að hann vissi hafði rutt brautina lýðveldissinnunum úr National-klíkunni, var enn betur

til þess fallinn að ryðja með fullri meðvitund brautina frá borgaralegu lýðveldi til konungsstjórnar.

Odilon Barrot var leiðtogi hins eina af gömlu stjórnarandstöðuflokkunum, sem ætíð hafði árangurslaust sótzt eftir ráðherraembætti og því enn ekki glatað notagildi sínu. Byltingin kom á skömmum tíma hinum fyrrverandi andstöðuflokkum til valda, hverjum á eftir öðrum, svo að þeir yrðu ekki aðeins með athöfnum sínum, heldur einnig í orði, að afneita sínum fyrri yfirlýsingum og afturkalla þær, og að lokum varpaði þjóðin þeim samanspyrtum í eitt á ruslahaug sögunnar. Og Barrot, þessari holdtekju borgaralegrar frjálslyndisstefnu, sem í átján ár hafði falið þorparaskap sinn og gáfnatregðu undir alvörugefnu ytra borði, var nú ekki hlíft við neinum svikum. En ef það kom öðru hvoru fyrir, að hin skarpa mótsögn milli lárviðarsveiga fortíðarinnar og þistla nútímans skaut honum skelk í bringu, öðlaðist hann aftur ráðherratíguleik sinn og sjálfstraust með því einu að líta í spegil. Í speglinum blasti við honum Guizot, sem hann hafði alltaf öfundað og látið stjórnast af, Guizot í eigin persónu, en með hinni ólympsku ásjónu Odilons. Það eina, sem honum yfirsást, voru asnaeyrun.

Barrot hins 24. febrúar opinberaði fyrst sitt rétta eðli í Barrot hins 20. desember. Hann, orleanistinn og Voltaire-sinninn, kaus sér fyrir menntamálaráðherra – legitimistann og jesúítann Falloux.

Nokkrum dögum síðar var Malthusarsinninn Léon Foucher útnefndur innanríkismálaráðherra. Lögin, trúarbrögðin, pólitíska hagfræðin – allt þetta rúmaði ráðuneyti Barrots í skauti sér og sameinaði þar að auki legitimista og orleanista. Það vantaði aðeins bónapartistann. Bónaparte faldi enn þá löngun sína til að gerast Napóleon, því að Soulouque lék enn ekki hlutverk Toussaint Louvertures.

„National"-flokkurinn var þegar í stað sviptur öllum stöðum, sem hann hafði hreiðrað um sig í. Í stöður lögreglustjóra, póstmálastjóra, saksóknara ríkisins og borgarstjóra Parísar voru skipuð gömul handbendi konungsstjórnarinnar. Legitimistinn Changarnier var skipaður yfirmaður alls þjóðvarðliðsins í Seine-héraði, og þar að auki hins hreyfanlega varðliðs og fastaliðs fyrstu herdeildar. Orleanistinn Bugeaud var skipaður yfirmaður Alpahersins. Ekkert lát varð á þessum embættismannaskiptum, meðan stjórn Barrots sat. Fyrsta verk stjórnar hans var að endurreisa hið konungssinnaða stjórnarstarfslið. Á augabragði breyttist hið opinbera leiksvið – leiktjöld, búningar, mál, leikarar, statistar, hvíslarar, staða persónanna, efni leiksins, inntak áreksturins, ástandið allt. Aðeins hið úrelta stjórnlagaþing var enn þá á sín-

um stað. En frá og með því augnabliki, er þjóðþingið hafði lyft Bonaparte í valdasess, Bonaparte Barrot og Barrot Changarnier, lauk í Frakklandi tímabili hinnar lýðveldislegu stjórnlagasetningar og hófst tímabil hins löggilta lýðveldis. Og hvað átti stjórnlagaþing að aðhafast í löggiltu lýðveldi? Eftir að sköpun jarðarinnar lauk, gat skapari hennar ekki annað gert en flýja upp til himna. Stjórnlagaþingið var ákveðið í að fara ekki að dæmi hans; það var síðasta hæli borgaralegra lýðveldissinna. Þótt það hefði verið svipt öllu framkvæmdavaldi, var það enn almáttugt á sviði löggjafarvalds. Fyrsta hugsun þess var sú, að halda dauðahaldi í þá valdastöðu, sem því var eftir skilin, og neyta hennar til að vinna aftur það, sem tapazt hafði. Nóg var að setja í stað ráðuneytis Barrots ráðuneyti „National"-klíkunnar, og hið konungssinnaða starfslið hlaut þegar í stað að rýma stjórnarskrifstofurnar, en hin þrílita fylking legði þær sigri hrósandi undir sig. Þjóðþingið ákvað að velta ráðuneytinu úr sessi, og ráðuneytið gaf sjálft slíkan höggstað á sér, að þingið gat einskis betra æskt.

Eins og við munum, þýddi Loðvík Bonaparte fyrir bændurna fyrst og fremst: Enga skatta framar! Sex daga hafði hann setið á forsetastólnum, og sjöunda daginn, 27. desember, lagði ráðuneyti hans til, að framlengdur yrði saltskatturinn, sem bráðabirgðastjórnin hafði lýst afnuminn. Saltskatturinn nýtur ásamt vínskattinum þeirra forréttinda, að vera syndahafur alls hins gamla franska fjármálakerfis, sér í lagi í augum sveitafólks. Ráðuneyti Barrots gat ekki svert hinn útvalda fulltrúa bænda meira í augum kjósenda sinna með neinu öðru en þessu: Endurnýjun saltskattsins! Með saltskattinum glataði Bonaparte byltingarsalti sínu – Napóleon bændauppreisnarinnar leystist upp eins og þokuslæðingur, og ekkert varð eftir annað en hin mikla óþekkta stærð í baktjaldamakki borgaralegra konungssinna. Það var engin tilviljun, að ráðuneyti Barrots gerði þessi tillitslausu og grófu svik að fyrstu stjórnarathöfn forsetans.

Stjórnlagaþingið tók að sínu leyti tveim höndum þessu tvöfalda tækifæri til að fella ráðuneytið og koma sjálft fram sem fulltrúi hagsmuna bændanna, gagnvart útvöldum fulltrúa þeirra. Það hafnaði tillögu fjármálaráðherrans, lækkaði saltskattinn niður í þriðjung fyrri upphæðar, jók þannig ríkisskuldina, sem nam 560 milljónum franka, enn um 60 milljónir, og beið eftir þessa vantraustsyfirlýsingu þess, að ráðuneytið bæðist lausnar. Svo lítill var skilningur þess á hinum nýja heimi, sem það lifði í, og sinni nýju aðstöðu. Að baki ráðuneytisins stóð forsetinn og að baki forsetanum stóðu þær sex milljónir kjósenda, sem lýst höfðu með atkvæðum sínum vantrausti á stjórnlagaþingið. Stjórnlagaþingið endurgalt þjóðinni vantraustsyfirlýsingu hennar. Þessi viðskipti

voru hlægileg. Þingið gleymdi því, að atkvæði þess höfðu ekkert gildi lengur. Höfnun frumvarpsins um saltskattinn gerði Bonaparte og ráðuneyti hans aðeins enn ákveðnari í að binda endi á stjórnlagaþingið. Nú hófst hið langa einvígi, sem tekur yfir allan síðari helminginn af æviferli þingsins. 29. janúar, 21. marz og 8. maí eru merkustu dagarnir í þessari atburðarás, undanfarar að 13. júní.

Ýmsir Frakkar, t. d. Louis Blanc, hafa litið á atburðina 29. janúar sem opinberun mótsagnar í stjórnarskránni, mótsagnarinnar milli löggefandi og óuppleysanlegs þjóðþings, er kosið var með almennum kosningarrétti, og forseta, sem í orði kveðnu var ábyrgur fyrir því, en í raun og veru var einnig staðfestur af almennum kosningarrétti og sameinaði m. a. s. í eitt öll þau atkvæði, sem fallið höfðu á einstaka meðlimi þjóðþingsins og þannig sundrazt mörg hundruð sinnum og fór þar að auki með allt framkvæmdavaldið, svo að þjóðþinginu var ekki annað vald eftir skilið en siðferðilegt. Þessi túlkun á atburðum hins 29. janúar ruglar saman tungumáli baráttunnar í ræðustólum, blöðum og klúbbum annars vegar og raunverulegu innihaldi hennar hins vegar. Loðvík Bonaparte gegn stjórnlagaþjóðþinginu táknaði ekki eitt stjórnarskrárlegt vald gegn öðru, né framkvæmdavaldið gegn löggjafarvaldinu, heldur sjálft hið löggilta borgaralega lýðveldi gegn þeim verkfærum, sem það hafði notað til að koma sér á laggirnar, gegn metorðastriti, baktjaldamakki og ídeólógískum kröfum hins byltingarsinnaða brots borgarastéttarinnar, sem stofnað hafði lýðveldið og sá nú sér til undrunar, að það leit út eins og endurreist konungdæmi, og vildi því með valdi framlengja stofnunartímabilið með tilheyrandi skilyrðum, blekkingum, orðfæri og persónum, og hindra þannig hið fullþroskaða borgaralega lýðveldi í að taka á sig sína fullkomnu og eiginlegu mynd.

Eins og stjórnlagaþingið hafði sín megin hinn fallna forseta Cavaignac, þannig leitaðist Bonaparte við að koma sér upp löggefandi þjóðþingi, er honum væri undirgefið, þ. e. þjóðþingi hins fullmótaða borgaralega lýðveldis.

Kosning Bonapartes var ekki fullkomnuð, fyrr en hún setti í stað eins nafns hinar mörgu þýðingar þess, fyrr en hún endurtók sig í kosningu nýs þjóðþings. 10. desember hafði ógilt umboð hins gamla. Andstæðingarnir, sem mættust 29. janúar, voru því ekki forseti og þjóðþing sama lýðveldis, heldur þjóðþing lýðveldis í mótun og forseti fullmótaðs lýðveldis, tvö öfl, sem táknuðu tvö mismunandi tímabil á æviferli lýðveldisins. Annars vegar stóð hið litla lýðveldissinnaða brot borgarastéttarinnar, sem eitt hafði getað lýst yfir lýðveldi, varið það gegn hinum byltingar-

sinnuðu öreigum með götubardögum og ógnarstjórn, og lagt síðan hinn hugmyndalega grundvöll að því með stjórnarskránni; hins vegar var það hinn konungssinnaði meirihluti borgarastéttarinnar, sem var eini aðilinn, er farið gat með völdin í þessu fullmótaða borgaralega lýðveldi, losað stjórnarskrána við hinar hugmyndalegu umbúðir og skapað með löggjöf og stjórnarathöfnum nauðsynleg skilyrði fyrir undirokun öreiganna.

Óveður það, sem skall á 29. janúar, hafði verið í undirbúningi allan janúarmánuð. Stjórnlagaþingið hafði með vantraustsyfirlýsingu sinni viljað neyða ráðuneyti Barrots til að biðjast lausnar. Ráðuneytið lagði þvert á móti til við þingið, að það samþykkti endanlegt vantraust á sjálft sig, fremdi sjálfsmorð, þ. e. a. s. leysti sig upp. Rateau, einn af ómerkustu meðlimum þingsins, lagði samkvæmt fyrirskipun ráðuneytisins þessa tillögu fyrir þingið, sem þó hafði þegar í ágúst ákveðið að hætta ekki störfum, fyrr en það hefði samið fjölda viðbótarlaga við stjórnarskrána. Fould ráðherra lýsti því beinlínis yfir, að nauðsynlegt væri að leysa upp þingið, „til að koma lánastarfsemi aftur á réttan kjöl". Og truflaði það ekki lánastarfsemina, með því að framlengja bráðabirgðaástandið og vefengja tilverurétt Barrots, Bonapartes og þar með hins borgaralega lýðveldis? Hinn goðumlíki Barrot, sem nú líktist mest ofsareiðum Rolland, þegar taka átti af honum eftir tæpar tvær vikur forsætisráðherratignina, sem lýðveldissinnar höfðu þegar eitt sinn skotið á frest í tíu mánuði, kom nú fram sem hinn versti harðstjóri gagnvart þessu vesæla þingi. Það vægasta, sem hann sagði, var, að með þessu þingi væri „engin framtíð möguleg". Og sannleikurinn var sá, að það var nú aðeins fulltrúi fortíðarinnar. „Það er þess ekki umkomið", bætti hann við með kaldhæðni, „að byggja upp þær stofnanir, sem lýðveldi þarfnast sér til varnar". Þetta var hverju orði sannara. Þegar hinn yfirgnæfandi andstæðingur, öreigastéttin, hvarf í skuggann, var hin borgaralega orka þess þrotin, og hinn nýi andstæðingur, konungssinnarnir, hafði endurlífgað lýðveldissinnaða öfgafengni þess. Þannig var það margfaldlega ófært um að festa í sessi hið borgaralega lýðveldi, sem það skildi ekki lengur, með tilheyrandi stofnunum.

Samtímis tillögu Rateau skipulagði ráðuneytið undirskriftasöfnun um land allt, og á hverjum degi barst þinginu fjöldi bréfa úr öllum héruðum Frakklands, þar sem þess var farið á leit í meiri eða minni skipunartón, að það leysti sig upp og semdi erfðaskrá sína. Stjórnlagaþingið safnaði að sínu leyti undirskriftum undir beiðnir um það, að það héldi áfram störfum. Kosningabarátta Cavaignacs og Bonapartes endurtók sig nú sem keppni í undirskriftasöfnun með og móti upplausn þjóðþingsins. Undir-

skriftirnar voru eins konar athugasemdir eftir á við 10. desember. Þessu fór fram allan janúarmánuð.

Í átökum sínum við forsetann gat þingið ekki vitnað til þess, að það hefði sprottið upp úr almennum kosningum, því að nú var einmitt áfrýjað frá því til hins almenna kosningarréttar. Það gat ekki stuðzt við neitt reglulegt vald, því að það barðist einmitt gegn hinu löggilta valdi. Það gat ekki velt ráðuneytinu úr sessi með vantraustsyfirlýsingu, eins og það reyndi á nýjan leik 6. og 26. janúar, því að ráðuneytið krafðist ekki trausts af því. Því stóð ekki nema ein leið opin: uppreisn. Herafli uppreisnarinnar var: hinn lýðveldissinnaði hluti þjóðvarðliðsins, hið hreyfanlega varðlið og miðstöðvar hinna byltingarsinnuðu öreiga, klúbbarnir. Hið hreyfanlega varðlið, hetjur júnídaganna, myndaði í desember hinn skipulagða aðalherafla borgaralegra lýðveldissinna, eins og þjóðverkstæðin höfðu þangað til í júní myndað skipulagðan herafla byltingarsinnaðra öreiga. Eins og framkvæmdanefnd stjórnlagaþingsins hafði ráðizt miskunnarlaust á þjóðverkstæðin, þegar hún varð að þagga niður hinar óþolandi kröfur öreiganna, þannig réðst ráðuneyti Bonapartes á hið hreyfanlega varðlið, þegar það varð að þagga niður hinar óþolandi kröfur borgaralegra lýðveldissinna. Það fyrirskipaði upplausn hins hreyfanlega varðliðs. Helmingur þess var sviptur starfi og lenti á vonarvöl, yfir hinn helminginn var sett konungssinnuð stjórn í stað lýðveldissinnaðrar, og kaup hans var lækkað, svo að hann fékk nú sama kaup og fastaherinn. Hið hreyfanlega varðlið var nú í sömu aðstöðu og uppreisnarmennirnir í júní, og blöðin birtu á degi hverjum opinber skriftamál meðlima þess, þar sem þeir játuðu sök sína frá í júní og beiddust fyrirgefningar af öreigunum.

Og hvað um klúbbana? Frá því augnabliki, er stjórnlagaþingið vefengdi Barrot, með honum forsetann og þar með ekki einungis hið löggilta lýðveldi, heldur hið borgaralega lýðveldi sem slíkt, hlutu að fylkja sér um það allir áhangendur febrúarlýðveldisins, allir flokkar, sem vildu umbylta ríkjandi lýðveldi og setja með valdi á laggirnar annað lýðveldi, er væri í samræmi við stéttarhagsmuni þeirra og hugmyndir. Orðnir hlutir voru nú óvissir á ný, hin föstu mót byltingarhreyfingarinnar voru aftur komin á hreyfingu, lýðveldi það, sem barizt var um, var nú aftur hið ómótaða lýðveldi febrúardaganna, sem hver flokkur ætlaði síðan að móta eftir eigin höfði. Flokkarnir tóku sér nú eitt augnablik sömu vígstöðu og í febrúar, án þess þó að þeir aðhylltust sömu tálsýnir og í febrúar. Hinir þrílitu lýðveldissinnar úr „National“ studdust aftur við demókratíska lýðveldissinna og blað þeirra „Réforme“, og gengu fram fyrir skjöldu í baráttunni

á þingi. Demókratískir lýðveldissinnar studdust aftur við sósíalíska lýðveldissinna – 27. janúar var lýst yfir í sérstöku ávarpi sættum þeirra og sameiningu – og notuðu klúbbana til stuðnings uppreisn sinni. Málgögn ráðuneytisins höfðu rétt fyrir sér, er þau lýstu hinum þrílitu lýðveldissinnum úr „National" sem endurlífguðum júníuppreisnarmönnum. Til þess að tryggja forustuhlutverk sitt í hinu borgaralega lýðveldi, stofnuðu þeir þessu lýðveldi sjálfu í hættu. 26. janúar lagði Faucher ráðherra fram frumvarp til laga um félagsfrelsi, og fyrsta grein þess hljóðaði svo: „Klúbbar eru bannaðir". Hann krafðist þess, að þetta áríðandi frumvarp yrði þegar tekið til umræðu. Stjórnlagaþingið hafnaði þeirri kröfu og 27. janúar lagði Ledru-Rollin til, að ráðuneytið yrði ákært fyrir stjórnarskrárbrot, og fékk 230 undirskriftir undir þessa tillögu. Að ákæra ráðuneytið á slíku augnabliki, er þessi athöfn hlaut að afhjúpa vanmætti ákærandans, þ. e. þingmeirihlutans, eða verða aðeins vanmáttug mótmæli ákærandans gegn þessum meirihluta – það var hið mikla byltingartromp, sem hið endurfædda Fjall greip nú til á hverju milkilvægu augnabliki stjórnmálakreppunnar. Fjallið kafnaði á aumkunarverðan hátt undir sínu mikla nafni.

Blanqui, Barbes, Raspail o. fl. höfðu 15. maí reynt að leysa upp stjórnlagaþingið, þegar þeir ruddust inn í fundarsal þess í fararbroddi öreiga Parísar. Barrot efndi nú til siðferðilegrar endurtekningar hins 15. maí, er hann vildi láta þingið leysa sjálft sig upp og loka fundarsal þess. Þetta sama þing hafði sett Barrot til að stjórna málsrannsókninni gegn hinum ákærðu frá í maí, og nú, þegar hann kom fram gagnvart því sem konungssinnaður Blanqui, þegar það leitaði gegn honum bandamanna í klúbbunum, meðal byltingarsinnaðra öreiga, einmitt á þessu augnabliki kvaldi hinn miskunnarlausi Barrot það með tillögu um að svipta kviðdóm dómsvaldi yfir föngunum frá í maí og fá það í staðinn hæstarétti, haute cour, sem „National"-flokkurinn hafði sett á laggirnar. Það er athyglisvert, að hræðsla um ráðherraembættið gat vakið í höfði Barrots hugmyndir, sem Beaumarchais hefði ekki þurft að skammast sín fyrir. Eftir langt hik samþykkti þjóðþingið tillögu hans. Gagnvart maítilræðismönnunum tók það aftur á sig sína eðlilegu mynd.

Ef stjórnlagaþingið var neytt til uppreisnar gegn forseta og ráðherrum, neyddust á hinn bóginn forsetinn og ráðherrarnir gagnvart þinginu til stjórnlagarofs, því að þeir höfðu engin lagaleg ráð til að leysa það upp. En stjórnlagaþingið var foreldri stjórnarskrárinnar, og stjórnarskráin var móðir forsetans. Með stjórnlagarofi ógilti forsetinn stjórnarskrána og eyðilagði sinn lýðveldislega réttargrundvöll.

Þá neyddist hann í þess stað til að grípa til keisaralegs réttargrundvallar; en hinn keisaralegi vakti aftur upp hinn orleanistíska, og báðir bliknuðu fyrir hinum legitimistíska. Endalok hins löggilta lýðveldis hlutu að styrkja harðasta andstæðing þess, legitimistíska konungssinna, þar eð orleanistar voru á þessu augnabliki ekkert annað en hinn sigraði frá í febrúar og Bonaparte ekkert annað en sigurvegarinn frá 10. desember, og hvorugur gat því teflt gegn valdaráni lýðveldissinna öðru en sínum eigin valdránstitli. Legitimistar gerðu sér hið hagstæða augnablik vel ljóst og fóru ekki í launkofa með samsæri sitt. Þeir gátu gert sér vonir um, að Changarnier hershöfðingi léki fyrir þá hlutverk Monks.[1] Í klúbbum þeirra var koma hins hvíta konungdæmis boðuð jafn opinskátt og koma hins rauða lýðveldis í klúbbum öreiganna.

Ef komið hefði til uppreisnar og tekizt að bæla hana niður, hefði ráðuneytið losnað við alla erfiðleika. „Löghlýðnin er okkur banvæn“, hrópaði Odilon Barrot. Uppreisn hefði veitt átyllu til að leysa upp stjórnlagaþingið í nafni „salut public“, og rjúfa stjórnarskrána í hennar eigin nafni. Hin tillitslausa hegðun Odilon Barrots á þjóðþinginu, frumvarpið um bann klúbbanna, hávaðasöm embættissvipting 50 lýðveldissinnaðra héraðsstjóra og skipun konungssinna í staðinn, upplausn hreyfanlega varðliðsins, ill meðferð Changarniers á stjórnendum þess, skipun Lerminiers í prófessorsembætti, enda þótt hann hefði verið orðinn óþolandi þegar á dögum Guizots, umburðarlyndið, sem sýnt var yfirgangi legitimista – allt voru þetta ögranir til uppreisnar. En uppreisnin kom ekki. Hún beið merkis frá stjórnlagaþinginu, ekki frá ráðuneytinu.

Að lokum rann upp 29. janúar, dagurinn, þegar koma átti til atkvæða tillaga Mathieu (de la Drômes) um að hafna skyldi skilyrðislaust frumvarpi Rateaus. Legitimistar, orleanistar, bónapartistar, hreyfanlega varðliðið, Fjallið, klúbbarnir, – allir gerðu á þessum degi samsæri og það jafnt gegn svonefndum bandamönnum sem svonefndum óvinum. Bonaparte fylgdist af hestbaki með hersýningu á Konkordíutorgi, Changarnier setti á svið yfirborðslegar heræfingar og stjórnlagaþingið kom að hersetnum fundarstað. Hið hjartaprúða þing, miðpunktur allra hinna andstæðu vona, ótta, eftirvæntingar, spennu og samsæra, hikaði nú ekki eitt augnablik og setti á sig heimssögulegri svip en nokkru sinni áður. Það var eins og hermaður, sem er ekki aðeins hræddur við að nota sín eigin vopn, heldur telur sig skuldbundinn til að halda vopnum fjandmanns síns óskemmdum. Það mætti dauðanum með fyrirlitningu, undirskrifaði sinn eigin dauðadóm og

[1] George Monk, enskur hershöfðingi. – *Útg.*

neitaði að fella frumvarp Rateaus skilyrðislaust. Þótt umsátursástand væri ríkjandi, setti það takmörk löggjafarstarfsemi sinni, sem einmitt hafði verið miðuð við umsátursástand í París. Það hefndi sín á viðeigandi hátt, er það degi síðar fyrirskipaði dómsrannsókn vegna þeirrar skelfingar, er ráðuneytið hafði valdið henni 29. janúar. Fjallið sannaði nú skort sinn á byltingarorku og pólitískri skynsemi, er það lét „National"-flokkinn misnota sig til þátttöku í þessum mikla baktjaldaskopleik. „National"-flokkurinn hafði nú gert síðustu tilraun sína til að halda í þá valdaeinokun, sem honum hafði fallið í skaut á uppvaxtartímum hins borgaralega lýðveldis, einnig eftir að lýðveldið var komið á laggirnar. Það hafði mistekizt.

Ef janúarkreppan snerist um tilveru stjórnlagaþingsins, þá var 21. marz teflt um tilveru stjórnarskrárinnar; í fyrra skiptið var teflt um forustulið „National"-flokksins, í hið síðara um hugsjón hans. Það þarfnast ekki nánari útskýringa, að hinum sómakæru lýðveldissinnum veittist auðveldara að skiljast við hugsjón sína en nautnina af valdastöðunum.

21. marz var á dagskrá þjóðþingsins frumvarp Fauchers um lög gegn félagsfrelsi: bann klúbbanna. Áttunda grein stjórnarskrárinnar tryggir öllum Frökkum samtakafrelsi. Bann klúbbanna var þannig ótvírætt stjórnarskrárbrot, og stjórnlagaþingið átti sjálft að staðfesta þessa saurgun á helgidómi sínum. En klúbbarnir voru funda- og samsærisstaðir hinna byltingarsinnuðu öreiga. Þjóðþingið sjálft hafði bannað verkamönnum að bindast samtökum gegn borgurum. Og hvað voru klúbbarnir annað en samtök gjörvallrar verkalýðsstéttarinnar gegn gjörvallri borgarastéttinni, myndun verkamannaríkisvalds gegn ríkisvaldi borgaranna? Voru þeir ekki stjórnlagaþing öreiganna og um leið vígbúnar herdeildir til uppreisnar? Það sem stjórnarskráin átti fyrst og fremst að staðfesta, voru völd borgarastéttarinnar. Stjórnarskráin gat því ekki látið félagsfrelsið ná til annarra samtaka en þeirra, er samrýmdust völdum borgarastéttarinnar, þ. e. hinu borgaralega skipulagi. Þótt hún tæki af fræðilegum ástæðum svo almennt til orða, voru þá ekki stjórnin og þjóðþingið einmitt til þess að túlka hana og beita henni í einstökum tilfellum? Og ef klúbbarnir höfðu í upphafi lýðveldisins verið bannaðir vegna umsátursástands, hlutu þá ekki lögin að banna þá í hinu fullmótaða lýðveldi? Hinir þrílitu lýðveldissinnar gátu ekki teflt gegn þessari raunsæju túlkun á stjórnarskránni neinu öðru en skrúðyrðum hennar. Nokkur hluti þeirra, Pagnerre, Duclerc o. fl., greiddi atkvæði með stjórninni og tryggði henni þannig meirihluta. Hinn hlutinn, undir forustu erkiengilsins Cavaignacs og kirkjuföðurins Marrasts, flutti sig, eftir að ákvæðið um bann

klúbbanna hafði verið samþykkt, ásamt Ledru-Rollin og Fjallinu yfir í annan sal – „og þar héldu þeir ráðstefnu". Þjóðþingið var nú lamað og var ekki nógu fjölmennt til lögmætrar atkvæðagreiðslu. Í tæka tíð vakti Crémieux athygli á því í hinum salnum, að héðan lægi leiðin beint út á götu og nú væri ekki lengur febrúar 1848, heldur marz 1849. „National"-flokkurinn vitkaðist snögglega og sneri aftur inn í fundarsal þjóðþingsins; að baki hans gekk Fjallið, sem aftur hafði verið haft að fífli. Kvalið af stöðugri byltingarlöngun var það stöðugt á snöpum eftir leiðum samkvæmum stjórnarskránni og kunni enn betur við sig að baki borgaralegum lýðveldissinnum en í fararbroddi byltingarsinnaðra öreiga. Þannig var skopleiknum lokið. Og stjórnlagaþingið hafði sjálft kveðið á um, að brot á bókstaf stjórnarskrárinnar væri hin eina rétta uppfylling á anda hennar.

Nú var aðeins eftir að gera út um eitt atriði, afstöðu hins löggilta lýðveldis til byltingarinnar í Evrópu, utanríkispólitík þess. 8. maí 1849 var óvenjulegt uppnám á stjórnlagaþinginu, sem átti að ljúka ævi sinni eftir nokkra daga. Árás franska hersins á Róm, ósigur hans fyrir Rómverjum, hin pólitíska svívirða og hin hernaðarlega smán, sviksamlegt morð franska lýðveldisins á rómverska lýðveldinu, fyrsta herferð Bónapartes annars til Ítalíu – þetta var á dagskrá. Fjallið hafði í annað sinn spilað út sínu mikla trompi, Ledru-Rollin hafði eins og búast mátti við lagt á forsetaborðið tillögu um ákæru á hendur stjórnarinnar, og í þetta sinn einnig Bonapartes, vegna stjórnarskrárbrots.

Tilefnið frá 8. maí endurtók sig síðar 13. júní. Gefum nú nánari gaum að herferðinni til Rómar.

Cavaignac hafði þegar um miðjan nóvember 1848 sent herflotadeild til Civitavecchia til að koma páfanum til bjargar, taka hann um borð og flytja til Frakklands. Páfinn átti að blessa hið sómakæra lýðveldi og tryggja kosningu Cavaignacs til forseta. Cavaignac ætlaði að veiða prestana á páfann, bændurna á prestana, og forsetaembættið á bændurna. Þótt leiðangur Cavaignacs væri fyrst og fremst kosningabrella, var hann um leið mótmæli og ögrun við rómversku byltinguna. Hann var vísir að íhlutun Frakklands í þágu páfans.

Þessi íhlutun, ásamt Austurríki og Napoli-ríkinu, í þágu páfans gegn rómverska lýðveldinu, var ákveðin á fyrsta ráðuneytisfundi Bonapartes 23. desember. Falloux í ráðherrastól táknaði endurreist völd páfans í Róm. Bonaparte þarfnaðist ekki lengur páfans til að verða fulltrúi bændanna í forsetastól, en hann þurfti að tryggja völd páfans til að tryggja sér bændurna. Trúgirni þeirra hafði gert hann að forseta. Ef þeir misstu trúna, yrðu þeir ekki trúgjarnir lengur, og misstu þeir páfann, hlutu þeir að missa

trúna. Og enn ákafari voru hinir sameinuðu orleanistar og legitimistar, sem ríktu í nafni Bonapartes. Áður en hægt yrði að endurreisa konungdæmið, varð að endurreisa það vald, sem konungarnir hafa helgi sína frá. Og hvað sem konungshollustu þeirra leið, gat enginn páfi verið til nema hann héldi sínum fyrri veraldlegu völdum í Róm; án páfans engin kaþólska, án kaþólskunnar engin frönsk trúarbrögð, og hvað yrði úr hinu gamla franska þjóðfélagi án trúarbragða? Ávísun bóndans á hin himnesku gæði tryggði ávísun borgarans á landeignir bændanna. Rómverska byltingin var þannig tilræði við eignarréttinn, við hið borgaralega skipulag, jafn-hræðilegt og júníbyltingin. Endurreist völd borgarastéttarinnar í Frakklandi kröfðust endurreistra valda páfans í Róm. Síðast en ekki sízt beindist árásin gegn rómverskum byltingarmönnum, þar með einnig gegn bandamönnum byltingarmanna í Frakklandi; bandalag gagnbyltingarsinnaðra stétta í hinu löggilta franska lýðveldi leiddi óhjákvæmilega til bandalags franska lýðveldisins við helga bandalagið, Napoliríkið og Austurríki. Ráðuneytissamþykktin frá 23. desember var stjórnlagaþinginu ekkert leyndarmál. Þegar 8. janúar hafði Ledru-Rollin beint til stjórnarinnar fyrirspurn um hana, stjórnin hafði þrætt fyrir hana, og þjóðþingið hafði tekið fyrir næsta mál á dagskrá. Trúði það orðum stjórnarinnar? Eins og við vitum, eyddi það öllum janúarmánuði í að samþykkja vantraust á hana. En ef það var hlutverk stjórnarinnar að ljúga, var það einnig hlutverk þingsins að trúa lygum hennar og varðveita þannig hið lýðveldislega yfirborð.

Á meðan þetta gerðist, hafði Piemont beðið ósigur, Karl Albert hafði afsalað sér völdum, og austurríski herinn barði að dyrum Frakklands. Ledru-Rollin bar fram harðorða fyrirspurn. Stjórnin sýndi fram á, að á Norður-Ítalíu hefði hún aðeins haldið áfram stefnu Cavaignacs og Cavaignac stefnu bráðabirgðastjórnarinnar, þ. e. Ledru-Rollins. Í þetta sinn fékk stjórnin meira að segja traustsyfirlýsingu frá þinginu, og leyfi til að hernema um stundarsakir heppilegan stað á Norður Ítalíu, til að hafa þannig eitthvað við að styðjast, er samið yrði við Austurríki um óskert landamæri Sardiníuríkisins og rómverska vandamálið um leið. Eins og kunnugt er, eru örlög Ítalíu ákveðin á orustuvöllunum í norðurhluta landsins. Annaðhvort hlaut Róm að falla ásamt Langbarðalandi og Piemont, eða Frakkland varð að segja Austurríki og þar með evrópsku gagnbyltingunni stríð á hendur. Áleit þjóðþingið máske, að ráðuneyti Barrots væri velferðarnefndin endurfædd? Eða taldi það sjálft sig byltingarþingið endurfætt? Til hvers var annars hernám þessa staðar á Norður-Ítalíu? Með þessari gegnsæju slæðu var reynt að fela herferðina til Rómar.

14. apríl lagði 14 000 manna her undir forustu Oudinots upp til Civitavecchia, 16. apríl leyfði þingið stjórninni 1 200 000 franka fjárveitingu til að halda uppi í þrjá mánuði flota á Miðjarðarhafi. Þannig veitti það stjórninni öll meðul til íhlutunar í Róm, meðan hún lét sem nota ætti þau gegn Austurríki. Það sá ekki, hvað stjórnin gerði, það heyrði aðeins, hvað hún sagði. Svo bjargföst trú fyrirfannst ekki í Ísrael; fyrir stjórnlagaþinginu var nú svo komið, að það mátti ekki vita, hvað lýðveldið varð að aðhafast.

8. maí var að lokum leikið síðasta atriði skopleiksins; stjórnlagaþingið krafðist af stjórninni skjótra ráðstafana til að herferðin til Ítalíu sneri aftur að sínu upprunalega markmiði. Sama kvöld birti Bonaparte bréf í „Moniteur", þar sem hann fór miklum viðurkenningarorðum um Oudinot. 11. maí hafnaði þjóðþingið tillögunni um að ákæra Bonaparte og ráðuneyti hans. Fjallið, sem hefði átt að sjá í gegnum þennan svikavef, leit í þess stað á skopleik þingsins sem harmleik og lék sjálft í honum hlutverk Fouquier-Tinvilles. Þannig sýndi það sitt smáborgaralega kálfsskinn undir ljónshúðinni, fenginni að láni frá byltingarþinginu.

Síðari helmingin af æviferli stjórnlagaþingsins má draga saman í eftirfarandi: 29. janúar viðurkenndi það, að hið konungssinnaða brot borgarastéttarinnar væri sjálfkjörinn stjórnandi þess lýðveldis, sem það hafði sjálft stofnað; 21. marz, að framkvæmd stjórnarskrárinnar væri sama og brot á henni; og 11. maí, að hið útbásúnaða óvirka bandalag franska lýðveldisins við þjóðirnar, sem börðust fyrir frelsi sínu, þýddi í raun virkan stuðning þess við gagnbyltinguna í Evrópu.

Þetta vesæla þing hvarf af sviðinu, eftir að hafa tveim dögum fyrir eins árs afmæli sitt, 4. júní, veitt sér þann munað að hafna tillögunni um sakaruppgjöf fyrir júníuppreisnarmennina. Vald þess var horfið, alþýðan hataði það, borgarastéttin fyrirleit þetta verkfæri sitt, misþyrmdi því og setti það útundan. Það hafði glatað lýðveldistálsýnum sínum og neyddist til að eyða síðari helmingi ævi sinnar til að afturkalla hinn fyrri; án nokkurra fyrri afreka eða framtíðarvona rotnaði það smátt og smátt lifandi, og það eina sem nokkru fjöri gat hleypt í þetta lifandi lík, var að rifja upp júnísigurinn og staðfesta hann með endurnýjuðum dómum yfir þeim, sem þegar voru dæmdir. Þingið var blóðsuga, sem lifði á blóði júníuppreisnarmannanna.

Það skildi eftir sig ríkisskuldina, sem enn var aukin af kostnaðinum vegna júníuppreisnarinnar, vegna afnáms saltskattsins, vegna skaðabótanna, sem greiddar höfðu verið plantekrueigendum í sambandi við afnám þrælahalds; vegna kostnaðarins við

herferðina til Rómar, vegna afnáms á vínskatti, en þessa síðustu ákvörðun tók þingið í dauðateygjunum, eins og illgjarn öldungur, sem gleðst af því að geta velt sem þyngstri skuldabyrði yfir á hlakkandi erfingja sína.

Frá því í byrjun marz hafði farið fram kosningabarátta til hins löggefandi þjóðþings. Tveir aðalflokkar áttust við, flokkur laga og reglu annars vegar og hinn demókratísk-sósíalíski eða rauði flokkur hins vegar; á milli þeirra stóðu „vinir stjórnarskrárinnar", en undir þessu nafni reyndu hinir þrílitu lýðveldissinnar frá „National" að mynda flokk. Flokkur laga og reglu var myndaður þegar eftir júnídagana; það var ekki fyrr en honum varð 10. desember kleift að losa sig við „National"-klíkuna, að hið rétta eðli hans kom í ljós: hann var bandalag orleanista og legitimista í einum flokki. Borgarastéttin skiptist í tvö stór brot, sem hvort á eftir öðru höfðu einokað völdin: stórjarðeigendur á dögum hins endurreista konungdæmis, fésýsluvaldið og iðnaðarborgarastéttin á dögum júlíkonungdæmisins. Bourbon var hin konunglega nafnbót fyrir veldi annars brotsins, Orleans fyrir veldi hins – hið nafnbótarlausa lýðveldi var eina skipulagið, þar sem bæði brotin gátu ráðið jafn miklu og varið sína sameiginlegu stéttarhagsmuni, án þess þó að hætta innbyrðis átökum. Ef hið borgaralega lýðveldi gat ekki verið neitt annað en fullkomnað og hreinræktað veldi borgarastéttarinnar, gat það þá verið annað en sameiginleg yfirráð orleanista og legitimista, samþætting endurreisnar og júlíkonungdæmis? Hinir borgaralegu lýðveldissinnar úr „National" voru ekki fulltrúar neins hluta stéttar sinnar, er ætti sér efnahagslegan grundvöll. Söguleg þýðing þeirra og réttlæting var aðeins fólgin í því, að gagnstætt báðum brotum borgarastéttarinnar, sem hvort um sig skildi aðeins sína sérstöku hagsmuni, höfðu þeir þegar á dögum konungsveldisins barizt fyrir hinu almenna borgaralega ríkisvaldi, hinu nafnlausa ríki lýðveldisins, sem þeir göfguðu fyrir sér og útmáluðu með skreytingum frá fornöld, en átti þó fyrst og fremst að tryggja völd þeirra eigin klíku. Ef „National"-flokkurinn varð gjörsamlega áttavilltur, þegar hann sá sameinaða konungssinna setjast í valdasess þess lýðveldis, sem hann sjálfur hafði stofnað, fóru hinir síðarnefndu ekki síður villir vega, hvað sameiginleg völd þeirra snerti. Þeir skildu ekki, að enda þótt hvort brot þeirra um sig væri konungssinnað, gat sameining þeirra aðeins tekið á sig form lýðveldis, að hið hvíta og hið bláa konungdæmi hlutu að renna saman í hið þrílita lýðveldi. Þar sem baráttan við hina byltingarsinnuðu öreiga og millistéttirnar, sem æ meir fylktu sér um þá, neyddi báða armana í flokki laga og reglu til að sameina krafta sína í einum samtökum, hlaut einnig hvor þeirra um

sig að verja gegn viðreisnar- og einokunartilhneigingum hins hin sameiginlegu völd, þ. e. hið lýðveldislega form á völdum borgarastéttarinnar. Þannig sjáum við, að þessir konungssinnar reyna fyrst í stað að endurreisa konungdæmið, síðan halda þeir í lýðveldið og hrakyrða það þó um leið, froðufellandi af bræði, en að lokum játa þeir þó, að hagsmunir þeirra geti aðeins samrýmzt innan ramma lýðveldisins og fresta viðreisninni um óákveðinn tíma. Sameiginleg nýting valdanna styrkti báða arma og gerði hvorn um sig bæði ófærari og ófúsari til að gerast hinum undirgefinn, þ. e. endurreisa konungdæmið.

Flokkur laga og reglu krafðist í kosningastefnuskrá sinni valda borgarastéttarinnar, þ. e. að tryggð yrðu lífsskilyrði þessara valda, eignarréttarins, fjölskyldunnar, trúarbragðanna, laga og reglu. Að sjálfsögðu lýsti hann þessum stéttarvöldum og forsendum þeirra sem veldi siðmenningarinnar og nauðsynlegum skilyrðum hinnar efnalegu framleiðslu og þeirra þjóðfélagsafstæðna, sem af henni spretta. Flokkur laga og reglu var vellauðugur, skipulagði útibú sín um allt Frakkland, hafði á sínum snærum alla málsvara hins gamla þjóðfélags, hagnýtti sér áhrif ríkjandi stjórnarvalda, réði fyrir stórum her ólaunaðra lénsmanna, þar sem var hinn mikli fjöldi smáborgara og bænda, sem enn voru fjarlægir byltingarhreyfingunni og litu á stóreignamenn sem eðlilega fulltrúa smáeignamanna og þeirra smáu fordóma; um allt land voru fulltrúar hans eins konar smákonungar og gátu þannig refsað því sem uppreisn, ef frambjóðendum hans var hafnað, svipt vinnu uppreisnargjarna verkamenn, bændalýð, þjónustumenn, fulltrúa, járnbrautarstarfsmenn, skrifara og alla þá aðra ríkisstarfsmenn, sem þeim voru undirgefnir. Enn fremur gátu þeir sums staðar gripið til þeirrar blekkingar, að hið lýðveldissinnaða stjórnlagaþing hefði hindrað Bonaparte frá 10. desember í að neyta töframáttar síns. Þegar við lýstum flokki laga og reglu, minntumst við ekki á bonapartista. Þeir voru ekki sjálfstætt borgaralegt flokksbrot, heldur samsafn gamalla hjátrúaðra örkumlamanna og ungra, trúlausra lukkuriddara. Flokkur laga og reglu sigraði í kosningunum og hlaut yfirgnæfandi meirihluta á löggjafarþinginu.

Gegn hinni sameinuðu, gagnbyltingarsinnuðu borgarastétt hlutu að sjálfsögðu byltingarsinnaðir hlutar smáborgara- og bændastéttarinnar að sameinast um aðalfulltrúa fyrir hagsmuni byltingarinnar, öreigastéttina. Við höfum séð, að lýðræðissinnaðir talsmenn smáborgara á þingi, þ. e. Fjallið, neyddust vegna ósigra sinna á þingi til að leita ásjár hjá sósíalískum talsmönnum öreiganna, og að smáborgarastéttin sjálf utan þings var með concordats à l'amiable miskunnarlausri framfylgingu borgaralegra hagsmuna og þar af leiðandi gjaldþroti, hrakin til bandalags við

öreigastéttina. 27. janúar höfðu Fjallið og sósíalistar lýst yfir sáttum sín á milli, og á hinni miklu febrúarsamkomu 1849 endurtóku þeir sameininguna. Hinn félagslegi og hinn demókratíski flokkur, flokkur verkamanna og flokkur smáborgara, sameinuðust nú í sósíaldemókratískan, „rauðan" flokk.

Franska lýðveldið, sem um stutt skeið hafði verið lamað af afleiðingum júnídaganna hafði síðan umsátursástandinu var aflýst 19. október lifað í stöðugri, sótthitakenndri spennu. Fyrst var það baráttan um forsetaembættið, síðan barátta forsetans við stjórnlagaþingið, baráttan um klúbbana, réttarhöldin í Bourges,[1] sem gagnvart hinum lítilmótlegu persónum forsetans, sameinaðra konungssinna, sómakærra lýðveldissinna, hins lýðræðissinnað Fjalls, sósíalískra kenningasmiða öreiganna, sýndi hina raunverulegu byltingarmenn í gervi forsögulegra ófreskja, sem geta aðeins verið eftirstöðvar eða fyrirboði þjóðfélagslegs syndaflóðs; síðan kosningabaráttan, líflátið á morðingjum Bréa,[2] stöðug réttarhöld yfir blaðamönnum, íhlutanir stjórnar og lögreglu á samkomum, ögranir konungssinna, myndir af Louis Blanc og Caussidière í gapastokknum; stöðug barátta milli stjórnarvalda lýðveldisins og stjórnlagaþingsins, sem æ ofan í æ þrýsti byltingunni aftur til upphafs síns, breytti sigurvegaranum í sigraðan, en hinum sigraða í sigurvegara og umbylti á einu augnabliki stöðu flokka og stétta, mótsögnum þeirra og tengslum; hröð sókn gagnbyltingarinnar í Evrópu, hin frækilega barátta Ungverja, uppreisnirnar í Þýzkalandi, herferðin til Rómar, smánarlegur ósigur franska hersins fyrir borgarhliðum Rómar – vegna þessarar æðishröðu breytingar, þessarar heimssögulegu ólgu, þessa stórfellda flóðs og fjöru byltingarástríðna, – vona og vonbrigða, hlutu hinar ýmsu stéttir franska þjóðfélagsins nú að telja vaxtartímabil sín í vikum, þar sem þær áður höfðu talið þau í hálfum öldum. Verulegur hluti bændanna og sveitahéraðanna hafði snúizt til fylgis við byltingaröflin. Ekki einungis hafði Napóleon valdið þeim vonbrigðum, heldur bauð rauði flokkurinn þeim innihald í stað nafnbótar, í stað blekkjandi skattfrelsis endurgjald milljarðsins, sem greiddur hafði verið legitimistum, lækkun skuldakrafna og afnám okurs.

---

[1] Réttarhöldin yfir þátttakendum í atburðunum 15. maí, sem sakaðir voru um samsæri gegn stjórninni. Í Bourges stóðu fyrir rétti fulltrúar öreiganna (Blanqui, Barbès) og nokkur hluti Fjallsins. Blanqui var dæmdur til tíu ára fangelsisvistar í einmenningsklefa, de Flotte, Sobrier og Raspail í mismunandi langa fangelsisdóma. Barbes, Albert, Louis Blanc, Caussidiere, Laviron og Huber voru dæmdir til útlegðar. – *Útg.*

[2] Bréa hershöfðingi, sem stjórnaði hluta hersins, er bældi niður júní-uppreisn öreiganna, var 25. júní drepinn af uppreisnarmönnum við Fontainebleau. Vegna þess voru tveir uppreisnarmenn teknir af lífi. – *Útg.*

Sjálfur herinn hafði sýkzt af sótthita byltingarinnar. Hann hafði kosið Bónaparte í von um sigra, en hlotnazt ósigur. Í Bónaparte hafði hann séð hinn fyrirferðarlitla liðþjálfa, sem duldi í sér byltingarhershöfðingja, en í stað þess hafði hann endurreist gömlu hershöfðingjana, sem liðþjálfinn varð að hlýða. Það var efalaust mál, að rauði flokkurinn, þ. e. samfylking lýðræðissinna, þótt hann gæti ekki unnið kosningarnar, hlaut a. m. k. að ná mjög góðum árangri. París, herinn og verulegur hluti landsbyggðarinnar hlutu að greiða honum atkvæði sitt. Ledru-Rollin, leiðtogi Fjallsins, var kosinn í fimm héruðum; enginn leiðtogi flokks laga og reglu vann sambærilegan sigur, né heldur neinn af fulltrúum hins eiginlega öreigaflokks. Þessi kosning opinberar okkur leyndarmál hins demókratísk-sósíalíska flokks. Ef Fjallið, þingfulltrúi lýðræðissinnaðra smáborgara, var annars vegar neytt til að sameinast hinum sósíalísku kenningasmiðum öreiganna – öreigarnir, sem vegna hins hræðilega efnalega ósigurs í júní voru neyddir til að sækja fyrst í stað fram á andlega sviðinu, og sem vegna þróunarstigs hinna stéttanna voru þess ekki umkomnir að innleiða byltingaralræði, hlutu að leita á náðir þeirra, sem sömdu kenningar um frelsun þeirra, hinna sósíalísku sértrúarflokkastofnenda –, fylktu sér hins vegar byltingarsinnaðir bændur, herinn og íbúar sveitahéraðanna að baki Fjallsins, sem þannig varð leiðtogi hinnar byltingarsinnuðu fylkingar og hafði með samkomulaginu við sósíalista tekizt að eyða öllum innri andstæðum í byltingarflokknum. Á síðara ævihelmingi stjórnlagaþingsins var það fulltrúi lýðveldishugsjónar þess og hafði bætt fyrir syndir sínar á dögum bráðabirgðastjórnarinnar, framkvæmdanefndarinnar og í júní. Samtímis því, að „National"-flokkurinn lét vegna hálfvelgju sinnar kúgast af konungssinnuðu ráðuneyti, óx flokkur Fjallsins, sem á valdadögum „National"-flokksins hafði horfið af sviðinu, og gerðist eini fulltrúi byltingarinnar á þingi. „National"-flokkurinn gat í raun og veru ekki teflt gegn hinum konungssinnuðu flokksbrotum neinu öðru en metorðagjörnum einstaklingum og hugsjónalegu lýðskrumi. Flokkur Fjallsins var hins vegar fulltrúi þess fjölda, sem tvísté milli borgarastéttar og öreiga, og hagsmunir hans kröfðust lýðræðislegra þjóðfélagsstofnana. Gegn Cavaignac, Marrast og þeirra líkum var Fjallið því í sannleika fulltrúi byltingarinnar, og í vitund þessarar sterku aðstöðu óx kjarkur þess því meir, sem byltingarorkan takmarkaðist meira við þingaðgerðir, ákærur, hótanir, hávaða, stóryrði og öfgamennsku, sem ekki náði lengra en til orðanna. Bændur voru því sem næst í sömu aðstöðu og smáborgarar og settu fram svipaðar félagslegar kröfur. Allar millistéttir þjóðfélagsins, að svo miklu leyti sem þær höfðu dregizt inn í byltingarhreyfinguna,

hlutu að líta á Ledru-Rollin sem hetju sína. Ledru-Rollin var persónugervingur hinna lýðræðissinnuðu smáborgara. Andspænis flokki laga og reglu hlaut fyrst í stað að bera mest á hinum hálf-íhaldssömu, hálf-byltingarsinnuðu og al-útópísku umbótamönnum.

„National"-flokkurinn, „vinir stjórnarskrárinnar quand même",[1] „républicains purs et simples"[2] biðu algeran ósigur í kosningunum. Örsmár minnihluti þeirra var kosinn á þing, en hinir alræmdustu af leiðtogum þeirra hurfu af sviðinu, meðal þeirra Marrast, yfirritstjóri og farandsöngvari hins sómakæra lýðveldis.

28. maí kom löggjafarþingið saman, og 11. júní endurtók áreksturinn frá 8. maí sig. Ledru-Rollin lagði í nafni Fjallsins fram tillögu um ákæru á hendur forsetanum og ráðuneytinu vegna stjórnarskrárbrots, vegna skotárásarinnar á Róm. 12. júní hafnaði löggjafarþingið ákærutillögunni, eins og stjórnlagaþingið hafði hafnað henni 11. maí, en í þetta sinn knúðu öreigarnir Fjallið út á stræti, þó ekki til götubardaga, heldur aðeins til mótmælagöngu. Okkur nægir að vita, að Fjallið var í fararbroddi þessarar hreyfingar, til að vita einnig, að hún beið ósigur og að júní 1849 var skopstæling á júnímánuði 1848, jafn ómerkileg og hún var hlægileg. Eini skugginn, sem bar á endurtekninguna miklu 13. júní, var orustuskýrsla Changarniers, mikilmennisins, sem flokkur laga og reglu dubbaði upp í skyndi. Sérhvert þróunarskeið þjóðfélagsins þarfnast sinna miklu manna, og þegar það finnur þá ekki, finnur það þá upp, eins og Helvetius kemst að orði.

20. desember var enn ekki til nema annar helmingur hins fullvaxna borgaralega lýðveldis, forsetinn. 28. maí bættist við hinn helmingurinn, löggjafarþingið. Í júní 1848 hafði hið verðandi lýðveldi skráð sig á spjöld sögunnar með stórbrotinni orustu við öreigana, í júní 1849 gerði hið fullorðna lýðveldi slíkt hið sama með ólýsanlegum skopleik á kostnað smáborgaranna. Júní 1849 var refsidómurinn fyrir júní 1848. Í júní 1849 voru verkamenn ekki sigraðir, heldur var rutt úr vegi smáborgurunum, sem stóðu milli þeirra og byltingarinnar. Júníatburðirnir 1849 voru ekki blóðugur harmleikur milli launavinnu og auðmagns, heldur hörmulegur skopleikur milli skuldunauts og lánardrottins, með fangelsið að baksviði. Flokkur laga og reglu hafði sigrað og hlaut nú að sýna sitt rétta eðli.

[1] quand même: hvað sem það kostar.
[2] hreinræktaðir lýðveldissinnar.

## III.

## Afleiðingar hins 13. júní 1849

20. desember var enn ekki nema eitt andlit á Janusarhöfði hins löggilta lýðveldis, andlit framkvæmdavaldsins, með hinum óljósu og flatneskjulegu dráttum Bonapartes. 28. maí birtist hitt andlitið, andlit löggjafarvaldsins, alstráð örum, sem ólifnaður endurreisnar- og júlíkonungdæmisins hafði skilið eftir sig. Með tilkomu hins löggefandi þjóðþings var fullkomnað hið stjórnarskrárbundna lýðveldi, þ. e. sú lýðveldislega stjórnskipan, sem staðfestir völd borgarastéttarinnar, og þar með sameiginleg völd beggja flokksbrota konungssinna, sem mynda frönsku borgarastéttina, samfylkingar orleanista og legitimista, flokks laga og reglu. Samtímis því að franska lýðveldið varð þannig að bráð samfylkingu konungssinna, tókst hin evrópska samfylking gagnbyltingaraflanna allsherjar krossferð á hendur gegn síðustu athvörfum marzbyltinganna. Rússar réðust inn í Ungverjaland, Prússar réðust gegn her stjórnarskrársinna í Þýzkalandi og Oudinot réðst með stórskotaliði á Róm. Kreppan í Evrópu nálgaðist augljóslega úrslitaaugnablik, augu allrar Evrópu hvíldu á París og augu allrar Parísar hvíldu á löggjafarþinginu.

Hinn 11. júní steig Ledru-Rollin í ræðustól þess. Hann flutti ekki venjulega ræðu, heldur ákæru á hendur ráðherrunum, umbúða- og skrautlausa, málefnalega, samanþjappaða og kröftuga. Árásin á Róm er árás á stjórnarskrána, árásin á rómverska lýðveldið er árás á franska lýðveldið. Fimmta grein stjórnarskrárinnar hljóðar: „Franska lýðveldið mun aldrei beita herafla sínum gegn frelsi annarrar þjóðar“ – og forsetinn beitti franska hernum gegn frelsi Rómverja. 54. grein stjórnarskrárinnar bannar framkvæmdavaldinu að lýsa yfir stríði án samþykkis þjóðþingsins. Samþykkt stjórnlagaþingsins frá 8. maí fyrirskipar ráðherrunum ótvírætt að haga herferðinni til Rómar í samræmi við hennar upprunalegu markmið, og jafnótvírætt bannar hún árás á Róm – Oudinot gerði þessa árás með stórskotaliði. Þannig kallaði Ledru-Rollin stjórnarskrána sjálfa til vitnis gegn Bonaparte og ráðherrum hans. Sem málsvari stjórnarskrárinnar hafði hann í hótunum við hinn konungssinnaða meirihluta: Lýðveldissinnar munu sjá til þess, að stjórnarskráin verði í heiðri höfð, og það með öllum ráðum, og ef nauðsynlegt verður, einnig með vopnavaldi. „Með vopnavaldi“! endurtók hið hundraðfalda bergmál Fjallsins. Meirihlutinn svaraði með feiknalegum hávaða, og forseti þjóðþingsins veitti Ledru-Rollin áminningu, en hann endur-

tók hina ögrandi yfirlýsingu sína og lagði að lokum á borð forsetans tillögu um málsókn á hendur Bonaparte og ráðherrum hans. Þjóðþingið ákvað með 361 atkvæðum gegn 203 að taka árásina á Róm af dagskrá og taka fyrir næsta mál.

Trúði Ledru-Rollin því, að hann gæti sigrað þjóðþingið með hjálp stjórnarskrárinnar og forsetann með hjálp þjóðþingsins?

Stjórnarskráin bannaði að vísu allar árásir á frelsi erlendra þjóða, en það sem franski herinn var að ráðast á í Róm, var að áliti stjórnarinnar ekki frelsið, heldur „harðstjórn stjórnleysisins". Hafði Fjallið, þrátt fyrir alla reynslu sína á stjórnlagaþinginu, enn ekki skilið, að túlkun stjórnarskrárinnar heyrði ekki undir þá, sem hana höfðu samið, heldur hina, sem gefið höfðu samþykki sitt við henni? Að bókstaf hennar varð að túlka í samræmi við lífvænlega merkingu hans, og að hin eina lífvænlega merking var hin borgaralega? Að Bonaparte og konungssinnaður meirihluti þjóðþingsins voru réttmætir túlkendur stjórnarskrárinnar, eins og prestarnir eru réttmætir túlkendur biblíunnar og dómararnir laganna? Átti þjóðþingið, nýkjörið í almennum kosningum, að vera bundið af erfðaskráratkvæðum hins dauða stjórnlagaþings, sem í lifanda lífi hafði látið Odilon Barrot brjóta sig á bak aftur? Þegar Ledru-Rollin vitnaði í samþykkt stjórnlagaþingsins frá 8. maí, hafði hann gleymt því, að þetta sama stjórnlagaþing hafði 11. maí hafnað fyrstu tillögu hans um málsókn á hendur Bonaparte og ráðherrum hans, sýknað forsetann og ráðherrana, staðfest þannig, að árásin á Róm væri í samræmi við stjórnarskrána, að hann var aðeins að áfrýja dómi, sem þegar var felldur, áfrýja frá lýðveldissinnuðu stjórnlagaþingi til konungssinnaðs löggjafarþings? Stjórnarskráin hvetur til uppreisnar, þegar hún í sérstöku ákvæði kallar á sérhvern borgara sér til verndar. Ledru-Rollin studdist við þetta ákvæði. En er ekki einnig hið opinbera vald skylt að vernda stjórnarskrána, og er ekki þá fyrst hægt að tala um stjórnarskrárbrot, þegar ein grein hins opinbera valds gerir uppreisn gegn annarri? Og forseta lýðveldisins, ráðherrum þess og þjóðþingi kom ágæta vel saman.

Það sem Fjallið reyndi að gera 11. júní, var „uppreisn innan takmarka hreinnar skynsemi", þ. e. hrein-þingræðisleg uppreisn. Með hótun um vopnaða uppreisn alþýðunnar átti að hræða meirihluta þjóðþingsins til að koma Bonaparte og ráðherrum hans á kné, og eyðileggja þannig sitt eigið vald og ógilda kosningu sína. Hafði ekki stjórnlagaþingið reynt á sama hátt að ógilda kosningu Bonapartes, þegar það heimtaði með þrákelkni, að ráðuneytið Barrot–Falloux segði af sér?

Frá tímum konventunnar voru nógar fyrirmyndir að þinguppreisnum, sem höfðu snögglega gerbylt hlutföllunum milli meiri-

og minnihluta – og gat ekki núverandi Fjalli heppnazt það, sem heppnazt hafði hinu gamla? –, og aðstæðurnar virtust heldur ekki á þessu augnabliki óhagstæðar slíkri fyrirætlan. Órói alþýðunnar í París var kominn á hættulega hátt stig, og eftir því, hvernig herinn hafði greitt atkvæði, virtist hann stjórninni ekki hlynntur; meirihluti löggjafarþingsins var sjálfur of ungur, til þess að hann hefði fest sig í sessi, og þar að auki samanstóð hann af gamalmennum. Ef Fjallið hefði heppnazt uppreisn á þingi, hlaut það þar með að ná öllum tökum á ríkisvaldinu. Eins og endranær, óskuðu lýðræðissinnaðir smáborgarar einskis heitar en að baráttan yrði háð í skýjum yfir höfði þeirra, milli hinna framliðnu anda þingsins. Síðast en ekki sízt hefðu báðir aðilar, lýðræðissinnaðir smáborgarar og þingfulltrúar þeirra, náð með þingræðislegri uppreisn því takmarki sínu, að brjóta vald borgarastéttarinnar á bak aftur, án þess að leysa öreigana úr læðingi, eða a. m. k. án þess að sýna þá öðru vísi en úr fjarska; öreigarnir hefðu gert sitt gagn, án þess að verða hættulegir.

Eftir atkvæðagreiðslu þjóðþingsins 11. júní hittust nokkrir meðlimir Fjallsins og fulltrúar leynifélaga verkamanna. Síðarnefndir vildu hefjast handa þegar sama kvöld. Fjallið hafnaði þeirri tillögu með öllu. Það vildi með engu móti missa forustutaumana úr höndum sér; því stóð jafn mikill stuggur af bandamönnum sínum sem óvinum, og það ekki að ástæðulausu. Minningin um júní 1848 var sterkari en nokkru sinni áður í röðum öreiganna í París. Þó voru þeir bundnir af bandalagi sínu við Fjallið. Það hafði meiri ítök úti á landi, ýkti fyrir þeim áhrif sín í hernum, réði yfir hinum lýðræðissinnaða hluta þjóðvarðliðsins og hafði á bak við sig smákaupmenn. Ef öreigarnir hefðu hafið uppreisn gegn vilja þess á þessu augnabliki, þegar raðir þeirra höfðu auk þess þynnzt mjög af kólerunni, og margir höfðu orðið að flýja París vegna atvinnuleysis, hefði það þýtt gagnslausa endurtekningu á júnídögunum 1848, án þess að fyrir hendi væri sama ástand, sem þá hafði leitt til hinnar örvæntingarfullu baráttu. Fulltrúar öreiganna gerðu hið eina skynsamlega. Þeir skuldbundu Fjallið til að hefjast handa, þ. e. rjúfa hinn þingræðislega ramma baráttunnar, ef málsóknartillaga þess yrði felld. Allan daginn 13. júní voru því öreigarnir efasamir áhorfendur og biðu þess, að til alvarlegra og óafturkallanlegra átaka kæmi milli hins lýðræðissinnaða þjóðvarðliðs og hersins, svo að þeir gætu tekið þátt í baráttunni og þar með knúið byltinguna áfram út yfir þau þröngu takmörk, sem smáborgararnir vildu setja henni. Ef sigur ynnist, var til reiðu kommúna öreiganna, sem átti að standa andspænis hinni opinberu ríkisstjórn. Verkamenn Parísar höfðu lært sitthvað í hinum blóðuga skóla júnímánaðar 1848.

12. júní lagði Lacrosse ráðherra sjálfur til á fundi löggjafarþingsins, að málsóknartillagan yrði þegar tekin til umræðu. Stjórnin hafði um nóttina gert allar ráðstafanir til varnar og sóknar; meirihluti þjóðþingsins var ráðinn í að hrekja hinn uppreisnargjarna minnihluta út á götuna. Minnihlutinn sjálfur gat ekki hörfað lengur, teningunum hafði verið varpað. Málsóknartillögunni var hafnað með 377 atkvæðum gegn 8, og Fjallið, sem hafði setið hjá, hörfaði með nöldri inn í málfundasal hins „friðsamlega lýðræðis", ritstjórnarskrifstofur „Démocratie pacifique".[1] Við það að yfirgefa þinghúsið, missti þingið mátt sinn, eins og risinn Antaios glataði honum við að fjarlægjast jörðina. Meðlimir Fjallsins líktust Samson, þegar þeir sátu í þingsalnum, en í húsakynnum hins „friðsamlega lýðræðis" voru þeir aðeins filistear. Nú kom til langvarandi, háværra og máttlausra umræðna. Fjallið var ákveðið í að tryggja með öllum ráðum, „aðeins ekki með vopnavaldi", að stjórnarskránni yrði hlýtt. Þessi ákvörðun var studd af ávarpi og sendinefnd „vina stjórnarskrárinnar", en þannig nefndu sig nú leifarnar af „National"-klíkunni, flokki borgaralegra lýðveldissinna. Þótt sex af þingmönnum þeirra, sem eftir voru, hefðu greitt atkvæði á móti, en hinir allir með höfnun málssóknartillögunnar, og þótt Cavaignac byði sverð sitt til þjónustu flokki laga og reglu, greip sá hluti klíkunnar, er utan þings var, með ákefð þetta tækifæri til að losna úr pólitískri einangrun sinni og komast inn í raðir lýðræðisflokksins. Voru þeir ekki sjálfkjörnir skjaldberar þessa flokks, sem skýldi sér bak við skjöld þeirra og vígorð, stjórnarskrána?

Fæðingarhríðir Fjallsins stóðu fram í dagrenningu. Ávöxtur þeirra var „ávarp til þjóðarinnar", sem um morguninn 13. júní birtist á lítt áberandi stöðum í tveim sósíalískum dagblöðum. Það lýsti forsetann, ráðherrana og meirihluta löggjafarþingsins „í bann stjórnarskrárinnar" (hors la constitution), og hvatti þjóðvarðliðið, herinn og síðast en ekki sízt alþýðuna til að „rísa upp". „Lifi stjórnarskráin!" var vígorð þess, vígorð, sem ekki þýddi neitt annað en „Niður með byltinguna!"

Í samræmi við stjórnarskrárávarp Fjallsins fór 13. júní fram svokölluð friðsamleg mótmælaganga smáborgaranna, þ. e. ganga frá Château d'Eau eftir breiðgötum Parísar. Í henni voru 30 000 manns, mestmegnis þjóðvarðliðsmenn, óvopnaðir, og auk þess nokkrir meðlimir leynifélaga verkamanna. Þeir gengu undir vígorðinu: „Lifi stjórnarskráin!" sem hljómaði vélrænt og kalt, enda var það hrópað með slæmri samvizku af göngumönnunum sjálfum, og alþýðan á gangstéttunum tók undir það með kaldhæðni

[1] Démocratie pacifique: málgagn fylgismanna Fouriers, sem Considérant gaf út í París árin 1843–1851. – *Útg.*

í stað eldmóðs. Í hinn margraddaða söng vantaði bassann. Þegar gangan fór fram hjá aðsetursstað „vina stjórnarskrárinnar“, og á húsþakinu birtist gildvaxin stjórnarskrármálpípa, sem veifaði Claqueur-hatti sínum og hrópaði með þrumuraust: „Lifi stjórnarskráin!“, virtust göngumenn eitt augnablik nær yfirbugaðir af skopleiknum. Sem kunnugt er, komst gangan að innganginum í Rue de la paix, en þar tóku skyttur og riddaralið Changarniers á móti henni á mjög svo ólýðræðislegan hátt, svo að hún sundraðist á augabragði í allar áttir og hrópaði aðeins við og við á flóttanum: „Grípið til vopna!“, svo að uppfyllt yrði hótunin frá þingfundinum 11. júní.

Meirihluti Fjallsins, sem var saman kominn í Rue du Hazard, lagði á flótta, þegar þessi ofbeldisárás á friðsamlega mótmælagöngu, orðrómur um morð óvopnaðra borgara á breiðgötunum og vaxandi hávaði á strætum virtust sýna, að uppreisn væri í aðsigi. Ledru-Rollin og með honum lítill hópur þingmanna bjargaði mannorði Fjallsins. Undir vernd stórskotaliðsins í París, sem komið hafði saman í Palais National, fóru þeir til „Conservatoire des arts et métiers,“[1] þar sem fimmta og sjötta herdeild þjóðvarðliðsins átti að mæta. En meðlimir Fjallsins biðu árangurslaust eftir fimmtu og sjöttu herdeildinni; þessir varkáru þjóðvarðliðsmenn brugðust fulltrúum sínum, stórskotaliðið sjálft hindraði alþýðuna í að byggja götuvígi, allsherjar óreiða gerði ókleift að taka nokkrar ákvarðanir, og að lokum gerði fastaherinn árás með byssustingjum. Nokkur hluti þingmannanna var handtekinn, en aðrir komust undan á flótta. Þannig lauk hinum 13. júní.

Ef 23. júní 1848 var uppreisn hinnar byltingarsinnuðu öreigastéttar, var 13. júní 1849 uppreisn hinna lýðræðissinnuðu smáborgara, hvor um sig sígild og hreinræktuð tjáning þeirrar stéttar, sem stóð að baki hennar.

Aðeins í Lyon kom til harðvítugra og blóðugra átaka. Hér stóðu iðnaðaröreigarnir og iðnaðarborgararnir hvorir andspænis öðrum, án milliliða, og verkalýðshreyfingin var því ekki takmörkuð og mótuð af víðtækri hreyfingu, svo að 13. júní fékk á sig allt annan svip. Hvar sem hann annars náði til landsbyggðarinnar, olli hann engri íkveikju – hann var köld elding.

13. júní lýkur fyrsta tímabilinu á æviskeiði hins stjórnarskrárbundna lýðveldis, sem hafði öðlazt sína eðlilegu mynd með samankomu löggjafarþingsins 28. maí 1849. Allur þessi inngangstími fór í hávaðasöm átök milli flokks laga og reglu annars vegar og Fjallsins hins vegar, milli borgarastéttar og smáborgara, sem reyndu árangurslaust að sporna við staðfestingu þess borgara-

[1] Conservatoire des arts et métiers: lista- og handiðnasafn.

lega lýðveldis, sem þeir sjálfir höfðu ætíð stutt í bráðabirgðastjórninni og framkvæmdanefndinni, og þeir höfðu af slíku ofstæki varið gegn öreigunum í júní. 13. júní var mótspyrna þeirra brotin á bak aftur og löggilt einræði sameinaðra konungssinna varð fait accompli.[1] Frá þessu augnabliki var þjóðþingið ekkert annað en velferðarnefnd flokks laga og reglu.

París hafði reynt að koma forsetanum, ráðherrunum og meirihluta þjóðþingsins í „sakborningsástand"; þeir lýstu að sínu leyti París í umsátursástand. Fjallið hafði lýst meirihluta löggjafarþingsins „í bann stjórnarskrárinnar"; en nú dró meirihlutinn Fjallið fyrir hæstarétt vegna stjórnarskrárbrots og ofsótti alla þá meðlimi þess, sem eitthvert lífsmark var með. Gengið var svo að því, að ekki varð eftir nema hjarta- og höfuðlaus skrokkur. Minnihlutinn hafði gert tilraun til þingræðislegrar uppreisnar, og í þess stað gerði nú meirihlutinn þingræðislegt einræði sitt að lögum. Hann samdi ný þingsköp, sem eyðilögðu málfrelsið og gerðu þingforseta kleift að refsa þingmönnum fyrir reglubrot með ræðubanni, fjársektum, sviptingu þingkaups, tímabundnum brottrekstri og fangelsi. Því sem eftir var af Fjallinu, ógnaði hann með svipu í stað sverðs. Ef afgangurinn af þingmönnum þess hefði haft nokkra sómatilfinningu, hefðu þeir gengið út allir sem einn. Það hefði flýtt fyrir upplausn flokks laga og reglu, sem hlaut að sundrast í frumparta sína, þegar ekki var lengur eftir vottur af andstæðing, er héldi honum saman.

Samtímis því, að lýðræðissinnaðir smáborgarar voru sviptir valdi sínu á þingi, glötuðu þeir einnig vopnavaldi sínu, er stórskotaliðið í París var leyst upp, ásamt áttundu, níundu og tólftu herdeild þjóðvarðliðsins. Hins vegar hlaut herdeild fésýsluvaldsins, sem 13. júní hafði ráðizt á prentsmiðjur Boulés og Roux, eyðilagt prentvélar og skrifstofur lýðveldissinnaðra dagblaða og handtekið án lagaheimildar ritstjóra, setjara, prentara, afgreiðslumenn og sendla, hrós fyrir vikið úr ræðustól þingsins. Um allt Frakkland voru leystar upp deildir þjóðvarðliðsins, er grunaðar voru um hollustu við lýðveldið.

Ný lög gegn prentfrelsi og félagsfrelsi, ný lög um umsátursástand, troðfull fangelsi í París, pólitískir flóttamenn hraktir úr landi, öll blöð bönnuð, sem voru róttækari en „National", Lyonborg og fimm héruð í kringum hana ofurseld einræði hersins, leynilögreglumenn á hverju strái, enn ein hreinsun meðal ríkisstarfsmanna, – þetta voru hinar venjulegu, óhjákvæmilegu aðgerðir hins sigursæla afturhalds, sem eftir fjöldamorðin og útlegðardómana í júní skiptu aðeins máli vegna þess, að nú var

[1] fait accompli: endanleg staðreynd.

þeim ekki beint einungis gegn París, heldur einnig gegn landsbyggðinni, ekki einungis gegn öreigunum, heldur fyrst og fremst gegn millistéttunum.

Kúgunarlögin, sem lögðu ákvörðun um umsátursástand í vald stjórnarinnar, kefluðu blöðin enn rækilegar og gereyddu samtakafrelsinu, kröfðust alls starfstíma þjóðþingsins mánuðina júní, júlí og ágúst. Það, sem þó einkennir þetta tímabil mest, eru ekki staðreyndirnar um hagnýtingu sigursins, heldur hugmyndirnar að baki þeim, ekki ákvarðanir þjóðþingsins, heldur tilgangurinn að baki þeim, ekki athafnirnar, heldur orðin, og þó ekki orðin, heldur frekar áherzlan og látbragðið, sem gáfu orðunum líf. Blygðunarlaus og tillitslaus auglýsing á konungssinnuðu hugarfari, stórbokkaleg fyrirlitning og móðganir í garð lýðveldisins, léttúðarfull lausmælgi um fyrirhugaða endurreisn konungdæmis, í einu orði sagt oflátungsleg brot gegn heiðri lýðveldisins eru það, sem gefur þessu tímabili þess sérstaka litaraft. Lifi stjórnarskráin! var vígorð hinna sigruðu 13. júní. Sigurvegararnir losnuðu þannig undan þeirri kvöð, að gera sér upp hollustu við stjórnarskrána, þ. e. lýðveldið. Gagnbyltingin hafði lagt undir sig Ungverjaland, Ítalíu og Þýzkaland, og þeir álitu því, að endurreisnin stæði fyrir dyrum í Frakklandi. Nú byrjaði regluleg samkeppni milli leiðtoga hinna ýmsu flokksbrota laga og reglu; hver um sig reyndi að auglýsa konungshollustu sína í Moniteur og skrifta fyrir frjálslyndissyndir sínar á dögum konungdæmisins, gera iðrun og yfirbót fyrir guði og mönnum. Enginn dagur leið án þess, að febrúarbyltingin væri í ræðustól þjóðþingsins kölluð þjóðarógæfa, án þess að einhver sveitajúnkarinn lýsti því hátíðlega yfir, að hann hefði aldrei viðurkennt lýðveldið, án þess að einhver af huglausum liðhlaupum og svikurum júlíkonungdæmisins segði frá þeim hetjudáðum, sem hann hefði drýgt, ef ekki hefði komið til mannást Loðvíks Filippusar eða einhver annar misskilningur. Það sem aðdáanlegt var við febrúardagana, var ekki göfuglyndi hinnar sigursælu alþýðu, heldur sjálfsafneitun og hófsemi konungssinna, sem fært höfðu henni sigurinn. Einn af þingmönnum lagði til, að nokkur hluti af því fé, sem varið var til að styrkja örkumlamenn frá febrúar, skyldi renna til borgarvarðliðsins, sem eitt hafði á þessum dögum reynzt föðurlandinu tryggt. Annar vildi láta reisa líkneski af hertoganum af Orleans á Carrousel-torgi. Thiers kallaði stjórnarskrána skítugan pappírssnepil. Hver á eftir öðrum birtust í ræðustólnum orleanistar, sem iðruðust undirróðurs síns gegn hinu lögmæta konungdæmi, legitimistar, sem iðruðust þess að hafa barizt gegn ólögmætu konungdæmi og flýtt þannig fyrir hruni konungdæmisins sem slíks; Thiers iðraðist baktjaldamakks

síns gegn Molé, Molé hins sama gagnvart Guizot og Barrot gagnvart öllum þrem fyrrnefndum. Vígorðið: „Lifi hið sósíaldemókratíska lýðveldi!" var lýst ósamrýmanlegt stjórnarskránni; vígorðið: „Lifi lýðveldið!" var ofsótt og talið sósíaldemókratískt. Á ártíð orustunnar við Waterloo lýsti einn þingmaður yfir: „Ég óttast minna innrás Prússa en komu byltingarsinnaðra flóttamanna til Frakklands". Ákærum um ógnarstjórn, sem innleidd hafði verið í Lyon og nálægum héruðum, svaraði Baraguay d'Hilliers: „Ég tek hvítu ógnarstjórnina fram yfir hina rauðu". (J'aime mieux la terreur blanche que la terreur rouge). Og þingið svaraði með áköfu lófaklappi, í hvert sinn sem einhverjum þingmanni tókst að komast vel að orði gegn lýðveldinu, byltingunni, stjórnarskránni, eða í þágu konungdæmisins og helga bandalagsins. Hvert brot á hinum smæstu formsatriðum lýðveldisins, t. d. því, að ávarpa skyldi þingmenn sem „borgara", vakti hrifningu þessara riddara laga og reglu.

Aukakosningarnar í París 8. júlí, sem haldnar voru undir áhrifum umsátursástandsins og án þátttöku mikils hluta öreiganna, innreið franska hersins í Róm og þar með afturkoma páfavaldsins ásamt rannsóknarrétti og munkaógnarstjórn – allt þetta bætti nýjum sigrum við júnísigurinn og jók á sigurvímu flokks laga og reglu.

Um miðjan ágúst frestuðu konungssinnar loks þingfundum um tvo mánuði, sumpart í þeim tilgangi, að taka þátt í héraðsþingum, sem þá komu saman, sumpart vegna þess að þeir voru þreyttir eftir tveggja mánaða sigurhrós. Af gagnsærri kaldhæðni skildu þeir eftir sem staðgengil þjóðþingsins og verndara lýðveldisins 25 manna nefnd, skipaða úrvalsliði orleanista og legitimista, þar á meðal Molé og Changarnier. Kaldhæðnin risti enn dýpra en þá grunaði: Þá, sem sagan hafði áður dæmt til að aðstoða við umbyltingu konungdæmisins, sem þeir elskuðu, hafði hún nú dæmt til að halda lífinu í lýðveldinu, sem þeir hötuðu.

Með frestun löggjafarþingsins lýkur öðru æviskeiði hins löggilta lýðveldis, hinum konungssinnaða götustráksaldri.

Umsátursástandinu hafði nú verið létt af París, og blöðin höfðu aftur tekið til starfa. Meðan sósíaldemókratísk blöð voru bönnuð, meðan kúgunarlögin giltu enn og konungssinnar höfðu sem hæst um sig, varð blaðið „Siècle", hinn gamli fulltrúi smáborgaralegra stuðningsmanna þingbundinnar konungsstjórnar, nú lýðveldissinnað, „Presse",[1] fyrrum málgagn borgaralegra um-

[1] „La Presse" – franskt dagblað, sem kom út frá 1836. 1848–1849 studdi það borgaralega lýðveldissinna, en seinna Bonapartista. 1836–1857 var Émile de Girardin ritstjóri blaðsins. – *Útg.*

bótamanna, varð lýðræðissinnað, og „National", hið gamla sígilda málgagn borgaralegra lýðveldissinna, varð sósíalískt.

Leynifélögin stækkuðu og juku starfsemi sína, samtímis því, að hinum opinberu flokkum var gert ókleift að starfa. Samtök iðnaðarmanna, sem verið höfðu hrein verzlunarfélög án nokkurs efnahagslegs valds, urðu nú pólitískir tengiliðir öreiganna. Atburðirnir 13. júní höfðu svipt hina ýmsu hálf-byltingarsinnuðu flokka sínum opinberu höfðum, og alþýðan, sem eftir stóð, öðlaðist sitt eigið höfuð. Riddarar laga og reglu höfðu hrætt fólk með þeim skelfingum, sem hið rauða lýðveldi mundi leiða yfir það; nú höfðu svívirðileg og frumstæð grimmdarverk hinnar sigursælu gagnbyltingar í Ungverjalandi, Baden og Róm hvítþvegið hið „rauða lýðveldi". Og óánægðar millistéttir hins franska þjóðfélags fóru nú að taka rauða lýðveldið með fyrirheitum þess og vafasömum ógnum fram yfir hið rauða konungdæmi með ógnarstjórn og algjöru vonleysi. Enginn sósíalisti rak sterkari áróður fyrir byltingunni í Frakklandi en Haynau. A chaque capacité selon ses œuvres![1]

Á meðan þetta gerðist, notaði Loðvík Bonaparte þingfundahléið til konunglegra ferðalaga um landsbyggðina, æstustu legitimistarnir fóru í pílagrímsferðir til afkomanda Loðvíks helga í Ems,[2] og meirihluti þingmannanna rak áróður á héraðsþingunum, sem voru nýkomin saman. Nú þurfti að fá þau til að kveða upp úr um það, sem þjóðþingið hafði enn ekki þorað að hafa orð á: bera fram kröfu um tafarlausa endurskoðun stjórnarskrárinnar. Samkvæmt stjórnarskránni sjálfri var ekki hægt að endurskoða hana fyrr en 1852, og þá á þjóðþingi, sem kjörið hefði verið sérstaklega í þeim tilgangi. En ef meirihluti héraðsþingmanna tæki undir þessa kröfu, varð þá ekki þjóðþingið að fórna meydómi stjórnarskrárinnar í samræmi við rödd Frakklands? Þjóðþingið batt við héraðsþingin sömu vonir og nunnurnar í kvæði Voltairs, Henriade, bundu við Pandúrana. En með fáeinum undantekningum stóðu þjóðþingmenn og héraðsþingmenn hvorir andspænis öðrum eins og Potífar og Jósef. Meirihluti hinna síðarnefndu fékkst ekki til að skilja þessi áleitnu tilmæli. Endurskoðun stjórnarskrárinnar var hindruð einmitt af því verkfæri, sem nota átti til að knýja hana fram. Rödd Frakklands, og það hins borgaralega Frakklands, hafði talað og talað gegn endurskoðun.

Í byrjun október kom hið löggefandi þjóðþing aftur saman

---

[1] Sérhver beri úr býtum það, sem hann vinnur til. – *Útg.*

[2] Þ. e. konungsefni Bourbon-ættarinnar, Chambord greifi (síðar Hinrik V.). – *Útg.*

– tantum mutatus ab illo![1] Svipur þess var gerbreyttur. Hin óvænta höfnun endurskoðunartillögunnar af hálfu héraðsþingmanna hafði vísað því aftur inn fyrir takmörk stjórnarskrárinnar, og minnt það á takmörk þess eigin ævi. Orleanistar voru tortryggnir vegna pílagrímsferða legitimista til Ems, legitimistar voru tortryggnir vegna samningamakks orleanista í London,[2] málgögn beggja flokka höfðu skarað í glæðurnar og deilt um verðleika hvors konungsefnis um sig. Orleanistar og legitimistar sameinuðust í hneyklun sinni á undirróðri Bonapartista, meira eða minna gagnsæjum valdaránstilburðum forsetans og ósvífnum skrifum bonapartískra blaða; Loðvík Bonaparte var óánægður með þetta þjóðþing, sem ekki sinnti neinu öðru en legitimistískum og orleanistískum samsærum, og með ráðuneytið, sem stöðugt sat ásamt þinginu á svikráðum við hann. Hvað ráðuneytið snerti, var það klofið vegna stefnunnar í Rómarmálinu og vegna tillögu Passy ráðherra um tekjuskatt, er íhaldsmenn höfðu stimplað sem sósíalíska.

Eitt af fyrstu frumvörpum stjórnar Barrots, eftir að löggjafarþingið kom saman á nýjan leik, var krafa um 300 000 franka fjárveitingu til að greiða hertogaynjunni af Orleans eftirlaun. Þjóðþingið samþykkti hana og bætti sjö milljónum franka við skuldalista frönsku þjóðarinnar. Meðan Loðvík Filippus lék þannig með góðum árangri hlutverk hins umkomulausa betlara, fékkst stjórnin ekki til að biðja um launahækkun handa Bonaparte, né heldur virtist þingið fúst til þess að veita hana. Og Loðvík Bonaparte stóð eins og áður frammi fyrir tvíkostinum: Aut Caesar aut Clichy![3]

Önnur fjárveitingarkrafa ráðuneytisins, um níu milljónir franka til að standa straum af kostnaði við herferðina til Rómar jók enn á spennuna milli Bonaparte annars vegar og þjóðþings og ráðherra hins vegar. Loðvík Bonaparte hafði birt í „Moneteur“ bréf til herfulltrúa síns, Edgard Ney, þar sem hann lagði til, að stjórn páfans yrði eftirleiðis stjórnarskrárbundin. Páfinn hafði að sínu leyti birt ávarp, „motu proprio“,[4] þar sem hann hafnaði öllum takmörkunum á hinum endurreistu völdum. Bréf Bonapartes lyfti af ásettu ráði tjaldinu frá ráðuneyti hans, til þess að hann gæti sjálfur birzt áhorfendum sem góðviljaður landsfaðir, en vanvirtur og heftur á eigin heimili. Þetta var ekki í fyrsta sinn, sem hann daðraði við „leynt vængjablak hinnar

[1] tantum mutatus ab illo: hve mjög var breytt frá því, sem áður var.
[2] Loðvík Filippus, sem eftir febrúarbyltinguna hafði flúið til Englands, bjó nú nálægt London. – *Útg.*
[3] Annað hvort Caesar eða Clichy! (Clichy var skuldafangelsi í París). – *Útg.*
[4] motu proprio: af eigin hvötum.

frjálsu sálar". Thiers, forseti viðkomandi nefndar, skeytti ekkert um vængjablak Bonapartes og lét sér nægja að þýða ávarp páfans á frönsku. Það var ekki stjórnin, heldur Victor Hugo, sem reyndi að bjarga forsetanum með dagskrártillögu um að þjóðþingið lýsti stuðningi við bréf Napóleons. Allons donc! Allons donc![1] Með þessari fyrirlitningarfullu og léttúðugu upphrópun hafnaði meirihlutinn tillögu Hugos. Stefna forsetans? Bréf forsetans? Forsetinn sjálfur? Allons donc! Allons donc! Hverjum dettur í hug að taka Monsieur Bonaparte alvarlega? Haldið þér, Monsieur Victor Hugo, að við trúum því, að þér trúið á forsetann? Allons donc! Allons donc!

Síðast en ekki sízt flýttu umræðurnar um endurkomu Orleans- og Bourbonættanna fyrir vinslitum milli Bonapartes og þjóðþingsins. Þar eð stjórnin hafði ekki fengizt til þess, hafði frændi forsetans, sonur fyrrverandi konungs í Westfalen, borið fram þessa tillögu, sem miðaði ekki að neinu öðru en lækka hin legitimistísku og orleanistísku konungsefni niður á sama stig eða öllu heldur neðar en hið bonapartíska keisaraefni, sem þó var a. m. k. þjóðhöfðingi.

Napóleon Bonaparte var svo óskammfeilinn að fella heimfararleyfi til handa hinum brottreknu konungsfjölskyldum og sakaruppgjöf til handa júníuppreisnarmönnum inn í eina og sömu tillögu. Hneykslun meirihlutans neyddi hann strax til að falla frá þessari óguðlegu samtengingu hins heilaga og hins svívirðilega, konungakyns og öreigalýðs, fastastjarna og mýrarljósa þjóðfélagsins og skipa hvorri tillögunni um sig þann sess sem henni bar. Meirihlutinn hafnaði eindregið heimköllun konungsfjölskyldunnar, og Berryer, Demosþenes legitimistanna, lét engan efast um merkingu þessarar höfnunar. Borgaraleg niðurlæging konungsefnanna er það, sem sótzt er eftir! Það á að svipta þá geislabaugnum, síðustu tigninni, sem þeim var eftir skilin, hátign útlegðarinnar. Hvað mundu menn halda um það konungsefni, hrópaði Berryer, sem gleymdi sínum tigna uppruna og kæmi aftur til að lifa sem óbreyttur borgari? Ekki var unnt að segja Loðvík Bonaparte það með skýrari orðum, að nærvera hans nægði ekki til sigurs, að þótt hinir sameinuðu konungssinnar þörfnuðust hans hér í Frakklandi sem hlutlauss aðila í forsetastól, varð að skýla alvöru-konungsefnunum frá sjónum almennings með þoku útlegðarinnar.

Hinn 1. nóvember svaraði Loðvík Bonaparte löggjafarþinginu með boðskap, sem með ómjúkum orðum tilkynnti, að stjórn Barrots væri leyst frá störfum og mynduð yrði ný. Stjórn Barrots og Falloux hafði verið stjórn hinnar konungssinnuðu samfylking-

[1] Allons donc: svona nú!

ar, stjórn d'Hautpouls var stjórn Bonapartes, verkfæri forsetans gagnvart þjóðþinginu, ráðuneyti samansett af forsetafulltrúum.

Bonaparte var ekki lengur hinn hlutlausi aðili frá 10. desember 1848. Yfirráðin yfir framkvæmdavaldinu höfðu fylkt um hann ýmsum hagsmunahópum, baráttan gegn stjórnleysinu hafði neytt flokk laga og reglu sjálfan til að hlaða undir áhrif hans, og þótt hann væri ekki vinsæll, var flokkurinn þar á móti beinlínis óvinsæll.

Gat hann ekki gert sér vonir um að neyða orleanista og legitimista, vegna innbyrðis keppni þeirra og vegna þess að nauðsynlegt var að endurreisa konungsveldi, til þess að fallast á hlutlaust þjóðhöfðingjaefni?

1. nóvember 1849 hefst þriðja æviskeið hins löggilta lýðveldis, sem lýkur 10. marz 1850. Nú byrjar ekki aðeins hinn venjulegi samleikur stjórnarstofnananna, sem Guizot dáist svo mjög að, rifrildi framkvæmda- og löggjafarvalds. Gegn endurreisnarviðleitni sameinaðra orleanista og legitimista varði Bonaparte sitt áþreifanlega vald, þ. e. lýðveldi; gegn endurreisnarviðleitni Bonapartes varði flokkur laga og reglu réttlætingu sinna sameiginlegu valda, þ. e. lýðveldið; legitimistar vörðu gegn orleanistum og orleanistar gegn legitimistum ríkjandi ástand, lýðveldið. Öll brot flokks laga og reglu, sem hvert um sig höfðu sinn eigin konung og sína eigin endurreisn að takmarki, vörðu gegn keppinautum sínum hin sameiginlegu völd borgarastéttarinnar, það form, sem dregur úr og sættir hina einstöku hagsmuni – lýðveldið.

Eins og Kant hafði gert lýðveldið, hið eina skynsamlega stjórnskipulag, að kröfu hinnar praktísku skynsemi, sem aldrei verður framkvæmd, en þó verður stöðugt að framfylgja og hafa í huga, þannig fórst nú þessum konungssinnum við konungdæmið.

Þannig varð hið stjórnarskrárbundna lýðveldi, sem í höndum borgaralegra lýðveldissinna var ekkert annað en innantóm ídeólógísk formúla, að lifandi formi með tilheyrandi innihaldi í höndum sameinaðra konungssinna. Thiers varð sannara orð á munni en hann grunaði, þegar hann sagði: „Við konungssinnar erum hinir einu sönnu stuðningsmenn hins stjórnarskrárbundna lýðveldis".

Hrun samfylkingarráðuneytisins og valdataka fulltrúaráðuneytisins hafði enn aðra þýðingu. Fjármálaráðherra hinnar nýju stjórnar hét Fould. Fould í sæti fjármálaráðherra – það þýddi, að þjóðarauður Frakklands var ofurseldur kauphöllinni, ríkiseignunum stjórnað af kauphöllinni og í þágu kauphallarinnar. Með útnefningu Foulds tilkynnti fésýsluvaldið í „Moniteur"

sína endurreisn. Þessi endurreisn var óhjákvæmileg uppfylling hinna endurreisnanna, sem mynduðu hver um sig hlekk í fjötrum hins stjórnarskrárbundna lýðveldis.

Loðvík Filippus hafði aldrei dirfzt að gera ósvikinn loup-cervier (kauphallarúlf) að fjármálaráðherra. Eins og konungdæmi hans var háfleyg nafnbót fyrir völd stórborgarastéttarinnar, þannig urðu hagsmunir forréttindahópanna að koma fram í ráðuneytum hans undir ídeólógískum og hlutlausum nafnbótum. Hið borgaralega lýðveldi leiddi alls staðar fram á sjónarsviðið það, sem hin ýmsu konungdæmi, legitimistísk eða orleanistísk, höfðu leynt að tjaldabaki. Það gerði jarðneska þá hluti, sem þau höfðu gert himneska. Í stað dýrlinganafnanna setti það borgaraleg eiginnöfn ríkjandi stéttarhagsmuna.

Öll frásögn okkar hefur sýnt, að frá upphafi vega reyndi lýðveldið ekki að steypa fésýsluvaldinu, heldur festi það þvert á móti í sessi. En á tilslakanirnar við það var litið sem óumflýjanleg örlög, án þess að þær væru í sjálfu sér æskilegar. Þegar Fould varð ráðherra, öðlaðist fésýsluvaldið aftur frumkvæði í stjórninni.

Nú kunna menn að spyrja, hvernig hin sameinaða borgarastétt gat þolað yfirráð fésýsluvaldsins, sem á dögum Loðvíks Filippusar byggðust á útilokun eða undirokun annarra hluta borgarastéttarinnar.

Svarið er einfalt.

Í fyrsta lagi myndaði fésýsluvaldið sjálft voldugan hluta hinnar konungssinnuðu samfylkingar, sem átti sitt sameiginlega ríkisvald í lýðveldinu. Eru ekki talsmenn og kunnáttumenn orleanista gamlir bandamenn fésýsluvaldsins og samsekir því? Er það ekki sjálf úrvalsfylking orleanismans? Hvað legitimistana snertir, höfðu þeir þegar á dögum Loðvíks Filippusar tekið þátt í öllu kauphallar-, náma- og járnbrautarbraski. Yfirleitt er sameining stórjarðeigenda og fésýslumanna staðreynd; sönnun þess er England og jafnvel Austurríki.

Í landi eins og Frakklandi, þar sem þjóðarframleiðslan er óvenjulega lítil í hlutfalli við þjóðarskuldirnar, þar sem ríkisvextir eru eitt aðaltilefni brasks og kauphöllin er bezti vettvangur fyrir það auðmagn, sem vill ávaxta sig utan framleiðslunnar – í slíku landi hlýtur aragrúi fólks úr öllum borgaralegum og hálfborgaralegum stéttum að eiga hagsmuna að gæta í ríkisskuldum, kauphallarbraski og fésýslu. Hljóta ekki allir þessir minni háttar þátttakendur að finna sér stoð og forustu í því stéttarbroti, sem í stærstum stíl, í heild sinni berst fyrir þessum hagsmunum?

Hvað veldur því, að ríkiseignirnar féllu í hendur fésýslu-

valdsins? Skuldabaggi ríkisins. Og hvað veldur honum? Stöðug útgjöld umfram tekjur, en þetta misræmi er í senn orsök og afleiðing ríkislánakerfisins. Til þess að losna við þennan skuldabagga, yrði ríkið annað hvort að takmarka útgjöld sín, þ. e. gera ríkisvélina einfaldari, takmarka stjórnarstörf og starfslið eins og hægt er, hafa sem allra minnst samband við hið borgaralega þjóðfélag. Þessa leið gat flokkur laga og reglu ekki farið, hann þarfnaðist því fleiri kúgunartækja, meiri ríkisíhlutunar og meiri ítaka í ríkisstofnunum, sem völdum og lífsskilyrðum stéttar hans var stofnað í meiri hættu. Það er ekki hægt að fækka í lögreglu að sama skapi og fjölgar árásum á persónur og eignir. Á hinn bóginn gat ríkið reynt að skjóta sér undan skuldunum og skapa stundarjafnvægi í fjárlögunum með því að leggja sérstaka skatta á auðugustu stéttirnar. Átti flokkur laga og reglu að forða þjóðarauðæfunum frá kauphallarbröskurunum, með því að fórna sínum eigin auðæfum á altari föðurlandsins? Pas si bête![1]

Án algerrar umbyltingar hins franska ríkisvalds var þannig ekki möguleg nein breyting á ríkisbúskapnum. Þessum ríkisbúskap fylgdi óhjákvæmilega skuldabagginn og í kjölfar hans sigldu völd ríkisskuldabraskaranna, lánardrottna, bankastjóra, fésýslumanna og kauphallarúlfa. Aðeins eitt brot úr flokki laga og reglu hafði tekið beinan þátt í að steypa fésýsluvaldinu – verksmiðjueigendur. Hér er ekki átt við smærri og meðalstóra iðnrekendur, heldur hina umfangsmestu, sem á dögum Loðvíks Filippusar höfðu myndað grundvöll hinnar konungssinnuðu stjórnarandstöðu. Þeir hafa tvímælalaust hag af lækkuðum framleiðslukostnaði, þ. e. minnkun skatta, sem lagðir eru á framleiðsluna, þ. e. minnkun ríkisskulda, því að vextir af þeim koma fram í sköttunum – þar af leiðandi höfðu þeir hag af að steypa fésýsluvaldinu.

Í Englandi – og stærstu verksmiðjueigendur í Frakklandi eru smáborgarar í samanburði við enska keppinauta sína – eru það í raun og sannleika verksmiðjueigendur, eins og t. d. Cobden eða Bright, sem eru í fararbroddi krossferðarinnar gegn bönkum og kauphallarvaldi. Hvers vegna ekki í Frakklandi? Í Englandi er iðnaðurinn höfuðatvinnugrein, en í Frakklandi landbúnaður. Í Englandi þarfnast iðnaðurinn frjálsrar verzlunar, en í Frakklandi verndartolla, þjóðareinokunar við hlið annarra einokunarfyrirtækja. Franski iðnaðurinn er ekki ráðandi innan frönsku framleiðslunnar, og franskir iðnrekendur eru því ekki ráðandi innan frönsku borgarastéttarinnar. Ef þeir vilja gæta hagsmuna sinna

[1] Pas si bête: svo heimskur er hann ekki.

gegn öðrum brotum borgarastéttarinnar, geta þeir ekki eins og enskir stéttarbræður þeirra tekið forustu hreyfingarinnar og um leið sett stéttarhagsmuni sína á oddinn; þeir verða að gerast fylgiliðar byltingarinnar og þjóna hagsmunum, sem eru andstæðir stéttarhagsmunum þeirra. Í febrúar höfðu þeir ekki áttað sig á aðstöðu sinni, en eftir febrúar vitkuðust þeir. Og hverjum er frekar ógnað af verkamönnunum en vinnuveitandanum, iðnaðarkapítalistanum? Iðnrekandinn hlaut því í Frakklandi að verða ofstækisfyllsti meðlimur flokks laga og reglu. Hvað er skerðing fésýsluvaldsins á gróða hans á móti afnámi gróðans af hálfu öreiganna?

Í Frakklandi gerir smáborgarinn það, sem undir eðlilegum kringumstæðum ætti að falla í hlut iðnaðarborgarans; verkamaðurinn gerir það, sem smáborgarinn ætti að gera, og hver leysir af hendi hlutverk verkamannsins? Enginn. Í Frakklandi verður það ekki leyst, því er aðeins lýst yfir. Það verður hvergi framkvæmt innan þjóðlegra takmarka, stéttastyrjöldin innan hins franska þjóðfélags hlýtur að breytast í heimsstyrjöld, þar sem hinar ýmsu þjóðir mætast. Framkvæmdin mun fyrst hefjast á því augnabliki, er heimsstyrjöldin færir öreigunum völdin í því landi, sem ræður yfir heimsmarkaðinum, þ. e. Englandi. Sú bylting, sem endar ekki, heldur byrjar með þessu, er ekkert augnabliksverk. Núverandi kynslóð má líkja við Gyðinga, sem Móses leiddi í gegnum eyðimörkina. Hún þarf ekki aðeins að vinna nýjan heim, heldur og að líða undir lok, til þess að rýma fyrir mönnum, sem vaxnir eru hinum nýja heimi.

Víkjum nú aftur að Fould.

Hinn 14. nóvember 1849 steig Fould í ræðustól þjóðþingsins og útskýrði fjármálakerfi sitt: Lifi hið gamla skattakerfi! Vínskattinum skal haldið við! Tekjuskattur Passys skal afnuminn!

Passy var heldur enginn byltingarmaður – hann var gamall ráðherra Loðvíks Filippusar. Hann var einn af hreintrúarmönnunum úr flokki Dufaures og einn af nánustu vinum Testes, syndahafurs júlíkonungdæmisins.[1] Passy hafði líka farið lofsyrðum um gamla skattakerfið og mælt með því, að vínskattinum yrði viðhaldið, en hann hafði um leið svipt hulunni af greiðsluhalla ríkisins. Hann hafði lýst yfir nauðsyn nýs skatts, tekjuskattsins, ef ríkið ætti ekki að verða gjaldþrota. Fould, sem hafði

[1] Hinn 8. júlí 1847 hófst frammi fyrir efri deild þingsins í París málssókn gegn Parmentier og Cubères hershöfðingja fyrir að hafa mútað embættismönnum til að fá leyfi til saltvinnslu, og enn fremur gegn fyrrverandi ráðherra opinberra framkvæmda, Teste, fyrir að hafa tekið við þessum mútum. Hinn síðastnefndi gerði tilraun til sjálfsmorðs, meðan á málaferlum stóð. Allir voru dæmdir í þungar fjársektir og Teste þar að auki í þriggja ára fangelsi. – Athugasemd Engels við 1895-útgáfuna.

mælt með ríkisgjaldþroti við Ledru-Rollin, mælti nú með greiðsluhallanum við löggjafarþingið. Hann lofaði sparnaðarráðstöfunum, en leyndarmál þeirra kom síðar í ljós, – útgjöldin minnkuðu t. d. um 60 milljónir og um leið hækkuðu skuldirnar um 200 milljónir. Þetta stafaði af alls konar töfrabrögðum í samlagningu og útreikningi, sem öll miðuðu að nýrri lántöku. Á stjórnardögum Foulds þurfti fésýsluvaldið að taka tillit til annarra brota borgarastéttarinnar og var því ekki jafn óskammfeilið og spillt og á dögum Loðvíks Filippusar. En kerfið var hið sama: stöðug skuldaaukning, stöðugt var klórað yfir greiðsluhallann. Og með tímanum kom hið gamla kauphallarsvindl aftur skýrar fram. Dæmi um það eru lögin um Avignon-járnbrautina, hinar dularfullu verðsveiflur ríkisskuldabréfanna, sem um skeið voru aðal-umræðuefni allrar Parísar, og enn fremur misheppnað brask Foulds og Bonapartes í sambandi við kosningarnar 10. marz.

Eftir að fésýsluvaldið hafði opinberlega verið endurreist, hlaut franska þjóðin bráðlega að efna til nýs 24. febrúar.

Af illgirni gagnvart erfingja sínum hafði stjórnlagaþingið afnumið vínskattinn á árinu 1850. En nýjar skuldir var ekki hægt að borga með afnámi allra skatta. Creton, fífl eitt úr flokki laga og reglu, hafði þegar fyrir frestun þingfunda lagt til að vínskatturinn yrði framlengdur. Fould tók þessa tillögu upp í nafni hins bonapartíska ráðuneytis, og 20. desember 1849, á þeim degi er ár var liðið frá embættistöku Bonapartes, fyrirskipaði þjóðþingið endurreisn vínskattsins.

Málsvari þessarar endurreisnar var ekki fésýslumaður, heldur Jesúítaforinginn Montalembert. Röksemdafærsla hans var ákaflega einföld. Skattarnir eru móðurbrjóst ríkisstjórnarinnar. Ríkisstjórnin, það eru kúgunartækin, valdastofnanir, herinn, lögreglan, embættismennirnir, dómararnir, ráðherrarnir og prestarnir. Árás á skattana jafngildir árás stjórnleysingja á verði laga og reglu, sem vernda efnalega og andlega framleiðslu hins borgaralega þjóðfélags gegn árásum öreigaskrílsins. Skattarnir eru hinn fimmti guðdómur, ásamt eignarréttinum, fjölskyldunni, lögum og reglu og trúarbrögðunum. Og vínskatturinn er tvímælalaust skattur, og það enginn venjulegur skattur, heldur gamall, konungssinnaður og virðingarverður skattur. Vive l'impôt des boissons! Three cheers and one cheer more![1]

Þegar franski bóndinn málar skrattann á vegginn, málar hann hann í líki skattheimtumanns. Frá því augnabliki, er Montalembert lýsti skattana guðdómlega, varð bóndinn guðlaus og trú-

[1] Lifi drykkjaskatturinn! Þrefalt húrra og enn eitt í viðbót!

laus og gekk á vald djöfulsins, þ. e. sósíalismans. Trúarpostular laga og reglu höfðu glatað honum, jesúítarnir höfðu glatað honum og Bonaparte hafði glatað honum. 20. desember 1849 hafði óafturkallanlega eyðilagt 20. desember 1848. „Bróðursonur föðurbróður síns" var ekki sá fyrsti úr fjölskyldunni, sem vínskatturinn kom í koll, skatturinn, sem eins og Montalembert komst að orði, boðar byltingaróveður. Napóleon hinn mikli, hinn raunverulegi, lýsti því yfir á St. Helenu, að endurreisn vínskattsins hefði átt meiri þátt í ósigri hans en nokkuð annað, þar eð hún hefði komið honum út úr húsi hjá bændunum í Suður-Frakklandi. Þegar á dögum Loðvíks fjórtánda var þessi skattur það, sem alþýðan hataði mest (sjá rit Boisguilleberts og Vaubans), fyrsta byltingin hafði afnumið hann, en Napóleon innleiddi hann aftur í breyttu formi 1808. Þegar hið endurreista konungsveldi hélt innreið sína í Frakkland, fóru fyrir því ekki aðeins kósakkar, heldur einnig loforð um afnám vínskattsins. Aðallinn þurfti að sjálfsögðu ekki að halda loforð sín við skattskyldugan almúgann. 1830 var því enn lofað, að vínskatturinn yrði afnuminn. Það var ekki siður þeirra, sem þá komust til valda, að gera það sem þeir sögðu eða segja það sem þeir gerðu. 1848 var afnámi vínskattsins einnig lofað, því að þá var öllu lofað. Að lokum var það stjórnlagaþingið, sem engu hafði lofað, sem mælti svo fyrir í erfðaskrá sinni, að vínskatturinn skyldi afnuminn 1. janúar 1850. Og réttum tíu dögum fyrir 1. janúar 1850 innleiddi löggjafarþingið hann aftur. Franska alþýðan átti í stöðugum eltingarleik við vínskattinn, og þegar hún hafði rekið hann út um dyrnar, smaug hann aftur inn um gluggann.

Hatur alþýðunnar á vínskattinum stafar af því, að hann sameinar í sér öll verstu einkenni franska skattakerfisins. Hann er innheimtur á óþægilegan hátt og álagning hans er ólýðræðisleg, því að hann nemur jafn-háum hundraðshluta af venjulegum og af dýrum vínum. Hann hækkar þannig í geometrísku hlutfalli, eftir því sem eignir neytendanna minnka – hann er öfugsnúinn stighækkandi skattur. Hann leiðir þannig beinlínis til þess að vinnandi stéttum er gefið inn eitur í mynd falsaðra vína og eftirlíkinga. Hann minnkar neyzluna, því að við hlið allra borga með meira en 4000 íbúum eru teknir tollar og hver borg verður þannig að framandi landi með verndartollum gegn frönsku víni. Vínstórkaupmenn, og þó enn meir hinir smærri, marchands de vins, sem eiga afkomu sína undir vínneyzlunni, eru allir yfirlýstir andstæðingar vínskattsins. Og síðast en ekki sízt, þar sem vínskatturinn minnkar neyzluna, minnkar hann markaðinn fyrir framleiðendunum. Þar eð hann gerir verkamönnum í borgunum ókleift að greiða fyrir vínið, gerir hann vínbændum ókleift

að selja það. Og meðal íbúa Frakklands nema vínframleiðendur og fjölskyldur þeirra um 12 milljónum. Hatur allrar alþýðu og sérstakt ofstæki bændanna gegn vínskattinum er því auðskilið. Þar að auki litu þeir ekki á endurreisn hans sem einstakan, meira eða minna tilviljunarkenndan atburð. Bændurnir eiga sér sína eigin sögulegu arfgeymd, sem gengur að erfðum frá föður til sonar, og samkvæmt henni er það siður hverrar ríkisstjórnar, þegar hún ætlar að pretta bændurna, að lofa afnámi vínskattsins, og þegar þeir hafa bitið á agnið, viðheldur hún vínskattinum eða innleiðir hann aftur. Á vínskattinum geta bændurnir þekkt eðli stjórnarinnar og stefnu. Endurreisn vínskattsins 20. desember þýddi: Loðvík Bonaparte er eins og hinir; en hann var ekki eins og hinir, hann var uppfinning bændanna, og með mörgum milljónum undirskrifta undir beiðni um afnám vínskattsins tóku þeir aftur atkvæðin, sem þeir ári áður höfðu greitt „bróðursyni föðurbróður síns.“

Íbúar sveitahéraðanna, meira en tveir þriðju af öllum íbúum Frakklands, eru að miklum meirihluta sjálfseignarbændur. Fyrsta kynslóð þeirra, sem byltingin 1789 hafði endurgjaldslaust losað við byrðar lénsskipulagsins, hafði ekki greitt neitt verð fyrir jörðina. En næstu kynslóðir greiddu í formi jarðarverðsins það, sem hálfánauðugir forfeður þeirra höfðu greitt í formi afgjalds, tíundar, skylduvinnu o. s. frv. Því meir sem jókst annars vegar fólksfjöldi og hins vegar skipting jarðarinnar – þeim mun dýrari varð jarðarskikinn, því að samtímis og hann minnkaði, óx eftirspurnin. Að sama skapi og verð það óx, sem bóndinn greiddi fyrir jarðarskikann, hvort sem hann keypti hann beinlínis eða lét meðerfingja sína umreikna hann í peninga, óx einnig skuldabyrði bændanna, þ. e. veðkröfurnar. Skuldakröfur, sem hvíla á bændum, eru tryggðar með veðsetningu jarðanna. Eins og lénsskyldurnar íþyngdu jarðeign miðaldanna, þannig íþyngja skuldakröfurnar jarðeign nútímans. – Á hinn bóginn er jörðin í augum eiganda síns fyrst og fremst framleiðslutæki. Og eftir því, sem henni er skipt meira niður, minnkar frjósemi hennar. Notkun véla, verkaskipting, jarðabótaráðstafanir eins og t. d. skurð- og áveitugröftur, allt þetta verður erfiðara og erfiðara, og um leið vex óarðbær kostnaður við ræktunina að sama skapi og jörðinni er skipt niður. Allt þetta er óháð því, hvort eigandi jarðskikans á nokkurt fjármagn eða ekki. En því meir sem skiptingin eykst, því meir verður jarðarskikinn með sínum fátæklega útbúnaði eina auðmagn bóndans og því meir skortir hann fjármagn til að festa í jörðinni, því meir vantar hann jörð, fé og menntun til að hagnýta sér framfarir í landbúnaðarvísindum, og þeim mun meiri afturkippur kemur í ræktunina.

Enn fremur minnkar hreinn arður að því skapi sem brúttóneyzla vex, þar eð öll fjölskylda bóndans er útilokuð frá öðrum störfum vegna jarðeignarinnar og þó ófær um að lifa af henni.

Að sama skapi og fólksfjöldinn og þar með skipting jarðarinnar vex, að því skapi verður framleiðslutækið, jörðin, dýrari, og frjósemi hennar minnkar, og að því skapi hnignar landbúnaðinum og vex skuldabaggi bóndans. Og það, sem áður var afleiðing, verður nú orsök. Hver kynslóð veltir yfir á hina næstu enn meiri skuldabagga en hún tók við, hver kynslóð tekur við óhagstæðari og erfiðari vinnuskilyrðum en hin næsta á undan, eitt veð getur af sér annað og ef bóndinn getur ekki lengur sett jarðarskika sinn að veði fyrir nýjum skuldum, verður hann okraranum að bráð og okurvextirnir vaxa hraðar en allt annað.

Þannig stendur á því, að franski bóndinn afhendir kapítalistanum í formi vaxta af veðtryggðum skuldum eða vaxta af óveðtryggðum okurlánum, ekki aðeins jarðrentuna alla, ekki aðeins allan ágóða sinn, heldur einnig hluta af vinnulaunum sínum, og kemst þannig niður á sama stig og írskur leiguliði – undir því yfirskini, að hann sé sjálfseignarbóndi.

Þessari framvindu var í Frakklandi flýtt af stöðugt vaxandi skattabyrði og málskostnaði, sem sumpart kom til af öllum þeim formsflækjum, er frönsk löggjöf hefur ofið utan um jarðeignirnar, og sumpart af hinum óteljandi árekstrum út af jarðskikum, sem alls staðar takmarka hverjir aðra eða liggja hver innan um annan, sumpart af málssóknaræði bændanna, sem ekki gátu neytt eigna sinna með öðru móti en ofstækisfullri vörn hinna ímynduðu eigna, eignarréttarins.

Samkvæmt hagskýrslum frá 1840 nam brúttóframleiðsla fransks landbúnaðar 5 237 178 000 frönkum. Af þessu fara 3 552 000 000 frankar í framleiðslukostnað, þar með talin neyzla vinnandi fólks. Nettóframleiðslan nemur því 1 685 178 000 frönkum, en þar af fara 550 milljónir í veðrentur, 100 milljónir renna til dómsstarfsmanna, 350 milljónir fara í skatta og 107 milljónir í ýmis gjöld, innritunargjald, stimpilgjald, veðgjöld o. s. frv. Eftir verður þriðjungur nettóframleiðslunnar, 538 milljónir, þ. e. minna en 25 frankar á íbúa.[1] Í þessum útreikningi er að sjálfsögðu ekki tekið tillit til óveðtryggðra okurlána, né heldur þess fjár, sem greitt er málafærslumönnum o. s. frv.

Auðskilin er því aðstaða franskra bænda, þegar lýðveldið hafði bætt nýjum byrðum við hinar gömlu. Eins og menn sjá, er arðránið á þeim aðeins að formi til ólíkt arðráninu á iðnað-

[1] Hér mun um prentvillu að ræða hjá Marx, á að vera 578 en það breytir þó engu verulegu um hlutfallið. – *Útg.*

aröreigunum. Arðræninginn er hinn sami, auðvaldið. Einstakir kapítalistar arðræna einstaka bændur með veðkröfum og okri, kapítalistastéttin arðrænir bændastéttina með ríkissköttum. Eignarréttur bændanna er það töframeðal, sem auðvaldið hefur hingað til notað til að halda þeim í skefjum, og æsa þá upp gegn iðnaðaröreigunum. Aðeins hrun auðvaldsins getur reist við hag bændanna, aðeins andkapítalísk öreigastjórn getur losað þá við efnahagslega eymd og þjóðfélagslega niðurlægingu. Hið stjórnarskrárbundna lýðveldi táknar alræði hinna sameinuðu arðræningja hans, hið sósíaldemókratíska, rauða lýðveldi táknar alræði bandamanna hans. Og vogarskálarnar stíga eða hníga eftir atkvæðaseðlum bændanna. Þeir ákveða sjálfir örlög sín. – Þetta sögðu sósíalistar í alls konar ádeiluritum, árbókum og flugritum. Það varð bændunum auðskiljanlegra vegna andsvara í ritum flokks laga og reglu, sem sneru sér beint til þeirra og slógu einmitt á réttan streng, með grófum ýkjum sínum og ruddalegum lýsingum og túlkunum á hugmyndum og markmiðum sósíalista, sem juku löngunina í hina forboðnu ávexti. Auðskiljanlegust af öllu var sjálf reynsla bændanna af notkun hins almenna kosningarréttar, og vonbrigðin, sem skullu yfir þá ein af öðrum með byltingarhraða. Byltingarnar eru eimreiðar mannkynssögunnar.

Breyting sú, sem smám saman átti sér stað á bændunum, kom fram á margvíslegan hátt. Hún sást þegar í kosningunum til löggjafarþingsins, hún sást á umsátursástandinu í fimm héruðum í kringum Lyon. Nokkrum mánuðum eftir 13. júní kom hún fram í því, að kosinn var frambjóðandi Fjallsins í stað fyrrverandi forseta „Chambre introuvable“[1] í Gironde-héraðinu, og 20. desember var kosinn rauður frambjóðandi í stað látins legitimista í héraðinu du Gard, þessu fyrirheitna landi legitimistanna, þar sem ofbeldisverkin gegn lýðveldissinnum höfðu verið mest 1794 og 1795 og hin hvíta ógnarstjórn ægilegust árið 1815, þegar frjálslyndir menn og mótmælendur voru myrtir á almannafæri. Þessi skoðanalega umbylting íhaldssömustu stéttarinnar varð augljósust eftir endurreisn vínskattsins. Ráðstafanir og löggjöf stjórnarinnar í janúar og febrúar 1850 beinast því nær eingöngu gegn sveitahéruðum og bændum. Þetta var áþreifanlegasta sönnun þeirra framfara, sem þeir höfðu tekið.

Tilskipun Hautpouls, sem setti lögregluþjónana til að njósna um héraðsstjóra, undirhéraðsstjóra og framar öllu þorpsstjóra, og þandi þannig njósnanetið til hinna afskekktustu þorpa; lög gegn

[1] Þannig nefnist fulltrúaþing það, sem kosið var eftir síðari ósigur Napóleons 1815, skipað ofstækisfullum afturhaldsmönnum og konungssinnum. – *Útg.*

skólakennurum, sem leiddu til þess, að þessir ráðgjafar, talsmenn, uppalendur og túlkar bændastéttarinnar urðu undirgefnir duttlungum héraðsstjóranna, voru gerðir að öreigum meðal menntamanna og hraktir eins og veiðidýr á flótta úr einu þorpi í annað; frumvarp til laga gegn þorpsstjórum, sem hengdi yfir höfuð þeirra Damóklesarsverð stöðusviptingar og gerði þannig forseta bændasamfélaganna milliliðalaust undirgefna forseta lýðveldisins og flokki laga og reglu; ný lög um herinn, sem breyttu hinum fyrri 17 herhéruðum Frakklands í fjögur landstjóraumdæmi og gerðu herbúðirnar að þjóðarsamkomustað Frakka; fræðslulög, þar sem flokkur laga og reglu lýsti því yfir, að fáfræði og valdboðin forheimskun Frakka væri honum lífsnauðsyn, meðan ríkjandi væri almennur kosningarréttur – hvað voru öll þessi lög og allar þessar ráðstafanir? Örvæntingarfullar tilraunir til að vinna sveitahéruðin og bændurna aftur til stuðnings við flokk laga og reglu.

Sem kúgunartæki voru þau mjög léleg og unnu þvert gegn sínum eigin tilgangi. Hinar mikilvægustu ráðstafanir, svo sem endurreisn vínskattsins, 45 sentímu-skattsins, hæðnisleg neitun við öllum kröfum bændanna um endurgreiðslu milljarðsins o. s. frv., öll þessi reiðarslög löggjafarvaldsins skullu á bændum í eitt skipti fyrir öll og komu beint frá miðstjórnarsetrinu; hinar nýju ráðstafanir gerðu árásina og mótspyrnuna almenna, að daglegu umtalsefni í hverju hreysi, fluttu byltingarsýkilinn í hvert þorp, gerðu byltinguna staðlægari og nærtækari bændum.

Á hinn bóginn sanna þessar tillögur Bonapartes, og samþykki þingsins við þeim, samstöðu beggja arma hins stjórnarskrárbundna lýðveldis, þegar berjast þurfti gegn stjórnleysinu, þ. e. öllum stéttum, sem rísa gegn alræði borgarastéttarinnar. Hafði Soulouque[1] ekki þegar eftir hinn óblíða boðskap sinn[2] fullvissað þingið um hollustu sína við lög og reglu með boðskap Carliers, þessarar skítugu og ómerku skopmyndar af Fouché, eins og Loðvík Bonaparte var sjálfur flatneskjuleg skopmynd af Napóleon?

Fræðslulögin sýna okkur bandalag ungra kaþólikka og gamalla Voltaire-sinna. Gátu völd hinnar sameinuðu borgarastéttar verið nokkuð annað en sameinað alræði jesúítískra endurreisnarsinna og yfirborðsfríhyggjumanna júlíkonungdæmisins? Vopnin, sem eitt brot borgarastéttarinnar hafði afhent alþýðunni til stuðnings valdabaráttu sinni gegn öðru – þurfti nú ekki að taka þau aftur af alþýðunni, þegar gegn henni stóð sameinað alræði

[1] Þ. e. Loðvík Bonaparte (Napóleon III.). – *Útg.*
[2] Þ. e. tilkynning Napóleons III. um að hann hefði leyst upp stjórn Barrots og myndað nýja. – *Útg.*

beggja? Ekkert gramdist smáborgurunum í París meira en þetta daður við jesúítana, jafnvel ekki höfnun concordats à l'amiable.

Á meðan þetta gerðist, héldu áfram árekstrar milli hinna ýmsu brota flokks laga og reglu og enn fremur milli þjóðþingsins og Bonapartes. Þjóðþingið kunni því ekki vel, að Bonaparte hafði þegar eftir stjórnarbyltingu sína, stofnun hins bonapartistíska ráðuneytis, boðað á sinn fund örkumlamenn konungdæmisins, sem nú höfðu verið gerðir að héraðsstjórum, og gert það að skilyrði fyrir stöðu þeirra, að þeir rækju áróður fyrir endurkosningu hans sem forseta, enda þótt hér væri um stjórnarskrárbrot að ræða; né heldur því, að Carlier hélt upp á embættistöku sína með upplausn eins af klúbbum legitimista; að Bonaparte stofnaði sitt eigið dagblað, „le Napoléon", sem ljóstraði upp við almenning leynilegum óskum forsetans, á meðan ráðherrar hans urðu að afneita þeim frammi fyrir þinginu. Ekki var því heldur að skapi, að ráðuneytið þrjózkaðist við og sat kyrrt, þrátt fyrir hinar ýmsu vantraustsyfirlýsingar, né heldur tilraunir til að vinna hylli undirforingja í hernum með hækkun á dagkaupi um fjögur sou og hylli öreiganna með stofnun lánabanka, sem var eftirlíking á „Leyndardómum" Eugene Sues, og enn síður var því að skapi sú ósvífni að láta ráðherrana bera fram tillögu um brottflutning þeirra júníuppreisnarmanna, sem enn voru eftir, til Alsír, til þess að óvinsældirnar „en gros" skyllu á þinginu, en forsetinn gæti haldið vinsældum „en détail" með einstökum náðunum.[1] Thiers lét ógnandi orð falla um „coups d'état" og „coups de tête",[2] og löggjafarþingið hefndi sín á Bonaparte með því að hafna hverju lagafrumvarpi, sem hann lagði fram í eiginhagsmunaskyni, og rannsaka með háværri tortryggni öll þau, sem þjónuðu sameiginlegum hagsmunum, svo að tryggt væri, að þau styrktu ekki framkvæmdavaldið og styddu þannig persónulegt vald Bonapartes. Í stuttu máli sagt hefndi það sín með samsæri fyrirlitningarinnar.

Legitimistaflokkurinn kunni því að sínu leyti mjög illa, að hinir starfshæfari orleanistar höfðu aftur lagt undir sig nær allar stöður, svo og því, að valdmiðjun jókst, en sjálfir töldu þeir valddreifingu helzta bjargráðið. Í raun og veru safnaði gagnbyltingin valdinu á fáar hendur og bjó þannig í haginn fyrir byltinguna. Hún safnaði meira að segja, með valdboðnu gildi bankaseðla, gulli og silfri Frakklands saman í bankanum í París og skapaði þannig stríðssjóð handa byltingunni.

Orleanistar litu það aftur illum augum, að lögmætisreglunni skyldi vera teflt gegn óskilgetnu konungdæmi þeirra, og sjálfir

[1] en gros: í heild, en détail: í smáu.
[2] Coups d'état: valdarán, coups de tête: frumhlaup.

voru þeir gerðir hornreka og sættu eins illri meðferð og þeir væru ósamboðinn, borgaralegur maki aðalsins.

Við höfum séð, að smátt og smátt skipuðu bændur, smáborgarar og millistéttirnar sér yfirleitt við hlið öreiganna, lentu í beinni andstöðu við hið opinbera lýðveldi og voru af þess hálfu meðhöndlaðir sem andstæðingar. Uppreisn gegn alræði borgarastéttarinnar, þörf á umbyltingu þjóðfélagsins, hagnýting hinna demókratísku og lýðveldislegu stofnana sem tækja byltingarinnar, – þetta eru sameiginleg einkenni hins svokallaða sósíaldemókrataflokks, flokks hins rauða lýðveldis. Þessi flokkur stjórnleysisins, eins og andstæðingar hans kalla hann, er engu síður samfylking ólíkra hagsmunahópa en flokkur laga og reglu. Frá smávægilegustu umbótum á hinni gömlu óstjórn þjóðfélagsins til umbyltingar á öllu hinu gamla þjóðskipulagi, frá borgaralegri frjálslyndisstefnu til fylgjenda byltingarsinnaðs ofbeldis – svo mikil var fjarlægðin milli upphafs og enda stjórnleysisflokksins.

Afnám verndartollanna – það er sósíalismi, því að það hróflar við einokun iðnrekendahópsins í flokki laga og reglu. Endurskipulagning ríkisbúskapsins – hún er sósíalismi, því að hún hróflar við einokunaraðstöðu fésýslumannanna í sama flokki. Frjáls innflutningur á kjöti og korni frá útlöndum – það er sósíalismi, því að hann samrýmist ekki einokunarréttindum þriðja flokksbrotsins, stórjarðeigenda. Kröfur Freetrader-flokksins, þ. e. framfarasinnaðasta hluta ensku borgarastéttarinnar, koma allar fram í Frakklandi sem sósíalískar kröfur. Voltairismi – hann er sósíalismi, því að hann ræðst á fjórða flokksbrotið, hið kaþólska. Prentfrelsi, félagsfrelsi, almenn alþýðumenntun – sósíalismi, sósíalismi! Því er stefnt gegn allsherjareinokun flokks laga og reglu.

Svo hratt hafði framþróun byltingarinnar breytt aðstæðunum, að umbótamenn af öllu tagi, þótt þeir héldu ekki fram öðru en hógværustu kröfum millistéttanna, neyddust til að fylkja sér um fána öfgakenndasta byltingarflokksins, rauða fánann.

Hversu margvíslegur sem sósíalismi hinna ýmsu stóru hluta stjórnleysisflokksins var, í samræmi við efnahagslegar aðstæður og þar af leiðandi byltingarstefnuskrá viðkomandi stéttar eða stéttarbrots, eitt atriði átti hann þó alls staðar sameiginlegt: hann taldi sjálfan sig tæki til frelsunar öreiganna og lýsti þessari frelsun yfir sem takmarki sínu. Af hálfu sumra var það vísvitandi blekking, sjálfsblekking hjá öðrum, sem töldu sinn eigin hugmyndaheim hinn bezta fyrir alla, litu á hann sem hluttekju allra byltingarkrafna og samrýmingu allra árekstra þeirra á milli.

Á bak við hin innbyrðis svipuðu, almennu sósíalísku vígorð

„stjórnleysisflokksins" felst sósíalismi af tagi „National", „Presse" og „Siècle", sem meira eða minna markvisst stefnir að því að steypa fésýsluvaldinu og losa iðnað og viðskipti við fjötra þess. Þetta er sósíalismi iðnaðar, verzlunar og landbúnaðar, en fulltrúar þeirra í flokki laga og reglu vanrækja hagsmuni þeirra, að svo miklu leyti sem þeir ekki samrýmast einkaeinokunarfyrirtækjum þeirra. Frá þessum borgaralega sósíalisma, sem að sjálfsögðu, eins og allar tegundir sósíalisma, nýtur fylgis nokkurs hluta af verkamönnum og smáborgurum, greinist hinn eiginlegi smáborgaralegi sósíalismi, sósíalisminn par exellence. Þessa stétt ofsækir auðvaldið fyrst og fremst í líki lánardrottins, og þess vegna heimtar hún lánastofnanir; það eyðileggur hana með samkeppni, og þess vegna krefst hún samtaka með ríkisstuðningi; það yfirbugar hana með samþjöppun auðsins, og þess vegna krefst hún stighækkandi skatta, takmarkana á erfðarétti, ríkiseignar á stórframkvæmdum og annarra ráðstafana, sem eiga með valdi að takmarka vöxt auðmagnsins. Þar sem hana dreymir um friðsamlega innleiðingu sósíalismans – eða í hæsta lagi aðra febrúarbyltingu, sem stæði mjög skamman tíma – lítur hún á hina komandi söguþróun sem beitingu kenningakerfa, sem hugsuðir þjóðfélagsins hafa búið til í sameiningu eða hver út af fyrir sig. Þannig aðhyllist hún eitt eða mörg af kenningarkerfum kreddusósíalismans, sem var fræðileg tjáning öreigastéttarinnar aðeins þangað til hún hafði öðlazt mátt til sjálfstæðrar sögulegrar þróunar.

Þessi útópíski, kreddufasti sósíalismi, sem reynir að gera hreyfinguna alla undirorpna einum þætti hennar, sem setur í stað hinnar þjóðfélagslegu framleiðslu heilaspuna einstakra sérvitringa og leysir upp í ímyndun sinni og tilfinningavaðli hina byltingarsinnuðu stéttabaráttu og nauðsynjar hennar, býr sér til fegraða eftirmynd af núverandi þjóðfélagi og reynir síðan að þröngva henni upp á veruleikann – þessi sósíalismi var nú tekinn í arf af smáborgurunum, og í baráttu sósíalistaleiðtoganna innbyrðis sýndi sig, að hin uppblásnu kenningakerfi voru hvert um sig ekkert annað en sértekning eins stigsins í hinni þjóðfélagslegu byltingu og ýking þess á kostnað annarra. Samtímis því fylktu öreigarnir sér æ meir um hinn byltingarsinnaða sósíalisma, kommúnismann, sem borgarastéttin sjálf kennir við nafn Blanquis. Þessi sósíalismi lýsir yfir samfelldri byltingu og stéttaralræði öreiganna sem nauðsynlegum áfanga að afnámi allra stéttaandstæðna, afnámi þeirra framleiðsluafstæðna, sem þær byggjast á, afnámi allra þjóðfélagsforma, sem þessum framleiðsluafstæðum samsvara og umbyltingu þeirra hugmynda, sem spretta upp úr þessum þjóðfélagsformum.

Innan ramma þessarar frásagnar er þó ekki kleift að fara nánar út í þessa hluti. Nú höfum við séð, að eins og fésýsluvaldið hlaut að taka forustuna í flokki laga og reglu, þannig hlutu öreigarnir að taka við henni í „stjórnleysisflokknum". Á meðan hinar ýmsu byltingarsinnuðu stéttir fylktu sér um öreigana, en ástandið í sveitahéruðunum varð æ ótryggara, og sjálft löggjafarþingið æ óánægðara með mikillæti hins franska Soulouque, nálguðust nú hinar margfrestuðu aukakosningar til að fylla sæti hinna brottreknu Fjallsþingmanna frá 13. júní.

Stjórnin, sem mætti fyrirlitningu hjá fjandmönnum sínum, en niðurlægingum og misþyrmingum hjá stuðningsmönnum, sá aðeins eitt ráð til að losna úr þessari andstyggilegu og óviðunandi aðstöðu – uppreisn. Uppreisn í París hefði gert henni kleift að lýsa yfir umsátursástandi þar og á landsbyggðinni og ráða þannig úrslitum kosninganna. Á hinn bóginn urðu stuðningsmenn laga og reglu að gera nokkrar tilslakanir við stjórnina, sem sigrazt hafði á stjórnleysinu, ef þeir ekki vildu sjálfir líta út sem stjórnleysingjar.

Stjórnin hófst nú handa. Í byrjun febrúar 1850 ögraði hún alþýðunni með því að láta höggva niður frelsistrén. Það var árangurslaust. Stjórnin missti aðeins sjálf jafnvægið og skelfdist sína eigin ögrun. Þjóðþingið mætti með ískaldri tortryggni þessari tilraun Bonapartes til að auka sjálfstæði sitt. Engu meiri árangur bar það, er minningarsveigarnir voru teknir af júlísúlunni. Það varð tilefni til byltingarsinnaðra mótmælaaðgerða nokkurs hluta hersins og hálfdulinnar vantraustsyfirlýsingar á stjórnina af hálfu þjóðþingsins. Árangurslaust hótuðu málgögn stjórnarinnar afnámi almenns kosningarréttar eða kósakkainnrás. Árangurslaust skoraði d'Hautpoul á vinstri arm löggjafarþingsins að hefja aðgerðir á götum úti og lýsti því yfir um leið, að stjórnin væri reiðubúin að mæta þeim. Hautpoul uppskar ekkert annað en áminningu frá forsetanum, og flokkur laga og reglu hlustaði með illgirnislegri ánægju á vinstrisinnaðan þingmann, sem hellti sér yfir valdaránsáætlanir Bonapartes. Árangurslaust var það líka að spá byltingu 24. febrúar. Stjórnin náði þeim einum árangri, að alþýðan sinnti 24. febrúar engu.

Öreigarnir létu ekki ögra sér til uppreisnar, þar eð þeir voru að undirbúa byltingu.

Óhindruð af ögrunum stjórnarinnar, sem juku aðeins á hina almennu óánægju með ríkjandi ástand, valdi kosninganefndin, sem var algjörlega undir áhrifum verkamanna, þrjá frambjóðendur í París: De Flotte, Vidal og Carnot. De Flotte hafði verið dæmdur til útlegðar eftir júníuppreisnina, en vinsældaveiðar Bonapartes höfðu fært honum sakaruppgjöf; hann var vinur

Blanquis og hafði tekið þátt í tilræðinu 15. maí. Vidal var þekktur sem kommúnistískur rithöfundur af bók sinni „Um skiptingu auðæfanna“ og var fyrrverandi ritari Louis Blancs í Luxembourg-nefndinni. Carnot var sonur konventuþingmannsins, sem skipulagt hafði sigra lýðveldisins, og var sá af meðlimum „National“-flokksins, sem óflekkaðast mannorð hafði. Hann hafði verið fræðslumálaráðherra í bráðabirgðastjórninni og framkvæmdanefndinni, og vegna hins lýðræðislega fræðslulagafrumvarps hans var hann tákn andstöðunnar gegn fræðslulögum jesúíta. Þessir þrír frambjóðendur táknuðu hinar þrjár sameinuðu stéttir: í fararbroddi var uppreisnarmaðurinn frá júní, fulltrúi hinnar byltingarsinnuðu öreigastéttar, við hlið hans hinn kreddufasti sósíalisti, fulltrúi sósíalískra smáborgara, og sá þriðji var fulltrúi flokks borgaralegra lýðveldissinna, en lýðræðissinnaðar kröfur hans höfðu gagnvart flokki laga og reglu öðlazt sósíalíska merkingu og löngu glatað hinni upprunalegu. Þetta var, eins og í febrúar, almenn samfylking gegn borgarastéttinni og ríkisstjórninni. En í þetta sinn voru öreigarnir forusta hinnar byltingarsinnuðu fylkingar.

Þrátt fyrir alla áreynslu andstæðinganna sigruðu hinir sósíalísku frambjóðendur. Jafnvel herinn kaus júníuppreisnarmanninn gegn sínum eigin ráðherra, La Hitte. Flokkur laga og reglu var sem þrumu lostinn. Kosningarnar í sveitahéruðunum voru engin huggun, því að þar fékk Fjallið meirihluta.

Kosningarnar 10. marz 1850 voru afturköllun júnímánaðar 1848. Böðlar júníuppreisnarinnar komu aftur á löggjafarþingið, niðurlútir að baki fyrri fórnarlamba sinna og með vígorð þeirra á vörunum. Þær voru einnig afturköllun hins 13. júní 1849. Fjallið, sem þjóðþingið hafði útskúfað, sneri aftur til þings, en ekki lengur sem leiðtogi byltingarinnar, heldur lúðrablásari hennar. Þær voru afturköllun hins 10. desember: Napóleon hafði fallið með ráðherra sínum, La Hitte. Í þingsögu Frakklands þekktist aðeins eitt hliðstætt dæmi: fall d'Haussez, ráðherra Karls X., árið 1830. Ennfremur voru kosningarnar 10. marz 1850 afturköllun kosninganna 13. maí, sem veitt höfðu flokki laga og reglu meirihluta. Kosningarnar 10. marz voru mótmæli gegn meirihlutanum frá 13. maí. 10. marz jafngilti byltingu. Að baki atkvæðaseðlanna leyndust götusteinarnir.

„Atkvæðagreiðslan 10. marz jafngildir stríði“, hrópaði Ségur d'Aguesseau, einn af framfarasinnuðustu meðlimum í flokki laga og reglu.

Með 10. marz 1850 hefur hið stjórnarskrárbundna lýðveldi þriðja æviskeið sitt, skeið upplausnarinnar. Hin ýmsu flokksbrot meirihlutans sameinast aftur sín á milli og taka höndum

saman við Bonaparte; þau eru aftur orðin bjargvættir laga og reglu og hann hlutlaus aðili. Ef þau minnast nú þess að þau eru konungssinnuð, er það aðeins vegna þess, að þau örvænta um tilveru hins borgaralega lýðveldis, og ef hann minnist þess, að hann er keisaraefni, er það aðeins vegna þess, að hann örvæntir um framtíð sína sem forseta.

Kosningu júníuppreisnarmannsins de Flottes svaraði Bonaparte samkvæmt skipun flokks laga og reglu með því að skipa í embætti innanríkisráðherra Baroche, fyrrum ákæranda Blanquis, Barbès, Ledru-Rollins og Guinards. Kosningu Carnots svaraði löggjafarþingið með samþykkt fræðslulaganna og kosningu Vidals með banni sósíalískra blaða. Með básúnum blaða sinna reyndi flokkur laga og reglu að fæla burt sína eigin hræðslu. „Sverðið er heilagt", sagði eitt af málgögnum hans; „verðir laga og reglu verða að hefja sókn gegn rauða flokknum", sagði annað; „milli sósíalismans og þjóðfélagsins á sér stað einvígi upp á líf og dauða, samfelld og miskunnarlaus styrjöld; í þessari örvæntingarfullu baráttu hlýtur annar hvor aðilinn að farast, og ef þjóðfélagið tortímir ekki sósíalismanum, eyðileggur sósíalisminn þjóðfélagið", segir hið þriðja. Byggið götuvígi laga og reglu, trúarbragðanna og fjölskyldunnar! Það verður að gera upp sakirnar við hina 127 000 kjósendur í París! Bartolomeusarnótt gegn sósíalistum! Og flokkur laga og reglu trúði eitt augnablik sinni eigin sigurvissu.

Ofstækisfyllst voru málgögn hans í garð „smákaupmannanna í París". Júníuppreisnarmaðurinn frá París kosinn á þing af smákaupmönnunum í París! Það þýðir, að endurtekning á júnímánuði 1848 eða 13. júní 1849 er ómöguleg, það þýðir, að siðferðileg áhrif auðmagnsins eru brostin, hið borgaralega þing er ekki lengur fulltrúi neins nema borgarastéttarinnar, stóreignamennirnir eru glataðir, því að lénsmenn þeirra, smáeigendurnir, leita á náðir hinna eignalausu.

Flokkur laga og reglu reyndi að sjálfsögðu að grípa til síns venjulega úrræðis. „Meiri kúgun"! hrópaði hann, „tífalt meiri kúgun!" En kúgunarmáttur hans er nú tífalt minni og mótspyrnan hundraðfalt meiri. Sjálft aðalkúgunartækið, herinn, hafði unnið til refsingar. Og flokkur laga og reglu sagði nú sitt síðasta orð: „Við verðum að brjóta af okkur járnhring þessarar kæfandi löghlýðni! Hið stjórnarskrárbundna lýðveldi er orðið ómögulegt. Við verðum að berjast með okkar eigin vopnum; síðan í febrúar 1848 höfum við barizt gegn byltingunni með hennar eigin vopnum og á hennar leikvelli. Við höfum sætt okkur við stofnanir hennar; stjórnarskráin er vígi, sem verndar umsátursmenn, en ekki hina umsetnu. Þegar við földum okkur í

kviði Trójuhestsins og komumst þannig inn í hina helgu Ilíonsborg, fórst okkur öfugt við forfeður okkar, Grikki[1]: við náðum ekki borg fjandmannanna á okkar vald, heldur gerðum sjálfa okkur að föngum".

En grundvöllur stjórnarskrárinnar er hinn almenni kosningarréttur. Afnám almenns kosningarréttar er síðasta orð flokks laga og reglu, alræðis borgarastéttarinnar.

Hinn almenni kosningarréttur hafði reynzt vel 4. maí 1848, 20. desember 1848, 13. maí 1849, 8. júlí 1849. Hann hafði brugðizt hlutverki sínu 10. marz 1850. Völd borgarastéttarinnar sem afleiðing og útstreymi hins almenna kosningarréttar, sem frjáls tjáning á vilja alþýðunnar – slíkt er innihald hinnar borgaralegu stjórnarskrár. En hefur stjórnarskráin nokkra þýðingu frá því augnabliki, er þessi atkvæðisréttur, þessi vilji alþýðunnar krefst einhvers annars en valda borgarastéttarinnar? Er það ekki skylda borgarastéttarinnar að haga kosningarréttinum þannig, að hann styðji hið eina skynsamlega, þ. e. völd hennar? Þegar hinn almenni kosningarréttur eyðileggur ríkisvaldið og setur sjálfur nýtt í þess stað, eyðileggur hann þá ekki allan stöðugleika, stofnar hann ekki í hættu öllum ríkjandi valdastofnunum og setur stjórnleysið sjálft í valdasess? Hver gat efazt um það eftir 10. marz 1850?

Þegar borgarastéttin afnemur hinn almenna kosningarrétt, sem hún hafði hingað til skreytt sig með og stutt alræði sitt með, játar hún umbúðalaust: „Alræði okkar hefur hingað til verið í samræmi við vilja þjóðarinnar, nú verðum við að styrkja varnir þess gegn vilja þjóðarinnar". Og það er rökrétt, að hún skuli ekki lengur leita stuðnings í Frakklandi, heldur utan þess, í útlöndum – þ. e. í innrás.

Með innrásinni æsir þessi nýja Koblenz,[2] sem nú hefur aðsetur í Frakklandi sjálfu, gegn sér allar þjóðernisástríður. Með árásinni á hinn almenna kosningarrétt veitir hún byltingunni almenna átyllu og einmitt slíkrar átyllu þarfnast byltingin. Allar sérstakar átyllur mundu skilja að hin ýmsu brot byltingarfylkingarinnar og draga fram í dagsljósið ágreining þeirra. Almenn átylla dáleiðir hinar hálfbyltingarsinnuðu stéttir og gerir þeim kleift að blekkja sjálfar sig, hvað snertir hið ákveðna eðli komandi byltingar og afleiðingar þeirra eigin athafna. Allar byltingar þarfnast allsherjar-baráttumáls. Almennur kosningarréttur er allsherjar-baráttumál hinnar nýju byltingar.

---

[1] Orðaleikur: Grec þýðir á frönsku Grikki, en einnig atvinnuspilasvikari. (Aths. Engels við útgáfuna 1895).

[2] Koblenz var á tímum frönsku stjórnarbyltingarinnar höfuðmiðstöð aðalborinna gagnbyltingarmanna í útlegð. – *Útg.*

Hin sameinuðu borgaralegu flokksbrot eru þegar dauðadæmd, er þau flýja frá hinu eina hugsanlega skipulagsformi sameiginlegra valda sinna, sterkasta og fullkomnasta formi stéttarvalds síns, hinu stjórnarskrárbundna lýðveldi, til ófullkomnara, óæðra og veikara forms: konungsveldisins. Þau líkjast öldunginum, sem reyndi að öðlast aftur æskukraft sinn með því að íklæðast barnatötrunum á nýjan leik. Lýðveldi þeirra hafði aðeins unnið eitt sér til ágætis: það var gróðrarstía byltingarinnar.

Hinn 10. marz 1850 ber eftirfarandi áletrun: Après moi le déluge, syndaflóðið má koma eftir minn dag.

## IV.

## Afnám hins almenna kosningarréttar 1850

(Framhald undanfarandi þriggja kafla er að finna í „Yfirliti" síðasta, tvöfalda (5.–6.) heftis tímaritsins „Neue Rheinische Zeitung". Hér er fyrst lýst hinni miklu verzlunarkreppu, sem hófst 1847 í Englandi og síðan er í ljósi afleiðinga hennar á meginlandi Evrópu útskýrt, hvernig hið pólitíska ástand þróaðist smátt og smátt í átt til febrúar- og marzbyltinganna 1848. Síðan er sýnt fram á, að blómgun verzlunar og iðnaðar, sem hófst aftur 1848 og varð enn meiri á árinu 1849, lamaði mátt byltingarinnar og gerði um leið sigra afturhaldsins mögulega. Um Frakkland er síðan farið þessum orðum:)[1]

Sömu teikn voru sýnileg í Frakklandi síðan 1849 og sér í lagi frá ársbyrjun 1850. Iðnaðurinn í París nýtir framleiðslumátt sinn að fullu, og baðmullarverksmiðjurnar í Rouen og Mülhausen ganga vel, þótt hér hafi hátt verð á hráefninu orðið til trafala, eins og í Englandi. Velmegunin í Frakklandi studdist enn fremur við tollaumbótina á Spáni og lækkun tolla á munaðarvörum í Mexíkó. Útflutningur franskra vara til beggja þessara markaða hefur mjög aukizt. Aukning auðmagnsins leiddi í Frakklandi til alls konar brasks, sem studdist við nýtingu gullnámanna í Kaliforníu. Upp spratt mikill fjöldi hlutafélaga, sem með lágu verði á hlutabréfum og gervisósíalísku auglýsingaskrumi reyndu að höfða til pyngju smáborgara og verkamanna, en fást í raun og veru ekki við annað en þá hreinræktuðu pretti, sem Frakkar og Kínverjar einir kunna til. Eitt þessara hlutafélaga

[1] Þennan inngang skrifaði Engels fyrir útgáfuna 1895.

nýtur meira að segja beinnar verndar ríkisstjórnarinnar. Innflutningstollar í Frakklandi á fyrstu níu mánuðum ársins námu 1848 63 milljónum franka, 1849 – 95 milljónum og 1850 – 93 milljónum. Og í september 1850 voru þeir meira en einni milljón hærri en í sama mánuði 1849. Útflutningurinn jókst einnig árið 1849 og enn meir 1850.

Áþreifanlegasta sönnunin fyrir hinni endurnýjuðu velmegun er sú, að samkvæmt lögum frá 6. ágúst 1850 tóku bankarnir aftur að inna af hendi greiðslur í gulli og silfri. 15. marz 1848 hafði bönkunum verið leyft að hætta slíkum greiðslum. Að héraðsbönkum meðtöldum nam seðlavelta þá 373 milljónum franka (14 920 000 sterlingspundum). 2. nóvember 1849 nam hún 482 milljónum franka eða 19 280 000 sterlingspundum; aukningin nam 4 360 000 sterlingspundum, og 2. september 1850 var veltan komin upp í 496 milljónir franka eða 19 840 000. Aukningin nam um fimm milljónum punda. Engin verðrýrnun seðlanna var samfara þessu; aukinni seðlaveltu fylgdi stöðugt meiri samsöfnun gulls og silfurs í kjöllurum bankans, svo að gull- og silfurbirgðir hans námu sumarið 1850 um 14 milljónum punda, en það hafði aldrei þekkzt í Frakklandi áður. Það, að bankinn skyldi þannig geta aukið seðlaveltu sína, og þar með virkt fjármagn sitt um 123 milljónir franka eða 5 milljónir punda, er rækileg sönnun fyrir því, sem við héldum fram í fyrra hefti þessa tímarits, sem sé að byltingin hefði ekki aðeins velt fésýsluvaldinu úr sessi, heldur eflt það enn meir. Þessi árangur verður enn augljósari af eftirfarandi yfirliti yfir frönsku bankalöggjöfina á síðustu árum. Hinn 10. júní 1847 var bankanum leyft að gefa út 200 franka seðla; fram að því hafði lægsti seðillinn numið 500 frönkum. Tilskipun frá 15. marz 1848 lýsti því yfir, að seðlar Frakklandsbanka væru lögmætur gjaldmiðill og losaði bankann við þá skyldu að skipta þeim í gull eða silfur. Seðlaútgáfa hans var takmörkuð við 350 milljónir franka. Um leið var honum leyft að gefa út 100 franka seðla. Tilskipun frá 27. apríl sameinaði héraðsbankana Frakklandsbanka; önnur tilskipun frá 2. maí 1848 hækkaði seðlaútgáfu hans upp í 442 milljónir. Tilskipun frá 22. desember 1849 hækkaði hámarksseðlaútgáfu upp í 525 milljónir franka. Að lokum gerðu lögin frá 6. ágúst 1850 það aftur kleift að skipta seðlunum í gull og silfur. Þessar staðreyndir, stöðug aukning seðlaveltunnar, sameining allrar lánastarfsemi í Frakklandi í höndum eins banka og samsöfnun alls fransks gulls og silfurs í húsakynnum bankans, komu hr. Proudhon til að draga þá ályktun, að nú yrði bankinn að afklæðast sínum gamla slönguham og umbreytast í proudhonskan alþýðubanka. Hann hefði ekki einu sinni þurft að þekkja sögu ensku bankalaganna frá 1797–

1819,[1] honum hefði nægt að líta einu sinni yfir Ermarsundið til að komast að því, að þessi – að hans áliti – fáheyrða staðreynd í sögu borgaralegs þjóðfélags var ekki annað en ósköp venjulegt borgaralegt atvik, sem nú gerðist aðeins í fyrsta sinn í Frakklandi. Augljóst er, að hinir svokölluðu byltingarsinnuðu kenningasmiðir, sem hæst höfðu í París eftir daga bráðabirgðastjórnarinnar, vissu jafn lítið um eðli og afleiðingar ráðstafana hennar og sjálfir meðlimir bráðabirgðastjórnarinnar.

Þrátt fyrir þá blómgun iðnaðar og verzlunar, sem um þessar mundir ríkir í Frakklandi, þjáist meirihluti íbúanna, hinar 25 milljónir bænda, af miklum efnahagslegum samdrætti. Hinar góðu uppskerur síðustu ára leiddu til enn meiri verðlækkunar á korni í Frakklandi en í Englandi, og aðstaða skuldugra bænda, hrjáðra af okri og skattpíningu, hlýtur því að vera allt annað en glæsileg. En saga síðustu þriggja ára hefur sýnt það rækilega, að þessi þjóðfélagsstétt er ekki megnug neins byltingarfrumkvæðis.

Kreppan byrjar síðar á meginlandi Evrópu en í Englandi, og eins er því varið um uppgangstímabilið. Þróunin hefst alltaf í Englandi, það er skapari hins borgaralega heims. Á meginlandinu birtast hin ýmsu stig hringrásarinnar, sem hið borgaralega þjóðfélag stöðugt endurtekur, í afleiddum myndum. Í fyrsta lagi er flutt út frá meginlandinu til Englands miklum mun meira en til nokkurs annars lands. En þessi útflutningur til Englands er að sínu leyti háður aðstöðu Englands, sér í lagi hvað snertir markaði í öðrum heimsálfum. Þar að auki flytur England miklu meira út til þessara markaða en allt meginlandið samanlagt, svo að magn meginlandsútflutningsins til þessara landa er ætíð háð útflutningsmagni Englands til annarra heimsálfa. Þótt kreppurnar valdi fyrst byltingum á meginlandinu, er því frumorsök þeirra ætíð að finna í Englandi. Sjúkdómar hljóta að koma verr niður á útlimum hins borgaralega líkama en hjarta hans, þar eð á síðastnefnda staðnum er auðveldara að stilla þá. Á hinn bóginn má sjá á því, að hve miklu leyti meginlandsbyltingarnar verka á England, hvort þeim er stefnt gegn borgaralegum lifnaðarháttum, sem slíkum, eða aðeins pólitískum formum þeirra.

Við skilyrði þessarar almennu velmegunar, er framleiðsluöfl hins borgaralega þjóðfélags þróast svo ört sem framast er mögulegt innan borgaralegs ramma, kemur engin bylting til mála. Slík bylting er aðeins möguleg á þeim tímabilum, er þessir tveir

[1] Til þess að bjarga Englandsbanka frá gjaldþroti, gaf stjórnin 1797 út sérstök lög, sem ákváðu lögboðið gildi bankaseðla og leyfðu bankanum að hætta að skipta seðlum fyrir gull. Með nýjum lögum árið 1819 voru svo aftur upp tekin skipti á bankaseðlum fyrir gull. – *Útg.*

þættir, nútíma framleiðsluöfl og borgaraleg framleiðsluform, lenda í innbyrðis andstöðu. Hin ýmsu rifrildi, sem fulltrúar einstakra brota í flokki laga og reglu á meginlandinu skemmta sér nú við og eyðileggja þar með hver annars mannorð, geta með engu móti orðið tilefni nýrra byltinga; þau eru þvert á móti aðeins möguleg vegna þess, að grundvöllur þjóðfélagsins er svo öruggur, þ. e. – en það veit afturhaldið ekki – svo borgaralegur. Á því stranda allar tilraunir afturhaldsins til að hindra borgarlega þróun, svo og siðferðileg hneykslun og andríkar yfirlýsingar lýðræðissinna. Ný bylting getur aðeins siglt í kjölfar nýrrar kreppu. En hún er jafn óumflýjanleg og hin síðarnefnda.

Snúum okkur nú að Frakklandi.

Sigur þann, sem alþýðan ásamt smáborgurunum hafði unnið í kosningunum 10. marz, eyðilagði hún sjálf með því að gefa tilefni til nýrra kosninga 28. apríl. Vidal hafði verið kosinn á þing bæði í París og Neðra-Rínarhéraði. Kosninganefndin í París, þar sem ítök Fjallsins og smáborgaranna voru sterk, fékk hann til að taka kosningunni í Neðra-Rínarhéraði. Sigurinn frá 10. marz hafði ekki lengur úrslitaþýðingu; úrslitunum var enn frestað, spennan meðal alþýðunnar minnkaði, og hún vandist við lögum samkvæma sigra í stað byltingarlegra. Byltingarleg þýðing hins 10. marz, endurreisn júlíuppreisnarinnar, var gjörsamlega eyðilagt með framboði Sue, þessa væmna og smáborgaralega draumóramanns, sem öreigarnir gátu í hæsta lagi samþykkt sem fyndni, ætlaða léttúðardrósum. Gegn þessu vel hugsaða framboði tefldi flokkur laga og reglu, sem nú var hugdjarfari vegna hiks andstæðinganna, frambjóðanda, sem átti að tákna júnísigurinn. Þessi skoplegi frambjóðandi var hinn spartverski fjölskyldufaðir Leclerc, en blöðin rifu hetjubúninginn í tætlur utan af honum, enda beið hann mikinn ósigur í kosningunum. Hinn nýi kosningasigur 28. apríl steig Fjallinu og smáborgurunum til höfuðs. Þeir glöddust yfir því að geta náð takmarki sínu með löglegum hætti og án þess að ný bylting fengi öreigunum forustuhlutverkið; þeir voru þess fullvissir, að í kosningunum 1852 gætu þeir sett Ledru-Rollin á forsetastólinn og Fjallið fengi meirihluta í þinginu. Flokkur laga og reglu, sem vegna hinna endurteknu kosninga, vegna framboðs Sues og vegna hugarástands Fjallsins og smáborgaranna taldi sig nú fullvissan um það, að hinir síðastnefndu mundu ekki undir neinum kringumstæðum rjúfa friðinn, svaraði báðum kosningasigrunum með kosningalögum, sem afnámu almennan kosningarrétt.

Ríkisstjórnin gætti þess vel að taka ekki sjálf ábyrgðina á þessu lagafrumvarpi. Hún gerði yfirborðstilslökun við meirihlutann, með því að fela tignustu fulltrúum hans, hinum sautj-

án kastalagreifum,[1] samningu þess. Það var því ekki stjórnin, sem lagði það til við þingið, heldur lagði meirihluti þingsins til við sjálfan sig, að almennur kosningarréttur yrði afnuminn.

Hinn 8. maí var frumvarpið lagt fyrir þingið. Öll sósíaldemókratísku blöðin prédikuðu yfir alþýðunni sem einn maður, að nú skyldi hún sýna stillingu, calme majestueux, aðgerðarleysi og traust á fulltrúum sínum. Sérhver grein þessara dagblaða var játning þess, að byltingin hlyti framar öðru að sópa burt hinum svokölluðu byltingarsinnuðu blöðum, og þau væru því að berjast fyrir eigin tilveru. Blöðin, sem þóttust vera byltingarsinnuð, ljóstruðu þannig upp leyndarmáli sínu og undirskrifuðu sinn eigin dauðadóm.

Hinn 21. maí bar Fjallið fram dagskrártillögu og lagði til, að frumvarpinu í heild sinni yrði hafnað, þar eð það kæmi í bága við stjórnarskrána. Flokkur laga og reglu svaraði því til, að brotið yrði gegn stjórnarskránni, þegar nauðsynlegt reyndist, en nú væri þess engin þörf, þar eð stjórnarskrána mætti túlka á allan hugsanlegan hátt og meirihlutinn einn gæti tekið ákvarðanir um rétta túlkun. Taumlausum árásum Thiers og Montalemberts svaraði Fjallið með siðprúðum og menntuðum húmanisma. Það vitnaði til lagagrundvallarins; flokkur laga og reglu vísaði því á þann grundvöll, sem lögin byggjast á, þ. e. hinn borgaralega eignarrétt. Fjallið kveinkaði sér og spurði, hvort andstæðingar þess vildu með öllum ráðum kalla fram byltingu. Flokkur laga og reglu svaraði því til, að hann væri reiðubúinn að mæta henni.

Hinn 22. maí var dagskrártillögunni hafnað með 462 atkvæðum gegn 227. Hinir sömu menn, sem höfðu sannað það hátíðlega og óvefengjanlega, að þjóðþingið og hver einstakur þingmaður missti tilverurétt sinn, ef hann segði skilið við umbjóðanda sinn, alþýðuna, sátu nú kyrrir í sætum sínum og reyndu að láta almenning berjast í sinn stað, en aðeins með undirskriftasöfnunum, og þeir sátu enn hreyfingarlausir, þegar lögin voru samþykkt 31. maí. Þeir reyndu að hefna sín með mótmælayfirlýsingu, þar sem þeir lýstu yfir sakleysi sínu af nauðgun stjórnarskrárinnar, en þessa mótmælayfirlýsingu þorðu þeir ekki einu sinni að leggja fram opinberlega, heldur laumuðu þeir henni í vasa forsetans.

150 000 manna her í París, hin langa frestun úrslitanna, keflun blaðanna, hugleysi Fjallsins og hinna nýkjörnu þingmanna, hátignarleg kyrrð smáborgaranna, en framar öllu öðru iðnaðar-

---

[1] Þ. e. þingflokksforsæti flokks laga og reglu, en meðlimir þess voru í háði nefndir kastalagreifar, vegna valdagræðgi sinnar og lénsvaldsdrauma; uppnefnið er tekið úr skopleik Victors Hugo, er heitir sama nafni. – *Útg.*

leg og verzlunarleg velmegun, hindruðu allar byltingartilraunir af hálfu öreiganna.

Hinn almenni kosningarréttur hafði uppfyllt hlutverk sitt, meirihluti alþýðunnar hafði nú gengið í gegnum þann skóla, sem hann getur aðeins veitt á byltingartímum. Hann hlaut að víkja annað hvort fyrir byltingu eða sigursælu afturhaldi.

Enn meiri starfsorku sýndi Fjallið við annað tækifæri litlu síðar. Hermálaráðherrann, d'Hautpoul, hafði í ræðustól þjóðþingsins nefnt febrúarbyltinguna þjóðarógæfu. Ræðumönnum Fjallsins, sem eins og endranær létu hneykslun sína í ljós með hávaða, var synjað um orðið af Dupin þingforseta. Girardin lagði til, að Fjallið gengi strax út. Árangurinn var sá, að Fjallið sat kyrrt, en Girardin var útskúfað úr því.

Kosningalögin þörfnuðust enn einnar viðbótar, laga um blaðaútgáfu. Þau létu ekki bíða lengi eftir sér. Frumvarp stjórnarinnar, sem flokkur laga og reglu herti enn með breytingartillögum, hækkaði leyfisgjöld, lagði aukagjald á neðanmálssögur (þetta var svar við kosningu Eugène Sues), skattlagði öll viku og mánaðarrit upp í ákveðna blaðsíðutölu og mælti að lokum svo fyrir, að allar greinar í dagblöðum skyldu birtar undir nafni höfundar. Ákvæðið um leyfisgjaldið gekk af hinum svokölluðu byltingarsinnuðu blöðum dauðum; alþýðan leit á endalok þeirra sem sárabót fyrir afnám hins almenna kosningarréttar. En áhrif og tilgangur hinna nýju laga voru ekki takmörkuð við þennan hluta blaðakostsins. Meðan dagblöðin gátu enn birt nafnlausar greinar, komu þau fram sem málgögn hins tölu- og nafnlausa almenningsálits, þau voru þriðja aflið í landinu. Þegar farið var að birta hverja grein undir nafni, varð viðkomandi blað ekkert annað en samsafn af ritsmíðum meira eða minna þekktra einstaklinga. Hver grein varð ekkert annað en tilkynning. Hingað til höfðu blöðin verið eins konar pappírspeningar almenningsálitsins; nú urðu þau ekkert annað en lélegir einkavíxlar og gildi þeirra var komið undir lánstrausti ekki aðeins útgefandans, heldur og þess, sem skrifaði á þá. Málgögn flokks laga og reglu höfðu hvatt til hinna hörðustu aðgerða gegn óhlýðnum blöðum, á sama hátt og þau höfðu hvatt til afnáms hins almenna kosningarréttar. En jafnvel hin hlýðnu blöð voru með nafnleysi sínu óþægileg flokki laga og reglu og sér í lagi einstökum fulltrúum hans úti á landi. Hann vildi ekki heyra neitt annað nefnt en launaða höfunda með nafni, heimilisfangi og undirskrift. Árangurslaust kvörtuðu hin stjórnhollu blöð undan því vanþakklæti, sem þeim væri sýnt. Lögin voru samþykkt, og ákvæðið um nafngreininguna kom harðast niður á síðastnefndu blöðunum. Nöfn lýðveldissinnaðra blaðamanna voru nokkuð þekkt, en hin virðulegu

nöfn „Journal des Débats", „Assemblée Nationale",[1] „Constitutionnel"[2] o. s. frv., urðu sér til skammar með sína útbásúnuðu stjórnmálavizku, þegar hin nafnlausa fylking allt í einu leystist upp í launaða, gamalreynda skriffinna, sem höfðu fyrir peninga tekið að sér að verja alla hugsanlega hluti, eins og t. d. Granier de Cassagnac, gamla þvottableðla, sem kölluðu sjálfa sig stjórnmálamenn, eins og t. d. Capefigue, eða léttúðarfulla trúða eins og Lemoinne í blaðinu „Débats."

Við umræðurnar um blaðalögin var Fjallið siðferðilega svo djúpt sokkið, að það varð að láta sér nægja að klappa fyrir mælskuflóði gamals virðingamanns Loðvíks Filippusar, Victors Hugos.

Með kosninga- og blaðalögunum hverfur flokkur lýðræðis- og byltingarsinna af sviðinu. Fyrir heimförina, skömmu eftir að fundi var slitið, gáfu báðir armar Fjallsins, sósíalískir lýðræðissinnar og lýðræðissinnaðir sósíalistar, út tvær yfirlýsingar, tvö fátæktarvottorð, þar sem þeir sýndu fram á, að enda þótt vald og sigrar hefðu aldrei verið þeirra megin, hefðu þeir sjálfir alltaf verið þeim megin, sem hinn eilífa rétt og öll önnur eilíf sannindi var að finna.

Lítum nú á flokk laga og reglu. Í þriðja hefti „Neue Rheinische Zeitung", bls. 16, var komizt svo að orði: „Gegn endurreisnarviðleitni sameinaðra orleanista og legitimista varði Bonaparte sitt áþreifanlega vald, þ. e. lýðveldið; gegn endurreisnarviðleitni Bonapartes varði flokkur laga og reglu réttlætingu sinna sameiginlegu valda, þ. e. lýðveldið; legitimistar vörðu gegn orleanistum og orleanistar gegn legitimistum ríkjandi ástand, lýðveldið. Öll brot flokks laga og reglu, sem hvert um sig höfðu sinn eigin konung og sína eigin endurreisn að takmarki, vörðu gegn keppinautum sínum hin sameiginlegu völd borgarastéttarinnar, það form sem dregur úr og sættir hina einstöku hagsmuni – lýðveldið. ... Og Thiers varð sannara orð á munni en hann grunaði, þegar hann sagði: „Við konungssinnar erum hinir einu sönnu stuðningsmenn hins stjórnarskrárbundna lýðveldis".

Skopleikur þessara „républicains malgré eux",[3] andúðin á ríkjandi skipulagi og þó stöðug styrking þess; stöðugir árekstrar milli Bonapartes og þjóðþingsins; stöðug hætta á því, að flokkur laga og reglu sundraðist í frumparta sína, og stöðug endurnýjun á einingu hans; tilraunir hvers flokksbrots til að breyta

---

[1] Assemblée Nationale: konungssinnað dagblað, gefið út í París 1848–1857. – *Útg.*

[2] Constitutionnel: málgagn fylgismanna þingbundinnar konungsstjórnar, gefið út í París 1815–1870. – *Útg.*

[3] républicains malgré eux: lýðveldissinnar gegn eigin vilja.

hverjum sigri yfir sameiginlegum óvini í ósigur bráðabirgðabandamanna; innbyrðis afbrýðisemi, illgirni og æsingar, stöðugt vopnaglamur, sem alltaf endaði með Lamourette-kossi[1] – allur þessi skopleikur náði aldrei sígildara stigi en síðustu sex mánuðina.

Flokkur laga og reglu leit á kosningalögin sem sigur einnig yfir Bonaparte. Hafði ekki ríkisstjórnin afsalað sér valdi sínu, þegar hún fól sautján manna nefndinni samningu og ábyrgð á sinni eigin tillögu? Og var ekki höfuðstyrkur Bonapartes gagnvart þinginu fólginn í því, að hann var útvalinn af sex milljónum kjósenda? – Bonaparte að sínu leyti taldi kosningalögin tilslökun við þingið, gerða til að ná samræmi milli löggjafar- og framkvæmdavalds. Þessi óskammfeilni ævintýramaður krafðist nú að launum þriggja milljóna launahækkunar. Gat þjóðþingið leyft sér árekstur við framkvæmdavaldið á því augnabliki, er það hafði sett meirihluta Frakka utangarðs við þjóðfélagið? Það missti stjórn á skapi sínu og virtist ætla að láta hart mæta hörðu, viðkomandi þingnefnd hafnaði frumvarpinu, bónapartísk blöð höfðu í hótunum og vísuðu til alþýðunnar, sem svipt hafði verið atkvæðisrétti sínum. Fjöldi hávaðasamra samningatilrauna átti sér stað, og að lokum lét þingið undan á borði, en hefndi sín um leið í orði. Í stað lögbundinnar árlegrar launahækkunar um þrjár milljónir, samþykkti það aukaframlag að upphæð 2 160 000 franka. Ekki nóg með það: þessi tilslökun fékkst ekki fyrr en hún hafði öðlazt stuðning Changarniers, hershöfðingja flokks laga og reglu og sjálfskipaðs verndara Bonapartes. Hinar tvær milljónir voru því eiginlega ekki veittar Bonaparte, heldur Changarnier.

Þessari ófúslega veittu gjöf tók Bonaparte í nákvæmlega sama anda. Bonapartísk blöð réðust á ný harkalega að þjóðþinginu. Við umræður um blaðaútgáfulögin, þegar komið var fram með breytingartillöguna um höfundarnöfnin, sem beint var sérstaklega gegn blöðum undirgefnum Bonaparte, er börðust fyrir einkahagsmunum hans, birti höfuðmálgagn bonapartista, „Pouvoir", opinskáa og heiftarlega árás á þjóðþingið. Ráðherrarnir urðu að afneita blaðinu frammi fyrir þinginu; ritstjóri „Pouvoir" var kvaddur fyrir þingfund og dæmdur í þyngstu fjársekt, 5000 franka. Daginn eftir birti „Pouvoir" grein, sem réðist enn

[1] Lamourette var fulltrúi nokkur á löggjafarþinginu á dögum frönsku byltingarinnar, sem varð frægur fyrir tillögu sína 7. júlí 1792 um að bundinn yrði endir á alla flokkadrætti með bróðurlegum kossi. Samkvæmt þessari tillögu féllust fulltrúar hinna fjandsamlegu flokka í faðma, en daginn eftir hafði þessi hræsnisfulli „bræðrakoss" að sjálfsögðu fallið í gleymsku. – *Útg.*

harkalegar á þingið, og stjórnin hefndi sín með því að láta lögregluna ofsækja nokkur legitimistablöð fyrir brot á stjórnarskránni.

Að lokum kom upp það vandamál, hvort fresta ætti þingfundum. Bonaparte æskti þess, til að hann gæti starfað óhindraður af þinginu. Flokkur laga og reglu æskti þess, sumpart til að flokksbrotin gætu sinnt baktjaldamakki sínu, sumpart til að einstakir þingmenn gætu sinnt sínum einkahagsmunum. Báðir aðilar þörfnuðust þess til að tryggja sigra afturhaldsins og fylgja þeim eftir úti á landsbyggðinni. Þingið frestaði því fundum frá 11. ágúst til 11. nóvember. En þar sem Bonaparte dró enga dul á það, að af hans hálfu var fyrst og fremst um það að ræða, að losna við óþægilegt eftirlit þingsins, setti þingið á sjálfa traustsyfirlýsinguna stimpil vantrausts á forsetann. Í hina 28 manna nefnd, sem yfir leyfistímann átti að gæta dyggðar lýðveldisins, var engum bonapartistum hleypt. Í þeirra stað voru meira að segja kosnir nokkrir lýðveldissinnar úr „Siècle" og „National"-hópnum, til þess að sýna forsetanum, hve tryggur meirihlutinn væri hinu stjórnarskrárbundna lýðveldi.

Skömmu fyrir og þó enn frekar eftir frestun þingfunda leit út fyrir, að tvö helztu brot flokks laga og reglu, orleanistar og legitimistar, ætluðu að sættast, og það fyrir sameiningu beggja konungsættanna, sem þeir studdu. Málgögn þeirra voru uppfull af sáttatillögum, sem áttu að hafa verið ræddar við sjúkrabeð Loðvíks Filippusar í St. Leonards, en þá dó Loðvík Filippus snögglega og það gerði ástandið einfaldara. Loðvík Filippus var valdaræningi, Hinrik 5. hafði verið rændur völdunum, en þar sem hann var barnlaus, var greifinn af París réttmætur erfingi hásætisins. Nú hindraði ekkert lengur sambræðslu hinna tveggja konungsætta. En einmitt á þessu augnabliki uppgötvuðu hin tvö flokksbrot borgarastéttarinnar, að það, sem greindi þau að, var ekki hollusta hvors um sig við ákveðna konungsætt, heldur voru það mismunandi stéttarhagsmunir, sem aðgreindu konungsættirnar tvær. Legitimistarnir, sem höfðu farið í sams konar pílagrímsferðir til hirðar Hinriks 5. í Wiesbaden og keppinautar þeirra til St. Leonards, fréttu þar um dauða Loðvíks Filippusar. Þegar í stað mynduðu þeir „útlagastjórn", sem samanstóð aðallega af meðlimum nefndar þeirrar, er vaka átti yfir lýðveldinu; og þegar kom upp deila innan flokksins, birti stjórn þessi umbúðalausa yfirlýsingu um hinn konunglega rétt af guðs náð. Orleanistar glöddust yfir því mikla hneyksli, sem birting yfirlýsingar þessarar vakti í dagblöðunum, og drógu enga dul á algeran fjandskap sinn við legitimista.

Á meðan fundir þjóðþingsins lágu niðri, komu héraðsþingin

saman. Meirihluti þeirra mælti með meira eða minna skilorðsbundinni endurskoðun stjórnarskrárinnar, þ. e. nánar óákveðinni endurreisn konungdæmis; hann krafðist lausnar á vandanum og játaði um leið, að hann væri of huglaus til að finna þessa lausn. Flokkur bonapartista túlkaði þessa endurskoðunarkröfu tafarlaust sem ósk um framlengingu á forsetaumboði Bonapartes.

Hin stjórnarskrárlega lausn, embættisafsal Bonapartes í maí 1852 og samtímis kosning nýs forseta af öllum kjósendum í landinu, síðan endurskoðun stjórnarskrárinnar af þar til kjörnu þingi á fyrstu mánuðum embættistíma hins nýja forseta – þessi lausn er óviðunandi fyrir ríkjandi stétt. Dagur nýrra forsetakosninga hlyti að verða dagur árekstur allra hinna innbyrðis fjandsamlegu afla – legitimista, orleanista, borgaralegra lýðveldissinna og byltingarsinna. Það hlyti að koma til ofbeldisátaka allra þessara ólíku flokka. Jafnvel þótt flokki laga og reglu tækist að sameinast um framboð hlutlauss manns, er stæði utan beggja konungsætta, mundi Bonaparte aftur bjóða sig fram gegn honum. Flokkur laga og reglu er vegna baráttu sinnar við alþýðuna neyddur til að styrkja í sífellu framkvæmdavaldið. Öll aukning framkvæmdavaldsins eykur vald handhafa þess, Bonapartes. Að sama skapi og flokkur laga og reglu styrkir sitt sameiginlega vald, styrkir hann baráttutæki þau, sem Bonaparte getur beitt í þágu einveldisfyrirætlana sinna, og eykur möguleika hans til að hindra stjórnarskrárlega lausn, þegar til úrslita dregur. Gagnvart flokki laga og reglu mun hann þá ekki hika meira við að ráðast á aðra höfuðstoð stjórnarskrárinnar, en flokkurinn hikaði við að ráðast á hina: hinn almenna kosningarrétt. Hann gæti jafnvel látið svo sem hann áfrýjaði máli sínu frá þinginu til hins almenna kosningarréttar. Í stuttu máli sagt, stjórnarskrárleg lausn mundi stofna öllu ríkjandi pólitísku ástandi í hættu, og í slíkri ógnun sér borgarinn strax óskapnað, stjórnleysi og borgarastríð. Hann sér, að fyrsti sunnudagur í maí 1852 stofnar í hættu kaupum hans og sölum, víxlum, hjónaböndum, kaupsamningum, skuldaveðum, jarðrentum, húsaleigu, gróða, öllum hans samningum og tekjulindum, og þessa áhættu getur hann ekki tekið á sig. Að baki ógnunarinnar við hið ríkjandi pólitíska skipulag dylst hættan á hruni alls hins borgaralega þjóðfélags. Hin eina lausn, sem borgarastéttin getur samþykkt, er frestun lausnarinnar. Hún getur aðeins bjargað hinu stjórnarskrárbundna lýðveldi með stjórnarskrárbroti, með framlengingu á valdi forsetans. Þetta er líka síðasta orð málgagna flokks laga og reglu, eftir langar og djúpvitrar umræður um hinar ýmsu lausnir, sem hafnar voru eftir fundi viðkomandi herráða. Flokkur laga og reglu neyðist, sér til mikillar blygðunar, til að taka þessa hlægi-

legu, ómerkilegu og hötuðu persónu, þennan svika-Bonaparte, alvarlega.

En þessi viðbjóðslega fígúra hafði að sínu leyti rangar hugmyndir um þær orsakir, sem gerðu hann nauðsynlegan. Þar sem hans eigin flokkur var nógu skarpskyggn til að sjá, að vaxandi þýðing Bonapartes stafaði af þjóðfélagsaðstæðunum, hélt hann aftur á móti, að hann ætti hana að þakka töframætti nafns síns og stöðugri skopstælingu sinni á Napóleon. Hann varð stöðugt athafnasamari. Gegn pílagrímsferðum til St. Leonards og Wiesbaden tefldi hann hringferðum sínum um Frakkland. Bonapartistar treystu svo lítið á töfrakraft persónuleika hans, að þeir létu alls staðar klapplið úr 10. desember-félaginu, samtökum tötraskrílsins í París, fylgja honum hópum saman í eimlestum og póstvögnum. Þeir lögðu brúðu sinni í munn ræður, sem allt eftir móttökunum í mismunandi borgum tjáðu lýðveldissinnaða sjálfsafneitun eða þolinmæði og þráa sem pólitískt kjörorð forsetans. Þrátt fyrir öll brögð voru ferðalög þessi allt annað en sigurfarir.

Eftir að Bonaparte taldi sig þannig hafa hrifið alþýðuna, hófst hann handa um að vinna herinn á sitt band. Hann lét halda miklar hersýningar á Satory-sléttunni við Versailles, og reyndi þar að múta hermönnum með bjúgum, kampavíni og vindlum. Hinn raunverulegi Napóleon hafði á sínum erfiðu landvinningaleiðöngrum kunnað að örva hermenn sína með augnabliks föðurlegum trúnaði, en svika-Napóleon hélt, að það væri þakklæti hersveitanna, sem kom fram í hrópinu: Vive Napoléon, vive le saucisson, þ. e. lifi bjúgað, lifi trúðurinn!

Þessar hersýningar drógu fram í dagsljósið lengi dulinn fjandskap milli Bonapartes og hermálaráðherra hans d'Hautpoul annars vegar og Changarnier hins vegar. Þar sem Changarnier var, hafði flokkur laga og reglu raunverulega fundið hlutlausan fulltrúa, sem sjálfur gat ekki gert neinar valdakröfur. Flokkurinn hafði ákveðið, að hann skyldi verða eftirmaður Bonapartes. Þar að auki hafði Changarnier vegna hegðunar sinnar 29. janúar og 13. júní 1849 orðið að aðal-hershöfðingja flokks laga og reglu, nútíma Alexander, sem í augum hins kjarklitla borgara hafði með miskunnarlausu áhlaupi höggvið á gordíonshnút byltingarinnar. Þótt hann í raun og veru væri jafn-hlægilegur og Bonaparte, hafði honum þannig með auðveldum hætti tekizt að gera sjálfan sig að sterku valdi og nú notaði þjóðþingið hann til að hafa gætur á forsetanum. Sjálfur daðraði hann við Bonaparte og veitti honum stundum vernd sína, eins og t. d. þegar rætt var um launaviðbótina, en varð æ ráðríkari í hans garð og ráðherranna. Þegar búizt var við uppreisn í tilefni kosningalag-

anna, bannaði hann liðsforingjum sínum að taka við nokkrum skipunum frá hermálaráðherranum eða forsetanum. Dagblöðin lögðu sitt af mörkum til að stækka persónuleika Changarniers. Þar sem algjör skortur var á mikilmennum, neyddist flokkur laga og reglu til þess að ímynda sér í gervi einstaklings allan þann kraft, sem stétt hans í heild vantaði, og blása þannig þennan einstakling óhóflega út. Þannig varð til goðsögnin um Changarnier, „máttarstólpa þjóðfélagsins". Ósvífin svindlarabrögð og mikilmennskulæti Changarniers, sem lét allra auðmjúklegast til leiðast að bera heiminn á herðum sér, eru í æpandi ósamræmi við atburðina, sem gerðust á meðan stóð á hersýningunni á Satory og eftir hana, sem sýndu, að eitt pennastrik dvergsins Bonaparte nægði til að risinn Changarnier, þessi ímyndun skelfdra borgara, skryppi saman í sína réttu stærð og þessi mikla hetja og bjargvættur þjóðfélagsins breyttist í hershöfðingja á eftirlaunum.

Bonaparte hafði löngu áður byrjað að hefna sín á Changarnier, með því að etja hermálaráðherranum til ófriðar við hann. Síðasta Satory-hersýningin olli því, að óvinátta þeirra logaði upp úr. Hinn stjórnarskrárholli Changarnier réði sér ekki fyrir hneykslun, er hann sá riddaraliðið ríða fram hjá með hinu ólöglega vígorði: Vive l'Empereur![1] Til þess að losna við allar óþægilegar umræður um þetta vígorð á þingfundum, sem nú stóðu fyrir dyrum, losaði Bonaparte sig við hermálaráðherrann d'Hautpoul með því að gera hann að landstjóra í Alsír. Í stað hans setti hann trúverðugan gamlan hershöfðingja frá keisaratímunum, sem að ruddaskap var enginn eftirbátur Changarniers. Til þess að afsetning d'Hautpouls liti ekki út eins og tilslökun við Changarnier, fjarlægði hann um leið hægri hönd þessa bjargvættar þjóðfélagsins, Neumayer hershöfðingja, frá París til Nantes. Það var Neumayer, sem við síðustu hersýningu hafði komið öllu fótgönguliðinu til að ganga steinþegjandi fram hjá eftirmanni Napóleons. Changarnier, sem tók árásina á Neumayer til sín, mótmælti og hafði í hótunum. Það var árangurslaust. Eftir tveggja daga samningamakk birtist í „Moniteur" tilkynningin um flutning Neumayers, og hetja laga og reglu átti ekki annars úrkosta en beygja sig fyrir aganum eða segja af sér.

Barátta Bonapartes við Changarnier er áframhald af baráttu hans við flokk laga og reglu. Það eru því miklar blikur á lofti, er þingfundir hefjast á nýjan leik 11. nóvember. Það verður þó vart annað en stormur í vatnsglasi. Í höfuðatriðum mun sami leikurinn halda áfram. Meirihluti flokks laga og reglu mun þó,

[1] Lifi keisarinn!

þrátt fyrir hávaðann í málpípum hinna ýmsu flokksbrota, neyðast til að framlengja umboð forsetans. Bonaparte mun að sínu leyti, þrátt fyrir yfirskins mótmæli, taka við þessari umboðsframlengingu úr höndum þingsins, þó ekki væri fyrir annað en fjárhagskröggurnar. Þannig verður lausninni frestað, ríkjandi ástand framlengt og flokksbrot laga og reglu halda áfram að eyðileggja hvors annars mannorð, veikja hvort annað og grafa hvort undan öðru, en kúgunaraðgerðirnar gegn hinum sameiginlega óvini, meirihluta þjóðarinnar, verða auknar og útvíkkaðar, þar til efnahagsástandið hefur aftur náð því þróunarstigi, að ný sprenging hlýtur að tvístra þessum innbyrðis fjandsamlegu flokkum og hinu stjórnarskrárbundna lýðveldi þeirra.

Borgurunum til huggunar er rétt að bæta því við, að átökin milli Bonapartes og flokks laga og reglu leiddu til þess, að margir smærri kapítalistar urðu gjaldþrota á kauphallarbraski og eignir þeirra lentu í vasa stærstu kauphallarúlfanna.

Skrifað árið 1850.
Birtist upphaflega í tímaritinu „Neue Rheinische Zeitung", 1., 2., 3. og 5.–6. hefti 1850.
Fyrst gefið út í bókarformi 1895 í umsjá Friedrichs Engels með inngangi eftir hann.

KARL MARX

# Atjándi brumaire Lúðvíks Bónaparte

## Formáli Karls Marx að annarri útgáfu

Vinur minn *Jósep Weydemeyer,* sem lézt fyrir aldur fram, hafði í hyggju að hefja útgáfu pólitísks vikurits í New York 1. janúar 1852. Hann hvatti mig til að semja sögu stjórnlagarofsins fyrir þetta rit. Ég skrifaði honum því frá því um miðjan febrúar vikulegar greinar með fyrirsögninni: „Átjándi brumaire Lúðvíks Bónaparte". En þegar hér var komið var upphafleg áætlun hans farin út um þúfur. Aftur á móti byrjaði hann vorið 1852 útgáfu mánaðarrits sem hét: *Die Revolution,* en fyrsta hefti þess er „Átjándi brumaire". Nokkur hundruð eintök ritsins rötuðu þá til Þýzkalands, en voru þó ekki seld í reglulegum bókaverzlunum. Þýzkur bóksali, sem ég bauð ritið til dreifingar, lét í ljós ósvikna siðferðislega hneykslun yfir svo „ótímabærri uppástungu", enda þótt hann teldi sig ákaflega róttækan.

Af þessu geta menn skilið að þetta rit varð til undir beinum þrýstingi atburðanna, og að sögulegur efniviður þess er ekki yngri en frá febrúarmánuði (1852). Endurútgáfa þess nú er að nokkru leyti að þakka eftirspurn bókaverzlana, og að nokkru leyti hvatningum vina minna í Þýzkalandi.

Af ritum þeim, sem eru hérumbil *jafnaldrar* míns rits, eru aðeins tvö athyglisverð: *Napoléon le Petit* eftir Victor Hugo og *Coup d'État* eftir Proudhon.

Victor Hugo lætur sér nægja að ausa beiskum og andríkum ókvæðisorðum yfir ábyrgðarmann og útgefanda stjórnlagarofsins. Atburðurinn sjálfur birtist hjá honum eins og þruma úr heiðskíru lofti. Honum virðist að hann sé ofbeldisverk eins manns. Hann tekur ekki eftir því að hann gerir þennan mann stóran en ekki lítinn með því að eigna honum persónulegt frumkvæðisvald, sem væri dæmalaust í veraldarsögunni. Proudhon reynir aftur á móti að lýsa stjórnlagarofinu sem afleiðingu undanfarinnar sögulegrar þróunar. En án þess að mikið beri á breytist söguleg eftirgerð valdránsins hjá honum í sögulega vörn fyrir valdráns-

hetjuna. Hann gerir sig þannig sekan um villu hinna svonefndu *hlutlægu* söguritara vorra. Ég sýni hinsvegar, hvernig stéttabaráttan í Frakklandi skapaði kringumstæður og afstæður, sem gerðu afkáralegum miðlungsmanni fært að leika hlutverk hetjunnar.

Endursamning þessa rits hefði svipt það sínum sérkennilega litblæ. Ég hef því ekki gert annað en lagfæra prentvillur og fella niður tilvísanir sem ekki eru lengur skiljanlegar.

Lokaorð rits míns: „En þegar keisarakápan sveipar loksins herðar Lúðvíks Bónaparte mun eirmynd Napóleons steypast ofan af Vendômesúlunni“, hafa þegar gengið eftir.

Charras ofursti hóf áhlaupið á Napóleonsdýrkunina í bók sinni um herferðina 1815. Síðan, og einkum hin síðustu ár, hafa franskar bókmenntir gert út af við helgisögn Napóleons með vopnum sögurannsókna, gagnrýni, háðs og fyndni. Utan Frakklands var þessu hlífðarlausa uppgjöri við hina arfgengu þjóðtrú veitt lítil athygli og það átti enn minni skilningi að mæta.

Ég vona að síðustu að rit mitt muni stuðla til að útrýma skólatuggunni algengu, einkum í Þýzkalandi, um hinn svonefnda *caesarisma*. Þegar menn nota þessa yfirborðshliðstæðu sögunnar gleyma þeir aðalatriðinu, semsé því, að í hinu forna Rómaveldi var stéttabaráttan aðeins háð af minnihluta sem naut forréttinda, af frjálsum auðmönnum og frjálsum fátæklingum, en hin fjölmenna framleiðslustétt, þrælarnir, var ekki annað en aðgerðarlaus fótstallur þessara bardagamanna. Menn gleyma hinum merkilegu orðum Sismondi: Rómverska öreigarnir lifðu á kostnað þjóðfélagsins, en þjóðfélag nútímans lifir á kostnað öreiganna. Úr því munurinn á efnislegum, fjárhagslegum forsendum stéttabaráttunnar að fornu og nú á tímum er svo alger, geta pólitísk afsprengi hennar ekki átt meira sameiginlegt en erkibiskupinn af Canterbury og æðstipresturinn Samúel.

Lundúnum 23. júní 1869. *Karl Marx*

Formálinn birtist í annarri útgáfu ritsins „Átjándi brumaire Lúðvíks Bónaparte“, Hamborg 1869.

## Formáli Friedrichs Engels að 3. útgáfu

Sú staðreynd að þörf er nýrrar útgáfu „Átjánda brumaire“ þrjátíu og þremur árum eftir frumbirtingu sýnir að ritið hefur ekki enn glatað neinu af gildi sínu.

Og að sönnu var það snilldarverk. Undireins eftir atburðinn, sem kom öllum stjórnmálaheiminum á óvart einsog þruma úr heiðskíru lofti, var fordæmdur af sumum með siðferðislegum hneykslunarópum, fagnað af öðrum sem björgun úr byltingunni og hegning fyrir gönuhlaup hennar, en allir undruðust og enginn skildi, – undireins eftir þennan atburð kom Marx fram með stutta gagnorða lýsingu, sem sýndi gang franskrar sögu síðan á febrúardögunum í innra samhengi, greindi sundur kraftaverkið 2. desember í eðlilegar og óhjákvæmilegar afleiðingar þessa samhengis, og þurfti þó ekki einusinni að auðsýna valdránshetjunni annað en þá fyrirlitningu sem hún átti skilið. Og myndin var teiknuð slíkri meistarahendi, að sérhver ný afhjúpun sem síðan hefur komið fram, hefur aðeins fært mönnum nýjar sannanir fyrir því hversu trúlega hún endurspeglaði veruleikann. Þessi frábæri skilningur hinnar lifandi sögu samtímans, þetta glöggsæi á atburðina í sama vetfangi og þeir gerast er satt að segja einstætt.

En til þessa verks þurfti einnig nákvæma þekkingu Marx á sögu Frakklands. Frakkland er það land þar sem stéttabardagar sögunnar hafa hverju sinni verið háðir til úrslita fremur en í nokkru öðru landi. Þar hafa því hin breytilegu pólitísku form, sem lykja um þessa bardaga og afleiðingar þeirra, hlotið skýrastar útlínur. Frakkland var miðpunktur lénsveldisins á miðöldum, það varð fyrirmynd sameinaðra einveldisríkja og stéttaskipulags þeirra eftir endurreisnartímann, og í byltingunni miklu lagði það lénsskipulagið að velli og stofnaði óblandað borgaraveldi í klassískara formi en nokkurt annað ríki í Evrópu. Og barátta öreigastéttarinnar við hið borgaralega vald er hér mögnuð þeim andstæðum sem hvergi þekkjast annarsstaðar. Þessvegna lagði Marx sérstaka rækt ekki aðeins við liðna sögu Frakklands, heldur fylgdist hann einnig nákvæmlega með þeirri sögu sem var að gerast, safnaði efni sem hann gæti notað síðar, og var því aldrei óviðbúinn atburðunum.

En hér við bættist enn eitt atriði. Marx var einmitt sá maður sem fyrstur hafði uppgötvað hið mikla hreyfilögmál sögunnar, en samkvæmt því lögmáli eru allar orustur hennar, hvort sem þær eru háðar á pólitískum, trúarlegum, heimspekilegum eða einhverjum öðrum hugmyndafræðilegum vettvangi, greinileg eða

miður greinileg tákn um átök þjóðfélagsstéttanna, og tilvera og því einnig árekstrar þessara stétta eru skilyrt af efnahagslegu þróunarstigi þeirra, af framleiðsluháttum þeirra, og af viðskiptum þeirra sem ákvarðast af framleiðsluháttunum. Þetta lögmál, sem hefur álíka þýðingu í sagnfræði og lögmálið um umbreytingu orkunnar í náttúrufræðinni – þetta lögmál fékk honum einnig lykilinn að skilningi á sögu annars lýðveldisins í Frakklandi. Sögu þess notaði hann hér til að prófa lögmál sitt, og jafnvel eftir þrjátíu og þrjú ár hljótum vér að segja að þessi prófun hafi borið glæsilegan árangur.

*Friedrich Engels*

Birt í þriðju útgáfu rits Marx,
„Átjándi brumaire Lúðvíks Bónaparte",
Hamborg 1885.

# Atjándi brumaire Lúðvíks Bónaparte[1]

## I

Einhversstaðar segir Hegel að allir miklir atburðir og persónur veraldarsögunnar komi með nokkrum hætti tvisvar fyrir. Hann gleymdi að bæta við: í fyrra skiptið sem harmleikur, í síðara skiptið sem skrípaleikur. Caussidière kemur í stað Dantons, Louis Blanc í stað Robespierres, Fjallið 1848–1851 í stað Fjallsins 1793–1795, bróðursonurinn í stað föðurbróðurins. Og söm er skopstælingin í kringumstæðunum þegar annað upplag átjánda brumaire er gefið út!

Mennirnir skapa sjálfir sögu sína, en þeir skapa hana ekki að vild sinni, ekki við skilyrði sem þeir hafa sjálfir valið, heldur við þau skilyrði sem þeir hitta fyrir sér, þeim eru fengin, þeir hljóta í arf. Arfur allra liðinna kynslóða hvílir sem farg á heila lifenda. Og þegar þeir virðast einmitt hafa tekið sér fyrir hendur að bylta um hlutunum og sjálfum sér, skapa það sem ekki var áður til, einmitt á slíkum tímabilum byltingarólgu særa þeir áhyggjufullir fram anda fortíðarinnar sér til fulltingis, fá að láni hjá þeim nöfn, vígorð, búning, til þess að leika hinn nýja þátt veraldarsögunnar í þessum fornhelga dularhjúpi og á þessari lánuðu tungu. Þannig setti Lúther upp grímu postulans Páls, byltingin 1789–1814 sveipaði sig til skiptis klæðum rómverska lýðveldisins og rómverska keisararíkisins, og byltingin 1848 kunni ekki betra ráð en skopstæla ýmist 1789 eða byltingararfinn frá 1793–1795. Þannig þýðir byrjandinn einlægt á móðurmál sitt tungu sem hann hefur nýlært, en hann tileinkar sér ekki anda hinnar nýju tungu og getur ekki tjáð hugsanir sínar óhindrað á henni, fyrr en hún liggur honum á hraðbergi án þess að hann þurfi upprifjunar við og án þess að hann minnist móðurmálsins.

---

[1] Með þessum titli vísar Marx til hins sögufræga dags 18. brumaire árið VIII (9. nóvember 1799), þegar Napóleon Bónaparte, föðurbróðir Lúðvíks Bónaparte, hrifsaði til sín völd í Frakklandi.

Þegar nánar er gætt að þessum heimssögulegu særingum blasir óðara við gífurlegur munur. Camille Desmoulin, Danton, Robespierre, Saint-Just, Napóleon, bæði hetjur, flokkar og almenningur gömlu byltingarinnar í Frakklandi notuðu reyndar búning og orðatiltæki Rómverja, en inntu eigi að síður af hendi ætlunarverk síns tíma, að leysa úr læðingi og setja á laggirnar borgaralegt þjóðfélag nútímans. Hinir fyrri sundruðu jarðvegi lénsskipulagsins og brugðu sigðinni á hina lénsku hausa sem spruttu úr honum. Hinn síðastnefndi kom á þeirri skipan í Frakklandi sem var skilyrði þess að frjáls samkeppni gæti notið sín, skipting jarðeignanna bæri arð, óhamlað iðnframleiðsluafl þjóðarinnar kæmi að gagni, og utan landamæra Frakklands sópaði hann hvarvetna burt lénskum skipulagsháttum, að svo miklu leyti sem það var nauðsynlegt til þess að útvega borgaralegu þjóðfélagi Frakklands nútímalegt umhverfi við sitt hæfi á meginlandi Evrópu. Þegar búið var að koma á fót hinni nýju þjóðfélagsskipan hurfu risarnir sem virtust eldri en syndaflóðið, og ásamt þeim hin endurvakta Róm, – Brútusarnir, Gracchusarnir, Publicolarnir, lýðstjórarnir, öldungarnir og Cæsar sjálfur. Í bláköldum veruleikanum hafði hið borgaralega þjóðfélag getið sína sönnu túlka og formælendur í líki Says, Cousins, Royer-Collards, Benjamíns Constants og Guizots, raunverulegir herforingjar þess sátu bak við skrifstofuborð og spikaður haus Lúðvíks XVIII. var pólitískt höfuð þess. Önnum kafið í framleiðslu auðsins og friðsamlegri orustu samkeppninnar lét það sér ekki lengur skiljast að uppvakningar Rómaaldar hefðu haldið vörð um vöggu þess. En þó að borgaralegt þjóðfélag sé sneytt hetjuskap, þá hafði þurft hetjuskapar, fórnfýsi, ógna, borgarastríðs og þjóðabardaga til að koma því í heiminn. Og skylmingamenn þess hittu í klassískum strangleika rómverska lýðveldisins á þær hugsjónir, listform og tálsýnir, sem þeir þurftu á að halda til að dylja fyrir sjálfum sér borgaralega takmarkað eðli bardaga sinna, og knýja ástríður sínar í jafnhæð við hinn mikla harmleik sögunnar. Á öðru þróunarskeiði, einni öld áður, hafði Cromwell og enska þjóðin á sama hátt fengið að láni í Gamlatestamentinu tungutak, ástríður og tálsýnir fyrir sína borgaralegu byltingu. Þegar hinu raunverulega takmarki var náð, þegar borgaraleg ummótun enska þjóðfélagsins var til lykta leidd, bolaði Locke Habakúk í burt.

Uppvakning dauðra í þessum byltingum stuðlaði sem sé til að vegsama hinar nýju orustur, en ekki að skopstæla þær gömlu, ýkja ætlunarverkið í hugarfluginu, en ekki að hopa frá framkvæmd þess í veruleikanum, að finna aftur anda byltingarinnar, en ekki að koma afturgöngu hennar á kreik á ný.

Á árunum 1848–1851 var aðeins vofa gömlu byltingarinnar á

kreiki, frá Marrast, gulglófaða lýðveldissinnanum sem klæddist gervi Baillys, allt til ævintýramannsins sem felur óviðkunnanlegan og smámannlegan svip sinn bakvið járnsteypta dauðagrímu Napóleons. Heil þjóð, sem heldur að hún hafi áunnið sér aukið hreyfiafl með byltingu, verður þess allt í einu vör að hún hefur borizt aftur á bak inn í dáið tímabil, og til þess að enginn sé í vafa um afturkippinn birtast gömlu dagsetningarnar á ný, gamla tímatalið, gömlu nöfnin, gömlu tilskipanirnar sem voru fyrir löngu orðnar viðfangsefni grúskaranna, og gömlu lögreglusnáparnir sem virtust vera grafnir og rotnaðir. Þjóðin hegðar sér eins og sá fákæni Englendingur í Bedlam[1] sem heldur að hann lifi á öld Faraóanna og kveinar alla daga undan þeirri stritvinnu sem á hann sé lögð í ethíópskum gullnámum, hann sé múraður inni í þessu neðanjarðar-fangelsi, með daufa lampatýru festa á höfuð sér, og bakvið hann standi þrælavörðurinn með langa svipu og við dyrnar múgur barbarískra stríðsmanna, sem hvorki skilji þrælana í námunum né hver annan, þar eð enginn þeirra tali sama tungumál og annar. „Og allt þetta verð ég,“ andvarpar hinn fákæni Englendingur, – „ég, frjálsborinn Breti, að þola, til að framleiða gull handa Faraóunum.“ „Til þess að borga skuldir Bónaparte-ættarinnar,“ andvarpar hin franska þjóð. Meðan Englendingurinn var með fullu viti gat hann ekki losað sig við þá fastagrillu að framleiða gull. Og meðan Frakkar gerðu byltingar gátu þeir ekki losnað við endurminninguna um Napóleon, eins og bert varð í kosningunum 10. desember. Þeir þráðu að bjargast úr hættum byltingarinnar heim til kjötkatlanna, og svarið var 2. desember 1851. Þeir hafa ekki aðeins dregið upp skopmynd af skopmynd hins gamla Napóleons, heldur hafa þeir dregið upp skopmynd af hinum gamla Napóleon sjálfum, eins og hann hlýtur að líta út um miðja nítjándu öld.

Þjóðfélagsbylting nítjándu aldar getur ekki sótt skáldleika sinn til fortíðarinnar, heldur aðeins til framtíðarinnar. Hún getur ekki byrjað á sjálfri sér fyrr en hún hefur varpað frá sér allri hjátrú á fortíðina. Fyrri byltingar þörfnuðust heimssögulegra endurminninga til þess að sljóvga skilning sinn á þýðingu sjálfra sín. Bylting nítjándu aldar verður að láta hina dauða grafa sína dauðu til þess að komast að þýðingu sjálfrar sín. Áður fór orðskrúðið fram úr veruleikanum, nú fer veruleikinn fram úr orðskrúðinu.

Í febrúarbyltingunni tókst að ráðast á gamla þjóðskipulagið *að því óvöru,* og fólkið útnefndi þessa óvæntu árás sem heimssögulegt afrek og upphaf nýs tímabils. Hinn 2. desember er

[1] Fávitahæli í Englandi.

febrúarbyltingin látin hverfa með sjónhverfingabragði spilasvikara, og þá lítur svo út sem einveldið hafi ekki verið upprætt, heldur þær frjálslyndu úrbætur sem tekizt hafði að kúga út úr því með aldarlangri baráttu. Það var ekki svo að *þjóðfélagið* hefði áunnið sér nýtt innihald, heldur sýnist *ríkið* aðeins hafa snúið til baka til síns elzta forms, til óbrotinnar og ósvífinnar drottnunar korðans og kuflsins. Dirfskubragðinu í febrúar 1848 er svarað með fífldirfskunni í desember 1851. Gott gaman og stutt. Þessi tími hefur þó ekki verið gagnslaus. Á árunum 1848–1851 hefur franska þjóðfélagið með fljótvirkri, þ. e. byltingarkenndri aðferð, tileinkað sér það námsefni og þá reynslu sem hefði samkvæmt venjulegum námsaðferðum, ef svo má komast að orði, átt að fara á undan febrúarbyltingunni, hefði hún átt að verða annað og meira en yfirborðshreyfing. Þjóðfélagið virðist nú vera komið aftur fyrir upphaf hennar; satt að segja verður það að byrja á að skapa sér byltingarsinnað upphaf, það ástand, þær aðstæður, þær forsendur sem einar geta framkallað alvarlega byltingu.

Borgaralegar byltingar, til að mynda byltingar átjándu aldar, geysast áfram og vinna hvern sigurinn á fætur öðrum, dramatísk áhrif þeirra verða sterkari og sterkari, menn og hlutir virðast greyptir í logandi demanta, hrifningin er andrúmsloft sérhvers dags; en þær eru skammæar, brátt hafa þær náð hátindinum, og þrálátir timburmenn ná taki á þjóðfélaginu áður en það hefur lært að nýta með algáðum huga árangur umbrotatímabilsins. Öreigabyltingar, svo sem byltingar nítjándu aldar, gagnrýna aftur á móti sjálfar sig í sífellu, nema einlægt staðar á rás sinni, snúa aftur til þess sem virtist aflokið og byrja á því enn á ný, hæða af fullkomnu miskunnarleysi hálfkák, veikleika og vesaldóm fyrstu tilrauna sinna, virðast fella andstæðinginn til þess eins að hann sjúgi nýja krafta úr jörðinni og rísi aftur gegn þeim í enn meiri tröllaham, hopa í sífellu fyrir ómældum ægileik markmiða sinna, unz ástandið er orðið slíkt að ekki er hægt að snúa við, og aðstæðurnar sjálfar hrópa:

Hic Rhodus, hic salta![1]
Hér er rósin, hér skaltu dansa!

Sérhvern meðalskarpan áhorfanda, og það þó hann hefði ekki fylgzt með atburðarásinni í Frakklandi skref fyrir skref, hlaut reyndar að gruna að byltingin ætti fyrir höndum ógnarlegar ófarir. Það þurfti ekki annað en hlusta á drýgindalegt sigurgeltið í

[1] „Hér er Rhodus, stökktu hér!" Tilvísun til dæmisögu Esóps um gortarann, sem kvaðst hafa vitni að því að hann hefði einusinni, á Rhodus, stokkið geysilangt stökk. „Þú þarft engin vitni, ef þú segir satt. Hér er Rhodus, stökktu hér!"

háttvirtum lýðræðissinnum, sem óskuðu hver öðrum til hamingju með undursamleg áhrif annars sunnudags í maí 1852. Annar sunnudagur í maímánuði 1852[1] var orðinn að meinloku í höfði þeirra, að trúarkreddu, líkt og sá dagur í höfði Chiliasta þegar Kristur átti að koma aftur og þúsundáraríkið að byrja. Vanmátturinn flýði eins og ævinlega á náðir kraftaverkatrúarinnar, hélt að hann hefði sigrað óvininn með því að særa hann burt í ímynduninni, og missti allan skilning á samtímanum í athafnalausri vegsömun framtíðarinnar, sem væri í vændum, og þeirra afreksverka sem hann byggi yfir, en kærði sig aðeins ekki um að drýgja enn sem komið væri. Þessar hetjur sem reyna að afsanna staðfest dugleysi sitt með því að votta hver öðrum meðaumkun til skiptis og flykkjast saman í hóp, höfðu búið um farangur sinn, stungið niður hjá sér lárviðarkrónunum sem þær eignuðu sér sem fyrirframgreiðslu, og voru einmitt í önnum að koma í verð á víxlamarkaðinum þeim lýðveldum in partibus[2] sem þær höfðu þegar í þögn sinna lítillátu sálna verið svo forsjálar að útvega stjórnarherra. Annar desember kom yfir þá eins og þruma úr heiðskíru lofti, og þjóðirnar, sem á tímabilum hugleysis og vonleysis láta gjarnan þá sem hrópa hæst yfirgnæfa hræðslu sína, hafa ef til vill komizt að raun um, að þeir tímar eru liðnir þegar gæsagarg gat bjargað Kapítólíum.

Stjórnarskráin, þjóðþingið, flokkar konungssinna, bláir og rauðir lýðveldissinnar, hetjurnar frá Afríku, þrumur ræðustólsins, skruggur dagblaðanna, bókmenntirnar eins og þær leggja sig, nafnkunnir stjórnmálamenn og frægðarljós andans, borgaralöggjöfin og hegningarlögin, liberté, égalité, fraternité og annar sunnudagur maímánaðar 1852, – allt er horfið eins og í sjónhverfingu fyrir töfraformúlu manns sem óvinir hans álíta ekki einusinni neinn galdrameistara. Hinn almenni kosningarréttur virðist einungis hafa tórt áfram til þess að hann gæti sjálfur gert erfðaskrá sína fyrir allra augum og lýst yfir í nafni sjálfrar þjóðarinnar: Allt sem er, á skilið að hrynja.

Það dugir ekki að segja, eins og Frakkar gera, að þjóð þeirra hafi verið komið á óvart. Hvorki þjóð né konu er fyrirgefin sú óvarkárnisstund þegar fyrsti flagarinn gat beitt hana valdi. Gátan er ekki leyst með þvílíkum orðatiltækjum, heldur aðeins borin fram á annan hátt. Eftir er að útskýra hvernig þrír lukkuriddarar geta komið 36 milljóna þjóð á óvart og hneppt hana í fjötra án þess að hún veiti viðnám.

Rifjum upp í höfuðdráttum þau skeið sem byltingin franska hefur runnið frá 24. febrúar 1848 þangað til í desember 1851.

[1] Þann dag átti forsetatíð Lúðvíks Bónaparte að ljúka.
[2] *In partibus (infidelium)*: meðal heiðingja; hér: í öðrum löndum.

Þrjú aðaltímabil eru auðkennileg: *febrúartímabilið;* 4. maí 1848 til 28. maí 1849: *tímabil lýðveldisstofnunarinnar* eða *tímabil stjórnlagaþingsins;* 28. maí 1849 til 2. desember 1851: *tímabil þingbundins lýðveldis* eða *tímabil löggjafarþingsins.*

*Fyrsta tímabilið* frá 24. febrúar eða falli Lúðvíks Filippusar til 4. maí 1848, samkomudags stjórnlagaþingsins, hið eiginlega febrúartímabil, má einkenna sem *forleik* byltingarinnar. Eðli þess var opinberlega lýst með því, að skyndistjórn þessa tíma kallaði sjálfa sig *bráðabirgðastjórn,* og á sama hátt var allt það, sem stungið var upp á, prófað, látið í ljós á þessum tíma, aðeins ætlað *til bráðabirgða.* Enginn og ekkert dirfðist að helga sér rétt varanleikans og hinnar raunverulegu athafnar. Allt það sem hafði undirbúið eða ákveðið byltinguna, konungssinnuð stjórnarandstaða, lýðveldissinnuð borgarastétt, lýðræðis- og lýðveldissinnaðir smáborgarar, sósíaldemókratískur verkalýður, átti sæti til bráðabirgða í febrúar*stjórninni.*

Það gat ekki öðruvísi farið. Febrúardagarnir höfðu að upphaflegu markmiði að endurbæta kosningalöggjöfina í þá veru að stækka hóp pólitískra forréttindamanna innan eignastéttarinnar og binda enda á valdseinokun fésýsluaðalsins. En er til bardagans kom í raun og veru, fólkið þyrptist á götuvígin, þjóðvörðurinn hélt að sér höndum, herinn veitti ekki viðnám að ráði, og konungsveldið lagði á flótta, virtist lýðveldið vera sjálfsögð lausn. Hver flokkur lagði sinn skilning í það. Öreigarnir höfðu leitt það til sigurs með vopn í hendi, og nú settu þeir sitt mark á það og lýstu það *félagslegt lýðveldi.* Þannig var bent til hins almenna einkennis á byltingu vorra tíma, sem var í undarlegri mótsögn við allt það sem hægt var að smíða í bráð úr þeim efniviði sem til var, með þeirri menntun sem lýðurinn bjó við, og í núverandi kringumstæðum og afstæðum. Á hinn bóginn hlutu kröfur allra annarra aðilja, sem stuðlað höfðu að febrúarbyltingunni, viðurkenningu með þeim ljónsparti ríkisstjórnarinnar sem þeir fengu. Þessvegna hittum við á engu tímabili jafn margbreytilega blöndu háfleygra orða og raunverulegrar óvissu og úrræðaleysis, innblásinnar endurnýjunarviðleitni og algerrar drottnunar gamallar venju, ytraborðssamræmis alls þjóðfélagsins og djúptæks ósamkomulags allra þátta þess. Meðan öreigarnir í París horfðu með hrifningarvímu á þá stórkostlegu framtíð sem þeir áttu í vændum og skemmtu sér við alvörugefnar umræður um félagsleg málefni, höfðu hin gömlu öfl þjóðfélagsins hópað sig saman, fylkt liði og ráðið ráðum sínum, og fundu óvæntan stuðning hjá meirihluta þjóðarinnar, bændum og smáborgurum, sem þustu allir í senn upp á leiksvið stjórnmálanna óðar en varnargirðingar júlíeinveldisins hrundu.

*Annað tímabilið*, frá 4. maí 1848 til maíloka 1849 er stofnunartími hins borgaralega lýðveldis. Fyrst eftir febrúardagana höfðu ekki aðeins lýðveldissinnar skotið konungssinnuðu andstöðunni ref fyrir rass, heldur einnig sósíalistar lýðveldissinnum og París öllu Frakklandi. Þjóðþingið sem kom saman 4. maí 1848 að loknum kosningum, hafði umboð þjóðarinnar. Það var lifandi andmæli við tilætlunum febrúardaganna, og var fengið það hlutverk að snúa árangri byltingarinnar til samræmis við hinn borgaralega mælikvarða. Öreigar Parísar gerðu sér óðara grein fyrir eðli þessa þjóðþings, en þó að þeir reyndu fáeinum dögum eftir að það kom saman, hinn 15. maí, að neita því um tilverurétt með ofbeldisaðgerðum, rjúfa það, sundra á ný þeirri stofnun í einstaka efnishluta sína, sem hafði að geyma þann afturhaldsanda þjóðarinnar sem þeim stóð hætta af, þá var það allt til einskis. Eins og kunnugt er varð árangur 15. maí ekki annar en sá að fjarlægja Blanqui og félaga hans, þ. e. raunverulega foringja öreigaflokksins, leiksviði atburðanna allt það tímabil sem vér erum að athuga.

Eftir *borgaralegt einveldi* Lúðvíks Filippusar getur aðeins komið *borgaralegt lýðveldi*. Það þýðir að nú mun borgarastéttin öll ráða í nafni fólksins, en áður réð takmarkaður hluti borgarastéttarinnar í nafni konungsins. Kröfur Parísar-öreiganna eru útópískar fásinnur sem verða að taka enda. Þessari yfirlýsingu stjórnlagaþingsins svöruðu Parísar-öreigarnir með *júní-uppreisninni*, risavaxnasta atburði í sögu evrópskra borgarastyrjalda. Hið borgaralega lýðveldi sigraði. Með því stóð fésýsluaðallinn, iðnaðarborgararnir, millistéttin, smáborgararnir, herinn, öreigaskríllinn, skipulagður sem útboðslið (garde mobile), andlegir höfðingjar, prestar, og íbúar landsbyggðarinnar. Með öreigum Parísar stóðu engir nema þeir sjálfir. Meira en 3000 uppreisnarmenn voru myrtir að unnum sigri, 15 000 fluttir úr landi án dóms. Með þessum ósigri hverfur öreigastéttin í *bakgrunn* byltingarleiksviðsins. Hún reynir að þoka sér framar hvenær sem hreyfingin virðist vakna á ný, en þróttur hennar dvínar sífellt og árangurinn að sama skapi. Óðar en byltingargerjun hleypur í eitthvert lag þjóðfélagsins sem ofar henni liggur, gerir hún bandalag við það og á þannig sinn hlut í öllum þeim ósigrum sem flokkarnir bíða hver á fætur öðrum. En þessi síðari áhlaup verða sífellt máttlausari eftir því sem þau dreifast víðar um yfirborð þjóðfélagsins. Helztu leiðtogar öreigastéttarinnar á þingi og í blöðum verða hver á fætur öðrum fórnarlömb dómstólanna, og æ tortryggilegri (einstaklingar) komast í fylkingarbrjóst. *Að nokkru leyti varpar hún sér út í fræðilegar tilraunir, vöruskiptabanka og verkamannafélög, þ. e. a. s. út í hreyfingu, sem þýðir að hún*

*gefist upp við að umbylta hinum gamla heimi með heildaraðferðum sjálfs hans, en reynir einkalega og á bakvið þjóðfélagið, innan takmarka fátæklegra lífskjara sinna, að koma frelsun sinni til leiðar, og því hlýtur henni að mistakast.* Að því er virðist finnur hún ekki aftur í sjálfri sér hinn byltingarsinnaða mikilleika, og getur ekki heldur öðlazt nýjan þrótt í hinum nýju samböndum sem hún hefur stofnað til, unz þar kemur að *allar stéttir* sem hún barðist við í júní liggja í valnum við hlið hennar. En í ósigrinum ber hún að minnsta kosti úr býtum heiðurstákn hinnar miklu heimssögulegu orustu; ekki aðeins Frakkland heldur öll Evrópa skelfur í júní-jarðskjálftanum, þar sem aftur á móti ósigrar æðri stéttanna, sem á eftir koma, eru goldnir svo litlu verði, að þörf er ósvífinna ýkjusagna hins sigursæla flokks til þess að yfirleitt sé hægt að líta á þá sem viðburði, og þeir verða því smánarlegri sem hinn sigraði flokkur er fjær öreigastéttinni.

Ósigur júníuppreisnarmannanna hafði að sönnu undirbúið og jafnað grunninn þar sem hægt var að reisa hið borgaralega lýðveldi; en hann hafði sýnt um leið að í Evrópu er um fleiri spurningar að ræða en „lýðveldi eða einveldi". Hann hafði gert lýðum ljóst að *„borgaralegt lýðveldi"* þýddi hér ótakmarkaða harðstjórn einnar stéttar yfir öðrum. Hann hafði sannað að í gamalsiðuðum löndum með þróaðri stéttaskipun, nútímalegum framleiðsluafstæðum, þar sem vitundarlífi manna er svo háttað að öllum gamalkunnum hugmyndum hefur verið sundrað með aldalöngu starfi, *þar er lýðveldið yfirleitt aðeins pólitískt breytingaform borgaralegs félags en ekki varðveizlu- og lífsform,* eins og það er t. d. í Bandaríkjum Ameríku. Í því landi eru að vísu til stéttir, en þær eru ekki enn í föstum skorðum heldur á sífelldri hreyfingu og skiptast einlægt á frumpörtum sínum; þar hrörna ekki framleiðslutækin með þróttlausum offjölda íbúanna heldur bæta upp tiltölulegan skort á höfðum og höndum; og þar hefur hin fjörmikla æskuhreyfing efnislegrar framleiðslu, sem þarf að tileinka sér nýjan heim, hvorki haft tíma né tækifæri til að afnema hinn gamla vofuheim.

Allar stéttir og flokkar höfðu á júnídögunum sameinazt *stjórnfestuflokknum*[1] gegn öreigastéttinni, *stjórnleysisflokknum,* sósíalismanum, kommúnismanum. Þau höfðu „bjargað" þjóðfélaginu frá *„óvinum þjóðfélagsins".* Þau höfðu deilt út meðal hers síns kjörorðum hins gamla þjóðfélags, *„eign, fjölskylda, trú, stjórnfesta",* og hrópað til krossfara gagnbyltingarinnar: „Undir þessu merki munt þú sigra!" Upp frá því er það segin saga, að óðar en

[1] „Ordnungspartei", á frönsku „parti de l'ordre" er þýtt þannig í þessu riti. Í öðrum ritum þessa safns hefur orðið sumsstaðar verið þýtt „flokkur laga og reglu".

einhver þeirra mörgu flokka sem höfðu skipað sér undir þetta merki andspænis júníuppreisnarmönnunum, reynir í hagsmunaskyni stéttar sinnar að verja vígvöll byltingarinnar, bíður hann ósigur fyrir vígorðinu: „eign, fjölskylda, trú, stjórnfesta“. Þjóðfélaginu er jafn-oft bjargað sem hringur drottnaranna þrengist og hagsmunir færri manna eru varðir gegn hinum víðtækari. Sérhver krafa um einföldustu borgaralegar umbætur í fjármálum, venjulegustu frjálslyndisstefnu, flötustu lýðveldisstefnu, hlýtur jafnóðum refsingu sem „árás á þjóðfélagið“ og er brennimerkt sem „sósíalismi“. Og að síðustu er æðstuprestum „stjórnfestutrúarinnar“ sjálfum sparkað af völvustólunum, svipt fram úr rúmunum í skjóli myrkursins, stungið í fangavagna, varpað í svartholið eða skipað í útlegð, hof þeirra jafnað við jörðu, munnur þeirra innsiglaður, fjöður þeirra brotin, lög þeirra tætt í sundur, allt í nafni trúarinnar, eignarinnar, fjölskyldunnar, stjórnfestunnar. Stjórnfestutrúaðir borgarar eru skotnir niður af svölum sínum af drukknum hermannahópum, fjölskylduvé þeirra saurguð, hús þeirra bombarderuð til skemmtunar, – í nafni eignarinnar, fjölskyldunnar, trúarinnar og stjórnfestunnar. Dreggjar hins borgaralega þjóðfélags stofna að lokum hina *heilögu breiðfylkingu* stjórnfestunnar, og garpurinn Krapülinski[1] flytur í Tuilerie-höll sem „bjargvættur þjóðfélagsins“.

## II

Rifjum upp aftur gang atburðanna.

Saga *stjórnlagaþingsins* eftir júnídagana er *saga drottnunar og sundrungar hinnar lýðveldissinnuðu deildar borgaranna,* þeirrar deildar sem nefnd hefur verið þrílitir lýðveldissinnar, hreinir lýðveldissinnar, pólitískir lýðveldissinnar, formlegir lýðveldissinnar o. s. frv.

Í borgaralegu einveldi Lúðvíks Filippusar hafði þessi deild myndað hina opinberu lýðveldissinnuðu stjórnarandstöðu og var þar af leiðandi viðurkenndur aðili að stjórnmálalífi þeirra daga. Hún átti sína fulltrúa í þingdeildunum og hafði töluvert athafnasvið í blöðunum. Parísarmálgagn hennar, „Le National“, var fyrir sitt leyti álitið jafn-virðulegt og „Le Journal des Débats“. Þessari stöðu í hinu þingbundna einveldi samsvaraði eðli hennar. Þessi deild borgarastéttarinnar var enganveginn afmörkuð og sameinuð af meiriháttar sameiginlegum hagsmunum og sérstökum framleiðsluafstæðum. Hún var hópur lýðveldissinnaðra

[1] Krapülinski (úr frönsku *crapule:* munaðarseggur) var fundinn upp af Heine og kemur fyrir í kvæði hans *Zwei Ritter.*

borgara, rithöfunda, lögmanna, liðsforingja og embættismanna, og áhrif hennar áttu rót sína að rekja til persónulegrar óvildar landsbúa í garð Lúðvíks Filippusar, til endurminninga um gamla lýðveldið, til lýðveldisátrúnaðar nokkurra draumóramanna, en umfram allt til *frönsku þjóðernisbyggjunnar,* hatursins á Vínarsamningunum og bandalaginu við England sem hún blés sífellt lífi í. Mikinn hluta þess fylgis, sem „Le National" naut í stjórnartíð Lúðvíks Filippusar, átti blaðið að þakka þessari duldu heimsveldisstefnu, sem varð því aftur hættulegur keppinautur á lýðveldistímanum í persónu Lúðvíks Bónaparte. „Le National" barðist gegn fésýsluaðlinum eins og öll hin borgaralega stjórnarandstaða. Gagnrýnin á fjárlögin, sem í Frakklandi var nátengd baráttunni við fésýsluaðalinn, lét blaðinu í té of ódýrar vinsældir og of auðugt efni í vandlætingarfullar ritstjórnargreinar, til þess að það gæti látið vera að hagnýta hana. Iðnaðarborgararnir voru því þakklátir fyrir hundtrygga vörn franska tollakerfisins, sem það hélt þó uppi fremur af þjóðernislegum en þjóðhagfræðilegum ástæðum, og borgararnir í heild voru því þakklátir fyrir hatursþrungnar árásir á kommúnismann og sósíalismann. Annars var „National"-flokkurinn *hrein-lýðveldissinnaður,* þ. e. a. s. hann fór fram á að drottnun borgaranna hefði lýðveldisform en ekki einveldisform, og einkum krafðist hann handa sjálfum sér ljónsparts þessarar drottnunar. Hann gerði sér alls ekki ljósa grein fyrir skilyrðum þessarar umbreytingar. Það sem honum var aftur á móti full-ljóst og komið hafði opinberlega fram í umbótaveizlunum á síðustu stjórnardögum Lúðvíks Filippusar, voru óvinsældirnar sem hann átti að mæta hjá lýðræðissinnuðum smáborgurum og sérstaklega hjá hinum byltingarfúsu öreigum. Þessir hreinu lýðveldissinnar, – eins og við er að búast af hreinum lýðveldissinnum, – voru komnir á fremsta hlunn að sætta sig fyrst um sinn við ríkisstjóradæmi hertogynjunnar af Orléans, þegar febrúarbyltingin hófst og fékk þekktustu fulltrúum þeirra sæti í bráðabirgðastjórninni. Þeir áttu auðvitað þegar í byrjun trúnað borgarastéttarinnar og meirihlutann á stjórnlagaþinginu. Hinn *sósíalíski* hluti bráðabirgðastjórnarinnar var þegar í stað rekinn úr framkvæmdanefndinni, sem þjóðþingið myndaði þegar það kom fyrst saman, og „National"-flokkurinn notaði sér júníuppreisnina til að setja *framkvæmdanefndina* einnig af, og losnaði þar með við nánustu keppinauta sína, *smáborgaralegu* eða *lýðræðissinnuðu lýðveldismennina* (Ledru-Rollin o. s. frv.). Cavaignac, hershöfðingi borgaralýðveldisflokksins, sem stjórnaði júníbardaganum, kom í stað framkvæmdanefndarinnar með nokkurskonar harðstjóravaldi. Marrast, fyrrum aðalritstjóri „National", varð ævinlegur forseti stjórnlagaþingsins, og ráðuneytin,

eins og allar aðrar stöður sem þýðingu höfðu, komu í hlut hinna hreinu lýðveldissinna.

Hinn lýðveldissinnaði hluti borgaranna, sem hafði lengi litið á sig sem lögmætan erfingja júlí-einveldisins, fékk þannig meira en hann hafði vonað, en hann komst ekki til valda í frjálslyndisuppreisn borgarastéttarinnar gegn krúnunni, eins og hann hafði dreymt undir stjórn Lúðvíks Filippusar, heldur í uppþoti öreiganna gegn auðvaldinu, sem barið var niður með vopnavaldi. Það sem hann hafði ímyndað sér sem hinn *byltingarsinnaðasta* atburð varð í rauninni *gagnbyltingarsinnaðasti* atburðurinn. Ávöxturinn féll honum í skaut, en hann féll af skilningstrénu, ekki af lífstrénu.

*Einkastjórn borgaralýðveldismanna* stóð aðeins frá 24. júní til 10. desember 1848. Niðurstaða hennar er *samning lýðveldisstjórnarskrárinnar* og *umsátursástand Parísar.*

Nýja *stjórnarskráin* var í rauninni ekkert annað en lýðveldisútgáfa stjórnarskrárinnar frá 1830. Hinn takmarkaði kosningarréttur júlíeinveldisins, sem svipti jafnvel mikinn hluta borgarastéttarinnar pólitískum völdum, var ósamrýmanlegur tilveru hins borgaralega lýðveldis. Febrúarbyltingin hafði þegar í stað lögleitt beinan og almennan kosningarrétt í stað hins bundna kosningarréttar. Borgaralýðveldismenn gátu ekki afnumið það sem var búið og gert. Í takmörkunarskyni urðu þeir að láta sér nægja að bæta við því skilyrði að kjósandinn hefði verið búsettur í sex mánuði í kjördæminu. Í stjórnarmálefnum, sveitarstjórn, dómstjórn, her o. s. frv., hélzt gamla fyrirkomulagið óbreytt, og ef stjórnarskráin gerði einhverja breytingu, snerti hún aðeins efnisyfirlitið, ekki efnið, nafnið, ekki hlutinn.

Hið óhjákvæmilega herráð réttindanna frá 1848, einstaklingsfrelsi, prent-, tjáningar-, félags-, funda-, kennslu- og trúfrelsi, eignaðist stjórnskipulegan einkennisbúning sem gerði það ósærandi. Öll þessi réttindi eru semsé lýst *skilyrðislaus* réttindi franskra ríkisborgara, en með þeirri föstu spássíugrein, að þau séu ótakmörkuð að svo miklu leyti, sem þau séu ekki takmörkuð af „*jöfnum réttindum annarra* og *öryggi ríkisins*", eða af „lögum", sem eiga einmitt að tryggja þetta samræmi réttindanna sín á milli og gagnvart öryggi þjóðfélagsins. Dæmi: „Borgararnir hafa rétt til að bindast samtökum, að safnast saman friðsamlega og óvopnaðir, að birta bænarskrár og láta í ljós skoðanir sínar á prenti eða með hvaða móti sem er. *Notkun þessara réttinda er aðeins takmörkuð af jöfnum réttindum annarra og öryggi þjóðfélagsins*". (II. kap. frönsku stjórnarskrárinnar, § 8.) – „Fræðsla er frjáls. Frelsis fræðslunnar skal *neytt* í samræmi við þau skilyrði sem lögin setja, og undir yfirumsjón ríkisins". (Sama stað,

§ 9.) „Íbúð hvers borgara er friðhelg, *nema* lögin kveði öðruvísi á." (II. kap., § 3.) O. s. frv., o. s. frv. Stjórnarskráin vísar þannig stöðugt til væntanlegra stjórnskipunarlaga, sem eiga að fullkomna þessar spássíugreinar og setja notkun þessara ótakmörkuðu réttinda þær reglur, að þau geri hvorki að rekast hver á önnur né á öryggi þjóðfélagsins. Og síðar voru þessi stjórnskipunarlög vakin til lífs af vinum stjórnfestunnar og öllum þessum réttindum settar slíkar reglur, að borgarastéttin gat notið þeirra án þess að reka sig á jöfn réttindi annarra stétta. Þegar hún hefur algerlega varnað „öðrum" þessara réttinda eða leyft þeim not þeirra með skilyrðum sem reynast álíka margar lögreglusnörur, var það ævinlega gert í þágu *„öryggis þjóðfélagsins"*, þ. e. a. s. öryggis borgarastéttarinnar, einsog stjórnarskráin mælir fyrir. Báðir aðiljar skírskota því síðar með fullum rétti til stjórnarskrárinnar, bæði stjórnfestuvinirnir, sem afnámu öll þessi réttindi, og lýðræðisvinirnir, sem kröfðust þeirra allra. Sérhver grein stjórnarskrárinnar inniheldur semsé andstæðu sína, hefur í sér sína eigin efri- og neðrideild, það er að segja frelsið í aðalgreininni, en afnám frelsisins í spássíugreininni. Meðan nafn frelsisins var virt, og aðeins raunveruleg framkvæmd þess hindruð, auðvitað lögum samkvæmt, var stjórnskipuleg tilvera frelsisins óskert og ósnert, þó að *almenn* tilvera þess væri dauðanum ofurseld.

Þó að þessi stjórnarskrá hefði verið gerð friðheilög á svona snjallan hátt, var hún samt eins og Akkilles særanleg á einum stað, ekki á hælnum, heldur á höfðinu, eða þó fremur á þeim tveim höfðum sem hún endaði í – annarsvegar *löggjafarþinginu,* hinsvegar *forsetanum.* Ef menn fletta stjórnarskránni munu þeir komast að raun um, að aðeins þær greinar, þar sem afstaða forsetans til löggjafarþingsins er ákvörðuð, eru ótvíræðar, klárar, mótsagnalausar og óteygjanlegar. Hér er semsé um að ræða öryggi borgaralýðveldismannanna sjálfra. Samkvæmt greinum 45–70 í stjórnarskránni getur þjóðþingið sett forsetann af með stjórnskipulegum rétti, en forsetinn getur aðeins sett þjóðþingið af í trássi við stjórnarskrána, með því einu móti að brjóta hana. Í stjórnarskránni sjálfri felst því ögrun um ofbeldisfulla eyðileggingu hennar. Hún löghelgar ekki einungis, eins og réttindaskráin frá 1830, skiptingu valdsins, heldur gerir hún þá skiptingu að óbærilegri mótsögn. Í *spili hinna stjórnskipulegu valdaaðilja,* eins og Guizot nefndi þingdeilurnar milli löggjafarvalds og framkvæmdavalds, var í stjórnarskránni frá 1848 sífellt spilað upp á *„va banque"*.[1] Annarsvegar mynda 750 þjóðfulltrúar, kosnir með

[1] Þ. e. upp á allt sem er í bankanum.

almennum kosningarrétti, og endurkjörgengir, þjóðþing sem er ekki undir eftirliti neins, er órjúfanlegt og ódeilanlegt, þjóðþing sem hefur fullt löggjafarvald, og tekur lokaákvarðanir um stríð, frið og verzlunarsamninga, hefur eitt rétt til að gefa upp sakir, og er sökum sísetu sinnar stöðugt á framsviði atburðanna. Hinsvegar forsetinn með öllum einkunnum konungsvaldsins, með rétti til að skipa og afsetja ráðherra sína án afskipta þingsins, með öll tæki framkvæmdavaldsins í höndum sér, ráðandi yfir öllum stöðuveitingum og þar með yfir tilveru $1^1/_2$ milljónar manna í Frakklandi, sem háðir eru 500 000 embættismönnum og sýslumönnum af öllum stigum. Hann hefur allan herstyrk ríkisins á bak við sig. Hann nýtur þeirra réttinda að geta náðað einstaka glæpamenn, að víkja þjóðvarðliðum frá um stundarsakir, að setja af í samráði við ríkisráðið aðalráðunauta, kantónuráð og sveitastjórnarráð, sem hafa verið kosin af borgurunum sjálfum. Honum er ætlað frumkvæði og stjórn allra samninga við erlend ríki. Þjóðþingið verður stöðugt að leika fyrir opnum tjöldum og er varnarlaust fyrir hversdagslegri og vægðarlausri dagsbirtunni, en hann lifir laumulífi á Ódáinsvöllum og raunar með 45. grein stjórnarskrárinnar fyrir augum og í hjarta, sem kallar til hans á hverjum degi: „Frère, il faut mourir!“[1] Valdatíma þínum lýkur á öðrum sunnudegi hins fagra maímánaðar á fjórða ári eftir að þú varst kosinn! Þá er dýrðin úti, leikurinn verður ekki leikinn tvisvar, og ef þú ert skuldum vafinn, gættu þess þá í tíma að borga þær með 600 000 frönkunum sem stjórnarskráin fær þér, nema þú kjósir heldur að flytja til Clichy[2] annan sunnudag hins fagra maímánaðar. – Stjórnarskráin lætur þannig forsetanum í té hið raunverulega vald, en leitast við að tryggja þjóðþinginu hið siðferðilega vald. Að því slepptu að ókleift er að búa til siðferðilegt vald með lagagreinum, ómerkir stjórnarskráin sjálfa sig einnig hér, með því að láta alla Frakka kjósa forsetann beinni kosningu. Atkvæði franskra kjósenda dreifast á 750 fulltrúa þjóðþingsins, en sameinast aftur á móti hér um *einn* mann. Þar sem sérhver þjóðfulltrúi kemur aðeins fram fyrir hönd þessa eða hins flokksins, þessarar eða hinnar borgarinnar, þessa eða hins brúarsporðsins, eða jafnvel fyrir hönd þeirrar nauðsynjar einnar að kjósa einhvern af þessum sjöhundruðogfimmtíu fulltrúum, þó hvorki sé litið nákvæmlega á málstaðinn né manninn, þá er *hann* útvalinn af þjóðinni, og kosning hans er stóra trompið sem hið fullvalda fólk spilar út fjórða hvert ár. Hið kjörna þjóðþing er í háspekilegu sambandi við þjóðina en hinn kjörni forseti í beinu sam-

[1] „Bróðir, þú verður að deyja.“
[2] Þ. e. í skuldafangelsi.

bandi við hana. Þjóðþingið túlkar að vísu í einstökum fulltrúum sínum hin margbreytilegu afbrigði þjóðarandans, en þjóðarandinn líkamnast í forsetanum. Gagnvart þinginu er honum veittur nokkurskonar guðlegur réttur; hann *er* af náð þjóðarinnar.

Thetis, sævargyðjan, hafði spáð fyrir Akkillesi, að hann mundi deyja í blóma æskunnar. Stjórnarskráin, sem hafði ekki síður en Akkilles sinn viðkvæma blett, hafði það hugboð eins og Akkilles, að hún mundi deyja fyrir aldur fram. Hinum hreinu lýðveldissinnum stjórnlagaþingsins nægði að beina snöggvast augunum úr þokuhimni fyrirmyndarlýðveldisins að hinum rúmhelga heimi til þess að komast að raun um hve mikillæti konungssinna, bónapartista, lýðræðissinna, kommúnista og vantraustið á sjálfum þeim jókst að sama skapi og þeir færðust nær því að fullkomna sitt mikla löggjafar-listaverk, og Thetis þurfti ekki að stíga upp úr djúpi hafsins til að láta þeim þetta leyndarmál í té. Þeir reyndu að leika á forlögin með stjórnarskrárlegum brögðum í III. grein stjórnarskrárinnar. Samkvæmt henni verður sérhver tillaga um *endurskoðun stjórnarskrárinnar* að ganga í gegnum þrjár umræður með mánaðar millibili og hljóta $^3/_4$ atkvæða, þó að því tilskildu að minnstakosti 500 þingmenn hafi tekið þátt í atkvæðagreiðslunni. Með þessu móti reyndu þeir í vanmætti sínum að tryggja vald sitt jafnvel þegar þeir væru orðnir sá þingminnihluti sem þeir sáu þegar fyrir sér í anda, og þó var nú svo komið, meðan þeir réðu yfir meirihluta þingsins og öllum tækjum stjórnvaldsins, að með hverjum deginum sem leið gloppruðu þeir meira af þessu valdi úr veikburða höndum sínum.

Að lokum felur stjórnarskráin í melódramatískri grein sjálfa sig á hendur „árvekni og föðurlandsást allrar frönsku þjóðarinnar og sérhvers fransks manns," þó að hún hafi áður í annarri grein falið hina „árvökru föðurlandsvini" nákvæmu og banvænu eftirliti þess höfuðsakadóms – „haute cour" – sem hún hafði sjálf fundið upp.

Slík var stjórnarskráin 1848, sem varð að lúta í lægra haldi annan dag desembermánaðar 1851, og það var ekki höfuð sem réð niðurlögum hennar, heldur ein saman snertingin við höfuðfat; raunar var það höfuðfat þríhyrndur Napóleonshattur.

Meðan borgaralegu lýðveldissinnarnir voru önnum kafnir í þinginu að sníða til þessa stjórnarskrá, ræða hana og samþykkja, viðhélt Cavaignac utan þings *umsátursástandi í París*. Umsátursástand Parísar sat yfir stjórnlagaþinginu í lýðveldislegum fæðingarhríðum þess. Síðar meir er beitt byssustingjum til að binda enda á lífdaga stjórnarskrárinnar, en ekki má gleyma því að hún var einnig vernduð af byssustingjum, sem beint var gegn fólkinu, í móðurkviði, og byssustingja var þörf til að koma henni

í heiminn. Forfeður hinna „heiðvirðu lýðveldisinna“ höfðu sent tákn sitt, þrílita fánann, í Evrópureisu. Sjálfir gerðu þeir líka uppgötvun, sem ruddi sér sjálfkrafa braut um allt meginlandið, en sneri ævinlega með endurnýjaðri ást aftur til Frakklands unz hún hefur nú öðlazt borgararéttindi í helmingi fylkja þess, – það var *umsátursástandið*. Fyrirtaks uppgötvun, sem notuð var reglulega meðan byltingin stóð í hvert sinn sem hætta var á ferðum. En herbúðir og varðflokkar, sem lögð voru reglulega á höfuð hins franska þjóðfélags til þess að fergja í því heilann og halda því í skefjum; sverð og byssur sem voru reglulega látin dæma og stjórna, vernda og aga, halda uppi reglu og standa næturvörð; yfirskegg og einkennisbúningar sem með reglulegu millibili voru lofsungin sem æðsta vizka þjóðfélagsins og leiðarhnoða þjóðfélagsins – hlutu ekki herbúðir og varðflokkar, sverð og byssur, yfirskegg og einkennisbúningar að láta sér detta í hug á endanum að betra væri að bjarga þjóðfélaginu í eitt skipti fyrir öll með því að gera sína stjórn að hinni æðstu stjórn og losa hið borgaralega félag alveg við það að stjórna sér sjálft? Herbúðum og varðflokkum, sverðum og byssum, yfirskeggi og einkennisbúningi hlaut því fremur að detta þetta í hug sem þau gátu þá búizt við betri borgun fyrir æðri þjónustu, þar sem á hinn bóginn tímabundið umsátursástand og hraðvirkar þjóðfélagsbjarganir eftir áskorun þessa eða hins hluta borgaranna, gáfu varla í aðra hönd nema fáeina fallna og særða og vinsemdargrettur nokkurra borgara. Því skyldi herinn ekki á endanum spila umsátursástandið upp á eigin spýtur og fyrir sjálfs sín reikning, og setjast þá um peningapyngju borgaranna um leið? Vér skulum annars ekki gleyma því, að *Bernard ofursti,* sá sami hernefndarforseti, sem útvegaði 15 000 uppreisnarmönnum útlegð án dóms undir handleiðslu Cavaignacs, er um þessar mundir aftur formaður hernefndanna í París.

Þó að hinir heiðvirðu, hreinu lýðveldissinnar hefðu með umsátursástandi Parísar undirbúið jarðveginn sem pretóríanar annars desembers 1851 áttu eftir að vaxa og dafna í, þá eiga þeir skilið hrós fyrir það að þeir espa ekki þjóðernistilfinninguna eins og þeir gerðu meðan Lúðvík Filippus sat að völdum, heldur skríða þeir nú, þegar þeir ráða yfir ríkisvaldinu, fyrir erlendum ríkjum, og í stað þess að frelsa Ítalíu lofa þeir Austurríkismönnum og Napólítönum að leggja hana undir sig á ný. Forsetakosning Lúðvíks Bónaparte 10. desember 1848 batt enda á harðstjórn Cavaignacs og stjórnlagaþingsins.

Í 44. grein stjórnarskrárinnar stendur: „Forseti franska lýðveldisins má ekki hafa misst frönsk borgararéttindi.“ Fyrsti forseti franska lýðveldisins, L. N. Bónaparte, hafði ekki aðeins misst

frönsk borgararéttindi sín, var ekki aðeins enskur *special constable,* heldur hafði hann öðlazt svissneskan borgararétt.

Ég hef annarsstaðar rætt um þýðingu kosninganna 10. desember. Ég endurtek það ekki hér. Það nægir að minnast þess hér að þær voru *andóf bændanna,* sem þurft höfðu að borga kostnað febrúarbyltingarinnar, gegn öðrum stéttum þjóðarinnar, *andóf landsbyggðarinnar gegn borgunum.* Þetta andóf féll hernum vel í geð, því að hann hafði ekki sótt neina frægð né ágóða í hendur „National"-lýðveldissinnanna. Það varð einnig vinsælt hjá stórborgurunum sem hylltu Bónaparte sem brú til einræðisins, hjá öreigum og smáborgurum sem hylltu hann sem svipu á Cavaignac. Ég mun síðar hafa tækifæri til að líta nánar á afstöðu bænda til frönsku byltingarinnar.

Á tímabilinu frá 20. desember 1848 þar til stjórnlagaþingið er rofið í maí 1849 gerist hnignunarsaga borgaralegu lýðveldissinnanna. Eftir að þeir höfðu stofnað lýðveldi fyrir borgarastéttina, hrakið hina byltingarsinnuðu öreiga af hólmi, og þaggað í bili niður í lýðræðissinnuðum smáborgurum, er þeim sjálfum ýtt til hliðar af öllum þorra borgarastéttarinnar, sem leggur með fullum rétti hald á þetta lýðveldi sem *sína eign.* En þessi þorri borgarastéttarinnar var konungssinnaður. Annar hluti hennar, stórjarðeigendurnir, hafði farið með völd eftir að konungsstjórn var reist við, og var því *lögerfðasinnaður.* Hinn hluti hennar, fésýsluhöfðingjar og meiriháttar iðjuhöldar, hafði setið að völdunum á tímum júlíeinveldisins og var því *orleaniskur.*[1] Meiriháttar nefndarmenn í hernum, háskólanum, kirkjunni, dómstólunum, akademíunni og blaðaútgáfu skiptust á milli beggja, en að vísu í misjöfnum hlutföllum. Í þessu borgaralega lýðveldi, sem hvorki bar nafnið *Bourbon* né *Orléans,* heldur *kapítal* höfðu þeir hitt á það ríkisform sem gerði þeim fært að fara sameiginlega með völdin. Júníuppreisnin hafði þegar sameinað þá „stjórnfestuflokknum". Næst reið á að losna við klíku borgaralegu lýðveldissinnanna sem réðu enn yfir sætum þjóðþingsins. Jafn ruddalega sem þessir hreinu lýðveldissinnar höfðu misbeitt valdi sínu við fólkið, af jafnmikilli ragmennsku, uppburðaleysi, hugleysi, auðmýkt og varnarleysi hopuðu þeir nú af hólmi, þegar þeir þurftu að halda fram löggjafarrétti sínum og lýðveldistrú andspænis framkvæmdavaldinu og konungssinnunum. Ég þarf ekki að segja hér smánarsögu endaloka þeirra. Þeir biðu ekki ósigur, heldur urðu að gjalti. Sögu þeirra er endanlega lokið og á næsta skeiði verða þeir aðeins fyrir sem endurminningar, hvort heldur utan eða innan þings. Endurminningar sem virðast aftur öðlast líf þegar

[1] Um lögerfðamenn (legitímista) og orleanista sjá skýringu við *Stéttabaráttuna í Frakklandi 1848–1850,* bls. 13 í þessari bók.

ekkert annað er í húfi en nafnið lýðveldi og hvenær sem byltingarbaráttunni hættir til að hrapa niður á sitt lægsta stig. Ég læt þess snöggvast getið að blaðið sem gaf þessum flokki nafn sitt, „Le National", snýst til sósíalisma á því tímabili sem í hönd fer.

Áður en vér látum útrætt um þetta tímabil, verðum vér að líta enn einu sinni á bæði þau öfl, sem annað þeirra eyðir hinu 2. desember 1851, þó að þau hefðu lifað í ektastandi frá 20. desember 1848 til loka stjórnlagaþingsins. Vér eigum við Lúðvík Bónaparte annarsvegar og sameiningarflokk konungssinna, stjórnfestunnar og stórborgaranna hinsvegar. Jafnskjótt sem Bónaparte var orðinn forseti myndaði hann stjórn úr stjórnfestuflokknum, og í forsæti hennar setti hann Odilon Barrot, þ. e. a. s. hinn gamla foringja fyrir frjálslyndasta hluta borgaralegra þingmanna. Herra Barrot hafði loksins krækt í ráðuneytið sem hafði haldið fyrir honum vöku síðan 1830, hann hafði meira að segja komizt í forsæti þessa ráðuneytis; en þó ekki, eins og hann hafði ímyndað sér á stjórnardögum Lúðvíks Filippusar, sem framsæknasti foringi stjórnarandstöðunnar, heldur með það hlutverk að gera út af við þingið, og sem bandamaður allra höfuðfjenda sinna, jesúíta og lögerfðamanna. Hann leiddi unnustuna loksins í hús sitt, en ekki fyrr en hún var orðin skækja. Bónaparte virtist ekkert láta á sér bæra. Flokkurinn starfaði fyrir hans hönd.

Þegar á fyrsta ráðuneytisfundinum var Rómar-leiðangurinn ákveðinn, sem menn komu sér saman um að leggja út í án vitundar þingsins og hrifsa fjárveitinguna til hans úr höndum þess á fölskum forsendum. Þannig var byrjunin sú að þjóðþingið var gabbað og stofnað til leynilegs samsæris með erlendum alræðisríkjum gegn hinu rómverska byltingarlýðveldi. Bónaparte hafði sama hátt á og notaði sömu brögð til að undirbúa uppreisn sína 2. desember gegn hinu konungssinnaða löggjafarþingi og þingbundnu lýðveldi þess. Gleymum ekki að sami flokkurinn sem myndaði ráðuneyti Bónaparte 20. desember 1848 réð meirihlutanum á löggjafarþinginu 2. desember 1851.

Stjórnlagaþingið hafði ákveðið í ágúst að rjúfa ekki sjálft sig fyrr en það hefði samið og gefið út röð af stjórnskipunarlögum sem áttu að vera stjórnarskránni til fyllingar. Stjórnfestuflokkurinn lét fulltrúann Rateau bera upp á þinginu þá tillögu 6. janúar 1849, að það léti stjórnskipunarlögin lönd og leið, og tæki heldur ákvörðun um þingrof. Ekki aðeins ráðuneytið, með Odilon Barrot í fararbroddi, heldur einnig allir konungssinnaðir fulltrúar á þingi, lýstu mynduglega yfir því að þingrof væri nauðsynlegt til þess að endurreisa lánstraustið, til að treysta öryggið, til að binda enda á hið óvissa bráðabirgðaástand og koma á varanlegri skipun, þingið tefði störf hins nýja ríkisvalds, reyndi að-

eins að lengja lífdaga sína af hefnigirni, og þjóðin væri þreytt á því. Bónaparte tók eftir öllum þessum óvirðingarorðum í garð löggjafarvaldsins, lærði þau utanað og sannaði konungssinnum á þingi hinn 2. desember 1851, að hann hefði lært af þeim. Hann sneri vígorðum þeirra gegn þeim sjálfum.

Ráðuneyti Barrots og stjórnfestuflokkurinn létu ekki hér við sitja, heldur hvöttu almenning víðsvegar um Frakkland til að senda *bænarskrár til þjóðþingsins*, en í þeim var það vinsamlegast beðið að hverfa. Þannig leiddu þeir út í orustu við þjóðþingið, sem var stjórnarskrárbundin og skipulögð tjáning á vilja þjóðarinnar, hinn óskipulagða fjölda hennar. Þeir kenndu Bónaparte að áfrýja ákvörðunum þjóðþingsins til þjóðarinnar. Loks þann 29. janúar 1849 var sú stund runnin upp þegar stjórnlagaþingið átti að taka ákvörðun um að rjúfa sjálft sig. Þjóðþingið kom að samkomustað sínum í hershöndum; Changarnier, hershöfðingi stjórnfestuflokksins, sem hafði í sínum höndum æðstu stjórn þjóðvarðarins og hins reglulega hers, hélt meiriháttar hersýningu í París eins og orusta væri í vændum, og sameinaðir konungssinnar hótuðu stjórnlagaþinginu að beitt yrði valdi, ef það væri ekki hlýðið. Það var hlýðið og samdi aðeins um örstutta framlengingu tilveru sinnar. Hvað var 29. janúar annað en stjórnlagarofið 2. desember, framið af konungssinnunum ásamt Bónaparte, á kostnað hins lýðveldissinnaða þjóðþings? Heiðursmennirnir veittu því ekki athygli eða vildu ekki veita því athygli, að Bónaparte notaði sér 29. janúar 1849 til þess að láta hluta hersveitanna þramma framhjá sér við Tuileriehöll og greip feginshendi það tækifæri sem þetta fyrsta opinbera útboð hervaldsins gegn valdi þingsins veitti honum, til þess að minna á Caligula. Þeir sáu ekki annað en félaga sinn Changarnier.

Meðal þess sem sér í lagi hvatti stjórnfestuflokkinn til að stytta með valdi ævi stjórnlagaþingsins, var lagasmíðin til fyllingar stjórnarskránni, svo sem fræðslulögin, kirkjulögin o. s. frv. Hinum sameinuðu konungssinnum var mjög umhugað að semja sjálfir þessi lög í stað þess að láta lýðveldissinnana, sem orðnir voru tortryggnir, semja þau. Meðal þessara stjórnskipunarlaga voru reyndar lög um ábyrgð forseta lýðveldisins. Árið 1851 var löggjafarþingið einmitt að semja slík lög, þegar Bónaparte varð fyrri til með valdráninu 2. desember. Hversu mikið hefðu sameinaðir konungssinnar gefið fyrir það á þinglegri vetrarherferð sinni 1851, að geta gengið að ábyrgðarlöggjöfinni fullsmíðaðri, saminni af tortryggnu, óvinveittu og lýðveldissinnuðu þjóðþingi!

Eftir að stjórnlagaþingið hafði sjálft brotið síðasta vopn sitt, 29. janúar 1849, lögðu Barrot-stjórnin og stjórnfestuvinirnir það í einelti, notuðu hvert tækifæri til að auðmýkja það, og toguðu

út úr veikleika þess, sem þegar var nógu vonlaus, lög sem kostuðu það þá litlu virðingu sem það naut enn hjá almenningi. Bónaparte, haldinn sinni napóleónsku fastagrillu, dirfðist að notfæra sér opinberlega þessa niðurlægingu þingvaldsins. Þegar þjóðþingið samþykkti 8. maí 1849 vítur á ráðuneytið fyrir hernám Civita-Vecchia undir stjórn Oudinots, og skipaði svo fyrir að Rómarleiðangrinum yrði aftur beint að viðurkenndu marki sínu, prentaði Bónaparte sama kvöld í „Le Moniteur" bréf til Oudinots, þar sem hann óskar honum til hamingju með hetjudáðir hans og tekur þegar á sig gervi hins göfuglynda verndara hersins, andspænis blekbullurum þingsins. Konungssinnarnir brostu. Þeir litu á hann sem leiksopp sinn og ekkert annað. Loks var það, að þegar Marrast, forseti stjórnlagaþingsins hélt sem snöggvast að öryggi þingsins væri í hættu, og fór fram á að fá til sinna afnota einn ofursta ásamt herflokki, eins og stjórnarskráin heimilaði honum, þá neitaði ofurstinn að hlýða undir yfirskini heragans og vísaði Marrast til Changarniers sem synjaði beiðni hans með hæðnisyrðum og lét þess getið að sér væri lítið gefið um bayonnettes intelligentes.[1] Í nóvembermánuði 1851, þegar hinir sameinuðu konungssinnar ætluðu að hefja úrslitaorustuna við Bónaparte, reyndu þeir með hinni frægu „questoratillögu" sinni að fá samþykkta heimild til handa þingforseta að kveðja herinn sér til fulltingis milliliðalaust. Einn af hershöfðingjum þeirra, Le Flô, hafði undirritað tillöguna. Árangurslaust greiddi Changarnier atkvæði með tillögunni, og árangurslaust hrósaði Thiers stjórnlagaþinginu sáluga fyrir gætni og vizku. Hermálaráðherrann Saint-Arnaud svaraði sömu orðum og Changarnier hafði svarað Marrast, – og Fjallið klappaði honum lof í lófa!

Þannig hafði *stjórnfestuflokkurinn* sjálfur, meðan hann var ekki enn þjóðþing, heldur aðeins ráðuneyti, brennimerkt þingræðisstjórnarfarið. Og hann rekur upp ramakvein þegar valdránið 2. desember 1851 gerir það útlægt úr Frakklandi.

Vér óskum því góðrar ferðar.

## III

Hinn 28. maí 1849 kom löggjafarþingið saman, 2. desember 1851 var því sundrað. Þetta er tímabil hins *stjórnarskrárbundna eða þingbundna lýðveldis.*

Í fyrstu frönsku byltingunni fara stjórnlagasinnar fyrst með völdin, síðan Gírondínar og þá Jakobínar. Sérhver þessara flokka hefur stuðning af framsæknari flokki. Jafnskjótt og hann

[1] skynsemigædda byssustingi.

hefur leitt byltinguna svo langt, að hann getur ekki lengur fylgt henni eftir hvað þá heldur farið á undan henni, er honum rutt úr vegi af þeim djarfari bandamanni sem stendur fyrir aftan hann og sendur undir fallöxina. Byltingin heldur þannig áfram á hækkandi braut.

Þveröfugt var þessu farið um byltinguna 1848. Öreigaflokkurinn birtist sem viðbót við flokk lýðræðissinnaðra smáborgara. Hinn síðarnefndi svíkur hann og skilur hann eftir einan og yfirgefinn hinn 16. apríl, 15. maí, og á júnídögunum. Lýðræðissinnaði flokkurinn hvílir fyrir sitt leyti á öxlum borgaralega lýðveldisflokksins. Óðar en borgara-lýðveldissinnarnir telja sig stöðuga á fótunum hrista þeir af sér hinn óþægilega félaga og hallast sjálfir að öxlum stjórnfestuflokksins. Stjórnfestuflokkurinn hryllir sig svo að borgara-lýðveldissinnarnir rjúka um koll, og kastar sér sjálfur á axlir hervaldsins. Hann hyggur sig enn sitja á öxlum þess, þegar hann verður þess var einn fagran morgun að þær hafa breytzt í byssustingi. Hver flokkur slær þann flokk fyrir aftan sig sem stefnir fram á við og hallar sér áfram að þeim flokki sem leitar aftur á bak. Ekki er að furða þó hann missi jafnvægið í þessari hlægilegu stellingu, og detti kylliflatur með furðulegustu tilburðum eftir að hafa grett sig og brett svo sem óhjákvæmilegt var. Byltingin fylgir þannig lækkandi braut. Hún er lögð af stað aftur á bak áður en síðasta febrúargötuvirkinu hefur verið rutt burt og fyrstu byltingaryfirvöldunum komið á fót.

Tímabilið sem vér erum að virða fyrir oss er fullt af marglitu blandi gagngerra mótsagna: stjórnarskrárfylgjendur sem fara ekki dult með baráttu sína gegn stjórnarskránni, byltingarsinnar sem viðurkenna að þeir séu fylgjendur stjórnarskrárinnar, þjóðþing sem vill vera almáttugt og er stöðugt málrófsþing; „Fjall", sem finnur hlutverk sitt í þolinmæðinni og brynjar sig gegn ósigrum líðandi stundar með spádómum um sigra framtíðarinnar; konungssinnar, sem eru patres conscripti[1] lýðveldisins og kringumstæðurnar þröngva til að geyma hinar andstæðu konungsættir, sem þeir fylgja, í útlöndum, og viðhalda lýðveldinu, sem þeir hata, í Frakklandi; framkvæmdavald sem finnur kraft í máttleysi sínu sjálfu, og álit í fyrirlitningunni sem það vekur; lýðveldi sem er ekkert annað en sameinuð svívirða tveggja einvelda, viðreisnarinnar[2] og júlíeinveldisins, með imperíalískri áletrun, – sambönd sem hafa sundrungu efst á blaði, orustur sem

[1] Þ. e. öldungar, senatorar.

[2] „Viðreisn" er í þessari þýðingu haft um „restauration"; þar er um að ræða viðreisn konungsvaldsins eftir fall Napóleons, og „viðreisnartíminn" er þá tímabilið 1815–1830.

hafa að lögmáli að þær eru óútkljáðar, í nafni róseminnar grimmúðleg og tilgangslaus æsing, í nafni byltingarinnar hátíðleg boðun friðar, ósannar ástríður, ástríðulaus sannleiki, dáðlausar hetjur, viðburðalaus saga; þróun sem virðist ekki hafa annað hreyfiafl en almanakið og þreytir menn með sífelldri endurtekningu sömu þenslu og slökunar; andstæður sem virðast magnast annað veifið til þess eins að sljóvgast og sundrast en hljóta aldrei neina lausn; borginmannlegir sýndartilburðir og borgaralegur skelkur við yfirvofandi heimsenda, og samtímis smámunalegasta ráðabrugg og hirðkómedíur leiknar af heimsbjargvættunum og minntu þær að kæringarleysi fremur á „fronde"-tímann[1] en á dómsdag, – allur opinber andi Frakklands gerður að engu af kænlegri heimsku eins manns; þjóðarviljinn, í hvert skipti sem hann kemur í ljós með hinum almenna kosningarrétti, leitar sinnar réttu tjáningar í gamalkunnum óvinum hagsmuna fjöldans, þangað til hann finnur hana loksins í kergju eins sjóræningja. Sé einhver kafli sögunnar málaður með gráu ofan í grátt, þá er það þessi. Menn og viðburðir birtast, öfugt við Peter Schlemihl,[2] sem skuggar, sem hafa týnt líkama sínum. Sjálf byltingin lamar verjendur sína og fær aðeins andstæðingum sínum ofsa og ástríður. Þegar „rauða vofan", sem andbyltingarsinnar höfðu svo oft ákallað og sært, kemur loksins í ljós, þá er hún ekki krýnd frýgverskri anarkistahúfu, heldur ífærð rauðum buxum, einkennisbúningi stjórnfestunnar.

Eins og vér höfum áður sagt var ráðuneytið, sem Bónaparte kom á stofn á uppstigningardegi sínum 20. desember 1848, ráðuneyti stjórnfestuflokksins, bandalags orleanista og lögerfðamanna. Þetta Barrot-Falloux-ráðuneyti, sem hafði stytt ævi stjórnlagaþingsins á meira eða minna ofbeldisfullan hátt, varð lífseigara en það og hélt enn um stjórntaumana. Changarnier, hershöfðingi bandalags konungssinna, sameinaði enn í persónu sinni herstjórn fyrstu herdeildarinnar og þjóðvarðarins í París. Loks hafði stjórnfestuflokkurinn tryggt sér mikinn meirihluta þjóðþingsins í almennum kosningum. Hér mættu fulltrúar og *pairs*[3] Lúðvíks Filippusar heilagri fylkingu lögerfðamanna, en fjöldinn allur af atkvæðaseðlum hafði breytzt í aðgöngumiða þeim til handa að hinu pólitíska leiksviði. Bónapartískir þjóðfulltrúar voru of dreifðir til að geta myndað sjálfstæðan þingflokk. Þeir urðu ekki annað en mauvaise queue[4] stjórnfestuflokksins. Þannig

[1] Tímabil innanlandsdeilna og uppreisna í Frakklandi um miðja 17. öld.
[2] Peter Schlemihl seldi skuggann sinn í samnefndri sögu Adalberts von Chamisso.
[3] Pairs hétu efrideildarþingmenn í Frakklandi á tímabilinu 1815–1848.
[4] Þ. e. „illur hali".

réð stjórnfestuflokkurinn yfir stjórnvaldinu, hernum og löggjafarsamkomunni, í stuttu máli yfir öllu ríkisvaldinu, aukinn að siðferðilegum styrk eftir kosningarnar, sem létu vald hans birtast sem vilja þjóðarinnar, svo og vegna sigurs gagnbyltingarinnar sem bar að um svipað leyti á öllu meginlandi Evrópu.

Aldrei hafði flokkur hafið herferð sína með meiri möguleikum og vænlegra útliti.

Strandaglópum *hreina lýðveldisflokksins* hafði fækkað svo mjög að af þeim var ekki eftir á löggjafarþinginu nema um það bil fimmtíu manna klíka, þar voru fremstir í flokki afríkönsku hershöfðingjarnir Cavaignac, Lamoricière, Bedeau. Aðalandstöðuflokkurinn var hinsvegar *Fjallið*. Það var *sósíaldemókratíski* flokkurinn sem hafði gefið sjálfum sér þetta þinglega skírnarnafn. Hann réð yfir meira en 200 af 750 atkvæðum þjóðþingsins og var því að minnsta kosti jafnöflugur hverjum einstökum parti stjórnfestuflokksins. Þingminnihluti hans miðað við bandalag konungssinna í heild var veginn upp af sérstökum kringumstæðum. Það var ekki aðeins að fylkjakosningarnar sýndu að hann hafði áunnið sér töluvert fylgi á landsbyggðinni. Næstum allir fulltrúar Parísar voru í flokknum, herinn hafði játað lýðræðinu trú sína með kosningu þriggja undirliðsforingja, og foringja Fjallsins, Ledru-Rollin, hafði verið lyft upp í hina þinglegu aðalsstétt af fimm fylkjum, sem öll höfðu greitt honum atkvæði, ólíkt því sem var um alla fulltrúa stjórnfestuflokksins. Ef litið var á óhjákvæmilega árekstra konungssinna sín á milli, og alls stjórnfestuflokksins við Napóleon, virtist Fjallið því 20. maí 1849 hafa allt sem til þurfti að vinna sigur. Hálfum mánuði síðar hafði það misst allt, líka æruna.

Áður en vér rekjum þingsöguna lengra, er þörf á nokkrum athugasemdum til að girða fyrir algengar firrur varðandi allt eðli þess tímabils sem vér erum að virða fyrir oss. Samkvæmt hinum demókratíska skoðunarhætti er sama baráttan háð á tímabili löggjafarþingsins og á æviskeiði stjórnlagaþingsins, þ. e. hin óbrotna barátta milli lýðveldissinna og konungssinna. En hreyfinguna sjálfa einkenna þeir með einu orði: „Afturkippur“, nótt sem gerir alla ketti gráa, og gefur þeim tækifæri til að þylja hversdagslega næturvarðaspeki sína. Og satt er það að við fyrsta álit virðist stjórnfestuflokkurinn vera flækja margvíslegra konungssinnaðra deilda sem ekki aðeins sitja á svikráðum hver við aðra og reyna hver um sig að koma sínum ríkisarfa upp í hásætið og varna öllum öðrum vegarins þangað, heldur sameinast líka allar í hatri á „lýðveldinu“ og árásum á það. Andspænis þessu konungssinnaða samsæri kemur Fjallið fram sem verjandi „lýðveldisins“. Stjórnfestuflokkurinn virðist sífellt eiga annríkt að

gera út „afturkipps"-leiðangur, sem beinist gegn blaðaútgáfu, félagsfrelsi o. s. frv., rétt eins og gerist í Prússlandi, og tekur á sig gervi ruddalegra afskipta skrifstofuvalds, lögreglu og dómstóla eins og í Prússlandi. „Fjallið" á fyrir sitt leyti engu síður annríkt að bera af sér þessar árásir og verja þannig hin „eilífu mannréttindi", eins og sérhver svonefndur alþýðuflokkur hefur gert annað veifið í hálfa aðra öld. Ef nánar er litið á aðstæður og flokka hverfur samt þessi sýndarskýring sem dylur stéttabaráttuna og sérkennilegan svip þessa tímabils.

Lögerfðamenn og orleanistar mynduðu eins og áður er sagt tvær helztu deildir stjórnfestuflokksins. Það sem treysti bönd þessara deilda við konungsefni þeirra og hélt þeim sundruðum sín á milli, – var það ekkert annað en lilja og þrílitur fáni, Bourbonaættin og Orléansættin, mismunandi blæbrigði konunghollustu, var það yfirleitt trúarjátning konungshollustunnar? Á valdatíð Bourbona hafði *stórjarðeigendastéttin* stjórnað með aðstoð presta sinna og skutilsveina, á stjórnartíma Orléansættarinnar réð fésýsluaðallinn, stóriðnaðurinn, stórverzlunin, þ. e. a. s. *auðmagnið* ásamt fylgiliði lögmanna, prófessora og ræðusnillinga. Lögerfðakonungdæmið var ekki annað en pólitísk tjáning arfgengrar drottnunar jarðeigendanna, og júlíeinveldið ekki annað en pólitísk tjáning þess valds sem borgaralegir parvenus[1] höfðu sölsað undir sig. Það voru ekki svokölluð grundvallarmál, sem sundruðu þessum flokksbrotum heldur efnislegar afstæður tilveru þeirra, tvennskonar eignaskipun, hin forna andstæða borgar og sveitar, keppnin milli auðmagns og jarðeignar. Að gamlar minningar, persónuleg óvinátta, ótti og von, hleypidómar og blekkingar, samúð og andúð, trúarsetningar og meginreglur hafi jafnframt tengt þau við þessa eða hina konungsættina, liggur það ekki í augum uppi? Upp af margvíslegum eignarformum, upp af félagslegum lífsskilyrðum rís heilmikill hraukur margvíslegra og sérstakra skynjana, blekkinga, hugsunaraðferða og lífsskoðana. Stéttin öll skapar þær og mótar úr efnislegum undirstöðum sínum og samsvarandi félagslegum afstæðum. Einstaklingurinn, sem tekur við þeim sem arfahlut og uppeldisgóssi, getur ímyndað sér að þær séu raunverulegar ástæður og upphaf gerða hans. Þó að orleanistar og lögerfðamenn, hvort flokksbrot um sig reyndi að sannfæra sjálft sig og aðra um að tengslin við konungsættirnar tvær skipti þeim í tvo flokka, þá sönnuðu staðreyndirnar síðar að andstæðir hagsmunir þeirra voru öllu heldur það sem hindraði sameiningu konungsættanna. Og rétt eins og menn í einkalífi sínu gera greinarmun á því hvað tiltekinn maður hugsar

[1] „nýgerningar".

og segir um sjálfan sig og hinu, hvað hann er og gerir í rauninni, þannig verða þeir enn frekar að greina orðskrúð og ímyndanir flokka sem standa í sögulegum bardögum frá raunverulegu eðli þeirra og raunverulegum hagsmunum þeirra, hugmyndir þeirra frá veruleika þeirra. Orleanistar og lögerfðamenn stóðu hlið við hlið í lýðveldinu með sömu kröfurnar. Þó að hvor aðili reyndi að endurreisa sína konungsætt í andstöðu við hinn aðiljann, þá þýddi það ekkert annað en að þeir höfuðhagsmunir sem skipta borgarastéttinni í tvennt – jarðeign og auðmagn – reyndu hvorir um sig að endurreisa forræði sitt og lægingu hinna. Vér tölum um tvenna hagsmuni borgarastéttarinnar, því að þrátt fyrir lénsdaður og ættarhroka stórjarðeigendanna, hefur þróun nútímaþjóðfélags gert þá að ósviknum borgurum. Þannig hafa tóríarnir á Englandi lengi ímyndað sér að þeir dýrkuðu konungsvaldið, kirkjuna og fegurð hinnar fornensku stjórnskipunar, þangað til hættan neyddi þá einn góðan veðurdag til að játa að þeir dýrkuðu aðeins *jarðrentuna.*

Sameinaðir konungssinnar háðu skærur sín á milli í blöðum, í Ems, í Claremont,[1] utan þingsins. Að tjaldabaki fóru þeir aftur í hirðklæði orleanista eða lögerfðamanna, og háðu burtreiðar sínar enn einusinni. En fyrir opnum tjöldum, í opinberum athöfnum sínum sem meiri háttar þingflokkur, afgreiða hvorir um sig konungsætt sína með innantómu bukti og fresta viðreisn konungdæmisins in infinitum.[2] Þeir fremja sitt raunverulega starf sem *stjórnfestuflokkur,* þ. e. a. s. undir *félagslegu* en ekki *pólitísku* nafni, – sem fulltrúar borgaralegrar heimsskipunar, ekki sem riddarar umrennandi konungsdætra, – sem borgarastétt andspænis öðrum stéttum, ekki sem konungssinnar andspænis lýðveldissinnum. Og sem stjórnfestuflokkur hafa þeir beitt aðra flokka þjóðfélagsins ótakmarkaðra og miskunnarlausara valdi en nokkurntíma áður á tímum viðreisnarinnar eða júlíeinveldisins, enda var slíkt vald raunar ekki mögulegt nema í þingbundnu lýðveldi, því aðeins við slíkt stjórnarfar gátu tvær höfuðdeildir frönsku borgarastéttarinnar sameinazt, og þannig sett vald stéttar sinnar á dagskrá í staðinn fyrir stjórn einhvers sérréttindabrots hennar. Þegar þeir sem stjórnfestuflokkur svívirða eigi að síður lýðveldið og útmála andúð sína á því, þá er orsök þess ekki aðeins konungholl endurminning. Eðlisskynið kenndi þeim að lýðveldið fullkomnar að vísu vald þeirra, en sundrar um leið félagslegum undirstöðum þess, þar sem þeir verða nú að glíma við hinar kúguðu stéttir milliliðalaust, án skjóls krúnunnar, án þess að geta villt um fyrir hagsmunum þjóðarinnar með

[1] Dvalarstaðir konungsefnanna.

[2] Þ. e. „um ótakmarkaðan tíma".

minniháttar skærum sín á milli og við konungsvaldið. Vanmáttartilfinningin innblés þeim ótta við óskert stéttarvald sitt, og vakti með þeim söknuð og löngun eftir ófullkomnari, vanþróaðri og þar af leiðandi áhættuminni formum þessa valds. Hvenær sem hinir sameinuðu konungssinnar komust í andstöðu við konungsefnið sem þeir voru andvígir, við Bónaparte, hvenær sem þeir álitu að þinglegu alveldi þeirra væri ógnað af framkvæmdavaldinu, í stuttu máli hvenær sem þeir urðu að opinbera pólitískt nafn valds síns, þá koma þeir fram sem *lýðveldissinnar*, en ekki sem *konungssinnar*, hvort sem um er að ræða orleanistann Thiers, sem fræðir þjóðþingið um að lýðveldið sé minnsta deiluefni þess, eða lögerfðamanninn Berryer sem 2. desember 1851 gyrðir sig þrílitum borða og ávarpar mannfjöldann fyrir framan stjórnarsetur tíunda hverfis sem alþýðustjóri í nafni lýðveldisins. En bergmálið varpar hæðnislega framan í hann: Henri V!, Henri V!

Andspænis bandalagi borgarastéttarinnar hafði orðið til bandalag smáborgara og verkamanna, *sósíaldemókratíski* flokkurinn sem svo var nefndur. Smáborgararnir uppskáru lítil laun eftir júnídagana 1848, hagsmunir þeirra voru í hættu og þær lýðræðislegu tryggingar sem áttu að vera til ábyrgðar þessum hagsmunum urðu fyrir barðinu á gagnbyltingunni. Þeir nálguðust þessvegna verkamennina. Á hinn bóginn hafði þingflokkur þeirra, *Fjallið*, sem var stjakað til hliðar meðan alræði borgaralýðveldissinna stóð, áunnið sér aftur lýðhylli sína þegar leið að lokum stjórnlagaþingsins, og var það að þakka baráttunni við Bónaparte og konungssinnaða ráðherra. Fjallið hafði gert bandalag við sósíalíska leiðtoga. Sáttasamsæti voru haldin í febrúarmánuði 1849. Gert var uppkast að sameiginlegri stefnuskrá, sameiginlegar kosninganefndir voru stofnaðar og sameiginlegir frambjóðendur voru valdir. Broddurinn var brotinn af félagslegum kröfum öreigalýðsins og þeim fengið lýðræðislegt útlit; af lýðræðiskröfum smáborgaranna var strokið hið hreinpólitíska form, og sósíalískur broddur þeirra hafður til sýnis. Þannig varð *sósíaldemókratíið* til. *Fjallið* nýja, árangur þessarar sameiningar, hafði innan vébanda sinna sömu mennina – ef frá eru taldar fáeinar aukapersónur úr verkalýðsstéttinni og fáeinir sósíalískir kreddumenn – og gamla Fjallið, einungis fleiri að tölu. En í rás þróunarinnar hafði það breytzt um leið og stéttin sem það var fulltrúi fyrir. Einkaeðli sósíaldemókrataflokksins felst í því að krafizt er lýðræðislegra og lýðveldislegra stofnana, ekki sem tækja til að afnema mótsagnir tveggja andstæðna, auðmagns og launavinnu, heldur til þess að veikja mótsagnirnar og gera úr þeim samræmi. Hversu margvíslegum ráðstöfunum sem stungið kann að vera upp á til þess að ná þessu takmarki, og þó að það sé klætt í

meira eða minna byltingarkenndar hugmyndir, þá er innihaldið sjálfu sér líkt. Þetta innihald er breyting þjóðfélagsins með lýðræðislegum aðferðum, en breyting sem ekki fer út fyrir landamerki smáborgarastéttarinnar. Menn mega aðeins ekki vera svo þröngsýnir að álíta, að smáborgarastéttin vilji einkum og sér í lagi búa í haginn fyrir eigingjarna stéttarhagsmuni. Hún trúir því öllu heldur að hin *sérstöku* skilyrði frelsunar sinnar séu þau *almennu* skilyrði sem ein geti leitt til björgunar nútímaþjóðfélagsins og bundið enda á stéttabaráttuna. Ekki mega menn heldur ímynda sér að hinir lýðræðissinnuðu fulltrúar séu allir shopkeepers eða hafi sérstakt dálæti á þeirri manntegund. Að menntun og lífsskilyrðum geta þeir verið óralangt frá þeim. Þeir eru fulltrúar smáborgarans vegna þess að í höfði sínu komast þeir ekki út fyrir þau takmörk sem smáborgarinn strandar á í lífi sínu, og vegna þess að í kenningunni laðast þeir að sömu verkefnum og lausnum sem smáborgararnir dragast að vegna efnislegra hagsmuna og félagslegra lífsskilyrða. Í þessu felst yfirleitt afstaða *pólitískra* og *bókmenntalegra* fulltrúa tiltekinnar stéttar til stéttarinnar sem þeir eru fulltrúar fyrir.

Það er auðskilið af því sem að framan greinir, að þegar Fjallið glímir stöðugt við stjórnfestuflokkinn um lýðveldið og mannréttindin svonefndu, þá er hvorki lýðveldið né mannréttindin höfuðmarkmið þess. Þar gegnir sama máli og um her sem andstæðingarnir vilja svipta vopnum, og býst til að verja sig. Hann leggur ekki til orustu til þess eins að fá að halda vopnum sínum.

Stjórnfestuflokkurinn skoraði Fjallið á hólm þegar er þjóðþingið kom saman. Borgarastéttin gerði sér nú grein fyrir nauðsyn þess að losa sig við hina lýðræðissinnuðu smáborgara rétt eins og hún hafði skilið árið áður að nauðsynlegt var að losna við hinn byltingarsinnaða öreigalýð. En aðstaða andstæðingsins var nú önnur. Styrkur öreigaflokksins var á götunni. Styrkur smáborgaranna á þjóðþinginu sjálfu. Því reið á að ginna þá út á götuna, úr þinghúsinu, og láta þá sjálfa um að eyðileggja þingstyrk sinn, áður en tíminn og aðstæðurnar gætu eflt þá. Fjallið hleypti á harðaspretti í gildruna.

Fallbyssuskothríð franskra hersveita á Róm var beitan sem varpað var fyrir það. Hún braut bág við fimmtu grein stjórnarskrárinnar, en sú grein bannar frönsku þjóðinni að beita herafli gegn frelsi annarrar þjóðar. Í tilbót lagði 54. grein bann við því að framkvæmdavaldið lýsti yfir stríði án samþykkis þjóðþingsins, og stjórnlagaþingið hafði lýst vanþóknun sinni á Rómarleiðangrinum í ályktun sinni hinn 8. maí. Samkvæmt þessum forsendum lagði Ledru-Rollin fram ákæru á Bónaparte og ráðherra hans 11. júní 1849. Geitungsstungur Thiers espuðu hann til

að hóta því að hann mundi verja stjórnarskrána með öllum ráðum, jafnvel þó hann yrði að taka sér vopn í hönd. Fjallið reis á fætur sem einn maður og endurtók þetta heróp. Hinn 12. júní felldi þjóðþingið ákærutillöguna, og Fjallið yfirgaf þinghúsið. Atburðirnir 13. júní eru alkunnir: yfirlýsing nokkurs hluta Fjallsins um að Bónaparte og ráðherrar hans væru „útlagar stjórnarskrárinnar"; fjöldaganga lýðræðissinnaðra þjóðvarðliða, sem voru vopnlausir og riðluðust fyrir árás hersveitanna undir stjórn Changarniers, o. s. frv., o. s. frv. Nokkur hluti Fjallsins flýði land, aðrir voru afhentir höfuðsakadóminum í Bourges, og þingleg tilskipun fól afganginn skólameistaralegu eftirliti þingforsetans. París var aftur lýst í umsátursástand, og hinn lýðræðissinnaði hluti þjóðvarðarins leystur frá störfum. Með þessum hætti var styrkur Fjallsins á þingi og vald smáborgaranna í París brotið á bak aftur.

Í Lyon höfðu 13.-júní-atburðirnir hleypt af stað blóðugri verkamannauppreisn, og borgin ásamt fimm nálægum fylkjum var einnig lýst í umsátursástand, sem hefur verið í gildi til þessa dags.

Meirihluti Fjallsins hafði brugðizt framverði sínum með því að neita að skrifa undir yfirlýsinguna. Blöðin runnu af hólmi, því aðeins tvö þeirra þorðu að birta fréttina um ofbeldið. Smáborgararnir sviku fulltrúa sína, þar eð þjóðvarðliðarnir höfðust ekki að, og þar sem þeir birtust hindruðu þeir byggingu strætavirkja. Fulltrúarnir höfðu gabbað smáborgarana, því að þeir bandamenn sem þeir þóttust eiga í hernum sáust hvergi. Loks hafði lýðræðisflokkurinn sýkt öreigalýðinn af máttleysi sjálfs sín í stað þess að sækja til hans aukinn þrótt, og eins og löngum vill verða að loknum demókratískum afreksverkum, þá höfðu leiðtogarnir nú þá ánægju að geta brugðið „fólkinu" um liðhlaup og fólkið hafði þá ánægju að geta sakað leiðtogana um gabb.

Sjaldan hefur nokkur athöfn verið boðuð með meiri fyrirgangi en væntanleg herferð Fjallsins, sjaldan nokkur atburður básúnaður lengur og með meiri vissu sem óhjákvæmilegur sigur lýðræðisins. Lýðræðissinnarnir trúa vissulega á básúnurnar sem múrar Jeríkóborgar hrundu fyrir. Og hvenær sem þeir standa andspænis múrum harðstjórnarinnar, reyna þeir að endurtaka kraftaverkið. Ef Fjallið ætlaði sér að sigra á þingi, mátti það ekki kveðja menn til vopna. Ef það kvaddi menn til vopna á þinginu, mátti það ekki hafa í frammi þinglega tilburði úti á götunum. Ef hin friðsamlega fjöldaganga hafði einhvern alvarlegan tilgang, þá var kjánaskapur að gera sér ekki fyrirfram ljóst að henni yrði mætt með vopnum. Ef búizt var við raunverulegri orustu, var sú aðferð nýstárleg að leggja niður vopnin sem til þurfti að heyja hana. En byltingarhótanir smáborgaranna og lýð-

ræðissinnaðra fulltrúa þeirra eru eintómar tilraunir til að hræða andstæðinginn. Og þegar þeir eru komnir í einstigi, þegar þeir eru búnir að geipa svo mikið að þeir neyðast til að framkvæma hótanir sínar, þá gera þeir það með hálfvelgju, og hræðast ekkert meir en þau tæki sem gætu leitt að markinu, og sækjast ólmir eftir tilefni til að bíða ósigur. Hinn glamrandi forleikur sem boðaði orustuna breytist í veiklulegt murr, um leið og orustan á að byrja, leikararnir hætta að taka sjálfa sig alvarlega og athöfnin lyppast saman eins og þanin blaðra sem stungið er á með nál.

Enginn flokkur ýkir meir tækifæri sín fyrir sjálfum sér en lýðræðisflokkurinn, enginn dæmir ástandið af léttúðarfyllri sjálfsblekkingu. Úr því nokkur hluti hersins hafði greitt flokknum atkvæði var hann þess fullviss að herinn mundi rísa upp honum til stuðnings. Og af hvaða tilefni? Frá sjónarmiði hersins hafði tilefnið enga aðra þýðingu en þá að byltingarmennirnir tóku afstöðu með rómverska hernum gegn þeim franska. Auk þess voru endurminningarnar um júní 1848 of ferskar til þess að öreigarnir hefðu ekki djúpa andúð á þjóðverðinum og foringjar leynifélaganna væru ekki haldnir djúpstæðri tortryggni í garð flokksforingja lýðræðissinna. Til þess að útrýma þessari misklíð var nauðsynlegt að meiriháttar sameiginlegir hagsmunir væru í veði. Það snerti enga slíka hagsmuni þó brotið væri á móti einhverri óhlutlægri grein stjórnarskrárinnar. Hafði ekki stjórnarskráin þegar verið brotin margsinnis eftir því sem lýðræðissinnarnir sjálfir fullyrtu? Höfðu ekki alþýðlegustu blöðin brennimerkt hana sem gagnbyltingarsinnað vélræði? En lýðræðissinninn, sem er fulltrúi smáborgarastéttarinnar, þ. e. a. s. *millistéttar,* þar sem hagsmunir tveggja stétta sljóvga hverir aðra, álítur sig yfirleitt hafinn yfir stéttaandstæður. Lýðræðissinnarnir viðurkenna að andspænis þeim standi forréttindastétt, en þeir ásamt öllum afgangi þjóðarinnar eru *fólkið.* Þeir eru fulltrúar fyrir *rétt fólksins;* þeim er umhugað um *hagsmuni fólksins.* Þó að orusta standi fyrir dyrum þurfa þeir því ekki að rannsaka hagsmuni og afstöðu stéttanna. Þeir þurfa ekki að meta möguleika sína með neinni tiltakanlegri nákvæmni. Þeir þurfa aðeins að gefa merki til þess að *fólkið* geysist fram með öllum sínum óþrotlega krafti gegn *kúgurunum.* Ef svo vill verða í framkvæmdinni að hagsmunir þeirra reynist ekki áhugaverðir og máttur þeirra vanmætti, þá er þar annaðhvort um að kenna glæpsamlegum hártogurum, sem kljúfa *ódeililegt fólkið* í fjandsamlegar fylkingar, eða þá að herinn var of siðspilltur og blindaður til þess að skilja að hin hreinu markmið lýðræðissinnanna voru sjálfum honum fyrir beztu, eða þá að öll áætlunin bilaði vegna eins smáatriðis

í framkvæmdinni, eða þá að ófyrirsjáanleg tilviljun setti strik í reikninginn í þetta skipti. Að minnsta kosti kemur lýðræðissinninn álíka óflekkaður út úr smánarlegasta ósigri eins og hann var saklaus þegar hann anaði út í hann, og þar að auki hefur hann öðlazt þá fullvissu að hann hljóti að sigra, ekki vegna þess að hann og flokkur hans verði að víkja frá sinni fyrri afstöðu, heldur að aðstæðurnar verði að þróast til móts við hana.

Þessvegna mega menn ekki ímynda sér að Fjallið hafi verið sérlega ólukkulegt, enda þótt það hefði beðið mikið afhroð og verið auðmýkt með hinum nýju þingsköpum. Þó að 13. júní hefði hrakið foringja þess úr sætum sínum, þá gaf hann rúm minniháttar hæfileikamönnum, sem heilluðust af þessari nýju upphefð. Úr því enginn gat lengur dregið í efa vanmætti þeirra á þinginu, þá höfðu þeir nú fullan rétt til að láta við það eitt sitja að kveina yfir spillingunni og halda gjallandi ræður. Úr því stjórnfestuflokkurinn lét svo sem allar ógnir stjórnleysisins væru líkamnaðar í þessum síðustu opinberu fulltrúum byltingarinnar, þá gátu þeir fyrir bragðið verið enn lágkúrulegri og hógværari í raun. En þeir hugguðu sig yfir atburðunum 13. júní með þessari djúphugsuðu setningu: En ef þeir dirfast að ráðast á almennan kosningarrétt, já þá ...! Þá sýnum við hvað í okkur er spunnið. Nous verrons.

Hvað áhrærir þá flokksmenn Fjallsins sem flúið höfðu til útlanda, ætti að nægja að geta þess hér, að Ledru-Rollin hélt sig vera kallaðan til þess að stofna franska ríkisstjórn in partibus, úr því honum hafði tekizt að eyðileggja á tæpum tveim vikum hinn volduga flokk sem hann veitti forustu; að mynd hans virtist vaxa og stækka í fjarlægðinni langt frá vettvangi baráttunnar að sama skapi og byltingin seig niður á við og opinber stórmenni Frakklands urðu dvergum líkari; að hann gat orðið í framboði til forsetakjörs 1852 í nafni lýðveldisins; að hann sendi reglulega umburðarbréf til Valaka og annarra þjóða með hótunum í eigin nafni og bandamanna sinna í garð harðstjóra meginlandsins. Hafði Proudhon alveg á röngu að standa þegar hann ávarpaði þessa herra: „Vous n'êtes que des blagueurs"?[1]

Hinn 13. júní hafði stjórnfestuflokkurinn ekki aðeins yfirbugað Fjallið, heldur hafði hann komið því í kring að *stjórnarskráin lyti meirihlutaákvörðunum þjóðþingsins*. Hann lagði þann skilning í lýðveldið, að borgarastéttin drottnaði samkvæmt þinglegum formvenjum, án þess að reka sig á synjun framkvæmdavaldsins eða möguleika þingrofs eins og tíðkaðist í einveldi. Þetta var *þingræðislega lýðveldið* sem Thiers nefndi svo. En þegar borgara-

[1] „Þér eruð aðeins froðusnakkar."

stéttin tryggði alveldi sitt á þinginu hinn 13. júní, veikti hún þá ekki þingið hættulega mikið andspænis framkvæmdavaldinu og þjóðinni með því að hrekja burt alþýðlegasta hluta þess? Með því að afhenda allmarga fulltrúa umsvifalaust dómstólunum, rauf hún þinghelgi sjálfrar sín. Hin auðmýkjandi reglugerð sem hún beygði Fjallið undir hækkar forsetann í sessi að sama skapi sem hún lækkar sérhvern fulltrúa fólksins. Með því að brennimerkja uppreisnir til varnar stjórnarskránni sem stjórnleysisathæfi er miði að umbyltingu þjóðfélagsins, gerði hún sjálfri sér ókleift að hvetja til uppreisnar, ef framkvæmdavaldið bryti stjórnarskrána í andstöðu við hana. Og svo hæðin er sagan, að Oudinot, hershöfðinginn sem skaut sprengjum á Rómaborg í umboði Bónaparte og varð þannig beint tilefni uppþotsins til varnar stjórnarskránni hinn 13. júní, er boðinn fólkinu af stjórnfestuflokknum sem hershöfðingi stjórnarskrárinnar gegn Bónaparte, 2. desember 1851, og afþakkaður þrátt fyrir auðmjúkar bænir. Önnur hetja hins 13. júní, *Vieyra,* sem var hrósað úr ræðustóli þjóðþingsins fyrir ofbeldisverkin sem hann framdi í ritstjórnarskrifstofum lýðræðissinnaðra blaða í fararbroddi þjóðvarðliðahóps er tengdur var fésýsluaðlinum, þessi sami Vieyra var í vitorði um samsæri Bónaparte og réð miklu um það að þjóðþingið fór á mis við vernd þjóðvarðarins á andlátsstund sinni.

Hinn 13. júní hafði enn aðra þýðingu. Fjallið hafði ætlað að láta samþykkja ákæru á hendur Bónaparte með illu eða góðu. Ósigur þess var líka beinn sigur Bónaparte, persónulegur sigur á óvinum hans lýðræðissinnunum. Stjórnfestuflokkurinn vann sigurinn, Bónaparte þurfti ekki annað en neyta hans. Það gerði hann. Hinn 14. júní gat að lesa á húsveggjum Parísar yfirlýsingu, en samkvæmt henni hafði forsetinn, einhvern veginn óviljandi og tregur, orðið að láta undan ofurefli viðburðanna og stíga út úr klaustureinveru sinni. Eins og dygðin sjálf, að vísu vanmetin, ber hann sig upp undan rógburði andstæðinga sinna, og þegar hann virðist samsama persónu sína málstað stjórnfestunnar, samsamar hann í rauninni öllu heldur málstað stjórnfestunnar sinni eigin persónu. Í tilbót hafði þjóðþingið að vísu samþykkt Rómarleiðangurinn eftir á, en Bónaparte hafði átt frumkvæðið. Eftir að hafa leitt æðstaprestinn Samúel aftur inn í Vatíkanið, gat hann gert sér vonir um að flytja inn í Tuilerie-höllina sem Davíð konungur. Hann hafði unnið prestana á sitt band.

Uppþotið 13. júní var eins og vér höfum séð ekki annað en friðsamleg fjöldaganga. Andstæðingar hennar gátu því ekki áunnið sér neina herfrægð. Á þessum hetju- og viðburðasnauða tíma breytti stjórnfestuflokkurinn þessari óblóðugu orustu í nýja Austerlitz. Í ræðustól og blöðum lofsungu menn herinn, vald stjórn-

festunnar, andspænis fólksfjöldanum, sem var ímynd stjórnleysis og vanmáttar, Changarnier var hrósað sem „varnarvirki þjóðfélagsins". Á þetta gabb trúði hann að lokum sjálfur. Í laumi voru þeir herflokkar sem virtust tortryggilegir, fluttir burt úr París, herdeildirnar sem helzt höfðu kosið lýðræðið sendar í útlegð til Alsír, óróaseggjunum í hernum skipað í betrunardeildir, og að lokum var því komið í kring að blöðin fengu ekki aðgang að herbúðunum og herbúðirnar voru einangraðar frá almenningi.

Hér erum vér komnir að örlagaríkum vegamótum í sögu franska þjóðvarðarins. Árið 1830 hafði hann ráðið úrslitum um fall viðreisnarinnar. Í stjórnartíð Lúðvíks Filippusar misheppnaðist sérhvert uppþot ef þjóðvörðurinn lagði hernum lið. Í febrúar 1848 þegar hann lét uppreisnarmenn óáreitta og hafði óljósa afstöðu til Lúðvíks Filippusar, áleit konungur sig sigraðan og var sigraður. Þannig festi sú sannfæring rætur að hvorki gæti byltingin sigrað *án* þjóðvarðarins, né herinn *í andstöðu við* hann. Þetta var hjátrú hersins á alveldi borgarastéttarinnar. Á júnídögum 1848, þegar þjóðvörðurinn í heild ásamt fastahernum braut uppreisnina á bak aftur, urðu menn enn styrkari í hjátrúnni. Eftir að Bónaparte komst til valda hnignaði áliti þjóðvarðarins nokkuð, þegar yfirstjórn hans og fyrstu herdeildar var sameinuð í persónu Changarniers, að vísu í trássi við stjórnarskrána.

Eins og stjórn þjóðvarðarins heyrði nú einfaldlega undir yfirstjórn hersins, þannig varð þjóðvörðurinn ekki annað en viðbót við fastaherinn. Hinn 13. júní var hann loksins yfirbugaður; en þó að hann væri þá leystur upp að nokkru leyti, og sú aðgerð síðan endurtekin með reglulegu millibili um allt Frakkland, unz eftir voru skildar rústir einar, – þá var orsaka endaloka hans víðar að leita. Fjöldagangan 13. júní var framar öllu öðru ganga hinna lýðræðissinnuðu þjóðvarðliða. Þeir otuðu að vísu ekki vopnum sínum að hernum, heldur aðeins einkennisbúningunum, en einmitt í þessum einkennisbúningum voru verndartöfrarnir fólgnir. Herinn komst að raun um að þessi einkennisbúningur var ekki merkilegri en hver annar ullardúkur. Töfrarnir voru horfnir. Í júní 1848 stóðu borgararnir og smáborgararnir í þjóðverðinum, í bandalagi við herinn, andspænis öreigunum, 13. júní 1849 lét borgarastéttin herinn sundra hinum smáborgaralega þjóðverði, 2. desember 1851 var þjóðvörður borgarastéttarinnar sjálfur horfinn og Bónaparte gerði ekki annað en viðurkenna þessa staðreynd þegar hann undirritaði tilskipunina um afnám hans. Þannig hafði borgarastéttin sjálf brotið síðasta vopnið gegn hernum, en hún hlaut að brjóta það þegar svo var komið að smáborgararnir stóðu ekki sem lénsmenn að baki henni, heldur sem upp-

reisnarmenn andspænis henni, og þannig hlaut hún yfirleitt að eyðileggja öll varnartæki sín gegn alveldinu með eigin hendi, óðar en hún var sjálf orðin alvöld.

Stjórnfestuflokkurinn fagnaði nú endurheimt þess valds, sem hann virtist aðeins hafa glatað 1848, til þess að ná því aftur 1849 lausu við takmarkanir sínar. Hann lýsti fögnuði sínum með ókvæðisorðum sem hann jós yfir lýðveldið og stjórnarskrána, og bölvaði öllum byltingum, hvort sem þær voru ókomnar, stóðu nú yfir eða voru liðnar, þar á meðal þeim byltingum sem leiðtogar hans höfðu framið. Hann lýsti fögnuði sínum með lögum sem svínbeygðu blöðin, upprættu félagsfrelsið og gerðu umsátursástandið að sjálfsagðri og reglulegri stofnun. Þjóðþingið frestaði því næst fundum sínum frá miðjum ágúst fram í miðjan október, eftir að það hafði kosið fastanefnd sem sitja skyldi í fjarveru þess. Í þessu hléi ráðguðust lögerfðamenn við Ems, orleanistar við Claremont, Bónaparte á konunglegum yfirreiðum og fylkisráðin á fundum sínum um endurskoðun stjórnarskrárinnar, – en slíkir tilburðir eru hafðir reglulega í frammi í þinghléunum, þó að ég muni ekki ræða þá nánar fyrr en þeir eru orðnir að atburðum. Hér skal þess aðeins getið að þjóðþingið sýndi ekki mikla stjórnvizku, þegar það hvarf af sviðinu um langa hríð og leyfði einum manni, þó vesall væri, að sýna sig í fylkingarbrjósti lýðveldisins, þ. e. a. s. Lúðvík Bónaparte, – meðan stjórnfestuflokkurinn skemmti skrattanum og greindist í sín konungssinnuðu flokksbrot, og sleppti fram af sér beizlinu í andstæðum viðreisnardraumum. Hvenær sem ruglingslegur hávaði þingsins þagnaði í þessum hléum og líkami þess sameinaðist þjóðinni, kom greinilega í ljós að aðeins eitt skorti á til að fullkomna mynd þessa lýðveldis: að þinginu yrði veitt ótakmarkað leyfi og áletrun lýðveldisins: Liberté, égalité, fraternité, breytt í hin ótvíræðu orð: Infanterie, cavalerie, artillerie![1]

## IV

Um miðjan október 1849 kom þjóðþingið aftur saman. Fyrsta nóvember kom Bónaparte því á óvart með bréfi þar sem hann tilkynnti að Barrot-Falloux-ráðuneytið væri leyst frá störfum og nýtt ráðuneyti yrði myndað. Enginn hefur vikið skutilsveinum úr þjónustu sinni með minni viðhöfn en Bónaparte ráðherrum

[1] Liberté, égalité, fraternité: frelsi, jafnrétti, bræðralag; infanterie, cavalerie, artillerie: fótgönguliõ, riddaraliõ, stórskotaliõ.

sínum. Sparkið sem þjóðþingið átti í vændum lenti að þessu sinni á Barrot og Co.

Ráðuneyti Barrots var eins og vér höfum séð samsett af lögerfðamönnum og orleanistum; það var ráðuneyti stjórnfestuflokksins. Bónaparte hafði þurft á því að halda til þess að rjúfa hið lýðveldissinnaða stjórnlagaþing, hefja Rómarleiðangurinn og yfirbuga lýðræðissinnaflokkinn. Það leit svo út sem hann hefði gert sig að engu bak við þetta ráðuneyti, lagt stjórnarvaldið í hendur stjórnfestuflokknum og sett upp þá lítillætis-grímu, sem borin var í stjórnartíð Lúðvíks Filippusar af ábyrgðarmönnum dagblaðanna: grímu leppsins. Nú kastaði hann frá sér þessu dulargervi sem var ekki lengur sú létta hula sem hann gat falið andlitssvip sinn á bakvið, heldur járngríma sem aftraði honum að sýna sinn rétta svip. Hann hafði skipað stjórn Barrots til að sundra hinu lýðveldissinnaða þjóðþingi í nafni stjórnfestuflokksins; hann veik henni frá til þess að gera lýðum ljóst að sjálfur væri hann óháður þjóðþingi stjórnfestuflokksins.

Ekki skorti raunar gild tilefni til þessarar fráviknigar. Ráðuneyti Barrots vanrækti jafnvel þau kurteisisform sem hefðu leyft forseta lýðveldisins að birtast sem valdhafa við hliðina á þjóðþinginu. Í þinghléinu birti Bónaparte bréf til Edgars Neys, en í því virtist hann lýsa vanþóknun sinni á afturhaldshátterni páfans, á sama hátt og hann hafði birt bréf sem fór í bág við stefnu stjórnlagaþingsins þar sem hann hrósaði Oudinot fyrir árásina á rómverska lýðveldið. Þegar þjóðþingið samþykkti fjárveitinguna til Rómarleiðangursins, gerði Victor Hugo þetta bréf að umræðuefni, af frjálslyndisástæðum virtist vera. Stjórnfestuflokkurinn þaggaði niður þá hugmynd með lítilsvirðandi vantrúar-upphrópunum, að hugdettur Bónaparte gætu haft nokkra pólitíska þýðingu. Enginn ráðherranna tók upp hanzkann fyrir hann. Í annað skipti lét Barrot í ljós í ræðu, með sínum alþekkta og innantóma andhita, hneykslun sína yfir því svívirðilega ráðabruggi sem ætti sér stað, eftir því sem hann sagði, í námunda við forsetann. Loks neitaði þjóðþingið forsetanum um nokkra hækkun á hirðeyri hans, þó að það hefði úthlutað hertogynjunni af Orléans ekkjustyrk. Og í líki Bónaparte sameinaðist hinn keisaralegi arfaprins svo náið óheppnum lukkuriddaranum, að hin mikla hugmynd hans að hann væri kallaður til þess að endurreisa keisaradæmið, sótti ævinlega styrk í hina hugmyndina, að franska þjóðin væri til þess kölluð að borga skuldir hans.

Barrot-Falloux-ráðuneytið var fyrsta og síðasta *þingræðislega ráðuneytið* sem Bónaparte vakti til lífs. Fráviknig þess er því merki um örlagarík tímamót. Þar með glataði stjórnfestuflokkurinn endanlega aðstöðu sem var honum nauðsynleg til að verja

þingræðið og ráða yfir framkvæmdavaldinu. Auðskiljanlegt er að í landi eins og Frakklandi, þar sem framkvæmdavaldið ræður yfir her hálfrar milljónar embættismanna, og hefur því stöðug og bein áhrif á ótölulegan fjölda hagsmuna og einstaklinga; þar sem ríkið umlykur, skorðar, skipuleggur, yfirlítur og leiðir hið borgaralega félag, allt frá víðtækustu hræringum þess til hinna þýðingarminnstu, frá almennustu lífsháttum þess til einkalífs manna; þar sem þessi sníkjulíkami ávinnur sér aukna snúningalipurð og hreyfiafl, alnærveru og alvizku með einstakri sammiðjun, svo að alls engu er líkt nema hinu bjargarlausa ósjálfstæði og lausgopalegu formleysi hins raunverulega þjóðfélagslíkama, – að í slíku landi hlaut þjóðþingið að glata öllum raunverulegum áhrifum um leið og það glataði umráðunum yfir ráðherrastöðunum, nema því aðeins að það einfaldaði jafnframt stjórnun ríkisins, fækkaði embættismannahernum, og léti loks hið borgaralega félag og almenningsálitið skapa sér sín tæki, óháð ríkisvaldinu. En *efnislegir hagsmunir* frönsku borgarastéttarinnar eru einmitt nátengdir varðveizlu þessarar víðtæku og marggreinóttu ríkisvélar. Hér kemur hún offjölda þjóðarinnar fyrir og bætir sér upp í formi ríkislauna það sem hún getur ekki komizt yfir í formi gróða, vaxta, rentu og þóknunar. Ennfremur neyddu *stjórnmálahagsmunirnir* hana til að efla kúgunarvaldið, þ. e. a. s. tæki og þjónustumenn ríkisvaldsins, og þá hlaut hún jafnframt að heyja látlaust stríð gegn almenningsálitinu, og lama og limlesta af tortryggni sinni sjálfstæð líffæri þjóðfélagsins, þar sem henni tókst ekki að nema þau gjörsamlega á brott. Þannig knúði stéttarstaða frönsku borgarastéttarinnar hana til þess annarsvegar að eyðileggja lífsskilyrði alls þingræðisvalds, þar með sjálfrar sín, og hinsvegar að gera framkvæmdavaldið óbuganlegt, þó það væri henni andstætt.

Nýja ráðuneytið hét d'Hautpoul-ráðuneytið. Ekki svo að skilja að hershöfðinginn d'Hautpoul hefði hlotið vegtyllu forsætisráðherra. Hitt var fremur að Bónaparte afnam þessa virðingarstöðu um leið og hann afnam Barrot. Hún dæmdi að vísu forseta lýðveldisins til lögformlegrar neindar stjórnarskrárbundins konungs, en sá konungur átti hvorki hásæti né kórónu, hvorki veldissprota né sverð, né ábyrgðarleysi, né óafturkallanlega heimild á æðstu tign ríkisins, og örlagaríkast af öllu var að hann hafði engan hirðeyri. Ráðuneyti d'Hautpoul hafði innan sinna vébanda aðeins einn mann, sem naut virðingar á þingi, gyðinginn Fould, einn nafnkunnasta lagsbróður hinnar æðri fésýslu. Í hans hlut kom fjármálaráðuneytið. Sá sem lítur í kauphallartíðindi Parísar mun komast að raun um að frá 1. nóvember 1849 falla eða stíga frönsk verðbréf með sömu hrynjandi og hin bónapartísku hlutabréf.

Bónaparte hafði þannig fundið bandamann í kauphöllinni og jafnframt náði hann valdi á lögreglunni með því að skipa Carlier lögreglustjóra í París.

Samt gátu afleiðingar stjórnarskiptanna ekki komið í ljós nema smátt og smátt. Í fyrsta lagi hafði Bónaparte stigið eitt skref áfram til þess eins að láta hrekja sig þeim mun greinilegar aftur á bak. Hryssingslegri tilkynningu hans fylgdi hin þrælslundaðasta yfirlýsing um undirgefni við þjóðþingið. Hvenær sem ráðherrarnir dirfðust að flytja einhverjar persónulegar grillur hans á þjóðþinginu í formi lagafrumvarps, virtust þeir óviljugir og tilneyddir af stöðu sinni vera að reka þau hlægilegu erindi sem þeir voru fyrirfram vissir um að ekki leiddu til neins. Hvenær sem Bónaparte blaðraði um fyrirætlanir sínar í trássi við ráðherrana og lék sér að „ses idées napoléoniennes“,[1] afneituðu ráðherrar hans honum úr ræðustóli þingsins. Valdránshvatir hans virtust aðeins opinberast til þess að illgirnishlátri andstæðinga hans linnti aldrei. Hann hagaði sér eins og misskilinn snillingur, sem allir halda að sé einfeldningur. Aldrei naut hann jafn óskerts haturs allra stétta og á þessu tímabili. Aldrei hafði vald borgarastéttarinnar verið óskoraðra, aldrei hafði hún skartað einkennistáknum valdsins með jafn mikilli hreykni.

Ég þarf ekki að segja hér sögu löggjafarstarfs hennar, enda kemur hún fram í styttri mynd í tvennum lögum: í lögunum sem reisa aftur við *vínskattinn* og í *fræðslulögunum* sem afnema vantrúna. Um leið og Frökkum var gert örðugra að drekka vín fengu þeir því betur útilátið vatn hins sanna lífs. Um leið og borgarastéttin lýsir yfir ginnhelgi hins illræmda franska skattakerfis, reyndi hún með fræðslulögunum að festa í sessi hinn forna hugsunarhátt fjöldans, sem kenndi honum að umbera þetta kerfi. Mönnum mun þykja undarlegt að sjá orleanista, frjálslynda borgara, þessa gömlu postula voltairismans og eklektískrar heimspeki fela erfðafjendum sínum jesúítum umsjón andlegs lífs í Frakklandi. En þó að orleanistar og lögerfðamenn kynnu að hafa skiptar skoðanir um erfðaprinsinn, skildu þeir að sameinað forræði þeirra bauð þeim að sameina kúgunartæki tveggja tímabila, að kúgunartæki júlíeinveldisins varð að bæta upp og styrkja með kúgunartækjum viðreisnartímabilsins.

Bændunum brugðust allar vonir, og voru píndir meira en nokkurntíma áður, annarsvegar með lágu kornverði, hinsvegar með auknum skattabyrðum og veðskuldum. Þegar þeir byrjuðu að mögla, var þeim svarað með ofsóknum gegn kennurunum, sem voru settir undir eftirlit geistlegu stéttarinnar, og gegn sveit-

[1] „napóleonskum hugmyndum sínum“.

arstjórunum, sem voru settir undir eftirlit fylkisstjóranna, og með allsherjarnjósnakerfi, sem allir urðu að lúta. Í París og öðrum stórum borgum ber afturhaldið svip samtímans og hefur frekar í frammi ógnanir en ofbeldi. Á landsbyggðinni er það auvirðilegt, ruddalegt, smámunasamt, þreytandi, þjakandi, í einu orði fógetavald. Auðskilið er hve þriggja ára stjórn lögreglu, helguð af stjórn prestanna, hlaut að buga siðferðisþrek óþroskaðs lýðs.

Hversu miklum ástríðuhita og orðkynngi sem stjórnfestuflokkurinn beindi að minnihlutanum ofan úr ræðustóli þjóðþingsins, þá var ræða hans einatt í einsatkvæðisorðum eins og ræða hinna kristnu sem átti að vera já, já, nei, nei, og ekkert umfram það. Einsatkvæðisorð í ræðu og í blöðum. Litlaus einsog gáta sem allir þekkja ráðninguna á. Hvort sem rætt var um bænarskrárrétt eða vínskatt, prentfrelsi eða frjálsa verzlun, klúbba eða sveitarstjórn, vernd persónulegs frelsis eða þjóðbústjórn, þá er ráðningin ævinlega tilbúin, textinn er alltaf sá sami, dómsorðið hljóðar óaflátanlega: „sósíalismi!" Jafnvel borgaralegt frjálslyndi er úrskurðað *sósíalismi,* borgaraleg upplýsing er úrskurðuð sósíalismi, borgaralegar fésýsluumbætur eru úrskurðaðar sósíalismi. Að leggja járnbraut þar sem skipgengur skurður var fyrir var sósíalismi, og að verja sig með staf ef ráðizt var á mann með korða var sósíalismi.

Þetta var ekki aðeins orðatiltæki, tízka, flokksáróður. Borgarastéttin skildi réttilega, að öll þau vopn gegn lénsveldinu sem hún hafði smíðað sneru oddi sínum gegn henni sjálfri, að öll þau fræðslutæki sem hún hafði fundið upp gerðu uppreisn gegn hennar menningu, að allir þeir guðir sem hún hafði skapað höfðu brugðizt henni. Hún skildi, að öll svonefnd borgaraleg réttindi og framfarastofnanir réðust gegn og ógnuðu *stéttarveldi* hennar, bæði félagslegum grundvelli hennar og pólitísku fylkingarbrjósti. Þau voru því orðin „sósíalísk". Í þessari ógnun og þessari árás sá hún réttilega leyndardóm sósíalismans, og hún dæmir þýðingu hans og tilgang réttilegar en hinn svonefndi sósíalismi er sjálfur fær um að gera. Hann getur því ekki skilið hversvegna borgarastéttin hafnar honum í forherðingu, hvort sem hann kjökrar af tilfinningasemi yfir þjáningum mannkynsins, eða boðar af kristilegum kærleik þúsundáraríkið eða allsherjar bróðurást, eða fjasar eins og húmanistar um anda, menntun og frelsi, eða uppgötvar fræðilegt kerfi sátta og vellíðunar allra stétta. Aftur á móti skildi hún ekki að hinn almenni áfellisdómur yfir *sósíalisma* hlaut líka að hitta *þingræðisstjórn sjálfrar hennar,* og *pólitískt forræði* hennar yfirleitt. Meðan forræði borgarastéttarinnar var ekki fullkomlega skipulagt, hafði ekki öðlazt sitt hreina

pólitíska form, gat andstaða annarra stétta ekki heldur komið greinilega í ljós, og þar sem hún kom fram, tók hún ekki á sig það hættulega form sem breytir hverri orustu gegn ríkisvaldinu í orustu gegn auðmagninu. Þegar hún áleit að sérhver lífshræring þjóðfélagsins stofnaði „róseminni“ í hættu, hvernig gat hún þá leitazt við að viðhalda *stjórnarfari óróseminnar* í fararbroddi þjóðfélagsins, stjórnarfari sjálfrar sín, hinu þingræðislega stjórnarfari, sem dafnar í baráttu og af baráttu, svo sem einn ræðuskörungur hennar komst að orði? Þingræðisstjórn lifir á deilum, hversu má það þá banna deilur? Allra hagsmunir, allar félagslegar stofnanir breytast hér í almennar hugmyndir og eru rædd sem hugmyndir. Hvernig eiga þá tiltækir hagsmunir, tiltekin stofnun að rísa upp yfir hugmyndirnar og verða að trúarkreddu? Deilur ræðumannanna vekja deilur blaðasnápanna, umræðuklúbburinn í þinginu á sér óhjákvæmilega hliðstæður í umræðuklúbbum í samkvæmissölum og krám, fulltrúarnir sem höfða sífellt til almenningsálitsins veita almenningsálitinu rétt til að tjá raunverulegar skoðanir sínar í bænarskrám. Þingræðisstjórnin fær meirihlutunum ákvörðunarvaldið, hví skyldu meirihlutarnir utan þingsins ekki vilja taka ákvörðun? Þegar leikið er á gígju á tindi ríkisins, er þá ekki eðlilegt að stiginn sé dans fyrir neðan?

Um leið og borgarastéttin gerir nú það sem hún áður dýrkaði sem *„frjálslyndi“* að villutrú og *„sósíalisma“*, viðurkennir hún að hagsmunir sjálfrar hennar krefjast þess að henni sé forðað við hættu *sjálfsstjórnarinnar;* ef koma ætti á ró í landinu yrði umfram allt að koma á ró á borgaraþingi hennar sjálfrar; ef hún ætti að halda félagslegu valdi sínu óskertu, yrði að brjóta á bak aftur pólitískt vald hennar; einstaklingar borgarastéttarinnar geti aðeins haldið áfram að arðræna aðrar stéttir og notið í friði einkaeignar, fjölskyldu, trúar og stjórnfestu, með því skilyrði að hún sé dæmd til hins sama pólitíska þýðingarleysis og aðrar stéttir; ef hún vilji bjarga buddunni, verði að hrifsa af henni kórónuna og hengja sverðið, sem átti að verja hana, sem Damóklesarsverð yfir hennar eigin höfuð.

Á sviði almennra borgaralegra hagsmuna reyndist þjóðþingið svo seinvirkt, að samningunum um París-Avignon-járnbrautina, sem hófust veturinn 1850, var enn ekki lokið 2. desember 1851. Þar sem ekki var um kúgun og afturhald að ræða var þingið haldið ólæknanlegri ófrjósemi.

Jafnframt því sem ráðuneyti Bónaparte átti annarsvegar frumkvæði að lögum í anda stjórnfestuflokksins og jók hinsvegar hörku þeirra í framkvæmd og túlkun, reyndi hann á hinn bóginn að ávinna sér vinsældir með kjánalegum og barnalegum tillögum, sanna andstöðu sína við þjóðþingið og gefa í skyn að hann

byggi yfir þeim leyndardómi, sem aðstæðurnar hindruðu aðeins um stundarsakir að ljúka upp leynisjóðum frönsku þjóðarinnar. Í þessa átt gekk tillagan um að greiða undirforingjum uppbót sem næmi fjórum sous daglega. Í þá átt gekk tillagan um heiðurslánabanka fyrir verkamenn. Að fá peninga að gjöf eða að láni, slíkar voru framtíðarvonirnar sem hann reyndi að glepja alþýðu með. Að gefa peninga og fá peninga að láni er innihaldið í fésýsluvizku undiröreiganna, jafnt hinna tignu og hinna ótignu. Þetta voru stálfjaðrirnar sem Bónaparte kunni að koma á hreyfingu. Aldrei hefur nokkurt konungsefni leikið auvirðilegri brögð við auvirðileik lýðsins.

Þjóðþingið stökk margsinnis upp á nef sér út af þessum greinilegu tilraunum forsetans til að afla sér vinsælda á kostnað þess, út af síaukinni hættu á að þessi ævintýramaður, sem skuldirnar keyrðu áfram og ekki hafði áunnið sér neitt mannorð sem héldi aftur af honum, gripi til örþrifaráða. Ósamkomulagið milli stjórnfestuflokksins og forsetans var orðið uggvænlegt, þegar óvæntur atburður varpaði honum iðrunarfullum í faðm flokksins á ný. Vér eigum við *aukakosningarnar 10. marz 1850*. Þessar kosningar voru háðar til þess að skipa þau þingsæti á ný sem höfðu losnað vegna fangelsana eða útlegðar eftir 13. júní. París kaus aðeins sósíaldemókratíska frambjóðendur. Meira að segja hlaut einn af uppreisnarmönnunum í júní 1849, de Flotte, flest atkvæði. Þannig hefndi smáborgarastétt Parísar í bandalagi við öreigana ófaranna 13. júní 1849. Engu var líkara en hún hefði horfið af vígvellinum á hættustundinni til þess eins að ryðjast aftur fram með fjölmennara liði og djarfari vígorðum þegar betur horfði. Þessi kosningasigur virtist enn hættulegri fyrir það að herinn í París kaus júníuppreisnarmanninn, en ekki La Hitte, ráðherra Bónaparte, og á landsbyggðinni kaus hann yfirleitt flokksmenn Fjallsins, sem báru þar einnig sigurorð af andstæðingum sínum, þó sigurinn væri ekki eins ótvíræður og í París.

Bónaparte fannst að hann stæði andspænis byltingunni á ný. Rétt eins og 29. janúar 1849 og 13. júní 1849 faldi hann sig hinn 10. marz 1850 bakvið stjórnfestuflokkinn. Hann beygði sig, hann bað auðmjúklega um fyrirgefningu, hann bauðst til að skipa hvaða ráðuneyti sem þingmeirihlutanum þóknaðist að ákveða, hann sárbændi jafnvel flokksforingja orleanista og lögerfðamanna, Thiers, Berryer, Broglie, Molé, í einu orði sagt búrggreifana svonefndu, að taka stjórnina á þjóðarskútunni í sínar hendur. Stjórnfestuflokkurinn kunni ekki að notfæra sér þetta tækifæri sem aldrei kom aftur. Í stað þess að taka djarfmannalega við valdinu sem honum var boðið, þröngvaði hann ekki einusinni Bónaparte til að fá völdin aftur í hendur ráðuneytinu sem hann

setti af 1. nóvember; hann lét sér nægja að auðmýkja forsetann með fyrirgefningu sinni og bæta herra Baroche í ráðuneyti d'Hautpoul. Þessi Baroche hafði sem opinber ákærandi hamazt fyrir höfuðsakadóminum í Bourges, fyrst gegn byltingarmönnunum 15. maí, og í annað skipti gegn lýðræðissinnunum 13. júní, í bæði skiptin sakaði hann þá um árás á þjóðþingið. Enginn af ráðherrum Bónaparte átti eftir að stuðla jafnmikið að niðurlægingu þjóðþingsins, og eftir 2. desember 1851 hittum við hann aftur sem réttskipaðan og vellaunaðan varaforseta senatsins. Hann hafði hrækt í súpu byltingarmannanna til þess að Bónaparte gæti hesthúsað hana.

Fyrir sitt leyti virtist flokkur sósíaldemókrata einungis leita að yfirvarpi til að draga í efa sinn eigin sigur og brjóta af honum oddinn. Vidal, einn hinna nýkjörnu fulltrúa Parísar, hafði einnig verið kosinn í Strassborg. Hann var fenginn til að hafna kjörinu í París og taka kosningu í Strassborg. Í stað þess að fá sigri sínum á kjörstöðunum ákveðna þýðingu, og þvinga þarmeð stjórnfestuflokkinn til að reyna kraftana þegar í stað á þinginu, í stað þess að knýja andstæðinginn til orustu meðan hrifningarvíman var á fólkinu og herinn var hliðhollur, tókst lýðræðisflokknum að þreyta Parísarbúa í marz og apríl með nýrri kosningabaráttu, hann lét æstar ástríður fólksins slíta sér í þessum nýja bráðabirgða atkvæðaleik, lét byltingarorkuna svala sér með stjórnarskrárhelguðum sigrum, fuðra upp í ómerkilegu ráðabruggi, innantómum ávörpum og sýndarhreyfingum, lét borgarastéttina safna liði og gera sínar ráðstafanir, og loks bætti hann vellulegri og hálfvelgjulegri útleggingu við marzkosningarnar með kosningu Eugène Sue í apríl. Í stuttu máli, hann gerði 10. marz að aprílgabbi.

Þingmeirihlutinn gerði sér grein fyrir veikleika andstæðings síns. Búrggreifar hans, sautján að tölu, sem Bónaparte hafði eftirlátið alla stjórn og ábyrgð á áhlaupinu, sömdu ný kosningalög, en herra Faucher var falið að leggja frumvarpið fram, enda hafði hann beðið um að verða þess heiðurs aðnjótandi. Hinn 8. maí bar hann frumvarpið upp, en samkvæmt því var almennur kosningarréttur afnuminn, kjósendum gert að skyldu að hafa verið heimilisfastir í þrjú ár í kjördæmi sínu, og loks þurftu verkamenn vitnisburðar vinnuveitenda til að færa sönnur á búfestu sína.

Jafn æstir byltingarmenn sem lýðræðissinnarnir höfðu verið í stjórnskipulegri kosningaorustu sinni, af jafnmikilli hlýðni við stjórnarskrána prédikuðu þeir nú, þegar um var að ræða að sanna alvöru þessara kosningasigra með vopn í hendi, reglu, hátignarlega stillingu (calme majestueux), löglegt hátterni, það er

að segja blinda undirgefni við vilja gagnbyltingarinnar, sem hreykti sér sem lög og réttur. Í umræðunum gerði Fjallið stjórnfestuflokknum skömm til með því að andæfa byltingarsinnuðum ástríðuhita hans með ástríðulausri afstöðu sómamannsins sem heldur fast við lagabókstafinn, og með því að leggja hann að velli með þeirri hræðilegu ákæru að hann hagaði sér eins og byltingarflokkur. Jafnvel hinir nýkjörnu fulltrúar kappkostuðu með skikkanlegri og settlegri framkomu að færa sönnur á hve fjarri lagi það væri að úthrópa þá sem anarkista og túlka kosningu þeirra sem sigur byltingarinnar. Hinn 31. maí voru nýju kosningalögin samþykkt. Fjallið lét sér nægja að lauma mótmælabréfi í vasa forsetans. Á eftir kosningalögunum komu ný prentlög sem útrýmdu algjörlega byltingarsinnuðum blöðum. Þau áttu þetta hlutskipti skilið. Eftir þetta syndaflóð urðu „Le National“ og „La Presse“, tvö borgaraleg málgögn, yztu útverðir byltingarinnar.

Vér höfum séð hvernig leiðtogar lýðræðissinna höfðu leitað allra bragða til að etja alþýðu Parísar út í sýndarbardaga í marz og apríl, og hvernig þeir gerðu sér allt far um að halda henni frá raunverulegri orustu eftir 8. maí. Vér megum ekki heldur gleyma því að árið 1850 var hagur iðnaðar og verzlunar með allra bezta móti, og öreigar Parísar höfðu nóga vinnu. En kosningalögin 31. maí 1850 boluðu þeim frá allri aðild að hinu pólitíska valdi. Þau sviptu orustuvellinum undan fótum þeirra. Þau hröktu verkamenn aftur út í það utangarðslíf sem þeir höfðu lifað fyrir febrúarbyltinguna. Með því að lúta stjórn lýðræðissinna, þegar þeir stóðu andspænis þvílíkum atburði, og gleyma byltingarhagsmunum stéttar sinnar vegna skammærrar velgengni, afsöluðu þeir sér þeim heiðri að vera sigrandi afl, lutu örlögum sínum, sönnuðu að ósigurinn í júní 1848 gerði þá óvíga um mörg ókomin ár og að ferill sögunnar hlaut um sinn að liggja *ofar* höfðum þeirra. Hinir lýðræðissinnuðu smáborgarar aftur á móti, sem hrópuðu 13. júní: „en ef þeir dirfast að ráðast á almennan kosningarrétt, ja þá!“, hugguðu sig nú við það að höggið sem hæfði þá væri ekkert högg og lögin frá 31. maí engin lög. Annan sunnudag í maímánuði 1852 mundi sérhver Frakki koma á kjörstað með atkvæðaseðil í annarri hendi og sverð í hinni. Þessi spádómur fullnægði þeim. Loks var hernum refsað fyrir þátttöku sína í kosningunum í marz og apríl 1850, rétt eins og gerzt hafði 29. maí 1849. En nú hugsaði hann í fullri alvöru: „Byltingin skal ekki gabba okkur í þriðja skiptið“.

Lögin frá 31. maí 1850 voru stjórnlagarof borgarastéttarinnar. Allir þeir sigrar sem hún hafði hingað til unnið á byltingunni voru aðeins til bráðabirgða. Þeir voru í hættu óðar en núverandi

þing gengi út af leiksviðinu. Þeir voru háðir tilviljun nýrra almennra kosninga, og saga kosninganna síðan 1848 sannaði óhrekjanlega að andlegu valdi borgarastéttarinnar yfir fjöldanum hrakaði að sama skapi sem raunverulegt vald hennar þróaðist. Hinn 10. marz lýsti hinn almenni kosningarréttur sig andvígan valdi borgarastéttarinnar, en borgarastéttin svaraði með því að gera almennan kosningarrétt útlægan. Lögin 31. maí voru sem sé ein af nauðsynjum stéttabaráttunnar. Á hinn bóginn krafðist stjórnarskráin að minnsta kosti tveggja milljóna atkvæða til þess að kjör forseta yrði löglegt. Næði enginn frambjóðenda þessu lágmarki, þá átti þjóðþingið að kjósa til forseta þann þeirra þriggja frambjóðenda sem hefðu flest atkvæði. Þegar stjórnlagaþingið samdi þessi lög voru tíu milljónir kjósenda á kjörskrá. Það áleit því að einn fimmti kosningabærra manna nægði til þess að gera forsetakjör löglegt. Lögin frá 31. maí máðu að minnsta kosti þrjár milljónir atkvæða af kjörskránum, lækkuðu tölu kosningabærra manna í sjö milljónir og héldu eigi að síður tveggja milljóna lágmarkinu fyrir forsetakjör. Þau hækkuðu þannig hið lögboðna lágmark úr einum fimmta í nærri einn þriðja atkvæða, þau leituðust sem sé við af fremsta megni að færa forsetakjörið úr höndum fólksins í hendur þjóðþingsins. Þannig virtist stjórnfestuflokkurinn hafa tvíeflt vald sitt með kosningalögunum frá 31. maí, með því að gefa kosningarnar til þjóðþingsins og forsetakosningarnar á vald hinum kyrrstæða hluta þjóðfélagsins.

## V

Baráttan milli þjóðþingsins og Bónaparte hófst á ný óðar en byltingarhættan var liðin hjá og almennur kosningarréttur afnuminn.

Í stjórnarskránni var ákveðið að laun Bónaparte skyldu vera 600 000 frankar. Tæpum tveim mánuðum eftir að hann varð forseti tókst honum að láta tvöfalda þessa upphæð. Odilon Barrot togaði sem sé út úr þjóðþinginu 600 000 franka árlega viðbót sem var gefið heitið risnufé. Eftir 13. júní lét Bónaparte í ljós svipaðar óskir, en í þetta skipti daufheyrðist Barrot. Nú, eftir 31. maí, notfærði Bónaparte sér óðara hentugar aðstæður og lét ráðherra sína bera upp á þjóðþinginu tillögu um þriggja milljóna hirðeyri. Langt og ævintýralegt flökkulíf hafði gætt hann mjög fullkomnum þreifiöngum til að skynja þær veikleikastundir þegar unnt var að sjúga peninga út úr borgurunum hans. Hann beitti hreinni og beinni fjárkúgun. Þjóðþingið hafði misboðið fullveldi þjóðarinnar með hans hjálp og vitorði. Hann hót-

aði að stefna því fyrir dóm þjóðarinnar, ef það tæki ekki upp budduna og greiddi þögn hans með þremur milljónum á ári. Það hafði rænt þrjár milljónir Frakka kosningarrétti sínum. Í staðinn fyrir hvern ógiltan Frakka heimtaði hann einn gildan franka, þrjár milljónir sléttar. Hann, sem var kosinn af sex milljónum, krefst skaðabóta fyrir atkvæðin sem göbbuð voru af honum eftirá. Þjóðþingsnefndin synjaði beiðni hins ágenga. Bónaparte-blöðin höfðu í frammi hótanir. Gat þjóðþingið slitið sambandi sínu við forseta lýðveldisins á sömu stundu og það hafði af ásettu ráði og endanlega slitið sambandi sínu við meirihluta þjóðarinnar? Það felldi að vísu hinn árlega hirðeyri, en það samþykkti uppbót sem næmi 2 160 000 frönkum í eitt skipti fyrir öll. Það gerði sig þannig sekt um tvöfalda villu, að samþykkja greiðsluna, og sýna um leið með önuglyndi sínu að það gerði það ófúst. Vér munum síðar sjá til hvers Bónaparte notaði féð. Í þessum óskemmtilega eftirleik sem fylgdi afnámi hins almenna kosningarréttar, breyttist auðmýktarframkoma Bónaparte í marz og apríl í ögrandi ósvífni við valdránsþingið, en að þessum eftirleik loknum frestaði þjóðþingið fundum sínum um þrjá mánuði, frá 11. ágúst til 11. nóvember. Það skildi eftir 28 manna fastanefnd, þar sem ekki var neinn bónapartisti, en aftur á móti nokkrir hægfara lýðveldismenn. Fastanefndin árið 1849 hafði aðeins stjórnfestumenn og bónapartista innan vébanda sinna. Þá lýsti stjórnfestuflokkurinn stöðugt yfir andstöðu sinni við byltinguna. Nú lýsti hið þingræðislega lýðveldi stöðugt yfir andstöðu sinni við forsetann. Eftir löggjöfina 31. maí átti stjórnfestuflokkurinn ekki annan keppinaut en forsetann.

Þegar þjóðþingið kom aftur saman í nóvember 1850 virtist þeim lítilfjörlegu skærum við forsetann, sem hingaðtil höfðu verið háðar, vera lokið, og í stað þeirra sýndist miskunnarlaus barátta vera óhjákvæmileg, barátta upp á líf og dauða af beggja hálfu.

Eins og árið 1849 hafði stjórnfestuflokkurinn greinzt í frumparta sína, í þessu þinghléi, og sérhver partur otaði sínu konungsefni, því dauði Lúðvíks Filippusar hafði blásið nýju lífi í ráðabrugg um viðreisn konungdómsins. Konungur lögerfðamanna, Hinrik V., hafði jafnvel tilnefnt formlegt ráðuneyti sem hafði samastað í París, en í því sátu menn úr fastanefndinni. Bónaparte hafði því fullan rétt fyrir sitt leyti, til að hefja yfirreið um fylki Frakklands, og opinbera sínar viðreisnaráætlanir og leita eftir stuðningi við þær, ýmist opinskátt eða dulið, eftir því hvaða andi ríkti í þeirri borg þar sem hann var staddur hverju sinni. Á þessum ferðum, sem hinn stóri opinberi „Moniteur“ og hinir smáu einka- „moniteurar“ Bónaparte urðu að

auglýsa sem sigurfarir, var hann sífellt í fylgd með félögum *10. desember-félagsins*. Þetta félag var stofnað á árinu 1849. Með því yfirvarpi að verið væri að stofna líknarfélag, var öreigaskríl Parísar skipað í leynilegar deildir, sérhverri deild veitt forstaða af sendimönnum Bónaparte, og bónapartískur hershöfðingi í fylkingarbrjósti þeirra allra. Þar mátti sjá uppflosnaða „roués"[1] með óvíst lífsframfæri og af óvissum uppruna, spillta ævintýramenn og afkomendur borgarastéttarinnar, innan um flakkara, uppgjafarhermenn, uppgjafartukthúslimi, brotthlaupna galeiðuþræla, svikara, loddara, lassaróna, vasaþjófa, sjónhverfingamenn, fjárspilamenn, maquereaux, hóruhúshaldara, burðarkarla, skriffinna, lírukassamenn, tuskukaupmenn, skærabrýnara, pottasmiði, betlara, í stuttu máli allan þennan óskipulega, staðfestulausa og reikula fjölda sem Frakkar kalla la bohème; úr þessum þætti mannfélagsins, sem honum var skyldastur, myndaði Bónaparte uppistöðuna í 10. desember-félagið. „Líknarfélag" – það var sannnefni af því að allir félagsmenn og Bónaparte sjálfur fundu hjá sér þörf til að líkna sjálfum sér á kostnað hins vinnandi lýðs. Þessi Bónaparte, sem gerist *höfðingi öreigaskrílsins*, sem hittir aðeins hér þá hagsmuni margfaldaða, sem honum persónulega eru kærir, sem sér í þessu úrhraki, úrkasti, þessum dreggjum allra stétta þá einu stétt sem hann getur skilyrðislaust stuðzt við, hann er sá sanni Bónaparte, Bónaparte sans phrase. Gamall, slægur roué sem skilur líf þjóðanna í sögunni, athafnir þeirra og ríkisins, sem skopleik í hversdagslegasta skilningi orðsins, grímuball, þar sem tiginmannleg klæði, orð og stellingar eru ekkert annað en gríma hins lægsta óþverraskapar. Þannig hugsaði hann í Strassborgarleiðangrinum,[2] þegar taminn svissneskur örn tekur á sig gervi hins napóleónska arnar. Þegar hann heldur til Boulogne dulbýr hann nokkra húskarla frá London í einkennisföt franska hersins. Þeir eru fulltrúar hersins. Í 10. desemberfélaginu safnar hann saman 10 000 betlurum, sem eiga að vera ímynd þjóðarinnar eins og Snikki er ímynd ljónsins.[3] Á þeirri stund þegar borgarastéttin sjálf lék fullkominn skopleik, en raunar í mestu alvöru, án þess að fara í bág við smásmuglegar siðareglur fransks leikhúss, hálft í hvoru blekkt og hálft í hvoru sannfærð um hátignarleik stjórnarathafna sinna, þá hlaut ævintýramaðurinn að sigra, sá sem leit á skopleikinn sem skopleik. Þá fyrst er hann hefur yfirbugað hinn hátíðlega andstæðing sinn,

---

1 siðleysingja; orðið var haft um þá sem voru taldir eiga skilið að vera „brotnir í hjóli", eða þola hjól (roue) og steglur.

2 Lúðvík Bónaparte hafði þegar reynt tvisvar að brjótast til valda í Frakklandi og láta taka sig til keisara, í Strassborg 1836 og Boulogne 1840.

3 Í *Draumi á jónsmessunótt* eftir Shakespeare.

lítur á keisarahlutverk sitt í alvöru og heldur að hann sé orðinn sannur Napóleon, – úr því hann er með Napóleonsgrímu, – verður hann fórnarlamb heimsskilnings síns, alvörugefinn trúður, sem telur ekki veraldarsöguna skopleik heldur skopleik sinn veraldarsögu. Það sem þjóðvinnustöðvarnar voru sósíalískum verkamönnum, það sem útboðsliðið var borgaralegum lýðveldismönnum, það var 10. desember-félagið Bónaparte, hans einkaflokkur. Á ferðum hans urðu deildir þessa flokks að fylla járnbrautarlestina og leika áheyrendur hans þegar með þurfti, leika hrifningu þegnanna, hrópa vive l'Empereur!, svívirða lýðveldismenn og berja á þeim, auðvitað undir lögregluvernd. Á heimleiðinni til Parísar urðu þær að vera framvörður hans, koma í veg fyrir mótmælafundi eða tvístra þeim. 10. desember-félagið tilheyrði honum, það var hans verk, hans einkalegasta hugsun. Það sem hann eignar sér að öðru leyti leggur vald kringumstæðnanna í hendur honum, það sem hann gerir gera kringumstæðurnar fyrir hann, ef hann lætur sér þá ekki nægja að apa eftir athafnir annarra; en hann, með opinber orðatiltæki laga og reglu, trúarbragða, fjölskyldu, einkaeignar andspænis borgurunum, og með leynifélag Schufterles og Spiegelbergs[1] á bak við sig, félag ólaga, skækjulifnaðar og þjófnaðar, það er Bónaparte sjálfur sem frumlegur höfundur, og saga 10. desember-félagsins er saga hans sjálfs. Það bar stundum við að þjóðfulltrúar úr stjórnfestuflokknum urðu fyrir kylfuhöggum desembrista. Annað var alvarlegra. Lögregluforinginn Yon, sem hafði það hlutverk á hendi að gæta öryggis þjóðþingsins, skýrði fastanefndinni frá því, eftir vitnisburði einhvers Alais, að ein deild desembristanna hefði ákveðið að myrða Changarnier hershöfðingja og Dupin þingforseta og þegar valið menn til þeirra starfa. Skelfing herra Dupins er auðskiljanleg. Ekki virtist verða komizt hjá því að láta fara fram þinglega rannsókn á 10. desember-félaginu, og vanhelga þar með leyniveröld Bónaparte. Rétt áður en þjóðþingið kom saman lagði Bónaparte til vonar og vara félag sitt niður, auðvitað einungis á pappírnum, því að í árslok 1851 reyndi lögreglustjórinn, Carlier, enn árangurslaust í greinargóðu bréfi að telja hann á að sundra desembristunum í raun.

Tíunda-desember-félagið hlaut að halda áfram að vera einkaher Bónaparte, þangað til honum heppnaðist að gera ríkisherinn að 10. desember-félagi. Bónaparte reyndi í fyrsta skipti að koma því til leiðar skömmu eftir frestun þingsins, og raunar með því fé sem hann hafði togað út úr þinginu. Sem örlagatrúarmaður hefur hann þá skoðun að til séu æðri öfl sem maðurinn

[1] Persónur í sjónleik Schillers, „Ræningjunum".

og sér í lagi hermaðurinn geti ekki veitt viðnám. Meðal þessara afla telur hann í fyrsta lagi vindla og kampavín, kalt fuglakjöt og hvítlauksbjúgu. Hann býður því fyrst liðsforingjum og undirforingjum upp á vindla og kampavín, kalt fuglakjöt og hvítlauksbjúgu í sölum Elysée-hallar. Hinn 3. október endurtekur hann þetta herbragð við óbreytta liðsmenn á hersýningunni í Saint-Maur, og aftur 10. október í enn stórkostlegra mæli við hersýninguna í Satory. Föðurbróðirinn minntist herleiðangra Alexanders í Asíu, bróðursonurinn sigurfara Bakkusar í sömu álfu. Alexander var að vísu hálfguð, en Bakkus guð, og í tilbót verndarguð 10. desember-félagsins.

Eftir hersýninguna 3. október stefndi fastanefndin hermálaráðherranum d'Hautpoul á sinn fund. Hann hét því að þessi agabrot skyldu ekki koma fyrir oftar. Kunnugt er hvernig Bónaparte stóð við orð d'Hautpoul 10. október. Á báðum hersýningunum hafði Changarnier haft stjórnina á hendi sem yfirhershöfðingi Parísarhersins. Hann, sem var allt í senn: fastanefndarmaður, foringi þjóðvarðarins, „bjargvættur" 29. janúar og 13. júní, „varnargarður þjóðfélagsins", forsetaefni stjórnfestuflokksins, væntanlegur Monk tveggja konungsætta, hann hafði ekki hingaðtil játað hermálaráðherranum undirgefni, aldrei farið leynt með fyrirlitningu sína á stjórnarskránni, og ofsótt Bónaparte með virðulegri og grunsamlegri vernd. Nú varð hann verndari agans gegn hermálaráðherranum og stjórnarskrárinnar gegn Bónaparte. Þó að nokkur hluti riddaraliðsins hrópaði: „Vive Napoléon! Vivent les saucissons!"[1] á hersýningunni 10. október, kom Changarnier því að minnsta kosti í kring að fótgönguliðið undir stjórn vinar hans Neumayer þagði þunnu hljóði. Í hegningarskyni vék hermálaráðherrann eftir tilmælum Bónaparte Neumayer úr stöðu sinni í París, og hafði að yfirvarpi að gera hann að yfirhershöfðingja 14. og 15. herdeildar. Neumayer aftók þessi stöðuskipti, og varð því að segja af sér. Changarnier aftur á móti gaf út dagskipun 2. nóvember þar sem hann bannaði hersveitunum allar pólitískar upphrópanir og ókyrrð meðan þær væru undir vopnum. Elysée-blöðin réðust á Changarnier, blöð stjórnfestuflokksins réðust á Bónaparte, fastanefndin hélt í sífellu leynilega fundi, þar sem sí og æ var stungið upp á að lýsa yfir hættuástandi í landinu, herinn virtist skiptast í tvær andstæðar fylkingar með tvö andstæð herráð, annað í Elysée-höllinni, þar sem Bónaparte var til húsa, hitt í Tuilerie-höllinni, þar sem Changarnier bjó. Það eitt skorti á að þjóðþingið kæmi saman, þá hlyti herópið að gjalla. Almenningur í Frakklandi leit á þessar

---

[1] „Lifi Napóleon! Lifi bjúgun!"

skærur milli Bónaparte og Changarniers á sama hátt og hinn enski blaðamaður sem lýsti þeim á þennan hátt: „Pólitískar griðkonur Frakklands sópa burt glóandi hraunleðju byltingarinnar með gömlum sóflum og jagast hver í annarri á meðan".

En Bónaparte flýtti sér að víkja frá hermálaráðherranum d'Hautpoul, senda hann í skyndi til Alsír, og gera Schramm hershöfðingja að hermálaráðherra í hans stað. Hinn 12. nóvember sendi hann þjóðþinginu bréf, sem gat að lengdinni til vel verið amerískt, fullt af smáatriðum, ilmandi af lögum og reglu, sáttfúst, undirgefið stjórnarskránni, fjallandi um allt og alla, nema les questions brulantes[1] þeirrar stundar sem var að líða. Eins og af tilviljun lét hann þess getið að samkvæmt ótvíræðum ákvæðum stjórnarskrárinnar ráði forsetinn einn yfir hernum. Bréfið endaði á þessum hátíðlegu orðum:

„*Frakkland vill umfram allt ró ... Af engu bundinn nema þeim eið sem ég hef svarið, mun ég halda mig innan þeirra þröngu takmarka sem hann setur mér.* ... Að því er mig áhrærir sem er kosinn af þjóðinni og á aðeins henni að þakka vald mitt, þá mun ég ævinlega beygja mig fyrir löglega túlkuðum vilja hennar. Ef þér samþykkið á þessu þingi endurskoðun stjórnarskrárinnar, mun stjórnlagaþing ákvarða stöðu framkvæmdavaldsins. Að öðrum kosti mun þjóðin kveða upp sinn hátíðlega dóm árið 1852. En hverjar sem verða úrlausnir framtíðarinnar, verum sammála um að láta aldrei ástríður, óvænt atvik eða ofbeldi ráða örlögum mikillar þjóðar. ... Það sem mér er einkum umhugað er ekki hver muni stjórna Frakklandi 1852, heldur að nota þann tíma sem mér er fenginn, á þann hátt að biðtíminn líði án óróa og óeirða. Ég hef opnað yður hjarta mitt af einlægni, þér munuð svara hreinskilni minni með trausti yðar, viðleitni minni með samvinnu yðar, og guð mun sjá um hitt".

Heiðvirð tunga borgaranna, hræsnislega hófsöm, dygðug í hversdagsleika sínum, opinberar innstu merkingu sína í munni alvaldsins yfir 10. desember-félaginu og picknickhetjunnar frá Saint-Maur og Satory.

Búrggreifar stjórnfestuflokksins voru ekki eitt andartak í vafa um hvaða traust þessar úthellingar ættu skilið. Þeir voru fyrir löngu orðnir hvekktir á svardögum, og í þeirra hópi voru margreyndir snillingar hins pólitíska meinsæris, þeir höfðu ekki látið framhjá sér fara orðin um herinn. Þeir veittu því eftirtekt með lítilli hrifningu að þó að bréfið teldi nákvæmlega upp nýútgefin lög, lét það sem svo að það vissi ekki um mikilvægustu lögin, kosningalögin, og hafði þvert á móti áskilið þjóðinni rétt til að

[1] brýn málefni.

kjósa forseta 1852 ef stjórnarskráin yrði ekki endurskoðuð. Kosningalögin voru blýkúlan á fótum stjórnfestuflokksins, sem hindraði gang hans, hvað þá heldur áhlaup hans! Auk þess hafði Bónaparte fórnað syndahöfrunum með eigin hendi á altari föðurlandsins, þegar hann lagði opinberlega niður 10. desemberfélagið og svipti d'Hautpoul hermálaráðherratign. Hann hafði dregið úr hörku hins yfirvofandi áreksturs. Loks kappkostaði stjórnfestuflokkurinn sjálfur að forðast öll úrslitaátök við framkvæmdavaldið, mýkja þau eða kæfa. Af ótta við að ónýta sigrana yfir byltingunni, lét hann keppinauta sína hirða afrakstur þeirra. „Frakkland vill umfram allt ró.“ Þannig hafði stjórnfestuflokkurinn ákallað byltinguna síðan í febrúar 1848, með þeim orðum ákallaði bréf Bónaparte stjórnfestuflokkinn. „Frakkland vill umfram allt ró.“ Bónaparte stofnaði til athafna sem miðuðu að valdráni, en stjórnfestuflokkurinn stofnaði til „óróa“, ef hann gerði veður út af þessum athöfnum og útmálaði þær með móðursýki. Bjúgun í Satory hefðu steinþagað ef enginn hefði minnzt á þau. „Frakkland vill umfram allt ró.“ Þessvegna fór Bónaparte þess á leit að hann væri látinn fara sínu fram, og þingflokkurinn var lamaður af tvennskonar ótta, óttanum við að vekja að nýju byltingaróróa og óttanum við að standa sjálfur uppi sem óróaseggur fyrir framan sína eigin stétt, fyrir framan borgarana. Úr því Frakkland vildi umfram allt ró, þorði stjórnfestuflokkurinn ekki að segja „stríð“ eftir að Bónaparte hafði sagt „friður“ í bréfi sínu. Almenningur varð fyrir vonbrigðum, því hann hafði hlakkað til meiriháttar hneykslismála þegar þjóðþingið kæmi saman. Þingmenn stjórnarandstöðunnar, sem kröfðust þess að prótókollar fastanefndarinnar um októberatburðina yrðu lagðir fram, voru bornir atkvæðum af meirihlutanum. Menn forðuðust af ásettu ráði allar umræður sem gætu valdið æsingum. Þingstörfin í nóvember og desember 1850 voru ómerk.

Það var ekki fyrr en í lok desember að skærustríðið hófst um einstök einkaréttindi þingsins. Hreyfingin koðnaði niður í auvirðilega togstreitu um einkaréttindi framkvæmdavaldsins og löggjafarvaldsins, því að borgarastéttin hafði bundið enda á stéttabaráttuna með því að afnema hinn almenna kosningarrétt.

Mauguin, þingmaður, hafði verið dæmdur vegna skulda. Dómsmálaráðherrann Rouher svaraði fyrirspurn dómsforseta um þetta mál á þá leið að handtökuskipun skyldi útgefin á hendur skuldaranum án frekari formlegra vafninga. Mauguin var samkvæmt því varpað í skuldafangelsi. Þjóðþingið reiddist mjög, þegar það frétti af þessu tilræði. Það fyrirskipaði ekki aðeins að þingmaðurinn skyldi látinn laus samstundis, heldur lét ritara þingsins sækja hann með valdi til Clichy sama kvöld. En til að staðfesta

trú sína á helgi eignarréttarins, og með þeim bakþanka að stofna hæli fyrir óþægilega lýðræðissinna, lýsti það yfir því að heimilt væri að setja þjóðfulltrúa í fangelsi ef þingið hefði áður veitt leyfi til þess. Það gleymdi að úrskurða að heimilt væri að stinga forsetanum inn líka vegna skulda. Það eyðilagði síðasta friðhelgivottinn sem verndaði ennþá fulltrúa á þingi.

Lesendur muna að lögregluforinginn Yon hafði ákært eina deild desembrista, samkvæmt vitnisburði manns að nafni Alais, fyrir að hafa lagt á ráðin um að myrða Dupin og Changarnier. Þegar á fyrsta fundi þingsins stungu questorarnir[1] upp á því, með tilliti til þessa máls, að setja á stofn sérstaka þinglögreglu, kostaða af einkasjóði þingsins og gjörsamlega óháða lögreglustjóranum. Innanríkisráðherrann, Baroche, hafði mótmælt þessum afskiptum af hans verksviði. Þá var gerð aumingjaleg málamiðlun, en samkvæmt henni skyldi lögreglustjóri þingsins að vísu taka laun sín úr sjóði þingsins, og vera skipaður í stöðu sína og vikið úr henni af questorum þess, en aðeins að undangengnu samkomulagi við innanríkisráðherrann. Meðan á þessu stóð hóf ríkisstjórnin mál á hendur Alais, og þá reyndist létt verk að sanna að vitnisburður hans væri eintómt gabb, og varpa skoplegum blæ með aðstoð ríkissaksóknara á Dupin, Changarnier, Yon og allt þjóðþingið. Nú, 29. desember, skrifar Baroche ráðherra Dupin bréf og krefst þess að Yon sé sagt upp. Skrifstofa þingsins ákveður að láta hann halda störfum sínum áfram, en þjóðþingið skelfist ofbeldi sjálfs sín í Mauguin-málinu, og þar eð það hefur vanizt því þegar það hefur slegið framkvæmdavaldið eitt högg að fá tvö högg í staðinn, þá staðfestir það ekki þessa ákvörðun. Það rekur Yon í launaskyni fyrir trúmennsku hans, og sviptir sjálft sig þinglegum einkaréttindum sem nauðsynleg voru til að fást við mann sem tekur ekki ákvarðanir á næturnar og framkvæmir þær á daginn, heldur tekur ákvarðanir á daginn og framkvæmir á næturnar.

Vér höfum séð hvernig þjóðþingið forðaðist baráttuna við framkvæmdavaldið í nóvember og desember, þó að tilefnin væru bæði mikil og örlagarík. Nú sjáum vér það neyðast til að hefja baráttu út af lítilfjörlegustu tilefnum. Í Mauguin-málinu staðfestir það þá réttarreglu að heimilt sé að setja þjóðfulltrúa í skuldafangelsi, en áskilur sér rétt til að beita þeirri reglu við þá fulltrúa eina sem það hefur vanþóknun á, og deilir við dómsmálaráðherrann um þessi svívirðilegu einkaréttindi. Í stað þess að nota sér meint morðráð til þess að láta fara fram rannsókn á 10. desember-félaginu og afhjúpa Bónaparte miskunnarlaust fyrir augum Frakklands og Evrópu sem foringja öreigaskrílsins í París,

[1] Féhirðar þingsins voru kallaði questorar.

lætur það áreksturinn koðna niður, þar til deilan milli þess og innanríkisráðherrans stendur aðeins um það hverjum beri að skipa og setja af einn lögregluforingja. Vér sjáum þannig stjórnfestuflokkinn í baráttu sinni við framkvæmdavaldið neyddan til þess vegna óklárrar afstöðu sinnar allt þetta tímabil að eyða og tvístra kröftum sínum í auvirðilegar deilur um starfssvið, hártoganir, lagakróka, landamerkjarifrildi, og gera innihaldslausustu formsatriði að aðalatriði starfs síns. Hann þorir ekki að hefja bardagann þegar um höfuðatriði er að tefla, þegar framkvæmdavaldið hefur misst grímuna og málstaður þjóðþingsins væri málstaður þjóðarinnar. Þarmeð hefði hann skorið upp herör með þjóðinni, og ekkert óttast hann meira en að þjóðin komist á hreyfingu. Við slík tækifæri vísar hann tillögum Fjallsins frá og heldur áfram með dagskrána. Eftir að deilumálið í sinni fullu stærð hefur verið lagt til hliðar, bíður framkvæmdavaldið rólegt þess tíma er það getur tekið það upp á ný út af einhverjum smávægilegum og þýðingarlausum atriðum, sem aðeins snerta staðbundna þingshagsmuni ef svo mætti komast að orði. Þá gýs upp samanþjappað æði stjórnfestuflokksins, þá sviptir hann tjaldinu frá sviðinu, þá ákærir hann forsetann, þá lýsir hann lýðveldið í hættu, en þá virðist líka ákafi hans bragðlaus og tilefni bardagans hræsnisfullt yfirvarp, eða bardaginn yfirleitt tilefnislaus. Óveðrið á þinginu verður óveður í vatnsglasi, baráttan verður undirferlisbrögð, áreksturinn hneykslismál. Meðan meinfýsi hinna byltingarsinnuðu stétta nærist á auðmýkingu þingsins, því að þær hafa jafnmikla ágirnd á einkaréttindum þingsins og þingið á réttindum almennings, skilur borgarastéttin utan þingsins ekki hvernig borgarastéttin á þingi getur sóað tíma sínum í jafn fánýtt rifrildi og stofnað friðnum í hættu með jafn lítilfjörlegum reipdrætti við forsetann. Hún skilur ekki þá herstjórnarlist sem semur frið þegar allir búast við orustum og leggur til orustu þegar allir halda að friður hafi verið saminn.

Hinn 20. desember bar Pascal Duprat upp fyrirspurn til innanríkisráðherrans um gullstangahappdrættið. Þetta happdrætti var borið og barnfætt í Elysée-höllinni, Bónaparte hafði komið því í heiminn með aðstoð félaga sinna, og lögreglustjórinn Carlier veitti því sína embættislegu vernd, þó að frönsk lög banni öll happdrætti önnur en þau sem höfð eru til styrktar mannúðarverkum. Sjö milljón miðar, hver á einn franka, ágóðinn skyldi að því er sagt var notaður til að flytja flækinga Parísar til Kalíforníu. Annarsvegar áttu gullnir draumar að koma í stað sósíalískra drauma Parísaröreiga, lokkandi vonin um stóra vinninginn skyldi útrýma hinum kreddubundna rétti til vinnu. Í gliti hinna kalífornísku gullstanga þekktu verkamenn Parísar auðvitað ekki

aftur hina snjáðu franka sem dregnir voru með táli upp úr vösum þeirra. Aðallega var þó um bein fjársvik að ræða. Flækingarnir sem ætluðu að opna kalífornískar gullnámur án þess að hreyfa sig úr París voru Bónaparte sjálfur og skuldum vafðir kumpánar hans. Búið var að sóa þeim þremur milljónum sem þjóðþingið hafði veitt, einhvernveginn varð að fylla sjóðinn á ný. Árangurslaust hafði Bónaparte hafið fjársöfnun til byggingar svonefndra cités ouvrières,[1] og hafði fyrstur allra skrifað sig fyrir töluverðri fjárhæð. Hinir harðlyndu borgarar biðu þess með tortryggni að hann borgaði hlutabréf sitt, og þegar ekkert varð úr því féll gróðabrallið með hina sósíalísku loftkastala um sjálft sig. Gullstangirnar voru ágóðavænlegri. Bónaparte og félagar hans létu sér ekki nægja að stinga í vasann hluta af mismuninum á sjö milljónunum og verði gullstanganna, þeir prentuðu falska happdrættismiða, þeir gáfu út tíu, fimmtán eða tuttugu miða með sama númeri, þetta var fésýsla í anda 10. desember-félagsins! Hér hafði þjóðþingið ekki andspænis sér hinn tilbúna forseta lýðveldisins, heldur hinn sanna Bónaparte í holdi og blóði. Nú gat það staðið hann að verki, brotlegan, ekki við stjórnarskrána, heldur við hegningarlögin. Þegar það tók fyrirspurn Duprats út af dagskrá, var það ekki gert af því einu að tillaga Girardins um að þingið teldi sig hafa fengið fullnægjandi skýringu á málinu minnti stjórnfestuflokkinn á kerfisbundna spillingu sjálfs hans. Borgarinn, og einkum sá borgari sem hefur verið útblásinn til stjórnmálamanns, bætir upp auvirðileik sinn í raun með tilgerðu næmlyndi. Sem stjórnmálamaður verður hann eins og ríkisvaldið sem andspænis honum stendur, að háleitri veru, sem aðeins má berjast við með háleitum og helguðum aðferðum.

Bónaparte sem bohémien, sem konungborinn undiröreigi hafði það umfram hinn óbreytta borgara, að hann gat beitt óvöldum vopnum, og hann sá nú, þegar þjóðþingið sjálft hafði leitt hann við hönd sér yfir hálagler hermannasamsæta, hersýninga, 10. desember-félagsins og hegningarlaganna, að tími var kominn til að hætta varnarbaráttunni, sem svo virtist vera, og hefja sókn. Hann lét sig litlu skipta þá smáósigra sem dómsmálaráðherrann, hermálaráðherrann, flotamálaráðherrann, fjármálaráðherrann biðu um þessar mundir, og voru þjóðþinginu tilefni til að láta í ljós önuglyndi sitt og óánægju. Hann aftraði ekki einungis ráðherrunum að segja af sér og viðurkenna þar með að framkvæmdavaldið væri undirgefið þinginu. Hann gat nú leitt til lykta það verk sem hann hafði byrjað í þinghléinu, að rjúfa tengsl hervaldsins og þingsins með afsetningu Changarniers.

Elysée-hlynnt blað birti dagskipun einhverntíma í maímánuði.

[1] verkamannabústaða.

Henni var að sögn beint til fyrstu herdeildarinnar, og því samin af Changarnier. Í þessari dagskipun var liðsforingjunum fyrirlagt, ef til uppreisnar kæmi, að auðsýna svikurunum í fylkingum sínum enga miskunn, skjóta þá samstundis, og neita þjóðþinginu um hersveitirnar, ef það færi fram á að fá yfirráð yfir þeim. Hinn 3. janúar 1851 var lögð fram fyrirspurn til stjórnarinnar varðandi þessa dagskipun. Hún biður fyrst um þriggja mánaða umhugsunarfrest til að prófa þetta mál, síðan eina viku, loks tuttuguogfjórar stundir. Þingið heimtar svar undireins. Changarnier rís upp og lýsir yfir að þessi dagskipun hafi aldrei verið til. Hann segir ennfremur að hann muni ævinlega kappkosta að fullnægja kröfum þjóðþingsins, og það geti treyst sér ef til átaka komi. Það tekur skýringum hans með ólýsanlegum fögnuði, og samþykkir traustsyfirlýsingu honum til handa. Það afsalar sér valdi sínu, lýsir yfir máttleysi sínu og almætti hersins og felur sig einkavernd hershöfðingja, en hershöfðingjanum skjátlast bæði þegar hann býður því afnot þess valds gegn Bónaparte sem hann hefur aðeins að léni frá hinum sama Bónaparte, svo og þegar hann væntir verndar af þessu þingi, af verndarþurfa skjólstæðingi sínum. En Changarnier trúir á hið dularfulla vald sem borgarastéttin veitti honum 29. janúar 1849. Hann álítur sjálfan sig vera þriðja valdið, við hliðina á framkvæmdavaldinu og löggjafarvaldinu. Örlög hans eru hin sömu og annarra hetja eða öllu heldur dýrlinga þessa tímabils, sem eiga mikilleik sinn einmitt að þakka þeim dýrðarljóma sem flokkur þeirra hefur hag af að búa til í kringum þá, en verða að meðalmönnum jafnskjótt og aðstæðurnar ætlast til af þeim að þeir geri kraftaverk. Vantrúin er yfirleitt höfuðóvinur þessara tilbúnu hetja og raunverulegu dýrlinga. Af því stafar virðuleg og siðferðisleg hneykslun þeirra á hugsjónasnauðum orðhákum og háðfuglum.

Sama kvöld eru ráðherrarnir boðaðir á fund í Elyséehöll, Bónaparte heimtar að Changarnier sé vikið úr stöðu sinni, fimm ráðherrar neita að skrifa undir uppsögnina, „Moniteur" tilkynnir stjórnarkreppu og stjórnfestublöðin birta hótanir um stofnun sérstaks þjóðþingshers undir stjórn Changarniers. Samkvæmt stjórnarskránni var stjórnfestuflokknum slík herstofnun heimil. Hann þurfti aðeins að gera Changarnier að forseta þingsins, og biðja um þann herafla sem honum sýndist, sér til varnar. Flokknum var þeim mun óhættara að láta til skarar skríða sem Changarnier var enn yfirmaður hersins og þjóðvarðarins og beið eftir því ásamt öllum hernum að til hans væri leitað. Bónapartísku blöðin þorðu ekki einu sinni enn að draga í efa rétt þjóðþingsins til að krefjast aðstoðar hersins. Slíkar lögfræðilegar samvizkugrillur spáðu ekki sigri eins og nú var ástatt. Að herinn

hefði hlýðnazt skipun þjóðþingsins virðist sennilegt, þegar þess er gætt að Bónaparte varð að leita um alla París í viku áður en hann fyndi tvo hershöfðingja – Baraguay d'Hilliers og Saint-Jean d'Angély –, sem fúsir væru að skrifa undir uppsagnarbréfið til Changarniers. Hinsvegar virðist meira en vafasamt að stjórnfestuflokkurinn hefði fundið innan sinna vébanda og á þingi nægilegan fjölda atkvæða til að samþykkja þessa ákvörðun, ef haft er í huga að viku síðar sögðu 286 atkvæði skilið við hann og að Fjallið hafnaði enn svipaðri tillögu í desember 1851, þegar stund ákvörðunarinnar var runnin upp. Eigi að síður hefði búrggreifunum eftilvill ennþá á þessari stundu heppnazt að fá flokk sinn til að sýna þá hetjulund að sitja í öryggi bakvið byssustingjaskóg og þiggja þjónustu hers sem hlaupizt hafði yfir í herbúðir flokksins. Í stað þess héldu búrggreifarnir að kvöldi hins 6. janúar til Elysée-hallar, til þess að telja Bónaparte ofan af því með stjórnkænskulegum röksemdum að setja Changarnier af. Sá sem reynir að telja einhverjum hughvarf viðurkennir að hann er meirimáttar. Þetta tiltæki gerir Bónaparte hugdjarfari, hann skipar nýtt ráðuneyti 12. janúar, þar sem forustumenn hins gamla, Fould og Baroche, sitja áfram. Saint-Jean d'Angély verður hermálaráðherra, „Moniteur“ birtir úrskurðinn um uppsögn Changarniers, herstjórn hans er skipt milli Baraguay d'Hilliers, sem hlýtur fyrstu herdeildina og Perrots, sem fær þjóðvörðinn. Varnargarður þjóðfélagsins er settur af, og þó að enginn steinn falli niður af þökunum fyrir því, þá hækkar aftur á móti kauphallargengið.

Um leið og borgarastéttin hrinti hernum frá sér, sem bauð henni þjónustu sína í persónu Changarniers, og afhenti hann þannig endanlega forsetanum, gerði hún lýðum ljóst að hún hafði fyrirgert köllun inni til að stjórna. Þingleg stjórn var ekki lengur til. Þegar þar við bættist að borgarastéttin missti yfirráðin yfir her og þjóðverði, hvaða valdatæki átti hún þá eftir til að viðhalda löglausu forræði þingsins yfir þjóðinni og stjórnlagabundnu valdi sínu gagnvart forsetanum? Ekkert. Hún átti ekki annað ráð eftir en höfða til máttlausra höfuðreglna, sem hún hafði sjálf stöðugt útlagt sem almennar reglur sem settar eru öðrum til þess að maður hafi sjálfur því meira olnbogarúm. Þegar Changarnier er settur af og Bónaparte nær völdum yfir hernum, lýkur fyrsta kafla þess tímabils sem vér erum að athuga, tímabils baráttunnar milli stjórnfestuflokksins og framkvæmdavaldsins. Stríðinu milli þessara máttarvalda hefur nú verið lýst yfir opinberlega og er háð opinberlega, en það gerist ekki fyrr en eftir að stjórnfestuflokkurinn hefur misst bæði vopn sín og hermenn. Án ráðuneytis, án hers, án almenningsálits, ekki lengur fulltrúi hinnar full-

valda þjóðar eftir samþykkt kosningalaganna 31. maí, án augna, eyrna, tanna og alls annars, hafði þjóðþingið smámsaman breytzt í *fornfranskt parlament*, sem eftirlét ríkisstjórninni framkvæmdirnar, og varð sjálft að láta sér nægja önuglyndar kvartanir eftir dúk og disk.

Stjórnfestuflokkurinn tekur nýja ráðuneytinu með hamslausri reiði. Bedeau hershöfðingi minnir á mildi fastanefndarinnar áður en þingið kom saman, og þá afskaplegu nærgætni sem hún sýndi þegar hún lét ógert að gera prótókolla sína opinbera. Innanríkisráðherrann krefst þess nú sjálfur að prótókollarnir verði gefnir út, en nú eru þeir auðvitað orðnir jafn bragðlausir og fúlt vatn, leiða ekki í ljós neitt nýtt atriði, og hafa engin áhrif á almenning, sem er orðinn ýmsu vanur. Samkvæmt tillögu Rémusats, safnast þjóðþingið saman í fundarstofum sínum og skipar „varúðarráðstafananefnd". París er þeim mun stöðugri í hversdagsrás sinni sem verzlunin stendur með blóma um þessar mundir, iðnfyrirtækin hafa nóg að gera, kornverðið er lágt, enginn skortur á matvörum, sparisjóðirnir taka á hverjum degi á móti nýjum innlánum. „Varúðarráðstafanirnar", sem þingið hefur boðað með svo miklum fyrirgangi, rjúka út í veður og vind hinn 18. janúar sem vantraust á ríkisstjórnina, án þess að Changarnier hershöfðingi sé nefndur á nafn. Stjórnfestuflokkurinn neyðist til að haga vantrauststillögu sinni á þennan hátt til þess að tryggja sér atkvæði lýðveldissinna, því að afsetning Changarniers var sú eina ráðstöfun stjórnarinnar sem þeir voru samþykkir, og stjórnfestuflokkurinn getur í raun réttri ekki fundið að öðrum athöfnum stjórnarinnar, sem hann á sjálfur frumkvæði að.

Vantraustið 18. janúar var samþykkt með 415 atkvæðum gegn 286. Til þess að koma því í gegnum þingið þurfti sem sé bandalag yfirlýstra lögerfðamanna og orleanista annarsvegar og hreinna lýðveldissinna og Fjallsins hinsvegar. Það leiddi því í ljós að stjórnfestuflokkurinn hafði ekki aðeins misst ráðuneytið og herinn úr höndum sér, heldur hafði hann einnig misst sjálfstæðan þingmeirihluta sinn í skærunum við Bónaparte, að hópur þingmanna hafði hlaupizt burt úr herbúðum hans, vegna ofsatrúar á málamiðlun, vegna ótta við baráttu, vegna slappleika, vegna tillitssemi við ættmenni sín í ríkisþjónustu, vegna vonar um lausar ráðherrastöður (Odilon Barrot), vegna hinnar lágu eigingirni sem að jafnaði hvetur venjulegan borgara til að fórna heildarhagsmunum stéttar sinnar fyrir hina og þessa einkahagsmuni. Bónapartískir þingmenn áttu frá upphafi aðeins samleið með stjórnfestuflokknum í bardaganum við byltinguna. Þá þegar lagði foringi kaþólska flokksins, Montalembert, áhrifalóð sitt á vogar-

skál Bónaparte, vegna þess að hann örvænti um lífsvonir þingflokksins. Loks voru foringjar flokksins, Thiers og Berryer, orleanistinn og lögerfðamaðurinn, neyddir til að auglýsa sig sem lýðveldismenn, að viðurkenna að hjarta þeirra væri að vísu konungholIt en höfuðið lýðveldissinnað, að þingbundið lýðveldi væri eina stjórnarformið sem gerði borgarastéttinni í heild fært að stjórna. Viðreisnaráætlanir sínar, sem þeir unnu sífellt að á bakvið þingið, neyddust þeir því til að brennimerkja fyrir augum borgarastéttarinnar sem bæði hættulegt og heimskulegt ráðabrugg.

Vantraustið 18. janúar hitti ráðherrana en ekki forsetann. En það var ekki ráðuneytið sem hafði vikið Changarnier úr stöðu sinni, heldur forsetinn. Átti stjórnfestuflokkurinn þá að ákæra Bónaparte sjálfan? Fyrir viðreisnarviðleitni hans? En hún var ekki annað en viðauki við viðreisnarbrugg flokksins. Fyrir samsæri hans á hersýningunum og í 10. desember-félaginu? En stjórnfestumennirnir höfðu fyrir löngu jarðað þau mál undir einföldum dagskrártillögum. Fyrir afsetningu hetjunnar frá 29. janúar og 13. júní, mannsins sem hótaði því í maí 1850 að brenna alla Parísarborg ef uppreisn yrði gerð? Bandamenn þeirra úr Fjallflokknum og Cavaignac leyfðu þeim ekki einu sinni að reisa við hruninn varnarvegg þjóðfélagsins með opinberu samhryggðarvottorði. Sjálfir gátu þeir ekki rengt stjórnlagalegan rétt forsetans til að víkja herhöfðingja úr stöðu. Þeir fjargviðruðust aðeins út af því að hann hafði neytt stjórnlagaréttar síns á óþinglegan hátt. Höfðu þeir ekki sífellt neytt þinglegra einkaréttinda sinna í trássi við stjórnarskrána, ekki sízt þegar þeir afnámu almennan kosningarrétt? Þeir urðu því að sætta sig við að starfssvið þeirra væri nákvæmlega afmarkað af véböndum þingsins. Og þar kemur til sá einkennilegi sjúkdómur sem hefur sýkt allt meginland Evrópu eftir 1848, hinn *þinglegi fábjánaháttur*, sem kyrrsetur hina sýktu í ímyndaðri veröld, og sviptir þá öllum skilningi á hinum grófgerða heimi fyrir utan; þessum þinglega fábjánahætti var um að kenna þegar þeir, sem höfðu eyðilagt með eigin höndum öll skilyrði þinglegs valds og hlutu að eyðileggja þau í baráttunni við aðrar stéttir, – þegar þeir litu enn á þingsigra sína sem sigra og héldu sig hafa hitt forsetann þegar þeir slógu ráðherra hans. Þeir fengu honum aðeins tækifæri til að auðmýkja þjóðþingið enn einusinni fyrir augum þjóðarinnar. Hinn 20. janúar auglýsti „Moniteur“ að afsögn alls ráðuneytisins hefði verið samþykkt. Undir því yfirskini að enginn þingflokkur hefði lengur meirihluta á þingi, eins og ásannaðist með kosningunni 18. janúar, þessu afsprengi bandalagsins milli Fjallsins og konungssinna, – og meðan beðið væri eftir myndun

nýs meirihluta, – skipaði Bónaparte svokallað millibilsráðuneyti. Enginn ráðherranna sat á þingi, þeir voru algjörlega óþekktir og áhrifalausir, þetta var ráðuneyti skrifara og sendisveina. Stjórnfestuflokkurinn gat nú notað krafta sína til að glíma við þessar leikbrúður, framkvæmdavaldinu fannst ekki lengur taka því að eiga fulltrúa á þjóðþinginu sem mark væri á takandi. Bónaparte safnaði öllu framkvæmdavaldinu í sínar hendur á því ótvíræðari hátt, hann hafði því meira athafnafrelsi til að beita því í sína þágu sem ráðherrar hans urðu algerari aukapersónur.

Stjórnfestuflokkurinn í bandalagi við Fjallið hefndi sín með því að fella 1 800 000 franka framlag til forsetans, en foringi 10. desember-félagsins hafði þröngvað ráðherrum sínum til að leggja fram tillögu þess efnis. Þessu sinni réð aðeins 102 atkvæða meirihluti úrslitum, síðan 18. janúar höfðu semsé 27 atkvæði helzt úr lestinni, sundrung stjórnfestuflokksins gekk sinn gang. Til þess að enginn þyrfti að vera í efa um eðli bandalags hans við Fjallið, lét hann jafnframt hjá líða að taka einusinni til athugunar tillögu um almenna náðun pólitískra afbrotamanna, undirritaða af 189 flokksmönnum Fjallsins. Ekki þurfti annað en innanríkisráðherrann, einhver Vaissé, lýsti yfir að kyrrðin væri aðeins á yfirborðinu, undirniðri væri mikil ókyrrð, undirniðri væri allsstaðar verið að skipuleggja leynifélög, lýðræðissinnuð blöð mynduðu sig til að byrja aftur að koma út, skýrslur af landsbyggðinni væru uggvænlegar, flóttamennirnir í Genève hefðu undirbúið samsæri sem greindist frá Lyon um allt Suður-Frakkland, yfir Frakklandi vofði iðnaðar- og verzlunarkreppa, verksmiðjueigendurnir í Roubaix hefðu stytt vinnutímann, fangarnir á Belle-Isle gert uppreisn – það þurfti ekki annað en einhver Vaissé særði fram rauðu vofuna, til þess að stjórnfestuflokkurinn hafnaði umræðulaust tillögu sem hefði aflað þjóðþinginu gífurlegra vinsælda og varpað Bónaparte í faðm þess á ný. Í stað þess að láta framkvæmdavaldið hræða sig með spásögnum um ný uppþot, hefði hann fremur átt að veita stéttabaráttunni ofurlítið olnbogarúm, til þess að gera framkvæmdavaldið háð sér. En honum fannst að hann væri ekki því hlutverki vaxinn að leika sér að eldinum.

En meðan á þessu stóð tórði millibils-ráðuneytið svonefnda fram í miðjan apríl. Bónaparte þreytti og erti þjóðþingið í sífellu með nýjum uppástungum um ráðuneyti. Stundum virtist hann hafa hug á að mynda lýðveldissinnað ráðuneyti með Lamartine og Billault, stundum þingræðisstjórn með hinum óhjákvæmilega Odilon Barrot, sem aldrei má vanta ef ginningarfífls er þörf, stundum lögerfðastjórn með Vatimesnil og Benoist d'Azy, stundum orleanistastjórn með Malleville. Meðan hann viðheldur þann-

ig spennunni milli brota stjórnfestuflokksins, og hræðir þau öll með horfum á lýðveldissinnuðu ráðuneyti og endurlöggildingu almenns kosningarréttar sem hlyti að fylgja þar á eftir, sannfærir hann borgarastéttina um að einlægar tilraunir hans til að setja á stofn þingræðisstjórn steyti á ósáttfýsi hinna konungssinnuðu flokksbrota. En borgarastéttin hafði uppi því háværari kröfur um „sterka stjórn", henni fannst því ófyrirgefanlegra að láta Frakkland vera stjórnlaust, sem almenn verzlunarkreppa færðist nær að því er virtist og safnaði liði fyrir sósíalismann í borgunum eins og óbærilega lágt kornverðið gerði í sveitunum. Verzlunin dróst upp, og atvinnuleysingjum fjölgaði daglega, í París voru að minnsta kosti 10 000 verkamenn brauðlausir, í Rouen Mulhouse, Lyon, Roubaix, Tourcoing, Saint-Étienne, Elbeuf og víðar höfðu fjölmargar verksmiðjur stöðvazt. Í þessum kringumstæðum var Bónaparte óhætt hinn 11. apríl að endurreisa ráðuneytið frá 18. janúar. Þar sátu Rouher, Fould, Baroche o. s. frv., auknir afli Léons Fauchers, þess manns sem stjórnlagaþingið hafði vítt einróma – að undanteknum fimm ráðherraatkvæðum – á síðustu fundum sínum með vantraustsyfirlýsingu vegna þess að hann hafði dreift fölsuðum fréttaskeytum. Þjóðþingið hafði þá sigrað ráðuneytið hinn 18. janúar, það hafði barizt við Bónaparte í þrjá mánuði, til þess eins að Fould og Baroche gætu bætt púrítananum Faucher sem þriðja manni í ráðherrabandalag sitt hinn 11. apríl.

Í nóvember 1849 hafði Bónaparte gert sig ánægðan með *óþinglegt* ráðuneyti, í janúar 1851 með *utanþingsstjórn*. Hinn 11. apríl áleit hann sig hafa bolmagn til að setja á stofn ráðuneyti sem var *andvígt* þinginu, og sameinaði í fagurri einingu vantraustsyfirlýsingar beggja þinga, stjórnlagaþingsins og löggjafarþingsins, lýðveldissinna og konungssinna. Þessi ráðuneytastigi var sá hitamælir sem þingið gat notað til að mæla lækkandi líkamshita sinn. Hann var orðinn svo lágur í aprílllok, að Persigny gat farið á fund Changarniers og hvatt hann til að ganga í lið með forsetanum. Bónaparte, sagði hann, liti svo á að þjóðþingið sé orðið gersamlega áhrifalaust, og yfirlýsingin sé þegar tilbúin sem birta eigi eftir stjórnlagarofið, sem sé stöðugt í undirbúningi, en hafi af tilviljun verið skotið á frest enn um sinn. Changarnier flutti foringjum stjórnfestuflokksins andlátsauglýsinguna, en hver trúir því að lúsarbit sé banvænt? Og þingið, þó að það lægi lágt og væri sundrað og rotið, gat ekki fengið af sér að álíta einvígið við hinn hjákátlega foringja 10. desember-félagsins annað en einvígi við lús. En Bónaparte svaraði stjórnfestuflokknum á sama hátt og Agesilas svaraði Agis konungi: „Þér sýnist að ég sé maur, en sá dagur kemur að ég verð ljón."

## VI

Þegar stjórnfestuflokkurinn neyddist til að stofna til bandalags með Fjallinu og hreinum lýðveldissinnum í gagnslausri baráttu sinni fyrir að halda yfirráðum yfir hervaldinu og ná aftur forræði framkvæmdavaldsins í sínar hendur, þá sannaði það að hann hafði misst sjálfstæðan þingmeirihluta sinn. Vald almanaksins eitt saman, klukkuvísirinn, gaf hinn 28. maí merki um gjörsamlega eyðingu hans. Hinn 28. maí hófst síðasta ár þjóðþingsins. Það varð nú að ákveða hvort stjórnarskráin skyldi gilda óbreytt áfram, eða vera tekin til endurskoðunar. En endurskoðun stjórnarskrárinnar þýddi ekki aðeins val milli forræðis borgarastéttarinnar og lýðveldissinnaðra smáborgara, milli lýðræðis og öreigastjórnleysis, milli þingræðislegs lýðveldis og Bónaparte, heldur jafnframt val milli Orléans og Bourbona! Þannig féll Eriseplið niður í mitt þingið, svo að hagsmunastríðið sem skipti stjórnfestuflokknum í andstæðar fylkingar, hlaut að blossa upp fyrir allra augum. Stjórnfestuflokkurinn var blanda óskyldra þjóðfélagslegra efna. Endurskoðunarmálið framkallaði pólitískan hita sem sundraði efnablöndunni aftur í frumparta sína.

Áhugi bónapartista á endurskoðuninni var ósköp einfaldur. Þeim var framar öllu öðru umhugað að afnema 45. grein, sem hindraði endurkjör Bónaparte og framlengingu valds hans. Afstaða lýðveldissinna virtist ekki síður einföld. Þeir höfnuðu skilyrðislaust hverskonar endurskoðun, og litu á hana sem almennt samsæri gegn lýðveldinu. Þar eð þeir réðu yfir *meira en fjórðungi atkvæða* á þjóðþinginu, en samkvæmt stjórnarskránni þurfti þrjá fjórðu atkvæða til að ákveða endurskoðunina á lögmætan hátt og kalla saman endurskoðunarþing, þurftu þeir ekki annað en telja atkvæði sín til að vera vissir um sigur. Og þeir voru vissir um sigur.

Gagnvart ótvíræðri afstöðu þessara tveggja flokka var stjórnfestuflokkurinn flæktur í óleysanlegar mótsagnir. Ef hann hafnaði endurskoðuninni stofnaði hann status quo í hættu, því að þá eftirléti hann Bónaparte engan annan útveg en ofbeldið, þá ofurseldi hann Frakkland byltingu og stjórnleysi á örlagastundinni, annan sunnudag maímánaðar 1852, með forseta sem mundi missa vald sitt, með þjóðþingi sem var löngu búið að missa það, og með þjóð sem hugðist leggja það aftur undir sig. Kysi hann endurskoðun stjórnarskrárinnar, vissi hann að hann kastaði atkvæðum sínum á glæ og hlyti að bíða ósigur samkvæmt stjórnarskránni fyrir neitunarvaldi lýðveldissinna. Ef hann úrskurðaði í trássi við stjórnarskrána að einfaldur meirihluti atkvæða nægði,

þá gat hann því aðeins vænzt þess að halda byltingunni í skefjum, að hann játaðist skilyrðislaust undir yfirráð framkvæmdavaldsins, en þá gerði hann Bónaparte að hæstráðanda yfir stjórnarskránni, endurskoðuninni og sjálfum sér. Takmörkuð endurskoðun, sem framlengdi vald forsetans, ruddi keisaralegu valdráni braut. Almenn endurskoðun, sem stytti líf lýðveldisins, hlaut að valda árekstrum milli konungsættanna, því að forsendur Bourbona-viðreisnar og Orléans-viðreisnar voru ekki aðeins ólíkar, heldur voru þær ósamrýmanlegar sín á milli.

Hið *þingræðislega lýðveldi* var annað og meira en sá hlutlausi vettvangur, þar sem báðar deildir frönsku borgarastéttarinnar, lögerfðamenn og orleanistar, stórjarðeign og iðnaður, gætu búið í jafnrétti hlið við hlið. Það var nauðsynlegt skilyrði *sameiginlegrar* drottnunar þeirra, eina ríkisformið sem leyfði almennum hagsmunum borgarastéttarinnar bæði að hafa hemil á kröfum þessara sérstöku deilda, og á öllum öðrum stéttum þjóðfélagsins. Sem konungssinnar urðu borgararnir hinni gömlu andstæðu sinni að bráð, baráttunni um forréttindi jarðeignar eða peninga, og æðsta tjáning þessarar andstæðu, persónugerving hennar, var fólgin í sjálfum konungum þeirra, konungsættum þeirra. Af því stafaði tregða stjórnfestuflokksins að kalla Bourbona heim aftur.

Orleanistinn og þjóðfulltrúinn Creton hafði með reglulegu millibili, 1849, 1850 og 1851, borið fram tillögu um að fella úr gildi úrskurðinn um útlegð konungsfjölskyldnanna. Á þingi gat að líta, einnig með reglulegu millibili, sjónarspil konungssinna-samkundu, sem ósveigjanleg lokaði fyrir útlægum konungum sínum dyrunum sem þeir gætu komið inn um á heimleið. Ríkarður III. hafði myrt Hinrik VI. með þeim ummælum að hann væri of góður fyrir þennan heim og ætti heima í himnaríki. Þeir töldu að Frakkland væri of slæmt til að fá að eignast konunga sína á ný. Nauðung aðstæðnanna hafði gert þá að lýðveldissinnum, og þeir löghelguðu æ ofan í æ ákvörðun þjóðarinnar um að gera konunga þeirra útlæga úr Frakklandi.

Endurskoðun stjórnarskrárinnar – og kringumstæðurnar neyddu menn til að sinna því máli – stofnaði í tvísýnu bæði lýðveldinu og sameiginlegri drottnun beggja deilda borgaranna, og vakti aftur bæði vonir einveldisins og streitu þeirra hagsmuna sem það hafði verndað til skiptis, orustuna um forræði annarrar deildarinnar fyrir hinni. Diplómatar stjórnfestuflokksins héldu að þeir gætu sett niður deiluna með því að *bræða saman* báðar konungsættirnar og konungsflokkana. Raunveruleg sambræðsla viðreisnarinnar og júlíeinveldisins var hið þingræðislega lýðveldi, þar sem litir lögerfðamanna og orleanista höfðu skolazt til, og mismunandi tegundir borgara breytzt í borgarann í almennum

skilningi, í borgarategundina. En nú átti orleanistinn að gerast lögerfðamaður og lögerfðamaðurinn orleanisti. Konungdæmið, sem var persónugerving andstæðna þeirra, átti nú að verða líkamning einingar þeirra, tákn sérstakra hagsmuna þeirra átti að verða að tákni sameiginlegra stéttarhagsmuna þeirra, einveldið átti að koma því til leiðar sem aðeins afnám tveggja einvelda í lýðveldinu gat komið til leiðar og hafði komið til leiðar. Þetta var vísdómssteinninn sem doktorar stjórnfestuflokksins urðu að brjóta heilann um hvernig framleiða skyldi. Rétt eins og lögerfðaeinveldið gæti nokkurntíma orðið einveldi iðnaðarborga, eða borgarakonungdæmið gæti nokkurntíma orðið konungdæmi hins arfgenga jarðeignaaðals. Rétt eins og jarðeign og iðnaður gætu svarizt í fóstbræðralag undir *einni* krúnu, þegar krúnan hlaut annaðhvort að falla á höfuð eldra bróðurins eða hins yngra. Rétt eins og iðnaðurinn gæti yfirleitt sætzt við jarðeignina, meðan jarðeigendastéttin tæki ekki þá ákvörðun að gerast iðnaðarstétt. Ef Hinrik V. dæi á morgun, mundi greifinn af París ekki verða konungur lögerfðamanna fyrir því, nema þá hann hætti að vera konungur orleanista. En heimspekingar sambræðslunnar, sem höfðu sig því meira í frammi sem endurskoðunarmálið varð brýnna, og höfðu stofnað opinbert dagblað sitt, „l'Assemblée Nationale", og sitja jafnvel enn við sinn keip á þessari stundu (febrúar 1852), þeir skýrðu fyrir sér alla erfiðleikana sem afleiðingar af andstöðu og keppni konungsættanna tveggja. Tilraunir til að koma á sættum milli Orléans-ættarinnar og Hinriks V., sem voru hafnar eftir andlát Lúðvíks Filippusar, en höfðu eins og önnur konungssinna-ráðabrugg aðeins verið settar á svið í þinghléunum, í leikhléunum, bakvið tjöldin, og voru fremur angurvært daður við gamla hjátrú en alvarlegar athafnir, þær urðu nú ríkismálefni, og voru framdar af stjórnfestuflokknum á hinu opinbera leiksviði, þó að hingaðtil hefðu þær orðið að notast við frístundaleiksvið. Sendimenn þeystu frá París til Feneyja, frá Feneyjum til Claremont, frá Claremont til Parísar. Greifinn af Chambord gefur út ávarp, þar sem hann boðar, ekki viðreisn sjálfs sín, heldur „viðreisn þjóðarinnar", „með hjálp allrar fjölskyldu sinnar". Orleanistinn Salvandy kastar sér fyrir fætur Hinriks V. Foringjar lögerfðamanna Berryer, Benoist d'Azy, Saint-Priest fara til Claremont til að telja um fyrir Orléans-ættinni, en það ber engan árangur. Sambræðslumennirnir sáu of seint að hagsmunir borgaradeildanna beggja láta ekki af sérdrægni sinni né aukast að undanlátssemi þegar þeir eru yddaðir í formi fjölskylduhagsmuna eða hagsmuna tveggja konungsætta. Þó að Hinrik V. viðurkenndi greifann af París sem eftirmann – það var eini árangurinn sem vænta mátti af sambræðslunni, ef vel gengi

–, þá fengi Orléansættin ekki viðurkennd nein þau réttindi sem barnleysi Hinriks V. hefði ekki hvort sem er tryggt henni, en hún afsalaði sér öllum réttindum sem hún hafði áunnið sér í júlíbyltingunni. Hún afsalaði sér frumkröfum sínum, öllum nafnbótum sem hún hafði náð af eldri grein Bourbonaættarinnar í nærri aldarlöngu stríði, hún lét af hendi söguleg réttindi sín, réttindi nútímakonungdæmisins, og fékk í staðinn réttindi ættarmeiðsins. Sambræðslan var því ekkert annað en sjálfviljug afsögn Orléansættarinnar, uppgjöf hennar fyrir lögerfingjunum, iðrunarfull heimkoma mótmælendakirkju ríkisins í skaut hinnar katólsku. Heimkoma, sem í þokkabót flutti hana ekki upp í hásætið sem hún hafði glatað, heldur að fótskör hásætisins, þar sem hún var fædd. Hinir gömlu orleanísku ráðherrar Guizot, Duchâtel o. s. frv., sem einnig skunduðu til Claremont til að tala máli sambræðslunnar túlkuðu í rauninni aðeins timburmenn júlíbyltingarinnar, vantrúna á borgarakonungdæmið og konungstign borgaranna, hjátrúna á lögerfðirnar sem síðasta verndargripinn gegn stjórnleysinu. Þeir ímynduðu sér að þeir væru málamiðlarar milli Orléans og Bourbon, en í raun voru þeir aðeins fráfallnir orleanistar og prinsinn af Joinville tók á móti þeim sem slíkum. En hinn þróttmikli og herskái hluti orleanista, Thiers, Baze o. fl., sannfærði fjölskyldu Lúðvíks Filippusar auðveldlega um það, að krókalaus viðreisn konungdæmisins krefðist sambræðslu beggja konungsætta, þá útheimti slík sambræðsla afsögn Orléans-ættarinnar, en hinsvegar væri það fullkomlega í samræmi við hátterni forfeðra hennar að viðurkenna lýðveldið í bili og bíða þess að aðstæðurnar gerðu fært að breyta forsetastólnum í hásæti. Látið var berast út að framboð Joinvilles væri væntanlegt, forvitni manna var haldið vakandi, og nokkrum mánuðum síðar, eftir að endurskoðun stjórnarskrárinnar hafði verið hafnað, í september, var það opinberlega auglýst.

Tilraunin til að koma í kring konungssinnaðri sambræðslu orleanista og lögerfðamanna hafði ekki aðeins mistekizt, heldur hafði hún sundrað bandalagi þeirra á þingi, lýðveldislegri samstöðu þeirra, og leyst stjórnfestuflokkinn sundur í frumparta sína enn einusinni; en því meir sem sundur dró með Claremont og Feneyjum, og samkomulag þeirra var nær því að rofna og Joinville-áróðurinn efldist – þeim mun ákafari og alvarlegri urðu samningarnir milli Fauchers, ráðherra Bónaparte, og lögerfðamanna.

Stjórnfestuflokkurinn sundraðist ekki aðeins í hina tvo upphaflegu hluta. Hvor aðaldeildin um sig klofnaði aftur í ný brot. Það var engu líkara en allar þær gömlu pólitísku skoðanir sem höfðu fyrrum átzt við innan hvors hóps, orleanista og lögerfðamanna,

birtust nú á ný, líkt og uppþornuð skólpdýr sem komast aftur í snertingu við vatn, og að þær hefðu öðlazt nógu mikinn lífskraft til þess að mynda sérstaka hópa og sjálfstæðar mótsagnir. Lögerfðamennina dreymdi um þá gömlu tíma þegar Tuilerie-höll átti í erjum við Pavillon de Marsan og Villèle við Polignac.[1] Orleanistarnir endurlifðu gullöld átakanna milli Guizots, Molé, Broglie, Thiers og Odilons Barrots.

Sá hluti stjórnfestuflokksins sem var hlynntur endurskoðun, þó að hann væri ekki einhuga í öðrum málum, lögerfðamenn, annarsvegar undir forustu Berryers og Falloux, hinsvegar undir stjórn Larochejaquelein, og stríðsþreyttir orleanistar sem lutu stjórn Molé, Broglie, Montalemberts og Odilons Barrots, – þessi hluti bar fram ásamt bónapartískum þingmönnum svolátandi óákveðna og ruglingslega tillögu: „Undirritaðir þingmenn, í þeim tilgangi að skila þjóðinni aftur fullum umráðum yfir fullveldinu, leggja til að stjórnarskráin verði endurskoðuð.“ Jafnframt lýstu þeir yfir því fyrir munn talsmanns síns Tocqueville, að þjóðþingið hefði ekki rétt til að stinga upp á að *lýðveldið yrði afnumið,* endurskoðunarþingið hafi einkarétt á því. Auk þess sé aðeins hægt að endurskoða stjórnarskrána á *„löglegan“* hátt, það er að segja aðeins ef þrír fjórðu atkvæða samþykki endurskoðun. Eftir sex daga stormasamar umræður var endurskoðunin felld eins og við var að búast. 446 atkvæði voru meðmælt, 278 andvíg endurskoðun. Eindregnir orleanistar eins og Thiers, Changarnier o. fl. kusu með lýðveldissinnum og Fjallinu.

Meirihluti þingsins lýsti þannig yfir andstöðu sinni við stjórnarskrána, en sjálf stjórnarskráin var samþykk minnihlutanum og taldi ákvörðun hans hafa lagaígildi. Hafði þá stjórnfestuflokkurinn ekki hinn 31. maí 1850 og 13. júní 1849 veitt ákvörðunum meirihlutans vald yfir greinum stjórnarskrárinnar? Var ekki öll pólitík hans hingaðtil byggð á því að greinar stjórnarskrárinnar skyldu lúta ákvörðunum meirihlutans. Hafði hann ekki eftirlátið lýðræðissinnum gamlatestamentislega hjátrúna á lagabókstafinn og látið þá gjalda þeirrar hjátrúar? Á þessari stundu þýddi endurskoðun stjórnarskrárinnar ekkert annað en framlengingu forsetavaldsins, og áframhald stjórnarskrárinnar þýddi ekkert annað en brottvikning Bónaparte. Þingið hafði lýst velþóknun sinni á honum, en stjórnarskráin lýsti yfir andstöðu sinni við þingið. Það var því í anda þingsins að hann reif í sundur stjórnarskrána, og það var í anda stjórnarskrárinnar að hann sundraði þinginu.

Þingið hafði gert stjórnarskrána og þar með drottnun sjálfs sín

[1] Átt er við deilur milli Lúðvíks XVIII., sem var til húsa í Tuilerie-höll, og greifans af Artois (síðar Karls X.), sem bjó í Pavillon de Marsan.

„útlaga meirihlutans", það hafði afnumið stjórnarskrána með ákvörðun sinni og framlengt vald forsetans, og jafnframt hafði það lýst yfir að forsetavaldið gæti ekki dáið og stjórnarskráin ekki lifað, meðan það sjálft lifði. Grafararnir sem áttu að jarða það voru þegar við dyrnar. Meðan það var að ræða endurskoðunina, svipti Bónaparte Baraguay d'Hilliers hershöfðingja, sem var tvíátta, stjórn fyrstu herdeildarinnar og setti í hans stað Magnan hershöfðingja, sigurvegarann frá Lyon, einn af skjólstæðingum sínum, sem hafði þegar í stjórnartíð Lúðvíks Filippusar lagt mannorð sitt í hættu hans vegna um það leyti sem Boulogneleiðangurinn var á döfinni.

Stjórnfestuflokkurinn sannaði með ákvörðun sinni um stjórnarskrána, að hann kunni hvorki að drottna né þjóna, hvorki að lifa né deyja, hvorki að umbera lýðveldið né uppræta það, hvorki að viðhalda stjórnarskránni né leggja hana fyrir róða, hvorki að starfa með forsetanum né rjúfa samstarfið við hann. Af hverjum vænti hann þá lausnar allra mótsagna? Af almanakinu, af rás viðburðanna. Hann gafst upp við að hrifsa til sín valdið yfir atburðunum. Hann bauð þannig atburðunum að beita sig ofbeldi, og þar með egndi hann á móti sér það vald sem hann hafði afhent allar einkunnir stjórnvaldsins í baráttu sinni við fólkið, þar til hann stóð uppi gjörsamlega valdalaus. Og til þess að foringi framkvæmdavaldsins gæti undirbúið stríðsáætlun sína því óáreittari, eflt sóknartæki sín, valið verkfæri sín, styrkt vígstöðu sína, ákvað hann á þessari hættustund að stíga ofan af sviðinu og fresta þingi um þrjá mánuði, frá 10. ágúst til 4. nóvember.

Þingflokkurinn var ekki aðeins skiptur í tvær aðaldeildir sínar, hvor þessara deilda bjó ekki aðeins við innbyrðissundrungu, heldur var komið upp missætti milli stjórnfestuflokksins á þingi og stjórnfestuflokksins utan þings. Hinir skriftlærðu talsmenn borgarastéttarinnar, ræðumenn hennar og blaðahöfundar, í stuttu máli kenningasmiðir borgarastéttarinnar og borgarastéttin sjálf, umboðsmennirnir og umbjóðendur þeirra, þekktu ekki hvorir aðra og voru hættir að skilja hvorir aðra.

Lögerfðamenn á landsbyggðinni, með takmarkaðan sjóndeildarhring og ótakmarkaðan eldmóð, ákærðu foringja sína á þingi, Berryer og Falloux, fyrir að hafa flúið yfir í herbúðir Bónaparte og svikið Hinrik V. Liljugreind þeirra trúði á syndafallið en ekki á samningalistina.

Stórum örlaga- og afdrifaríkari var skilnaður verzlunarborgaranna og stjórnmálaleiðtoga þeirra. Verzlunarstéttin bar þeim ekki á brýn hið sama og lögerfðamenn sínum forustumönnum, að hafa brugðizt stefnumálunum, heldur hið gagnstæða, að ríghalda í stefnumál sem voru orðin einskisnýt.

Ég hef þegar vikið að því að eftir að Fould varð ráðherra hafði sá hluti verzlunarborgaranna sem mest bar úr býtum í stjórnartíð Lúðvíks Filippusar, þ. e. fésýsluaðallinn, gerzt bónapartískur. Fould var ekki aðeins umboðsmaður Bónaparte í kauphöllinni, heldur var hann umboðsmaður kauphallarinnar hjá Bónaparte. Stöðu fésýsluaðalsins er hnyttilegast lýst í Evrópumálgagni hans Lundúnablaðinu „The Economist". 1. febrúar 1851 er því skrifað frá París: „Nú höfum vér fengið staðfest úr öllum áttum að Frakkland vill umfram allt ró. Forsetinn lýsir yfir því í bréfi sínu til löggjafarþingsins, það hljómar sem bergmál frá ræðustóli þjóðþingsins, það er endurtekið í blöðunum, það er boðað úr prédikunarstólum, *sönnun þess birtist í viðkvæmni ríkisskuldabréfanna fyrir minnsta votti ókyrrðar, og í stöðugleika þeirra hvenær sem framkvæmdavaldið vinnur sigur.*"

Í blaðinu 29. nóvember 1851 lýsir *„Economist"* yfir í eigin nafni: *„Í öllum kauphöllum Evrópu er nú litið á forsetann sem vörð stjórnfestunnar".* Fésýsluaðallinn dæmdi semsé þingorustu stjórnfestuflokksins við framkvæmdavaldið sem árás á stjórnfestuna, og hann fagnaði hverjum sigri forsetans á fulltrúum sjálfs sín sem svo áttu að heita, sem sigri stjórnfestunnar. Það er ekki rétt að álykta að til fésýsluaðalsins teljist eingöngu meiriháttar lánveitendur og braskarar með ríkisskuldabréf, en um þá er auðskiljanlegt að hagsmunir þeirra eru hinir sömu og ríkisvaldsins. Öll peningasýsla nútímans, öll bankastarfsemi er mjög háð lánstrausti ríkisins. Hluti af fjármagni lánastofnana er óhjákvæmilega lagður í útgengileg ríkisskuldabréf. Sparifé þeirra, fjármagnið sem þeim er trúað fyrir, og fjármagnið sem þeir skipta á milli kaupmanna og iðnrekenda er að nokkru leyti orðið til úr vöxtum þeim sem ríkið greiðir lánardrottnum sínum. Ef stöðugleiki ríkisvaldsins hefur frá aldaöðli verið peningamarkaðinum og prestum hans hið heilaga orð, þá er við því að búast að svo sé enn, þegar hvert syndaflóð stofnar ekki aðeins hinum gömlu ríkjum í hættu heldur einnig hinum gömlu ríkisskuldum.

Einnig iðnaðarborgurunum grömdust í stjórnfestuofstæki sínu deilur stjórnfestuflokksins á þingi við framkvæmdavaldið. Eftir kosninguna á þingi 18. janúar út af uppsögn Changarniers voru Thiers, Anglas, Sainte-Beuve o. fl. opinberlega víttir af umbjóðendum sínum í iðnaðarhéruðunum, og bandalag þeirra við Fjallið sér í lagi stimplað sem þjóðsvik við stjórnfestuna. Þó að hinar mannalegu ögranir og smáskitlegt undirferlið sem voru helztu baráttuaðferðir stjórnfestuflokksins gegn forsetanum, hafi eins og vér höfum þegar séð ekki átt betri viðtökur skilið, þá átti þessi borgaraflokkur, sem fer þess á leit við fulltrúa sína að þeir taki hervaldið úr höndum síns eigin þings og afhendi það glæfralegum

arfaprinsi, ekki einu sinni skilið það undirferlisbrugg sem framið hafði verið í hans þágu. Hann gerði skírt að baráttan fyrir *opinberum* hagsmunum hans, fyrir *stéttarhagsmunum* hans, fyrir *pólitísku valdi* hans, var honum aðeins til ama og óþæginda og truflaði einkaviðskipti hans.

Borgaralegir nefndarmenn í fylkisborgunum, sveitarstjórnir, verzlunardómarar, o. s. frv. tóku allsstaðar, nærri undantekningarlaust, á móti Bónaparte með mestu undirgefni þegar hann var á yfirreið sinni, jafnvel þó að hann réðist opinskátt á þjóðþingið og stjórnfestuflokkinn, eins og hann gerði í Dijon.

Þegar verzlunin gekk vel, eins og enn var í byrjun árs 1851, formælti verzlunarborgarastéttin sérhverri orustu á þingi, því að hún vildi ekki láta spilla fyrir verzluninni. Þegar verzlunin gekk illa eins og verið hafði síðan í febrúarlok 1851, kenndi hún baráttunni á þingi um stöðnunina, og krafðist þess að bundinn yrði endi á hana, til þess að verzlunin lifnaði aftur við. Umræðurnar um endurskoðunina bar einmitt upp á þessa erfiðu tíma. Þar sem hér var um að ræða líf eða dauða núverandi ríkisforms, fannst borgarastéttinni að hún hefði því meiri rétt til að krefjast þess að fulltrúar hennar byndu enda á þetta kveljandi bráðabirgðaástand og héldu jafnframt óbreyttu ástandi. Þetta var engin mótsögn. Að binda enda á bráðabirgðaástandið var að hennar dómi sama og að halda því óbreyttu, það var sama sem að skjóta stund ákvörðunarinnar á frest inn í bláma fjarlægðarinnar. Aðeins tvær aðferðir var hægt að nota til að halda ástandinu óbreyttu. Framlenging á valdi Bónaparte, eða stjórnlagaleg brottför hans og kosning Cavaignacs. Hluti af borgarastéttinni var hlynntur síðari aðferðinni, og átti ekki betra ráð handa fulltrúum sínum en að þegja, láta hið brýna úrlausnarefni afskiptalaust. Þegðu fulltrúar þeirra, héldu þeir að Bónaparte mundi ekki aðhafast neitt. Þeir óskuðu sér strútaþings sem feldi höfuð sitt, svo að það sæist ekki sjálft. Annar hluti borgarastéttarinnar vildi að Bónaparte sæti áfram á forsetastólnum, úr því hann var einusinni kominn þangað, til þess að allt væri áfram í gamla farinu. Þessum hluta gramdist að þingið skyldi ekki opinskátt brjóta stjórnarskrána og segja af sér umsvifalaust.

Fylkjaráðin, þessi fulltrúaþing stórborgarastéttarinnar á landsbyggðinni, sem settust á rökstóla 25. ágúst meðan þjóðþingið var í sumarfríi, lýstu nærri einróma fylgi við endurskoðunina, eða með öðrum orðum andstöðu sinni við þingið og samstöðu með Bónaparte.

Þó að borgarastéttin leyndi því ekki að slitnað hefði uppúr með henni og þingfulltrúum hennar, lét hún æði sitt gegn bókmenntalegum fulltrúum sínum, gegn blaðaútgáfu sjálfrar sín í

ljós á enn ótvíræðari hátt. Borgaralegir kviðdómar kváðu upp níðþunga sektardóma og blygðunarlausa tukthúsdóma fyrir sérhverja ákúru sem borgaralegir blaðamenn veittu valdránstilburðum Bónaparte, fyrir sérhverja tilraun blaðanna til að verja pólitísk réttindi borgarastéttarinnar gegn framkvæmdavaldinu, og þessir dómar vöktu ekki aðeins furðu í Frakklandi, heldur í allri Evrópu.

Ef *stjórnfestuflokkurinn á þingi* hafði, eins og ég hef sýnt, dæmt sjálfan sig til rósemi með rósemisópum sínum, ef hann hafði gert lýðum ljóst að pólitísk drottnun borgarastéttarinnar væri ósamrýmanleg öryggi og lífi borgarastéttarinnar, um leið og hann eyðilagði með eigin hendi allar forsendur stjórnarfars síns, hins þingbundna stjórnarfars, í baráttunni við aðrar stéttir þjóðþingsins, þá hvatti hinsvegar allur fjöldi *borgarastéttarinnar utan þings,* – með þrælslund sinni gagnvart forsetanum, með svívirðingum sínum í garð þingsins, með ruddalegum aðferðum við sína eigin blaðaútgáfu, – Bónaparte til að undiroka og uppræta formælendur sína í ræðu og riti, stjórnmálamenn sína og skriffinna, ræðustóla sína og dagblöð, til þess að borgarastéttin gæti full trúnaðartrausts sinnt einkaviðskiptum sínum undir vernd sterkrar alveldisstjórnar. Borgarastéttin gerði lýðum ljóst að hún þráði að losna við pólitískt vald sjálfrar sín, til þess að losna við erfiði og hættur valdsins.

Og hún, sem áður hafði reiðzt baráttunni á þingi og á prenti fyrir valdi sjálfrar sín og brugðizt leiðtogum þessarar baráttu, hún dirfist nú að ákæra öreigana eftirá fyrir að hafa ekki risið upp og barizt fyrir hana í blóðugri orustu upp á líf og dauða. Hún, sem ævinlega fórnaði almennum stéttarhagsmunum sínum, þ. e. pólitískum hagsmunum sínum, fyrir þrengstu og auvirðilegustu einkahagsmuni sína, og krafðist þess af fulltrúum sínum að þeir færðu sömu fórn, hún kveinar nú að öreigarnir hafi fórnað hinum hreinu pólitísku hagsmunum hennar fyrir efnislega hagsmuni sjálfra sín. Hún hegðar sér eins og fögur sál sem öreigarnir afvegaleiddir af sósíalistum hafi vanmetið og yfirgefið á úrslitastundinni. Og hinn borgaralegi heimur tekur undir í einum kór. Ég er auðvitað ekki að tala um þýzka hreppapólitíkusa og tilfinningaþrjóta. Ég vísa til dæmis á þann sama „Economist" sem 29. nóvember 1851, eða fjórum dögum fyrir stjórnlagarofið, hafði lýst Bónaparte sem „verði stjórnfestunnar", og Thiers og Berryer sem „anarkistum", en 27. desember 1851 eftir að Bónaparte hafði þaggað niður í þessum anarkistum, rekur hann þegar upp ramakvein yfir þeim svikum sem „fáfróðar, óuppdregnar, heimskar öreigafylkingar hefðu framið gegn kunnáttu, þekkingu, aga, andlegu áhrifavaldi, gáfnaforða, og siðferðilegum burðum

meðallags- og æðri stétta þjóðfélagsins". Hinar heimsku fáfróðu og grófgerðu fylkingar voru fylkingar borgaranna sjálfra.

Frakkland hafði reyndar átt að stríða við nokkurskonar smáverzlunarkreppu árið 1851. Í lok febrúar kom í ljós að útflutningurinn var minni en árið áður, í marz átti verzlunin í þrengingum og verksmiðjum var lokað, í apríl virtist ástandið í iðnaðarfylkjunum vera jafn vonleysislegt og eftir febrúarbyltinguna, í maí var viðskiptalífið ekki enn farið að rétta við, enn 28. júní sýndi gífurlegur vöxtur innlána og álíka mikil lækkun víxlalána í Frakklandsbanka að framleiðslan stóð í stað, og það var ekki fyrr en um miðjan október að smámsaman tók að lifna aftur yfir viðskiptunum. Franska borgarastéttin leitaði að skýringu þessarar verzlunarkreppu í eintómum pólitískum ástæðum, í baráttunni milli þingsins og framkvæmdavaldsins, í öryggisleysi ríkisforms sem var aðeins til bráðabirgða, í þeim hræðilegu atburðum sem í vændum voru annan sunnudag maímánaðar 1852. Ég vil ekki neita því að allar þessar kringumstæður hafi þrengt að nokkrum iðngreinum í París og á landsbyggðinni. En þessi áhrif hinna pólitísku aðstæðna voru allavega aðeins staðbundin og óveruleg. Er þörf annarra sannana en þeirra að verzluninni tók að batna einmitt á þeirri stundu þegar pólitíska ástandinu hrakaði, ský dró upp á hinn pólitíska himin, og eldingu gat lostið niður úr Elysium á hverri stundu, um miðjan október? Hinn franski borgari, sem sér ekki lengra nefi sínu með „kunnáttu sinni, þekkingu, andlegum skilningi og gáfnaforða sínum", gat annars allan þann tíma sem iðnsýningin stóð í London rekið nefið í orsakir eymdarástandsins í verzlun sinni. Í Frakklandi var verksmiðjum lokað, en í Englandi urðu verzlunarfyrirtæki gjaldþrota. Skelfingin í iðnaðinum komst á hástig í Frakklandi í apríl og maí, en skelfingin í verzluninni komst á hástig í apríl og maí í Englandi. Ullar- og silkiiðnaðurinn átti við örðugleika að stríða bæði í Frakklandi og Englandi. Þó að ensku bómullarvinnustofurnar störfuðu áfram, var ágóðinn af þeim ekki jafnmikill og á árunum 1849 og 1850. Eini munurinn var sá að í Frakklandi átti kreppan rætur í iðnaðinum en í Englandi í verzluninni, að verksmiðjurnar stönzuðu í Frakklandi en juku umsvif sín í Englandi, þó að þær ættu að búa við erfiðari hag en árin á undan, að í Frakklandi varð útflutningurinn verst úti en í Englandi innflutningurinn. Hin sameiginlega orsök sem auðvitað var ekki að leita innan landamæra franskra stjórnmála, var augljós. Árin 1849 og 1850 voru ár mikillar efnahagslegrar grósku og offramleiðslu, sem ekki fór að hafa áhrif fyrr en árið 1851. Þessi offramleiðsla jókst enn í byrjun árs 1851 vegna iðnsýningarinnar sem í vændum var. Þar við bættust sérstakar aðstæður: fyrst skert bómullaruppskera 1850 og

1851, þá vissar horfur á meiri bómullarframleiðslu en búizt hafði verið við, fyrst verðhækkun, síðan skyndileg verðlækkun, með öðrum orðum sveiflur á bómullarverðinu. Hrásilkiframleiðslan náði ekki meðallagi að minnsta kosti ekki í Frakklandi. Ullariðjan hafði aukizt svo mjög síðan 1848, að ullarframleiðslan gat ekki haldið til jafns við hana, og verð á óunninni ull var í miklu ósamræmi við verð á fullunnum ullarvörum. Hér er þá þegar í hráefnaframleiðslu þriggja iðngreina heimsmarkaðsins þreföld ástæða verzlunarstöðnunar. Að þessum sérstöku ástæðum slepptum, var kreppan sem virtist ríkja árið 1851 ekkert annað en sú stöðvun á hringrás iðnaðarins sem ofvöxtur í framleiðslu og gróðabralli veldur, áður en þessi starfsemi neytir allra sinna krafta til að leggja síðasta spöl hringrásarinnar að baki með æðisgengnum hraða og kemst aftur að upphafspunktinum, hinni *almennu verzlunarkreppu.* Í þvílíkum hléum verzlunarsögunnar skella á verzlunargjaldþrot í Englandi, en í Frakklandi stöðvast iðnaðarframleiðslan sjálf, að nokkru leyti fyrir þá sök að hún er þvinguð til undanhalds á öllum mörkuðum af samkeppni Englendinga sem hún getur ekki staðizt, að nokkru leyti vegna þess að sem framleiðandi munaðarvöru verður hún fyrst fyrir barðinu á hverskonar stöðnun í viðskiptum. Auk hinnar almennu kreppu á Frakkland þannig við að stríða sínar sérstöku þjóðlegu verzlunarkreppur, sem ákvarðast þó og orsakast miklu fremur af almennu ástandi heimsmarkaðsins en af staðbundnum frönskum áhrifum. Það er ekki öldungis einskisvert að bera saman fordóma hins franska borgara og dóm hins enska borgara. Eitt af stærstu fyrirtækjum Liverpool-borgar skrifar í ársreikningum sínum fyrir árið 1851: „Fá ár hafa svo mjög brugðizt þeim vonum er menn gerðu sér um þau í byrjun þeirra sem árið sem nú er nýliðið; í stað þeirrar miklu velgengni sem menn bjuggust einróma við, reyndist það eitthvert mesta vonsvikaár síðasta aldarfjórðungs. Þetta á auðvitað aðeins við verzlunarstéttirnar en ekki iðnaðarstéttirnar. Og þó var mönnum vissulega vorkunn að draga þveröfugar ályktanir; birgðir voru litlar, peningamagn meira en nóg, matvara ódýr, ríkuleg uppskera var í vændum; óslitinn friður á meginlandinu og engin ókyrrð í stjórnmálum eða fjármálum heimafyrir: í rauninni höfðu vængir verzlunarinnar aldrei verið frjálsari. ... Hverju er þessi óhagstæði árangur að kenna? Vér álítum að kenna megi um *ofverzlun,* bæði í innflutningi og útflutningi. Ef kaupmenn vorir gæta ekki sjálfir meira hófs í framkvæmdum sínum, getur ekkert haldið okkur á réttri braut nema skelfing á þriggja ára fresti."

Menn setji sér nú fyrir sjónir hinn franska borgara, hversu verzlunarsjúkur heili hans hlýtur að hafa verið kvalinn og ærður

í allri þessari viðskiptaskelfingu af lausafregnum um stjórnlagarof og lögleiðslu almenns kosningarréttar, af baráttunni milli þings og framkvæmdavalds, af fronde-stríði orleanista og lögerfðamanna, af kommúnistískum samsærum í Suður-Frakklandi, af bændauppreisnum sem áttu að vera á döfinni í Nièvre- og Cher-fylkjum, af auglýsingum hinna og þessara forsetaefna, af hástemmdum vígorðum blaðanna, af hótunum lýðveldissinna að verja með vopnum stjórnarskrá og almennan kosningarrétt, af fagnaðarerindi útlægra hetja sem boðuðu heimsendi annan sunnudag í maímánuði, – og þá hljóta menn að skilja að í þessari ótrúlegu og háværu ringulreið sambræðslu, endurskoðunar, framlengingar, stjórnarskrár, samsæris, samfylkingar, útlegðar, valdráns og byltingar ákallar borgarinn viti sínu fjær sitt þingbundna lýðveldi: „Fremur endalok með ógnum en endalausar ógnir!“

Bónaparte skildi þetta ákall. Skilningsgáfa hans hafði skerpzt að sama skapi og ofsi lánardrottnanna jókst, sem við sérhvert sólarlag sem nálægði gjalddagann, annan sunnudag maímánaðar 1852, lásu í hreyfingum stjarnanna afsögn sinna jarðnesku víxla. Þeir voru orðnir útlærðir stjörnuspekingar. Þjóðþingið hafði svipt Bónaparte voninni um stjórnlagalega framlengingu valds hans, framboð prinsins af Joinville heimilaði honum ekki að hika lengur.

Ef nokkur atburður hefur nokkurntíma varpað skugga sínum á undan sér löngu áður en hann gerðist, þá var það stjórnlagarof Bónaparte. Hinn 29. janúar 1849, tæpum mánuði eftir að hann var kjörinn forseti, hafði hann stungið upp á því við Changarnier. Sjálfur forsætisráðherra hans Odilon Barrot hafði í hálfkveðnum orðum ljóstað upp um valdránspólitíkina sumarið 1849, og Thiers hafði gert það án allrar tæpitungu veturinn 1850. Í maí 1851 hafði Persigny enn einusinni reynt að vinna Changarnier á band stjórnlagarofsins, „Le Messager de l'Assemblée“[1] hafði frætt lesendur sína um þær samningaumleitanir. Bónapartísku blöðin hótuðu valdráni hvenær sem skarst í odda með þinginu og forsetanum, og því nær sem dró úrslitunum, því háværari urðu þau. Í svallveizlum þeim sem Bónaparte efndi til hverja nótt fyrir swell mob af báðum kynjum var ævinlega, þegar dró nær miðnætti og ríkulegar veigar höfðu losað um tunguhaft manna og æst ímyndun þeirra, tekin ákvörðun um að fremja valdránið daginn eftir. Sverð voru dregin úr slíðrum, glösum klingt, þingmennirnir forðuðu sér út um gluggana, keisarakápan féll á herðar Bónaparte, unz morgunsárið stökkti burt reimleikunum, og Parísarborg frétti furðulostin eftir altillegum vestumeyjum og laus-

[1] Dagblað, andvígt Bónaparte, sem kom út í París 1851.

málgum hirðmönnum, hvaða hætta hefði enn einusinni vikið frá dyrum hennar. Í september og október gengu sögusagnir um valdrán ljósum logum. Skugginn tók á sig liti eins og marglitt daguerrotyp. Ekki þarf annað en fletta evrópskum dagblöðum í september og október til að rekast á svohljóðandi fréttir:

„París er full af lausafregnum um stjórnlagarof. Sagt er að höfuðborgin verði fyllt af hersveitum að næturlagi, og morguninn eftir verði gefnar út tilskipanir um þingrof, umsátursástand í Seine-fylki, löggildingu almenns kosningarréttar, og áskorun til þjóðarinnar. Bónaparte er sagður leita að ráðherrum til að framkvæma þessar ólöglegu tilskipanir."

Fréttabréfin sem flytja þessar fregnir enda alltaf á hinu örlagaríka orði: *„Frestað"*. Stjórnlagarofið var sí og æ fastagrilla Bónaparte. Með þessa grillu hafði hann stigið aftur á franska jörð. Hún hafði þvílíkt vald yfir honum að hann kom sífellt upp um hana með blaðri sínu. Hann var svo máttvana að hann gaf hana einnig sífellt upp á bátinn. Skuggi stjórnlagarofsins var orðinn Parísingum svo kunnugleg vofa, að þeir vildu ekki leggja trúnað á hana þegar hún birtist í holdi og blóði. Það var því hvorki þögul hlédrægni forustumanns 10. desemberfélagsins, né óvænt áhlaup á þjóðþingið sem gerði að verkum að stjórnlagarofið heppnaðist. Það heppnaðist þrátt fyrir lausmælgi hans, og enda þótt þingið vissi það fyrir; það var nauðsynleg og óhjákvæmileg afleiðing þeirrar þróunar sem á undan var gengin.

Hinn 10. október skýrði Bónaparte ráðherrum sínum frá þeirri ákvörðun sinni að leiða almennan kosningarrétt í lög á ný, hinn 16. sögðu þeir af sér, hinn 26. fréttu Parísarbúar um myndun Thorigny-ráðuneytisins. Lögreglustjórinn Carlier var leystur af hólmi af Maupas, foringi fyrstu herdeildarinnar, Magnan, dró saman áreiðanlegustu herflokkana í höfuðborginni. Hinn 4. nóv. kom þjóðþingið aftur saman. Það átti ekki eftir annað en að endurtaka eins og á stuttri og liðugri æfingu þann feril sem það átti þegar að baki, og færa sönnur á að það var dáið áður en það var jarðað.

Fyrsta vígið sem það hafði misst í baráttunni við framkvæmdavaldið var ráðuneytið. Það varð að viðurkenna formlega þennan missi með því að taka Thorigny-ráðuneytinu í alvöru, þó að það væri aðeins sýndarráðuneyti. Fastanefndin hafði hlegið upp í opið geðið á herra Giraud þegar hann kom á fund hennar í nafni ráðherranna. Hversu veikt ráðuneyti til að leiða til lykta jafn þýðingarmikið mál sem löggildingu almenns kosningarréttar! En mest var einmitt um það vert að gera ekkert *í* þinginu heldur allt *í trássi við* það.

Ekki var þingið fyrr komið saman en því var birt bréf Bóna-

parte, þar sem hann krafðist endurlöggildingar almenns kosningarréttar og niðurfellingar laganna frá 31. maí 1850. Ráðherrar hans lögðu sama dag fram tilskipun þessa efnis. Þingið felldi strax tillögu um að hraða málinu, og tilskipunina sjálfa felldi það hinn 13. nóvember með 355 atkvæðum gegn 348. Þannig reif það enn einusinni í sundur umboð sitt, það staðfesti enn einusinni að það væri ekki lengur frjálskjörið fulltrúaþing þjóðarinnar heldur valdníðsluþing einnar stéttar, það viðurkenndi enn einusinni að það hefði sjálft skorið í sundur sinarnar sem tengdu hið þinglega höfuð við líkama þjóðarinnar.

Með tillögu sinni um löggildingu almenns kosningarréttar áfrýjaði framkvæmdavaldið deilu sinni við þjóðþingið til þjóðarinnar, en með questoratillögu sinni áfrýjaði löggjafarvaldið deilumáli sínu og þjóðarinnar til hersins. Þessi questoratillaga átti að lögfesta rétt þess til að taka í sínar hendur bein yfirráð yfir hernum, og mynda þingher. Þegar þingið kvaddi þannig herinn til að skera úr deilunni milli sín og fólksins, milli sín og Bónaparte, þegar það viðurkenndi herinn sem úrskurðarvald, varð það á hinn bóginn að viðurkenna að það hafði fyrir löngu afsalað sér öllu tilkalli til forræðis fyrir hernum. Þegar það ræddi um rétt sinn til að kalla út herinn í stað þess að kalla hann út umsvifalaust, kom það upp um efasemdir sínar um vald sjálfs sín. Þegar það felldi questoratillöguna viðurkenndi það opinberlega vanmátt sinn. Þessi tillaga féll með 108 atkvæða minnihluta, Fjallið réð úrslitum. Það var eins og asninn hans Búridans, að vísu ekki á milli tveggja heypoka sem það varð að velja á milli, heldur þurfti það að velja um tvö keyri, og meta hvort þeirra væri harðara. Öðrumegin var óttinn við Changarnier, hinumegin óttinn við Bónaparte. Það verður að játa að þessi afstaða átti ekkert skylt við hetjuskap.

Hinn 18. nóvember var borin upp sú breytingatillaga við frumvarpið um sveitastjórnarkosningar sem stjórnfestuflokkurinn hafði lagt fram, að í stað þriggja ára skyldi eins árs búfesta nægja fyrir kjósendur. Breytingatillagan féll á einu atkvæði, en það kom strax í ljós að þetta eina atkvæði stafaði af misskilningi. Stjórnfestuflokkurinn hafði fyrir löngu glatað sjálfstæðum þingmeirihluta sínum vegna sundrungar í fjandsamleg brot. Nú sýndi hann að enginn meirihluti var lengur til á þingi. Þjóðþingið var þess *ekki lengur megnugt að taka ákvarðanir.* Smáagnir þess loddu ekki lengur saman, það hafði sóað lífsanda sínum, það var dautt.

Loks átti borgarastéttin utan þings enn einusinni eftir að staðfesta hátíðlega skilnað sinn og borgarastéttarinnar á þingi fáeinum dögum fyrir endalokin. Sem þingkempa var Thiers sérstaklega illa haldinn af hinum ólæknanlega þinglega fábjánaskap.

Eftir lát þingsins hafði hann byrjað nýtt þinglegt ráðabrugg með ríkisráðinu, sem var fólgið í ábyrgðarlögum sem áttu að loka forsetann inni í girðingu stjórnarskrárinnar. Á sama hátt og Bónaparte hafði 15. september, þegar lagður var hornsteinninn að nýju markaðsskálunum í París, töfrað eins og nýr Masaniello[1] les dames des Halles, fisksölukonurnar – áreiðanlega var ein fisksölukona jafnoki sautján búrggreifa að burðum –, á sama hátt og hann hafði vakið hrifningu liðsforingjanna sem hann hafði í veizlu sinni eftir að questoratillagan var borin upp, þannig hreif hann nú 25. nóvember iðnaðarborgarana, sem safnazt höfðu saman í hringleikahúsinu til að þiggja úr hendi hans verðlaunapeninga fyrir Lundúnasýninguna. Ég birti hér þýðingarmesta hluta ræðu hans eftir „le Journal des Débats“: „Eftir þennan óvænta árangur hef ég rétt til að endurtaka einusinni enn, hversu franska lýðveldið væri voldugt, ef það fengi að sinna raunverulegum hagsmunum sínum og endurbæta stjórnarhætti sína, í stað þess að eiga sífellt að etja við ókyrrð sem annarsvegar er vakin af lýðskrumurum, hinsvegar af konungssinnuðum tálsýnum. (Hávær hrifningar- og fagnaðarlæti um allt hringleikahúsið.) Konungssinnaðar tálsýnir hindra allar framfarir og alla umtalsverða þróun í iðnaðinum. Í stað framfara höfum vér aðeins baráttu. Vér sjáum menn, sem áður fyrr voru áköfustu stuðningsmenn konungsvalds og konungsréttinda, en eru nú orðnir talsmenn konventu, í þeim eina tilgangi að veikja það vald sem er sprottið af hinum almenna kosningarrétti. (Klappað lengi af mikilli hrifningu.) Vér sjáum menn sem byltingin hefur valdið mestum þjáningum og mest hafa kvartað undan henni, stofna til nýrrar byltingar til þess eins að hlekkja vilja þjóðarinnar ... Ég heiti yður friði á ókomnum tímum, o. s. frv., o. s. frv. (Bravó, bravó, allt ætlar um koll að keyra.)“ – Þannig klappa iðnaðarborgararnir þjónustusamlegast fyrir stjórnlagarofinu 3. desember, eyðingu þingsins, endalokum valds síns, einræði Bónaparte. Fagnaðardrunununum 25. nóvember var svarað með fallbyssudrunununum 2. desember, og hús herra Sallandrouze, sem hæst klappaði, varð fyrir flestum sprengjum.

Þegar Cromwell sundraði langa parlamentinu, fór hann einn til þinghússins, tók upp úrið sitt, til þess að þingið lifði ekki einni mínútu lengur en því var fyrirsett, og rak sérhvern þingmann út með kátlegum hæðnisyrðum. Napóleon var minni en fyrirmynd hans, en að minnsta kosti ómakaði hann sig á fund löggjafarþingsins 18. brumaire, og las yfir því dauðadóminn, að

[1] Stytting á nafni Tomaso Aniello (1623–1647), sem var fiskimaður í Napóli. Hann var foringi uppreisnar gegn Spánverjum, og hófst sú uppreisn á markaðinum þar sem hann seldi ávexti.

vísu hálfkæfðri rödd. Bónaparte annar, sem réð reyndar yfir allt annarskonar framkvæmdavaldi en bæði Cromwell og Napóleon, leitaði ekki að fyrirmynd sinni í annálum veraldarsögunnar, heldur í annálum 10. desember-félagsins, í annálum sakamálanna. Hann rænir Frakklandsbanka 25 milljónum franka, kaupir Magnan hershöfðingja fyrir eina milljón, hermennina í stykkjatali fyrir fimmtán franka og brennivínsstaup, hefur leynifund með kumpánum sínum um nótt eins og þjófur, lætur taka hús á hættulegustu þingforingjunum og draga Cavaignac, Lamoricière, Le Flô, Changarnier, Charras, Thiers, Baze o. fl. fram úr rúmunum, skipar herflokkum á helztu torg Parísar og í þinghúsið, og snemma morguns lætur hann festa skrumauglýsingar á alla veggi Parísar, þar sem kunngert er þingrof og afsetning ríkisráðsins, lögleiðing almenns kosningarréttar og umsátursástand í Seine-fylki. Einnig lætur hann litlu síðar birta falsað skjal í „Le Moniteur", en samkvæmt því eiga áhrifamiklir þingmenn að hafa myndað ríkisráð með honum.

Leifar þingsins, aðallega lögerfðamenn og orleanistar, setja fund í stjórnaraðsetri 10. borgarhverfis, og samþykkja eftir að hafa hrópað margsinnis: „lifi lýðveldið" að setja Bónaparte af. Þeir ávarpa til einskis gagns gónandi mannfjöldann fyrir framan bygginguna, og eru loks dregnir í fylgd afríkanskra byssuliða, fyrst í Orsay-herbúðir, síðan stungið í fangavagna og fluttir í fangelsin í Mazas, Ham og Vincennes. Þannig endaði stjórnfestuflokkurinn, löggjafarþingið og febrúarbyltingin. Áður en vér komum að niðurlaginu, skulum vér snöggvast líta á aðaldrætti sögu þeirra:

I. *Fyrsta tímabil.* Frá 1. febrúar til 4. maí 1848. Febrúartímabilið. Inngangur. Almennt bræðralagsgabb.

II. *Annað tímabil.* Stofnunartímabil lýðveldisins og stjórnlagaþingsins.

1. 4. maí til 25. júní 1848. Barátta allra stétta gegn öreigunum. Ósigur öreiganna í júní.
2. 25. júní til 10. desember 1848. Alræði hreinna borgaralýðveldismanna. Uppkast stjórnarskrárinnar. Umsátursástandi lýst yfir í París. Alræði borgaranna lýkur 10. desember með kjöri Bónaparte til forseta.
3. 20. desember 1848 til 28. maí 1849. Barátta stjórnlagaþingsins við Bónaparte og við stjórnfestuflokkinn sem styður hann. Endalok stjórnlagaþingsins. Ósigur lýðveldissinnaðra borgara.

III. *Þriðja tímabil.* Tímabil *þingbundins lýðveldis* og *löggjafarþingsins.*

1. 28. maí 1849 til 13. júní 1849. Barátta smáborgara við borgarastéttina og Bónaparte. Ósigur smáborgaralegra lýðræðissinna.
2. 13. júní 1849 til 31. maí 1850. Þingeinræði stjórnfestuflokksins. Treystir forræði sitt með því að afnema almennan kosningarrétt, missir aftur á móti þingræðisstjórnina.
3. 31. maí 1850 til 2. desember 1851. Barátta milli borgarastéttar á þingi og Bónaparte.
   a) 31. maí 1850 til 12. janúar 1851. Þingið glatar yfirráðunum yfir hernum.
   b) 12. janúar til 11. apríl 1851. Tilraunir þess til að ná aftur taki á stjórnvaldinu misheppnast. Stjórnfestuflokkurinn glatar sjálfstæðum þingmeirihluta sínum. Bandalag hans við lýðveldissinna og Fjallið.
   c) 11. apríl til 9. október 1851. Endurskoðunar-, sambræðslu-, framlengingartilraunir. Stjórnfestuflokkurinn sundrast í frumparta. Slitnar upp úr fyrir fullt og allt með borgaraþinginu og borgarablöðunum annarsvegar og öllum þorra borgarastéttarinnar hinsvegar.
   d) 9. október til 2. desember 1851. Skilnaðurinn milli þingsins og framkvæmdavaldsins verður opinber. Þingið undirritar dánarvottorð sitt og gefst upp, yfirgefið af stétt sinni, hernum og öllum öðrum stéttum. Endalok þingræðisstjórnarinnar og drottnunar borgaranna. Sigur Bónaparte. Keisaraleg endurreisn skopstæld.

## VII

*Félagslega lýðveldið* birtist sem orðaglamur, sem spásögn, á þröskuldi febrúarbyltingarinnar. Á júnídögunum 1848 var því drekkt í blóði Parísaröreiganna, en afturganga þess er á sveimi í næstu þáttum harmleiksins. Stofnun *lýðræðislega lýðveldisins* er lýst yfir. Það fuðrar upp 13. júní 1849 ásamt brotthlaupnum smáborgurum sínum, en á flóttanum fleygir það aftur fyrir sig grobbauglýsingum í tvöfaldri stærð. *Þingbundna lýðveldið* ásamt borgarastéttinni leggur undir sig allt sviðið, það nýtur lífsins í allri sinni víðáttu, en annar desember 1851 grefur það undir skelfingarópi sameinaðra konungssinna: „Lifi lýðveldið"!

Franska borgarastéttin reis upp gegn valdi vinnandi öreigalýðs, en vísaði öreigaskrílnum veginn til valda, með foringja 10. desember-félagsins fremst í fylkingu. Borgarastéttin innblés

Frakklandi ógnarhræðslu við hryðjuverk hins rauða stjórnleysis sem framtíðin bæri í skauti sér; Bónaparte færði henni þessa framtíð undireins, þegar hann lét 4. desember ölhreifan her laga og reglu skjóta niður úr gluggum sínum hina virðulegu borgara við Boulevard Montmartre og Boulevard des Italiens. Hún gerði korðann að helgigrip; korðinn drottnar yfir henni. Hún upprætti byltingarsinnuð dagblöð; dagblöð hennar hafa verið upprætt. Hún setti alþýðusamkomur undir lögreglueftirlit; samkvæmissalir hennar eru undir eftirliti lögreglunnar. Hún leysti upp hinn lýðræðislega þjóðvörð; þjóðvörður hennar sjálfrar var leystur upp. Hún lýsti yfir umsátursástandi; sjálf hefur hún verið lýst í umsátursástand. Hún lét hernefndir koma í stað kviðdómanna; hernefndir hafa leyst af hólmi kviðdóma hennar. Hún fékk alþýðufræðsluna í hendur prestunum; og nú hefur hennar uppfræðsla verið fengin prestunum í hendur. Hún hafði flutt menn í útlegð án dóms; og nú er hún flutt í útlegð án dóms. Hún fjötraði hverja hreyfingu þjóðfélagsins í krafti ríkisvaldsins; sérhver hreyfing hennar samfélags er fjötruð af ríkisvaldinu. Vegna ástar sinnar á buddunni gerði hún uppreisn gegn stjórnmálamönnum og skriffinnum sjálfrar sín; stjórnmálamönnum hennar og skriffinnum hefur verið vikið úr vegi, en buddu hennar hefur verið rænt eftir að búið var að stinga kefli í munn hennar og brjóta fjöður hennar. Borgarastéttin hrópaði án afláts til byltingarinnar eins og heilagur Arsenius til hinna kristnu: „Fuge, tace, quiesce! Flýðu, þegiðu, hafðu hægt um þig!“ Bónaparte hrópar til borgarastéttarinnar: „Fuge, tace, quiesce! Flýðu, þegiðu, hafðu hægt um þig!“

Franska borgarastéttin hafði fyrir löngu leyst klípu Bónaparte: „Dans cinquante ans, l'Europe sera républicaine ou cosaque.“[1] Lausn hennar var „la république cosaque“.[2] Engin Kirka hefur breytt með svartagaldri listaverki hins borgaralega lýðveldis í ófreskju. Þetta lýðveldi hefur ekkert misst nema yfirskin virðuleikans. Það Frakkland sem nú er var fullskapað í hinu þingbundna lýðveldi. Það þurfti ekki annað en sverðshögg til að blaðran spryngi og ófreskjan birtist fyrir allra augum.

Hversvegna reis ekki öreigastétt Parísar upp eftir 2. desember? Enn hafði aðeins verið gefinn út úrskurður um fall borgarastéttarinnar, en úrskurðinum hafði ekki enn verið framfylgt. Ef öreigarnir hefðu risið upp í alvöru, hefði borgarastéttin óðara lifnað við aftur, sætzt við herinn og útvegað verkamönnunum nýjan júnísigur.

Hinn 4. desember hvöttu borgarar og smákaupmenn öreigana

[1] „Eftir fimmtíu ár verður Evrópa annaðhvort lýðveldi eða kósakkaveldi.“
[2] „Kósakkalýðveldi“.

til að berjast. Að kvöldi þess dags hétu nokkrir flokkar þjóðvarðarins því að ganga á orustuvöllinn með vopnum sínum og einkennismerkjum. Borgarar og smákaupmenn höfðu semsé veitt því athygli að Bónaparte hafði afnumið leynilegar kosningar í einni tilskipun sinni 2. desember, og skipað þeim að skrifa já og nei fyrir aftan nafn sitt í opinberum kjörskrám. Viðnámið 4. desember skaut Bónaparte skelk í bringu. Um nóttina lét hann festa upp auglýsingar á öllum götuhornum Parísar, sem kunngerðu að leynilegar kosningar hefðu aftur verið lögleiddar. Borgarar og smákaupmenn töldu sig hafa náð markmiði sínu. Það voru borgarar og smákaupmenn sem hvergi létu sjá sig næsta morgun.

Með óvæntri árás sinni aðfaranótt 2. desember hafði Bónaparte svipt öreigastétt Parísar leiðtogum sínum, götuvirkjaforingjunum. Hún var sem foringjalaus her, og minningarnar um júní 1848 og 1849 gerðu hana frábitna því að berjast undir gunnfána Fjallsins. Hún lét því framverði sínum, leynifélögunum, eftir að bjarga uppreisnaræru Parísar, sem borgarastéttin ofurseldi soldátaskrílnum eftir svo slælega vörn, að Bónaparte gat síðar afvopnað þjóðvörðinn með þeirri hæðnislegu röksemdarfærslu, að hann óttaðist að anarkistarnir kynnu að misnota vopn hans gegn honum sjálfum!

*„C'est le triomphe complet et définitif du socialisme!“*[1] Þannig lýsti Guizot öðrum desember. En þó að fall hins þingbundna lýðveldis hafi í sér fólgið sigurfrjó öreigabyltingarinnar, þá er fyrsti áþreifanlegi árangur þess *sigur Bónaparte á þinginu, framkvæmdavaldsins á löggjafarvaldinu, ófágaðs ofbeldis á fáguðu ofbeldi.* Í þinginu gerði þjóðin almennan vilja sinn að lögum, þ. e. a. s. hún gerði lög valdstéttarinnar að almennum vilja sínum. Andspænis framkvæmdavaldinu afsalar hún sér vilja sínum og beygir sig fyrir valdboði annarslegs vilja, vilja yfirvaldsins. Andstætt löggjafarvaldinu táknar framkvæmdavaldið ytristjórn (heteronomie) þjóðar, andstætt sjálfsstjórn (autonomie) hennar. Frakkland virðist því hafa losnað undan stéttarharðstjórn til þess eins að beygja sig fyrir harðstjórn einstaklings, lúta myndugleika ómyndugs einstaklings. Baráttan virðist enda með því að allar stéttir krjúpa jafn-óburðugar og jafn-hljóðar fyrir byssuskeftunum.

En byltingin skilur ekki við neitt hálfkarað. Hún er enn á leiðinni gegnum hreinsunareldinn. Hún rækir hlutverk sitt af alúð. Hún hafði lokið fyrri helmingi undirbúnings síns 2. desember 1851; nú er hún tekin til við síðari helminginn. Fyrst kom hún fullkominni skipun á vald þingsins, til þess að geta steypt því. Nú hefur hún aflokið þessu, og þá kemur hún fullkominni skipun

[1] Þetta er fullkominn og endanlegur sigur sósíalismans.

á *framkvæmdavaldið*, smækkar það í sína hreinustu mynd, einangrar það, setur það fyrir framan sig sem einu ávirðingu sína, til þess að geta einbeitt öllu eyðingarafli sínu gegn því. Og þegar hún hefur lokið þessum síðari helmingi undirbúnings síns, mun Evrópa stökkva á fætur og hrópa í fögnuði: Vel grafið, gamla moldvarpa!

Þetta framkvæmdavald, með feiknlegum skrifstofu- og hernaðarstofnunum sínum, með margbrotinni og tilbúinni ríkisvél sinni, embættismannaher hálfrar milljónar manna, og her upp á hálfa aðra milljón, þessi ógnarlegi sníkjulíkami, sem lykur eins og nethimna um líkama franska þjóðfélagsins, og stíflar allar svitaholur þess, varð til á öld einveldisins, við hnignun lénsveldisins, og flýtti fyrir falli þess. Einkaréttindi landsdrottna og borga breyttust í jafnmargar einkunnir ríkisvaldsins, virðingarmenn lénsveldisins í launaða embættismenn, og hið skræpótta landabréf andstæðra miðaldasmáríkja breyttist í reglubundinn uppdrátt ríkisvalds sem starfaði eins og deildaskipt verksmiðja undir einni stjórn. Fyrsta franska byltingin sem var fengið það hlutverk að uppræta allt sjálfstætt vald staða, landsvæða, borga og landshluta, og koma þar með á borgaralegri einingu þjóðarinnar, varð að færa í fullkomnara horf það sem einveldið hafði byrjað: bæði miðstjórnina og víðáttu, einkunnir og tæki stjórnvaldsins. Napóleon rak smiðshöggið á þessa ríkisvél. Lögerfðaeinveldið og júlíeinveldið bættu þar engu við, nema aukinni verkaskiptingu, sem óx að sama skapi og verkaskiptingin í borgaralegu félagi myndaði nýja hagsmunahópa, sem aftur fengu stjórnvöldum ný verkefni. Allir *sameiginlegir* hagsmunir voru jafnóðum losaðir frá þjóðfélaginu, gerðir að andstæðu þess sem æðri, *almennir* hagsmunir, hrifsaðir af atorkusemi þjóðfélagsborgaranna og gerðir að verkefni ríkisstjórnarinnar, allt frá brúarsmíði, skólabyggingu og félagseign hins minnsta þorps, til járnbrauta, þjóðeigna og ríkisháskóla Frakklands. Hið þingbundna lýðveldi neyddist loks til þess í baráttu sinni gegn byltingunni að styrkja með kúgunarráðstöfunum sínum tæki og miðmögnun ríkisvaldsins. Allar byltingar betrumbættu þessa vél í stað þess að brjóta hana. Flokkarnir, sem glímdu til skiptis um valdið, litu á yfirráð þessarar ógnarstóru ríkisbyggingar sem dýrmætasta herfang sigurvegarans.

En í einveldinu, í fyrstu byltingunni, í stjórnartíð Napóleons var skrifstofubáknið aðeins tæki til að undirbúa stéttardrottnun borgarastéttarinnar. Á viðreisnartímanum, í tíð Lúðvíks Filippusar, á valdatíma hins þingbundna lýðveldis, var það tæki hinnar ríkjandi stéttar, hversu mjög sem það kappkostaði að verða sjálfs sín ráðandi.

Það er ekki fyrr en með valdatöku Bónaparte annars að ríkisvaldið virðist hafa öðlazt fullkomið sjálfstæði. Ríkisvélin hefur styrkzt svo mjög andspænis hinu borgaralega félagi, að henni nægir að hafa að stýrimanni foringja 10. desember-félagsins, lukkuriddara úr útlöndum, sem hefur verið hafinn á skjöld af drukknum soldátaskríl sem hann hefur keypt með brennivíni og bjúgum, og heldur áfram að traktera á því góðgæti. Af þessu sprettur hugleysið og örvæntingin, tilfinning skelfilegrar auðmýkingar og lítilsvirðingar, sem leggst á brjóst Frakklands og gerir því örðugt um andardráttinn. Því finnst það hafi verið svívirt.

Og þó leikur ríkisvaldið ekki í lausu lofti. Bónaparte er fulltrúi einnar stéttar, raunar fjölmennustu stéttar franska þjóðfélagsins, *smábændanna.*

Svo sem Bourbonar eru konungsætt stórjarðeignanna, svo sem Orléans er konungsætt peninganna, svo eru og Bónapartarnir konungsætt bændanna, þ. e. meginþorra frönsku þjóðarinnar. Ekki sá Bónaparte sem laut borgaraþinginu, heldur hinn sem sundraði borgaraþinginu er átrúnaðargoð bændanna. Í þrjú ár hafði borgurunum tekizt að falsa þýðingu kosninganna 10. desember og svíkja bændurna um endurreisn keisaradæmisins. Kosningunum 10. desember 1848 var fyrst framfylgt með stjórnlagarofinu 2. desember 1851.

Smábændurnir eru geysifjölmenn stétt; þeir búa allir við sömu kjör en eru ekki tengdir hver öðrum með margvíslegum böndum. Framleiðsluaðferðir þeirra einangra þá hvern frá öðrum, en stuðla ekki að gagnkvæmum samskiptum þeirra. Einangrunin eykst vegna hinna slæmu samgangna í Frakklandi og fátæktar bændanna. Framleiðslusvið þeirra, smábýlið, leyfir þeim enga verkaskiptingu, enga nytjun vísinda, þar af leiðandi enga fjölbreytni í þróun, enga tilbreytni hæfileikanna, enga auðlegð félagslegra afstæðna. Sérhver bændafjölskylda er nærri því sjálfri sér nóg, framleiðir sjálf án milliliða mestan hluta þess sem hún neytir og aflar sér því lífsviðurværis fremur með viðskiptum við náttúruna en með viðskiptum við samfélagið. Smábýlin, bóndinn og fjölskyldan; þar hjá annað smábýli, annar bóndi og önnur fjölskylda. Nokkrir tugir þeirra mynda þorp, og nokkrir tugir þorpa mynda fylki. Þannig er mestur hluti frönsku þjóðarinnar myndaður af einfaldri samlagningu samnefndra stærða rétt eins og ein pokafylli af kartöflum myndar kartöflupoka. Ef litið er á það, að milljónir fjölskyldna lifa við efnahagsleg kjör, sem greina lífshætti þeirra, hagsmuni þeirra og menntun frá öðrum stéttum og gera þær óvinveittar öðrum stéttum, þá mynda þær stétt. Ef litið er á það að ekkert nema staðarleg tengsl bindur smábændurna saman, einhæfni hagsmunanna skapar ekki með þeim neitt

samfélag, landssamband eða pólitísk samtök, þá mynda þeir enga stétt. Þeir hafa því engin tök á því að verja stéttarhagsmuni sína í nafni sjálfra sín, hvorki með tilstuðlan þjóðþings né stéttarsamkomu. Þeir geta ekki verið fulltrúar sjálfra sín, heldur verða aðrir að vera fulltrúar þeirra. Fulltrúi þeirra verður jafnframt að koma fram sem herra þeirra og yfivald, sem ótakmarkað ríkisvald, er verndar þá fyrir öðrum stéttum, og sendir þeim vætu og þurrk af himnum ofan. Pólitísk áhrif smábændanna öðlast því sína fullkomnustu tjáningu í undirgefni þjóðfélagsins við framkvæmdavaldið.

Söguleg hefð hefur gefið frönskum bændum þá kraftaverkatrú að maður að nafni Napóleon muni færa þeim aftur alla dýrð þessa heims. Og til var sá sem var fús að látast vera þessi maður, af því að hann hét Napóleon, samkvæmt Napóleonslögbók, sem kveður svo á: La recherche de la paternité est interdite.[1] Eftir tuttugu ára flæking og runu fáránlegra ævintýra, verður þjóðsagan að veruleika, og þessi maður verður keisari Frakka. Fastagrilla bróðursonarins varð veruleiki vegna þess að fjölmennasta stétt Frakklands átti sér sömu fastagrillu.

En nú munu menn andmæla mér og benda á bændauppreisnir í helmingi Frakklands, herleiðangra á hendur bændum, fangelsun og útlegð bænda.

Síðan á dögum Lúðvíks XIV. hefur Frakkland ekki kynnzt öðrum eins ofsóknum gegn bændum „fyrir lýðæsingar".

En vér skulum fara gætilega. Bónaparte-ættin er ekki fulltrúi hins byltingarsinnaða, heldur hins íhaldssama bónda, ekki bóndans sem leitar út fyrir félagsleg lífsskilyrði sín, smábýlið, heldur bóndans sem vill festa þau og treysta; ekki þess bændafólks sem vill umbylta hinni gömlu skipan með sjálfs sín afli í samvinnu við borgirnar, heldur þess bændafólks sem er rótfast í þessari gömlu skipan og vill láta draug keisaradæmisins bjarga sér og ívilna sér og smábýli sínu. Bónaparte-ættin er ekki fulltrúi bænda-upplýsingar heldur bændahjátrúar, ekki dómgreindar bændanna heldur dómgirni, ekki framtíðar þeirra, heldur fortíðar þeirra, ekki Cévennes-héraðs nútímans, heldur Vendée-héraðs nútímans.[2]

Þriggja ára harðstjórn hins þingbundna lýðveldis hafði losað nokkurn hluta franskra bænda við blekkingartrúna á Napóleon, og gert hann byltingarsinnaðan, þó aðeins á yfirborðinu; en borgarastéttin hrakti þá til baka með harðneskju, hvenær sem þeir hugsuðu sér til hreyfings. Í hinu þingbundna lýðveldi glímdi nú-

[1] Bannað er að grenslast eftir faðerni.

[2] Í Cévennes gerðu bændur í upphafi 18. aldar uppreisn gegn lénsdrottnum sínum; Vendée-fylki var eitt helzta vígi gagnbyltingarinnar á síðustu árum 18. aldar.

tímavitund franskra bænda við erfðavitund þeirra. Glíman tók á sig form sífelldrar baráttu milli barnakennaranna og prestanna. Borgarastéttin gerði kennarana óvíga. Í fyrsta sinni í sögunni reyndu bændurnir að halda sjálfstæði sínu gagnvart tiltektum ríkisvaldsins, eins og í ljós kom í áframhaldandi árekstrum sveitastjóranna við fylkisstjórana. Borgarastéttin vék sveitastjórunum frá. Loks gerðist það á ýmsum stöðum meðan þingbundna lýðveldið stóð, að bændurnir risu upp gegn sínu eigin afkvæmi, hernum. Borgarastéttin refsaði þeim með umsátursástandi og aftökum. Og sú sama borgarastétt æpir nú um heimsku lýðsins, la stupidité de la vile multitude, sem hafi svikið hana í hendur Bónaparte. Sjálf hefur hún með ofríki sínu eflt keisaradýrkun bændastéttarinnar, það er hún sem hefur ríghaldið í þær aðstæður sem þessi bændatrú á rætur sínar í. Hvað sem því líður, hlýtur borgarastéttin að óttast heimsku lýðsins meðan hann er íhaldssinnaður, og skynsemi lýðsins óðar en hann verður byltingarsinnaður.

Í uppreisnum þeim sem hófust eftir valdránið mótmælti nokkur hluti franskra bænda með vopn í hendi atkvæðagreiðslu sjálfra sín 10. desember 1848. Þeir höfðu vitkazt af reynslunni síðan 1848. En þeir höfðu ofurselt sig undirheimum sögunnar, og sagan gekk á lagið. Enn var meirihluti þeirra svo heillaður, að einmitt í rauðustu fylkjunum greiddi bændafólkið Bónaparte atkvæði í heyranda hljóði. Þeim skildist að þjóðþingið hefði heft hann. Hann hafði nú ósköp einfaldlega brotið þá fjötra sem borgirnar höfðu lagt á vilja landsbyggðarinnar. Sumsstaðar höfðu bændurnir jafnvel fengið þá hlægilegu hugmynd að setja konventu við hliðina á þessum Napóleon.

Eftir að fyrsta byltingin hafði breytt hálf-ánauðugum bændum í sjálfseignabændur, kom Napóleon reglulegri skipan á þau skilyrði sem leyfðu bændunum að nytja hina frönsku jörð sem þeir höfðu nýhreppt og svala unglingslegri eignargleði sinni. En það er jarðarskikinn sjálfur sem steypir nú franska bóndanum í glötun, skipting jarðeignanna, sú eignaskipan sem Napóleon lögfesti í Frakklandi. Það eru einmitt þau efnislegu skilyrði sem gerðu landsetann franska að smábónda, og Napóleon að keisara. Tvær kynslóðir nægðu til að framkalla hinar óhjákvæmilegu afleiðingar: hægfara hnignun landbúnaðarins, hægfara skuldaaukningu bóndans. Hin „napóleónska" eignaskipan, sem var í upphafi 19. aldar skilyrði frelsunar og auðgunar frönsku bændastéttarinnar hefur eftir því sem á öldina leið orðið lögmál þrælkunar hennar og örbirgðar. Og einmitt þetta lögmál er hin fyrsta „idée napoléonienne" sem Bónaparte annar þarf að verja. Ef hann trúir því enn ásamt bændunum að orsakar ófara þeirra sé ekki að leita í

smájarðeignunum sjálfum, heldur í einhverju öðru, í áhrifum þýðingarminni kringumstæðna, þá munu allar tilraunir hans springa eins og sápukúlur þegar þær rekast á afstæður framleiðslunnar.

Efnahagsleg þróun smájarðeignarinnar hefur snúið gjörsamlega við afstöðu bændastéttarinnar til annarra þjóðfélagsstétta. Í valdatíð Napóleons var jarðeignaskiptingin á landsbyggðinni viðauki við frjálsa samkeppni og byrjandi stóriðju í borgunum. Bændastéttin var sílifandi mótmæli við jarðeignaaðlinum sem nú hafði verið upprættur. Ræturnar sem smájarðeignin skaut í jarðvegi Frakklands sviptu lénsskipulagið allri næringu. Landamerkjastólpar hennar mynduðu náttúrlega vörn borgarastéttarinnar gegn óvæntum árásum fyrri drottna sinna. En á nítjándu öldinni kom okrarinn í borginni í stað okrarans á aðalssetrinu, veðið í stað skylduvinnunnar, hið borgaralega auðmagn í stað jarðeignar aðalsins. Jarðarskiki bóndans er ekki annað en yfirvarp sem gerir kapítalistanum fært að draga gróða, vexti og rentu upp úr jörðinni, og lofa bóndanum að sjá fram úr þeim vanda hvernig hann eigi að ná vinnulaunum sínum. Veðskuldin sem hvílir á frönskum jarðeignum leggur frönsku bændastéttinni á herðar slíkar vaxtagreiðslur að þær jafnast á við vextina af allri ríkisskuld Breta. Smájarðeignin, í þessari ánauð auðmagnsins sem þróun hennar hefur óhjákvæmilega leitt til, hefur gert þorra frönsku þjóðarinnar að hellisbúum. Sextán milljónir bænda (að meðtöldum konum og börnum) búa í hellum, sem oftast hafa aðeins eitt op, stundum tvö, og þegar bezt gegnir þrjú. En gluggar eru mannahíbýlum það sem skilningarvitin eru mannshöfði. Hið borgaralega skipulag, sem í byrjun aldarinnar setti ríkið á vörð við nýstofnað smábýlið sem það taddi með lárviði, er orðið að blóðsugu sem sýgur úr því heila og hjartablóð og hellir því í gullgerðarpott auðmagnsins. Lögbók Napóleons er orðin siðaskrá aftökunnar og nauðungaruppboðsins. Við þær fjórar milljónir (börn o. s. frv. meðtalin) opinberra allsleysingja, flækinga, glæpamanna og léttúðarkvenna sem í Frakklandi eru, bætast fimm milljónir manna sem ógæfan vofir yfir og eiga annaðhvort heima á landsbyggðinni eða eru á sífelldu reiki með tötra sína og börn utanaf landsbyggðinni til borganna og úr borgunum út á landsbyggðina. Hagsmunir bændanna eiga sem sé ekki lengur samleið með hagsmunum borgarastéttarinnar og auðmagnsins, eins og var á valdatíma Napóleons, heldur eru þeim andstæðir. Bændurnir finna sem sé eðlilega bandamenn sína og leiðtoga í öreigastétt borganna, en hlutverk hennar er að steypa hinni borgaralegu skipan. En sú *sterka alveldisstjórn* – það er önnur í röðinni af „idées napóléoniennes" – sem Napóleon annar þarf að setja á stofn, er kölluð til að verja með valdi þessa „efnislegu" skipan.

Enda er þessi „ordre matériel“ það vígorð sem oftast kemur fyrir í viðvörunum Bónaparte til uppreisnarbænda.

Auk veðbandanna sem auðmagnið leggur á smábýlið er lagður á það *skattur*. Skatturinn er lífslind skrifstofuvaldsins, hersins, prestanna og hirðarinnar, eða í einu orði allra tilfæringa framkvæmdavaldsins. Sterk stjórn og þungir skattar eru eitt og hið sama. Smájarðeignin er eðli sínu samkvæmt tilvalinn grundvöllur almáttugs og ótölulegs embættismannaliðs. Hún myndar samskonar tegund afstæðna og einstaklinga um allt landið. Hún gerir því einnig miðstjórnarvaldinu fært að beita allsstaðar áhrifum sínum á sama hátt við þennan einhæfa fjölda. Hún upprætir hin arístókratísku millistig milli alþýðu manna og ríkisvaldsins. Hún framkallar sem sé hvarvetna bein afskipti þessa ríkisvalds og stofnana þess. Hún getur loks af sér atvinnulausan offjölda, sem hvorki getur komið sér fyrir á landsbyggðinni né í borgunum og grípur því til opinberra embætta eins og nokkurskonar heiðvirðrar ölmusu og hvetur til stofnunar nýrra embætta. Með því að beita byssustingnum til að ljúka upp nýjum mörkuðum og sópa saman herfangi um meginland Evrópu, endurgreiddi Napóleon skattinn með vöxtum. Skatturinn var þá spori á heimilisiðnað bændanna, en núna rænir hann heimilisiðnaðinn síðasta styrk sínum og gerir bændurna varnarlausa gagnvart örbirgðinni. Og ofvaxið embættismannalið, prýtt axlaskúfum og vel alið, er sú „idée napoléonienne“ sem fellur Bónaparte öðrum bezt í geð. Hvernig ætti annað að vera, þar sem hann er neyddur til að búa til við hliðina á hinum raunverulegu þjóðfélagsstéttum gervistétt, sem lítur á viðhald valds hans sem tryggingu síns daglega brauðs? Ein fyrsta fjármálaaðgerð hans var að hækka embættislaun í það sem áður hafði tíðkazt og búa til nýja bitlinga.

Þá var enn ein „idée napoléonienne“ sú að nota vald prestanna sem stjórnartæki. En þó að nýmynduð smájarðeignin hafi verið náttúrlega trúhneigð meðan hún var í samræmi við þjóðfélagið og undirgefin náttúruöflunum og yfirvöldunum sem vernduðu hana, þá verður sú smájarðeign sem er skuldum hlaðin, ósátt við þjóðfélag og yfirvöld og teygð út fyrir takmarkanir sínar, trúlaus samkvæmt eðli sínu. Himinninn var snotur meðgjöf með nýkeyptum jarðarskikanum, einkum þegar þess er gætt að hann ræður verðinu; en hann verður smánargjöf þegar hann á að koma í staðinn fyrir jarðarskikann. Presturinn verður þá ekkert annað en smurður sporhundur hinnar jarðnesku lögreglu – enn ein „idée napoléonienne“. – Næsti Rómarleiðangur verður farinn í Frakklandi sjálfu, en hann verður ólíkur því sem herra de Montalembert mundi kjósa.

Æðst af öllum „idées napoléoniennes“ er loks mikilvægi hers-

ins. Herinn var heiður og sómi smábændanna, það voru þeir sjálfir í hetjulíki, sem héldu uppi vörn utanlands fyrir hinni nýju eign, vegsömuðu það þjóðerni sem þeir höfðu nýlega öðlazt, fóru með ránum og byltingu um heiminn. Einkennisbúningurinn var ríkisbúningur þeirra, stríðið skáldskapur þeirra, smábýlið, stækkað og framlengt í ímynduninni, var föðurlandið, og föðurlandsástin var æðsta form eignarvitundarinnar. En óvinirnir sem franski bóndinn verður nú að verja eign sína fyrir, eru ekki kósakkar, heldur fógetar og skattheimtumenn. Smábýlið er ekki lengur staðsett í föðurlandinu svonefnda, heldur í veðbókinni. Herinn sjálfur er ekki lengur blómi bændaæskunnar, heldur forarblóm öreigaskríls af bændaættum. Hann er mestallur samsettur af remplaçants, af staðgenglum, rétt eins og Bónaparte annar er aðeins remplaçant, staðgengill Napóleons. Hetjudáðir sínar fremur herinn nú í eltingaleik við bændurna, í lögregluaðgerðum, og þegar innri mótsagnir kerfis hans hafa hrakið foringja 10. desember-félagsins úr landi, mun herinn, að afloknum nokkrum glæpaverkum, ekki uppskera lárber heldur flengingu.

Menn munu sjá að allar „idées napoléoniennes“ eru *hugmyndir sem eiga við óþroskað æskufjörugt smábýli;* ef á að heimfæra þær upp á hið útlifaða smábýli eru þær lokleysur. Þær eru aðeins ofsýnir dauðastríðs þess, orð sem eru orðin að glamuryrðum, andar sem eru orðnir draugar. En skopstæling keisaradæmisins var nauðsynleg til þess að frelsa þorra frönsku þjóðarinnar undan fargi fortíðarinnar og leiða skýrt í ljós andstæðu ríkisvaldsins og þjóðfélagsins. Með áframhaldandi hnignun smábýlisins hrynur ríkisbyggingin sem reist er á grunni þess. Miðstjórnarvald ríkisins, sem nútímaþjóðfélag þarfnast, verður aðeins reist á rústum þeirrar hernaðar- og embættavélar ríkisins sem smíðuð var í andófinu gegn lénsveldinu.

Lífskjör franskra bænda færa oss ráðninguna á gátu *hinna almennu kosninga 20. og 21. desember,* sem leiddu Bónaparte annan upp á Sínaífjall, ekki til þess að taka á móti lögmálinu, heldur til að setja lög.

Borgarastéttin átti þá greinilega einskis annars úrkosti en kjósa Bónaparte. Þegar púrítanarnir á kirkjuþinginu í Konstans hörmuðu spillt líferni páfanna og kveinuðu um nauðsyn siðbótar, kallaði kardínálinn Pierre d'Ailly til þeirra með þrumuraust: „Enginn nema djöfullinn sjálfur getur bjargað katólsku kirkjunni, og þið biðjið um engla.“ Þannig hrópaði franska borgarastéttin einnig eftir stjórnlagarofið: Aðeins foringi 10. desember-félagsins getur bjargað hinu borgaralega þjóðfélagi! Aðeins þjófnaður getur bjargað einkaeigninni, meinsærið trúnni, hórdómurinn fjölskyldunni, ólögin lögunum.

Þegar Bónaparte er sjálfur orðinn framkvæmdavald, óháð og sjálfstætt, lítur hann á það sem köllun sína að tryggja hina „borgaralegu skipan". En styrkur þessarar borgaralegu skipanar er fólginn í miðstéttinni. Hann telur sig því fulltrúa miðstéttarinnar og gefur út tilskipanir í þeim anda. En því aðeins hefur hann hlotið frama að hann hefur brotið og brýtur enn á hverjum degi pólitískt vald þessarar miðstéttar á bak aftur. Hann telur sig því andstæðing pólitísks og bókmenntalegs valds miðstéttarinnar. En um leið og hann verndar efnahagslegt vald hennar, skapar hann pólitískt vald hennar á ný. Þessvegna verður að varðveita orsökina, en gera út af við afleiðingarnar hvar sem þær koma í ljós. En þetta fer ekki fram án nokkurs ruglings á orsök og afleiðingu, þar eð báðar glata sérkennum sínum í gagnkvæmum áorkunum. Nýjar tilskipanir sem má út markalínuna. Bónaparte telur sig jafnframt vera fulltrúa bændanna og allrar alþýðu gagnvart borgarastéttinni, og hann vill auka hamingju lægri stéttanna í skauti hins borgaralega þjóðfélags. Nýjar tilskipanir sem pretta „sanna sósíalista" fyrirfram um stjórnvizku þeirra. En Bónaparte telur sig umfram allt foringja 10. desember-félagsins, fulltrúa öreigaskrílsins, sem hann sjálfur, kunningjar hans, stjórn hans og her teljast til, en þessum öreigaskríl er mest umhugað að líkna sjálfum sér og sækja kalíforníska happdrættisvinninga í ríkissjóð. Og Bónaparte reynist vera foringi 10. desember-félagsins með tilskipunum, án tilskipana og þrátt fyrir tilskipanir.

Þetta mótsagnakennda hlutverk mannsins skýrir mótsagnir stjórnar hans, hin óvissu tilhlaup hans þegar hann reynir ýmist að vinna þessa eða hina stéttina á sitt band eða auðmýkja þær eftir röð, og gerir þær svo allar óvinveittar sér í einu. Þetta öryggisleysi í framkvæmdinni er í hlægilegu misræmi við valdsmannlegan skipunarstíl stjórnarskjalanna, sem er nákvæmlega stældur eftir stíl föðurbróðurins.

Iðnaður og verzlun, þ. e. atvinnuvegir miðstéttarinnar, eiga að blómgast eins og í gróðurhúsi undir sterkri stjórn. Óteljandi járnbrautarleyfi eru veitt. En hinn bónapartíski öreigaskríll verður að auðgast. Þeir sem öllum hnútum eru kunnugir braska með járnbrautarleyfin í kauphöllinni. En enginn vill leggja fé í járnbrautirnar. Bankinn er skyldaður til að lána fé út á járnbrautarhlutabréf. En það má jafnframt hafa persónulegan hag af bankanum, og því verður að fara vel að honum. Hann er undanþeginn þeirri skyldu að birta vikulegt reikningsyfirlit. Okrarasamningur bankans við ríkisstjórnina. Fólkið þarf að fá vinnu. Ákveðið er að reisa opinberar byggingar. En opinberar framkvæmdir auka skattabyrðarnar. Þá eru skattarnir lækkaðir á kostnað skuldabréfaeigenda með því að breyta 5% rentu í $4^1/_2$% rentu. En nú

verður að blíðka miðstéttina á ný. Þá er vínskattur á alþýðufólki tvöfaldaður, af því það kaupir í smásölu, en lækkaður um helming á millistéttinni, af því hún kaupir í heildsölu. Raunveruleg verkamannafélög eru leyst upp, en loforð er gefið um dásamleg félög þegar fram líða stundir. Það verður að hjálpa bændunum. Veðbankar, sem flýta fyrir skuldasöfnun þeirra og samfærslu jarðeignanna. En þessa banka verður að nýta til að slá peninga úr upptækum eignum Orléans-ættarinnar. Enginn peningamaður vill samþykkja þetta skilyrði sem er ekki í tilskipuninni, og veðbankinn verður ekki annað en tilskipun o. s. frv., o. s. frv.

Bónaparte vill vera landsföðurlegur velgjörðarmaður allra stétta. En hann getur ekki gefið einni stétt neitt án þess að taka það frá annarri. Á Fronde-tímanum var sagt um hertogann af Guise að hann væri skuldbundnasti maður Frakklands, af því að hann hafði breytt öllum eignum sínum í skuldbindingar samherja sinna gagnvart sér. Á sama hátt mundi Bónaparte vilja vera skuldbundnasti maður Frakklands og breyta öllum eignum og allri vinnu í Frakklandi í persónulega skuldbindingu gagnvart sjálfum sér.[1] Hann mundi vilja stela öllu Frakklandi, til þess að gefa það Frakklandi aftur, eða öllu heldur til þess að kaupa Frakkland aftur með frönskum peningum, því að sem foringi 10. desember-félagsins verður hann að kaupa það sem hann á að eiga. Og allar ríkisstofnanir verða að verzlunar-fyrirtækjum, senatið, ríkisráðið, löggjafarþingið, heiðursfylkingin, heiðursmerkin, þvottahúsin, opinberar framkvæmdir, járnbrautir, herforingjaráðið, þjóðvörðurinn sviptur liði sínu, upptækar eignir Orléansættarinnar. Gjaldmiðillinn er sérhver staða í her og stjórnarstofnun. Í þessari starfsemi sem felst í því að gefa Frakklandi aftur það sem hefur verið stolið af því, er þó mest vert um prósenturnar sem koma í hlut foringja og liðsmanna 10. desember-félagsins. Gamanyrðið sem greifynja L., lagskona herra de Morny, hafði um upptöku hinna orleanísku eigna: „C'est le premier vol de l'aigle"[2], á við um sérhvert flug þessa arnar, sem er öllu heldur hrafn. Hann sjálfur og flokksmenn hans ávarpa hver annan daglega með þeim orðum sem ítalski kartúsumunkurinn svaraði nirflinum, sem taldi hreykinn upp allar eignir sínar sem hann mundi þurfa mörg ár til að sóa: „Tu fai il conto sopra i beni, bisogna prima far il conto sopra gli anni."[3] Til þess að villast ekki á ár-

---

[1] Orðaleikurinn verður nokkru hæpnari á íslenzku en í frumtexta þar sem notuð eru orðin obligeant og obligation. – *þýð.*

[2] Vol þýðir flug eða þjófnaður. (Athugasemd Marx); þ. e. þetta er fyrsta flug (eða fyrsti þjófnaður) arnarins.

[3] Þú telur eignir þínar, þú ættir fyrst að telja ár þín.

unum telja þeir í mínútum. Að hirðinni, í ráðuneytin, í virðingarstöður hers og stjórnar þyrpast náungar sem í bezta lagi er hægt að segja um, að enginn veit hvaðan þeir koma, og þessi hávaðasama, illræmda, þjófgefna bohème smeygir sér í borðalagða kjóla með sama skringilega virðuleikanum og fyrirmenn Soulouques.[1] Menn geta gert sér hugmynd um þetta æðra lag 10. desemberfélagsins, ef þeir hafa í huga að *Véron-Crevel*[2] er siðameistari þess og *Granier de Cassagnac* hugsuður þess. Þegar Guizot var forsætisráðherra og brúkaði Granier við smáblað gegn hinni konungssinnuðu stjórnarandstöðu, sagði hann ef hann vildi hæla honum: „C'est le roi des drôles", „hann er konungur loddaranna". Það væri rangt að segja að hirð og klíka Lúðvíks Bónaparte minni á ríkisstjóratímann eða Lúðvík XV. Því „oft hefur Frakkland þurft að búa við hjákvennastjórn, en aldrei áður verið stjórnað af hommes entretenus".[3]

Knúinn áfram af mótsagnakenndum kröfum aðstæðnanna, og neyddur til þess eins og sjónhverfingamaður að beina augum almennings sífellt að sér með óvæntum uppátækjum, og fremja á hverjum degi, sem staðgengill Napóleons, stjórnlagarof í smáu broti, kemur Bónaparte allri borgaralegri efnahagsskipan á ringulreið, rótar við öllu sem byltingin 1848 taldi ginnheilagt, gerir suma byltingarþreytta, aðra byltingarfúsa, og framkallar stjórnleysi í nafni sjálfrar stjórnfestunnar, og um leið sviptir hann alla ríkisvélina glóríunni, vanhelgar hana, gerir hana bæði andstyggilega og hlægilega. Dýrkun hins heilaga kyrtils í Trier endurlífgar hann í París sem dýrkun hinnar napóleónsku keisarakápu. En þegar keisarakápan sveipar loksins herðar Lúðvíks Bónaparte mun eirmynd Napóleons steypast ofan af Vendômesúlunni.

Ritunartími: desember 1851–marz 1852.
Birt í tímaritinu „Die Revolution", New York 1852.
Önnur útgáfa, endurskoðuð af Marx birtist í Hamborg 1869.

*Athugasemd þýðanda:*

Þýðing þessi er gerð eftir *Ausgewählte Schriften in zwei Bänden,* Dietz Verlag, Berlin 1955, en þar er prentaður texti annarrar útgáfu, 1869. Hliðsjón hefur verið höfð af franskri útgáfu, Editions sociales, Paris 1963. Þess skal sérstaklega getið að þýðanda var ekki tiltækur, meðan á verkinu stóð, hinn íslenzki texti *Stéttabaráttunnar í Frakklandi 1848–1850* sem birtur er í þessu safni.

---

[1] Soulouque (1782–1867) var forseti negralýðveldisins á Haiti.

[2] Í „Cousine Bette" notar Balzac Crevel, sem hann mótaði eftir dr. Véron, eiganda blaðsins „Le Constitutionnel", til að lýsa gjörsamlega siðlausum filisteum Parísar. (Athugasemd Marx).

[3] Haft eftir frú Girardin. (Athugasemd Marx).

KARL MARX

# Ræða flutt í afmælishófi „People's Paper“ 14. apríl 1856

Hinar svokölluðu byltingar 1848 voru aðeins minniháttar viðburðir, – smávegis sprungur og rifur í hina hörðu þjóðfélagsskorpu Evrópu. Af þeim mátti þó marka hyldýpið undir niðri. Þeir sýndu, að undir yfirborði, sem virðist traust, er úthaf fljótandi efnis, sem aðeins þarf að þenjast svolítið út til þess að sprengja í mola heil meginlönd úr hörðum steini. Í hávaða og ringulreið boðuðu þeir frelsun öreiganna, þ. e. leyndardóm 19. aldarinnar og byltingar þeirrar aldar.

Þessi þjóðfélagsbylting var að vísu ekki nein nýjung, fundin upp á árinu 1848. Gufan, rafmagnið og spunavélin voru byltingaröfl af miklu hættulegri gerð en borgararnir Barbés, Raspail og Blanqui. Andrúmsloftið, sem við lifum í, hvílir á okkur með 20 000 punda þunga. Verðum við þess þó vör? Ekki frekar en hið evrópska þjóðfélag fyrir 1848 fann fyrir því byltingar-andrúmslofti, sem umlukti það og þrýsti á frá öllum hliðum.

Það er ein mikilvæg staðreynd, sem einkennir þessa 19. öld okkar, staðreynd, sem enginn flokkur manna dirfist að bera á móti. Annarsvegar hafa vaknað til lífsins ný öfl iðnaðar og vísinda, sem enginn á hinum liðnu öldum mannkynssögunnar hefði getað látið sér detta í hug. Hinsvegar sjást einkenni hrörnunar, sem taka langt fram þeim viðbjóði, sem greint er frá í frásögnum af hinum síðari tímum Rómaveldis.

Á okkar dögum virðast allir hlutir búa yfir andstæðu sinni. Við sjáum vélar, sem hafa þá dásamlegu eiginleika að gera vinnuna léttari og arðsamari, en skapa þó hungur og þrældóm. Nýfundnar uppsprettur auðs verða fyrir einhvern ískyggilegan galdur að uppsprettum skorts. Sigrar vísindanna virðast keyptir við glötun manndóms. Í sama mæli og maðurinn gerir sér náttúruna undirgefna, verður hann að þræli annarra manna eða eigin hrakmennsku. Jafnvel hið skæra ljós þekkingarinnar virðist ekki

geta skinið nema með myrkur fáfræðinnar að bakgrunni. Árangur allra okkar uppgötvana og framfara sýnist verða sá, að gæða öfl efnisins andlegu lífi, en niðurlægja mannlegt líf í það að verða dautt efnis-afl. Þessar andstæður milli nútíma iðnaðar og vísinda á aðra hlið, en nútíma eymdar og hnignunar á hina, þessar andstæður milli framleiðsluaflanna og þjóðfélagsafstæðnanna á okkar tímum eru áþreifanleg, yfirþyrmandi og ómótmælanleg staðreynd. Sumir flokkar manna reka upp ramakvein yfir þessu, aðrir kunna að óska þess, að losna við nútíma tækniframfarir til þess að losna við nútíma þjóðfélagsárekstra. Eða þeir kunna að ímynda sér að svo stórstígar framfarir í iðnaði geti fengið mótvægi í jafn stórstígri afturför í stjórnmálum. Hvað okkur viðkemur, þá blandast okkur ekki hugur um, hver er sá slóttugi andi, sem gengur ljósum logum í þessum andstæðum. Við vitum, að til þess að hin nýju þjóðfélagsöfl verki í rétta átt, þurfa þau aðeins að vera undir stjórn manna af nýrri gerð, – en það eru verkamennirnir.

Þeir eru uppfinning hins nýja tíma í jafn ríkum mæli og sjálfar vélarnar. Í þeim teiknum, sem rugla svo í ríminu borgarastéttina, aðalinn og vesalings afturfaraspámennina, kennum við svipmót okkar hugrakka vinar, Hróa heillakarls,[1] gömlu moldvörpunnar, sem er svo fljót að grafa, hins þróttmikla brautryðjanda – byltingarinnar. Enskir verkamenn eru frumgetnir synir nútíma iðnaðar. Þeir munu því vissulega ekki verða meðal hinna síðustu til hjálpar þeirri þjóðfélagsbyltingu, sem er afsprengi þessa iðnaðar, byltingar, sem felur í sér frelsun þeirra eigin stéttar um heim allan og er jafn víðtæk og drottnun auðmagnsins og launaþrældómurinn. Ég þekki hina hetjulegu baráttu, sem enska verkalýðsstéttin hefur orðið að heyja síðan um miðja síðustu öld, baráttu, sem hlotið hefur minni frægð fyrir það, að hún er rökkri hulin og um hana þagað af borgaralegum sagnfræðingum.

Á miðöldum var til í Þýzkalandi leynilegur dómstóll, kallaður „Fem-dómstóll", til þess að koma fram refsingum fyrir glæpi hinnar ráðandi stéttar. Ef rauður kross var málaður á eitthvert hús, þá vissi fólk að eigandi þess hafði verið dæmdur af „Fem". Öll hús í Evrópu eru nú merkt hinum leyndardómsfulla rauða krossi. Sagan er dómarinn – öreigastéttin fullnægir dómnum.

Birtist í blaðinu
*People's Paper* 19. apríl 1856.
Þýtt úr ensku.

[1] Hrói heillakarl – ævintýravera, sem í enskri þjóðtrú kemur fram sem verndari og hjálparandi mannanna. Er meðal aðalpersónanna í gamanleik Shakespeares, „Jónsmessunæturdraumi". – *Útg.*

KARL MARX

# Bréf til Friedrichs Engels

London, 16. apríl 1856

– – – Í fyrradag var haldið smá hóf, til að minnast afmælis *„People's Paper"*. Í þetta sinn þáði ég boðið, þar sem mér sýndust tímarnir krefjast þess af mér og það því fremur sem mér *einum* (eins og stendur í blaðinu) af öllum útlögunum, hafði verið boðið, og það féll í minn hlut að lyfta fyrstu skálinni og mæla fyrir minni valdatöku verkalýðsins í öllum löndum. Svo að ég samdi svolitla ræðu á ensku, sem ég mun ekki leyfa að verði prentuð. Ég náði því marki, sem ég hafði sett mér. Herra Talandier, – sem hafði orðið að kaupa sinn aðgöngumiða á 2/6, – og hinir Frakkarnir, ásamt öðrum útlögum, hafa nú sannfærzt um það, að við erum hinir einu „nánu bandamenn" chartistanna og þó að við tökum ekki þátt í opinberum kröfugöngum og látum Frökkunum eftir að daðra opinberlega við chartistana, þá höfum við það á valdi okkar hvenær sem er, að endurheimta þá stöðu, sem okkur ber frá sögulegu sjónarmiði. Þetta var orðið þeim mun nauðsynlegra, að á fundinum 25. febrúar, þar sem Pyat var fundarstjóri og ég hef sagt þér frá, steig þýzki bjálfinn Scherzer (old boy) í ræðustólinn og fordæmdi á ógnar raunsannan Straubinger-hátt[1] hina þýzku „lærdómsmenn", hina „andlegu verkamenn", sem hefðu yfirgefið þá (bjálfana) og látið þá verða sér til minnkunar meðal annarra þjóða. Þú þekkir nú Scherzer frá dögunum í París. Ég hef nokkrum sinnum hitt aftur vin okkar Schapper og fundið þar mjög iðrandi syndara. Einveran, sem hann hefur lifað í undanfarin tvö ár, virðist fremur hafa skerpt hans andlega atgervi. Þú skilur, að það getur alla vega verið til bóta, að hafa manninn með sér og sérstaklega að ná

[1] Straubinger var nafn, sem þeir Marx og Engels notuðu um óstéttvísa handverksmenn, afturhaldssama í hugsun og haldna smáborgaralegum fordómum. – *Útg.*

honum úr klóm Willichs. Schapper er nú öskuvondur út í bjálfana í Windmill Street.[1]

Ég er alveg sammála þér um Rínarhéraðið. Það örlagaríka fyrir okkur er, að ég þykist sjá framundan eitthvað, sem beri keim af „föðurlandssvikum". Það mun að miklu leyti velta á gangi mála í Berlín, hvort við verðum neyddir í svipaða aðstöðu og klúbbfélagarnir í Mainz[2] í gömlu byltingunni. Það væri hart. Við, sem erum svo vel upplýstir um hina hugrökku bræður okkar hinum megin við Rín! Öll mál í Þýzkalandi eru nú komin undir möguleikunum á því, að koma verkalýðsbyltingunni til hjálpar með einskonar nýrri útgáfu af bændastríðinu. Þá mundi allt ganga eins og í sögu. – – –

---

[1] Í Windmill Street var húsið, þar sem Þýzka verkamannasambandið hélt fundi. Með orðunum: „bjálfarnir í Windmill Street" átti Marx við hóp manna, sem klauf sig út úr Kommúnistabandalaginu 1850, þá undir forustu Schappers og Willichs. – *Útg.*

[2] Marx á hér við félaga í Jakobínaklúbbnum í Mainz, sem gengu í lið með franska byltingarhernum, sem hertók borgina 1792. – *Útg.*

KARL MARX

# Ávarp og bráðabirgðalög Alþjóðasambands verkamanna

*(Stofnað 28. september 1864 á opinberum fundi í St. Martin's Hall, Long Acre, London.)*

Verkamenn!

Það er staðreynd, að hin bágu lífskjör verkalýðsstéttarinnar hafa ekki breytzt til batnaðar frá 1848 til 1864 og þó er þetta tímabil án hliðstæðu í sögunni hvað snertir iðnþróun og vöxt viðskipta. Árið 1850 spáði varfærið málgagn brezku borgarastéttarinnar,[1] sem hefur greiðan aðgang að öllum beztu upplýsingum, að ef út- og innflutningur ykist um 50 af hundraði, myndi fátæktin hverfa í Bretlandi. En – því miður! 7. apríl 1864 skýrði fjármálaráðherrann, Gladstone, frá því í þinginu við mikinn fögnuð áheyrenda, að heildarupphæð inn- og útflutnings Englands hefði á árinu 1863 aukizt „í 443 955 000 sterlingspund! Undraverð upphæð, um það bil þreföld verzlun hins tiltölulega nýliðna árs 1843"! Og þó talaði hann um leið af mikilli mælsku um „örbirgð". „Hugsið til þeirra", hrópaði hann, „sem lifa á barmi örbirgðar", hann talaði um „laun, sem ekki hafa aukizt", um „mannlíf, sem í níu tilvikum af tíu er aðeins frumstæð barátta fyrir tilverunni"! Hann minntist ekki á alþýðu Írlands, sem vélarnar eru að flæma burt norðantil en sauðfjárbeit sunnantil. Að vísu hefur fjárstofninn minnkað í þessu óhamingjusama landi, en þó hvergi nærri eins ört og mannfjöldinn. Hann endurtók ekki það, sem nýlega hafði verið ljóstað upp af æðstu fulltrúum háaðalsins og auðkónganna í skyndilegri ofsahræðslu. Þegar skelf-

---

[1] Marx notar hér orðin „middle class". En þar sem ekki fer á milli mála, að hann á hér við borgarastéttina, en ekki þá þjóðfélagshópa, sem nú kallast millistéttir, þótti þýðanda rétt, að nota í íslenzku þýðingunni orðið borgarastétt. Hitt hefði getað valdið misskilningi. Þess ber að minnast, að á fyrsta hluta tilveruskeiðs síns var borgarastéttin millistétt milli aðalsstéttar og öreigastéttar eða þar til hún leysir aðalinn af hólmi sem ný yfirstétt. – *Útg.*

ingaræðið, sem garottarnir[1] komu af stað, hafði náð hámarki, lét lávarðadeildin efna til rannsóknar á fangaflutningum úr landi og þrælkunarvinnu og síðan birta um það skýrslu. Og þessi skýrsla kom út í hinni digru Blábók 1863 og þar sannaðist með opinberum tölum og staðreyndum, að hinir verstu af dæmdum glæpamönnum, þrælkunarfangarnir í Englandi og Skotlandi, strituðu miklu minna og höfðu betra atlæti en búnaðarverkalýðurinn í Englandi og Skotlandi.

En sagan er ekki öll sögð. Þegar verksmiðjuverkamönnunum í Lancashire og Cheshire var hent út á götuna vegna borgarastríðsins í Ameríku,[2] sendi þessi sama lávarðadeild lækni til verksmiðjuhéraðanna þeirra erinda, að rannsaka hvert væri lágmark kolefnis og köfnunarefnis, tilreitt á hinn ódýrasta og einfaldasta hátt, sem komast mætti af með sem meðalneyzlu til þess að „fyrirbyggja hungursjúkdóma". Dr. Smith, hinn læknisfróði sendimaður, komst að þeirri niðurstöðu, að 28 000 grains af kolefni og 1 330 grains af köfnunarefni nægði sem vikulegur skammtur til þess að halda meðalmanni fullorðnum rétt fyrir ofan stig hungursjúkdóma og hann komst ennfremur að raun um, að einmitt þetta magn samsvaraði allnáið þeirri lélegu næringu, sem verkamennirnir, tilknúðir af hinni sárustu neyð, höfðu þegar orðið að láta sér nægja.[3] En takið nú eftir! – Þessi sami lærði doktor var síðar sendur á vegum heilbrigðisstjórnar leyndarráðsins til þess að rannsaka mataræði hinna fátækari meðal verkalýðsstéttarinnar. Og niðurstöður rannsóknarinnar felast í hinni „Sjöttu skýrslu um almenn heilbrigðismál", sem birt var að fyrirmælum þingsins nú á þessu ári. Hvað uppgötvaði svo doktorinn? Það, að silkivefararnir, saumakonurnar, þeir, sem gerðu hanzka og prjónuðu sokka o. s. frv. fengu ekki einu sinni að meðaltali sama neyðarpíring og baðmullarverkamennirnir, ekki einu sinni það magn af kolefni og köfnunarefni, sem „rétt nægir til að bægja burt hungursjúkdómum."

„Þar að auki," við vitnum enn í skýrsluna, „kom það í ljós,

[1] Garottar. Göturæningjar, sem gripu fyrir kverkar fórnarlamba sinna og kyrktu þau. Árásum þeirra fjölgaði svo í London í ársbyrjun 1860, að fólk varð gripið hræðsluæði og þingið neyddist til að samþykkja sérstök lög gegn þessum ræningjum. – *Útg.*

[2] Af völdum borgarastríðsins í Bandaríkjunum komst baðmullariðnaðurinn í Bretlandi í mikil vandræði vegna skorts á baðmull, sem flutt hafði verið inn frá Suðurríkjunum, en þeir flutningar stöðvuðust vegna stríðsins. *Útg.*

[3] Það þarf varla að skýra það fyrir lesendum, að auk þeirra efna sem eru í vatni og nokkurra ólífrænna efna, eru kolefni og köfnunarefni aðalefnin í fæðu manna. En til þess samt að koma líkamanum að gagni, verða þessi efni að vera bundin í fæðu úr jurta- eða dýraríkinu. Kartöflur t. d. innhalda aðallega kolefni, en hveitibrauð bæði kolefni og köfnunarefni í hæfilegum hlutföllum. (Aths. Karls Marx.)

að meðal þeirra fjölskyldna, sem rannsóknin náði til, varð meira en fimmti hlutinn að láta sér nægja minna en það sem talið er nauðsynlegt af kolefnisríkri fæðu, að meira en þriðjungurinn bjó við minna en það sem talið er nauðsynlegt af köfnunarefnisfæðu og að í þrem greifadæmum (Berkshire, Oxfordshire og Somersetshire) var magn köfnunarefnis í meðalmataræði fólks á heilum svæðum ófullnægjandi". „Þess ber að minnast", segir áfram í skýrslunni, „að fólk sættir sig mjög ógjarnan við matarskort og það er venja, að mikil eymd í mataræði á sér ekki stað nema að undangengnum öðrum margvíslegum skorti. – – Jafnvel hreinlæti mun þá hafa þótt dýrt og erfitt að halda því uppi og þar sem sjálfsvirðingin reynir samt að halda í það, mun slík viðleitni kosta því meiri hungurþrautir." „Þetta er sárt íhugunar, sérstaklega þegar þess er minnzt, að sú fátækt, sem hér um ræðir, er ekki verðskulduð fátækt hinna lötu og iðjulausu; í öllum tilvikum er þetta fátækt hins vinnandi fólks. Í rauninni er sá vinnutími, sem gefur af sér þessi sultarkjör, fram úr öllu hófi langur."

Skýrslan leiðir í ljós þá undarlegu og heldur óvæntu staðreynd, „að af fjórum hlutum Sameinaða konungsríkisins" – Englandi, Wales, Skotlandi og Írlandi –" er bændaalþýðan í Englandi", auðugasta landshlutanum, „langsamlega verst nærð", en að jafnvel landbúnaðarverkamennirnir í Berkshire, Oxfordshire og Somersetshire búa við betri kost heldur en mikill fjöldi ágætlega verkhæfra handverksmanna í London.

Þannig hljóða opinberar upplýsingar, birtar að boði þingsins á árinu 1864, í þúsundáraríki frjálsrar verzlunar, á sama tíma og fjármálaráðherrann skýrir Neðri deildinni svo frá, að „meðalkjör brezkra verkamanna hafi batnað svo, að það sé alls óvenjulegt og eigi sér enga hliðstæðu í sögunni í nokkru landi eða á nokkrum tíma." Inn í þessar opinberu hamingjuóskir skerst svo sem falskur tónn þessi þyrrkingslega athugasemd hinnar opinberu skýrslu um heilbrigðismál þjóðarinnar: „Heilbrigði þjóðar í hvaða landi sem er, byggist á heilbrigði fjöldans og fjöldinn mun tæplega búa við heilbrigði nema hann njóti, allt til lægstu stétta, að minnsta kosti þolanlegra lífskjara".

Með ofbirtu í augum frá hinum glæsilegu tölum um vaxandi þjóðarauð hrópar fjármálaráðherrann í hrifningarvímu: „Frá 1842 til 1852 uxu skattskyldar tekjur þjóðarinnar um 6 af hundraði; á átta árum frá 1853 til 1861 hafa þær aukizt um 20 af hundraði, miðað við grunntölu ársins 1853. *Þessi staðreynd er svo undraverð, að við trúum henni varla!* – – Þessi svimandi vöxtur auðs og valda", bætir Gladstone við, „hefur að öllu leyti fallið eignastéttunum í skaut"!

Ef ykkur langar til að vita við hvílíkar aðstæður spilltrar

heilsu, flekkaðs siðferðis og andlegrar eyðileggingar þessi „svimandi vöxtur auðs og valda, sem að öllu leyti hefur fallið eignastéttunum í skaut“ hefur skapazt fyrir vinnu verkalýðsstéttarinnar, þá skuluð þið virða fyrir ykkur þá mynd, sem dregin er upp í nýjustu skýrslu um heilbrigðismál þjóðarinnar, af vinnustöðum klæðskera, prentara og saumakvenna. Berið það saman við „Skýrslu nefndarinnar frá 1863 um vinnu barna“, þar sem segir svo m. a.: „Leirkerasmiðir, bæði karlar og konur, eru sem stétt mjög úrkynjað fólk, bæði líkamlega og andlega“, „heilsulaus börn verða síðar heilsulausir foreldrar“, „áframhaldandi hnignun ættstofnsins er óhjákvæmileg“ og að „úrkynjun íbúanna í Staffordshire myndi vera miklu örari, ef ekki kæmi til fólksflutningur frá nálægum héruðum og mægðir við hraustari ættir.“ Lítið á Blábókina, sem Tremenheere tók saman um „böl það, er bakarasveinarnir kvarta yfir.“! Og hverjum hefur ekki runnið kalt vatn milli skinns og hörunds við þær þverstæðukenndu upplýsingar, sem verksmiðjueftirlitið hefur gefið og staðfestar eru af tölum Manntalsskrifstofu ríkisins, að eftir að verkamennirnir í Lancashire voru settir á hallærisfæðið batnaði heilsufar þeirra, af því að þeim var sagt upp í verksmiðjunum sökum baðmullarskorts og að ungbarnadauði minnkaði, þar sem mæður þeirra gátu nú loks gefið þeim móðurmjólk í stað ópíummixtúru.

En lítum nú aftur á hina hlið peningsins! Skráin um tekju- og eignaskatt, sem lögð var fyrir Neðri deildina 20. júlí 1864, ber það með sér, að tala manna með árstekjur, sem skattheimtan metur 50 000 sterlingspund og þar yfir, hefur hækkað um rúma tylft á einu ári frá 5. apríl 1862 til 5. apríl 1863 eða úr 67 í 80. Þessi sama skrá upplýsir þá staðreynd, að 3000 menn skipta á milli sín árstekjum, sem nema um 25 milljónum punda, það er heldur hærri upphæð en öll launaupphæðin, sem pírt er í alla búnaðarverkamenn í Englandi og Wales.

Flettum upp í manntalinu frá 1861 og þá sjáum við, að tala landeigenda af karlkyni í Englandi og Wales hafði lækkað úr 16 934 árið 1851 í 15 066 árið 1861. Þ. e. jarðeignir hafa færzt á færri hendur svo að nemur 11 af hundraði á 10 árum. Ef samsöfnun jarðeigna á fáar hendur heldur áfram með sama hraða mun málið brátt verða frábærlega einfalt hvað eignarrétt á landi áhrærir, eins og það varð í hinu forna Rómarríki, þar sem Neró gat leyft sér að setja upp hæðnisglott er hann komst að því að helmingur Afríku-ríkis Rómverja var í eigu sex aðalsmanna.

Við höfum nú dvalizt svo lengi við þessar „staðreyndir, svo undraverðar, að við trúum þeim varla“ vegna þess að England er forusturíki Evrópu á sviði verzlunar og iðnaðar og kemur í rauninni fram sem fulltrúi hennar á heimsmarkaðnum. Við mun-

um eftir því, að fyrir nokkrum mánuðum óskaði einn af landflótta sonum Lúðvíks Filippusar ensku búnaðarverkamönnum opinberlega til hamingju með þá yfirburði, sem þeir hefðu í lífskjörum yfir hina miður megandi stéttarbræður sína hinum megin við Ermarsund. Og í rauninni hafa hinar ensku staðreyndir endurtekið sig, með litbrigðum eftir staðháttum og í nokkuð minnkuðum mælikvarða, með öllum framsæknari iðnaðarþjóðum meginlandsins. Hjá þeim öllum hafa eftir 1848 átt sér stað áður óþekktar framfarir í iðnaði og aukning út- og innflutnings, sem engan hafði áður dreymt um. Hjá þeim öllum hefur „aukning auðs og valda, sem að öllu leyti hefur fallið eignastéttunum í skaut“ sannarlega verið „svimandi“. Hjá þeim öllum hefur, eins og í Englandi, minnihluti verkalýðsstéttarinnar fengið rauntekjur sínar nokkuð hækkaðar, en í flestum tilvikum hefur hækkun peningalauna ekki falið í sér aukningu lífsþæginda, ekki fremur en t. d. þeir, sem vistaðir eru á fátækra- og munaðarleysingjaheimilum höfuðborgarinnar hafa hagnazt á því þótt framfærsla þeirra kosti borgarsjóðinn £ 9-15-8d 1861 í stað £ 7-7-4d 1852. Allsstaðar hefur meginþorri verkalýðsstéttarinnar sokkið dýpra niður, að minnsta kosti í sama mæli og hinir hærra settu í þjóðfélagsstiganum hafa hafið sig upp. Í öllum löndum Evrópu er það núorðið sannleikur, augljós hverjum fordómalausum manni og aðeins rengdur af þeim, sem hafa hagsmuni af að boða fólki paradís heimskingjanna, að engar endurbætur á vélakosti, engin hagnýting vísinda í þágu framleiðslu, engar nýjar nýlendur, engir fólksflutningar úr landi, engir markaðsvinningar, ekkert verzlunarfrelsi né heldur allt þetta til samans, mun megna að útrýma eymd og fátækt iðnaðarverkalýðsins, heldur mun sérhver ný aukning á framleiðni vinnuaflsins á núverandi fölskum grundvelli aðeins verða til að auka félagslegt misrétti og skerpa þjóðfélagsandstæðurnar. Hungurdauðinn varð næstum að fastri stofnun í höfuðstað brezka heimsveldisins á þessu tímabili svimandi framfara á sviði efnahagsmála. Þetta tímabil einkennist í annálum heimsmarkaðsins af aukinni tíðni, útbreiðslu og sífellt meir og meir niðurdrepandi áhrifum þjóðfélagssjúkdóms þess, sem viðskipta- og iðnaðarkreppa kallast.

Eftir ósigur byltinganna 1848 voru allir flokkar verkalýðsins á meginlandinu og öll málgögn hans kramin í járngreip valdhafanna, þroskuðustu synir verkalýðsins flýðu í örvæntingu til lýðveldisins handan Atlantshafsins og hinn skammlífi frelsisdraumur hvarf fyrir tímum sóttkenndrar iðnþróunar, siðferðilegrar rotnunar og pólitísks afturhalds. Ósigur verkalýðsins á meginlandinu hafði fljótlega sín smitandi áhrif hérnamegin við Ermarsund, en í honum átti utanríkisstefna ensku stjórnarinnar, þá

eins og nú í einlægu bræðralagi við stjórnina í St. Pétursborg, ekki svo lítinn þátt. Um leið og þessi ósigur stéttarbræðranna á meginlandinu dró kjarkinn úr ensku verkalýðsstéttinni og lamaði trú hennar á eigin málstað, gaf hann jarðeigendum og peningafurstum aftur sjálfstraustið, sem áður hafði beðið nokkurn hnekki. Á óskammfeilinn hátt sviku þeir nú öll loforð um tilslakanir, sem þeir höfðu gefið. Fundur nýrra gull-landa[1] leiddi til óhemjulegs útstreymis fólks, sem skildi eftir ófyllt skörð í röðum brezks verkalýðs. Aðrir úr þeim hópi verkalýðsins, sem áður var virkastur í baráttunni, hafa látið ginnast vegna meiri vinnu og hærri launa um stundarsakir og „lagað sig að ríkjandi aðstæðum". Allar tilraunir, sem gerðar hafa verið til að viðhalda eða endurlífga chartistahreyfinguna hafa mistekizt átakanlega, blöð og málgögn verkalýðsins lognuðust út af hvert á fætur öðru sökum áhugaleysis fjöldans og í raun og veru hefur ensk verkalýðsstétt aldrei virzt sætta sig eins fullkomlega við að vera einskismetin á stjórnmálasviðinu. Hafi því ekki áður verið hægt að tala um sameiginlega baráttu verkalýðsins í Bretlandi og á meginlandinu, þá var nú að minnsta kosti hægt að tala um sameiginlegan ósigur.

Og þó hefur tímabilið eftir byltingarnar 1848 ekki verið alveg laust við að eiga sér bjartari hliðar. Við skulum hér aðeins benda á tvo mikilvæga árangra.

Eftir þrjátíu ára baráttu, sem háð var af aðdáanlegri þrautseigju, heppnaðist ensku verkalýðsstéttinni að fá samþykkt tíu stunda lögin, með því að hagnýta sér stundarágreining milli jarðeigendanna og peningafurstanna. Það er nú viðurkennt af öllum, hvílíkur geysiávinningur þetta var fyrir verksmiðjuverkamennina, líkamlega, andlega og siðferðilega, enda skjalfest tvisvar á ári í skýrslum verksmiðjueftirlitsins. Flestar ríkisstjórnir á meginlandinu hafa orðið að innleiða hjá sér ensku verksmiðjulöggjöfina, meira eða minna lagaða til, og enska þingið hefur á hverju ári neyðzt til að láta hana ná til fleiri og fleiri sviða. En auk þessara áþreifanlegu ávinninga hefur þessi glæsilegi árangur af baráttu verkamannanna aðra hlið, sem mikilvægt er að halda á loft. Fyrir munn frægustu talsmanna sinna á vísindasviðinu, eins og dr. Ure, prófessors Senior og annarra slíkra spekinga, hafði borgarastéttin spáð því og sannað það af hjartans lyst, að sérhver takmörkun löggjafans á vinnutíma myndi verða líkhringing yfir brezkum iðnaði, sem eins og blóðsugurnar gæti ekki lifað nema á mannsblóði, jafnvel blóði barna. Í fornöld voru barnamorð þáttur í dularfullum helgisiðum við dýrkun guðsins Móloks, en þau áttu sér þó aðeins stað við mjög

[1] Gullnámusvæðin í Kaliforníu og Ástralíu fundust 1848. – *Útg.*

hátíðlegar athafnir, kannski einu sinni á ári og Mólok sóttist þá ekkert sérstaklega eftir börnum fátæks fólks.

Þessi barátta um lögboðna takmörkun vinnutíma varð heiftúðugri fyrir það, að hún snerti, að óttasleginni fégirnd undanskilinni, sjálft hið mikla deilumál milli blindra lögmála framboðs og eftirspurnar annarsvegar, sem eru grundvöllur hagfræðikenninga borgarastéttarinnar og hinsvegar félagslegrar stjórnar á framleiðslunni, sem byggist á skilningi og framsýni, en þar í felast hagfræðikenningar verkalýðsins. Þar af leiðandi voru tíu stunda lögin ekki aðeins mikill sigur að því er snerti beinan, hagnýtan árangur, heldur var þetta sigur í grundvallaratriði. Þetta var í fyrsta sinn, sem hagfræðikenningar borgarastéttarinnar urðu að lúta í lægra haldi, svo að öllum var augljóst, fyrir hagfræðikenningum verkalýðsstéttarinnar.

En eftir var samt ennþá stærri sigur hagfræðikenninga vinnunnar yfir hagfræðikenningum auðmagnsins. Hér er átt við samvinnuhreyfinguna, sér í lagi samvinnuverksmiðjurnar, sem komið var á fót af fáeinum djarfhuga „höndum“ af eigin rammleik. Gildi þessara miklu þjóðfélagstilrauna verður ekki ofmetið. Þær hafa sýnt í verki í stað rökræðna, að framleiðsla í stórum stíl og samkvæmt kröfum nútíma vísinda getur átt sér stað, án þess að til sé stétt herra (masters), sem hafi í þjónustu sinni stétt „handa“, að tæki framleiðslunnar geta skilað afrakstri þótt þau séu ekki notuð sem tæki til yfirdrottnunar og féflettingar á verkamanninum sjálfum og að launavinnan, alveg eins og vinna þrælanna og ánauðarvinnan, er aðeins tímabundið og félagslega vanþróaðra form, sem dæmt er til að hverfa fyrir samstilltri vinnu fúsra handa, sem stunda verk sitt af skilningsríkum hug og glöðu hjarta. Í Englandi var það Robert Owen, sem sáði fræi samvinnuhugsjónarinnar. Tilraunir verkamanna á meginlandi Evrópu voru í rauninni næsti hagnýti árangurinn af þessum kenningum, sem voru ekki uppfundnar, en mjög á lofti hafðar 1848.

Samtímis hefur reynsla tímabilsins frá 1848 til 1864 sannað svo ekki verður um villzt, það sem glöggskyggnustu foringjar verkalýðsins sögðu þegar 1851 og 1852 varðandi samvinnuhreyfinguna í Englandi, að hversu ágæt sem samvinnan er sem meginregla og gagnleg í framkvæmd, þá megnar hún ekki, ef henni er haldið innan takmarka tilviljanakenndrar viðleitni einstakra verkamanna, að hemja vöxt einokunarkerfisins, – sem á sér stað eftir formúlum flatarmálsfræðinnar, – að veita fjöldanum frelsi né gera honum neitt léttara svo um muni að bera eymdarkjör sín. Það er e. t. v. af þessari ástæðu, sem góðgjarnir aðalsmenn, borgaralegir mannkærleika-skrumarar og jafnvel nokkrir harðsoðn-

ir hagfræðingar hafa allt í einu tekið að hlaða væmnu lofi á þá sömu samvinnuhreyfingu, sem þeir höfðu árangurslaust reynt að kyrkja í fæðingu, með því að skopast að henni sem sæluríki draumóramanna eða brennimerkja hana sem villutrú sósíalista. Til þess að veita hinum vinnandi fjölda frelsi verður samvinnuhreyfingin að ná til þjóðarinnar í heild, sem efli hana með þeim tækjum og fjármunum, sem hún ræður yfir. En drottnarar jarðeigna og auðmagns munu samt alltaf nota pólitísk sérréttindi sín til verndar og ævarandi viðhalds efnahagseinokun sinni. Í stað þess að efla frelsi verkalýðsins munu þeir ávallt halda áfram að leggja þar í veginn hverja þá hindrun, sem þeir geta. Minnizt háðsyrðanna, sem Palmerstone lávarður hreytti á síðasta þingi í þá, sem börðust fyrir réttindum hinna írsku leiguliða. „Neðri málstofan", hrópaði hann, „er málstofa jarðeigenda"! Það er þessvegna orðin helgasta skylda verkalýðsstéttarinnar, að ná hinu pólitíska valdi í sínar hendur. Og hún virðist hafa skilið þetta, því að í Englandi, Þýzkalandi, Ítalíu og Frakklandi hefur samtímis átt sér stað vakning og þar eru nú gerðar samtímis tilraunir til að endurskipuleggja hina pólitísku flokka verkalýðsins.

Einu frumskilyrði sigursins ráða verkamennirnir yfir: mannfjöldanum, en fjöldi er því aðeins afl, að hann sé sameinaður í samtökum og láti stjórnast af reynslu og þekkingu. Fengin reynsla hefur sýnt hve það hefnir sín að rækja ekki þau tengsl bræðralags, sem eiga að tengja saman verkalýðsstéttir hinna ýmsu landa og vera þeim hvatning til órjúfandi samstöðu í frelsisbaráttunni, þeim er þá refsað með því, að hin sundurlausa viðleitni leiðir til sameiginlegs ósigurs. Það var í meðvitundinni um þetta, sem verkamenn ýmissa landa samankomnir á opinberum fundi 28. september 1864 í St. Martin's Hall, stofnuðu Alþjóðasamband verkamanna.

Ef frelsun verkalýðsins í hinum ýmsu löndum útheimtir bróðurleg tengsl og samvinnu, hvernig er þá hægt að ná því háleita takmarki með því að búa við utanríkisstefnu, sem rekin er í glæpsamlegum tilgangi, æsir upp þjóðernislega fordóma og sóar í ránsstyrjöldum blóði og auðæfum þjóðanna? Það voru ekki hyggindi hinna ráðandi stétta heldur hetjuleg barátta verkalýðsins í Englandi gegn glæpsamlegri heimsku hennar, sem bjargaði Vestur-Evrópu frá því að verða steypt út í svívirðilega krossferð yfir Atlanzhafið til viðhalds og eflingar þrælahaldinu.[1]

[1] Hér er vísað til hinnar öflugu baráttu, sem háð var af enskum verkamönnum meðan stóð á borgarastríðinu í Bandaríkjunum, baráttu, sem beindist gegn tilraunum borgarastéttanna í Englandi og Frakklandi til að skipuleggja hernaðaríhlutun til stuðnings Suðurríkjunum, sem börðust fyrir þrælahaldi. – *Útg.*

Sú óskammfeilna ánægja, hræsnis-samúð eða fábjánalegt afskiptaleysi, sem lýsti sér í viðbrögðum yfirstétta Evrópu, er þær sáu hvernig fjallavirki Kákasus féllu í hendur Rússum,[1] og hvernig þeir murkuðu niður hetjur Póllands hemjulaus yfirgangur þessa villimannlega ofurvalds, sem átölulaust hefur fengið að fara sínu fram og á höfuð sitt í St. Pétursborg, en hendur í öllum ráðuneytum Evrópu; þetta allt hefur kennt verkalýðnum, að það er skylda hans, að tileinka sér leyndardóma alþjóðastjórnmála, að hafa gætur á aðgerðum ríkisstjórna sinna í utanríkismálum, berjast gegn þeim, ef nauðsyn krefst, með öllum tiltækum ráðum og ef ekki tekst að hindra þær, þá að bindast samtökum um samhljóða fordæmingu á þeim og að hefja hin einföldu lögmál siðgæðis og réttlætis, sem eiga að ráða í samskiptum manna á milli, til vegs og virðingar sem æðstu boðorð í samskiptum milli þjóðanna.

Baráttan fyrir slíkri stefnu í alþjóðamálum er þáttur hinnar almennu baráttu fyrir frelsun verkalýðsstéttarinnar.

Öreigar allra landa, sameinizt!

[1] Marx á hér við það, þegar rússneska keisarastjórnin braut undir sig Kákasuslöndin, sem leiddi til kúgunar og örbirgðar þessara þjóða, einnig þegar hún braut á bak aftur byltingarhreyfinguna í Póllandi 1863–1864. – *Útg.*

# Bráðabirgðalög Alþjóðasambandsins

*Vér skírskotum til þess:*

Að lausn verkalýðsstéttarinnar verður að vera hennar eigið verk.

Að baráttan fyrir lausn verkalýðsstéttarinnar er ekki barátta fyrir stéttarforréttindum né einokun, heldur fyrir jöfnum rétti og jöfnum skyldum og fyrir afnámi alls stéttarvalds.

Að efnahagsleg undirokun verkamannsins af hendi eigenda framleiðslutækjanna, en þau eru uppspretta mannlegs lífs, liggur til grundvallar öllum þrældómi, í hvaða mynd sem er, öllu félagslegu misrétti, andlegri niðurlægingu og pólitísku ófrelsi.

Að efnahagsleg lausn verkalýðsstéttarinnar er hið mikla takmark, sem sérhver pólitísk hreyfing verður að þjóna og líta á sig sem tæki til að ná.

Að öll viðleitni til að ná því takmarki hefur hingað til strandað á skorti á einingu verkamanna í hinum ýmsu atvinnugreinum hvers lands og á vöntun bróðurlegs sambands verkalýðsstétta hinna ýmsu landa.

Að lausn vinnunnar er verkefni, sem hvorki takmarkast við einstaka staði né landamæri, heldur er það félagslegt viðfangsefni, sem nær til allra landa, sem búa við nútíma þjóðfélagshætti, og er lausn þess komin undir samvinnu, bæði fræðilegri og í verki, milli þeirra þjóða, sem lengst eru komnar á veg.

Að sú hreyfing, sem nú er risin í flestum iðnaðarlöndum Evrópu vekur nýjar vonir, en er um leið alvarleg viðvörun við afturhvarfi til fyrri mistaka og hvetur til tafarlausrar einingar þeirra afla, sem nú eru sundruð.

*Af þessum ástæðum* ·

hafa undirritaðir nefndarmenn, sem falið var það verkefni með ályktun opinbers fundar 28. september 1864 í St. Martin's Hall, London, gert nauðsynlegar ráðstafanir til stofnunar Alþjóðasambands verkamanna.

Þeir lýsa yfir því, að þetta Alþjóðasamband og öll félagssamtök og einstaklingar, sem gerast aðilar þess, munu viðurkenna sannleika, réttlæti og siðgæði sem grundvallaratriði framkomu sinnar hvert við annað og gagnvart öllum mönnum, án aðgreiningar vegna litarháttar, trúarbragða eða þjóðernis .

Þeir álíta það skyldu mannsins, að krefjast réttar síns sem manns og þegns, ekki aðeins sjálfum sér til handa, heldur og sérhverjum manni sem gerir skyldu sína. Engin réttindi án skyldu, engin skylda án réttinda.

Og í þessum anda hafa þeir tekið saman eftirfarandi bráðabirgðareglur fyrir Alþjóðasambandið:

1. Þetta samband er stofnað til þess, að koma á fót miðstöð fyrir samskipti og samvinnu verkalýðsfélaga, sem starfa í hinum ýmsu löndum og stefna að sama marki, þ. e. að vernd, viðgangi og fullkomnu frelsi verkalýðsstéttarinnar.

2. Nafn samtakanna skal vera: Alþjóðasamband verkamanna.

3. Á árinu 1865 skal halda í Belgíu almennt þing verkamanna, sem sótt sé af fulltrúum þeirra verkalýðsfélaga, sem gengið hafa í Alþjóðasamband verkamanna. Þetta þing skal gera þjóðum Evrópu kunnug sameiginleg markmið verkalýðsstéttanna, ákveða endanleg lög og samþykktir Alþjóðasambandsins, gera nauðsynlegar ráðstafanir til að það geti haldið uppi árangursríku starfi og kjósa sambandinu miðstjórn (Central Council, síðar nefnd General Council). Almennt þing skal halda einu sinni á ári.

4. Miðstjórnin skal sitja í London og í henni vera verkamenn frá öllum löndum, sem aðilar eru að Alþjóðasambandinu. Það skal kjósa úr sínum hópi þá starfsmenn, sem nauðsynlegir eru fyrir rekstur sambandsins svo sem forseta, gjaldkera, aðalritara, bréfritara fyrir hin ýmsu lönd o. s. frv.

5. Á hinum árlegu fundum skal miðstjórnin gefa almenna þinginu opinbera skýrslu um starfsemi hvers árs. Miðstjórnin, sem kosin er árlega af þinginu, skal hafa vald til að bæta við sig mönnum. Ef bráð nauðsyn krefur, getur hún kallað almenna þingið saman fyrir venjulegan fundartíma.

6. Miðstjórnin skal vera alþjóðlegur tengiliður milli hinna ýmsu samtaka, sem ganga til þessarar samvinnu, og sjá um að verkamenn í einu landi fái ávallt upplýsingar um starfsemi stéttarbræðra þeirra í öllum öðrum löndum, hún skal annast um að gerðar séu athuganir á félagslegum aðstæðum í hinum ýmsu löndum Evrópu samtímis og undir sameiginlegri stjórn, að deilumál, almenns eðlis, sem upp kunna að koma í einstökum félögum, séu rædd í þeim öllum og að þegar þörf er tafarlausra aðgerða, svo sem þegar um er að ræða millirríkjadeilur, þá séu aðgerðir aðildarfélaganna samræmdar bæði hvað varðar framkvæmdaatriði og

tímasetningu. Hvenær sem það þykir henta, skal miðstjórnin eiga frumkvæði að tillögum, sem lagðar séu fyrir hin ýmsu landssambönd eða einstök félög.

7. Þar sem verkalýðshreyfing hvers einstaks lands fær engu áorkað nema með afli samtaka og skipulags og þar sem á hinn bóginn gagnsemi hinnar alþjóðlegu miðstjórnar er að miklu leyti undir því komin hvort hún hefur til samstarfs fáein stór landssambönd verkalýðsfélaga eða mikinn fjölda lítilla, sundurlausra félaga einstakra staða, skulu aðilar Alþjóðasambandsins hver í sínu landi gera sitt ýtrasta til að skipuleggja hin sundurlausu verkalýðsfélög í landssambönd, sem láti miðstjórnir koma fram fyrir sína hönd. Það leiðir samt af sjálfu sér, að framkvæmd þessarar reglu fer eftir þeim lagaákvæðum, sem eru í hverju landi og burtséð frá lagalegum hindrunum, þá skulu engin sjálfstæð félög einstakra staða vera útilokuð frá því, að snúa sér beint til miðstjórnarinnar í London.

7a.[1] Í baráttu sinni gegn sameinuðum öflum eignastéttanna getur verkalýðurinn aðeins á þann hátt komið fram sem stétt, að hann skipuleggi sig í eigin pólitískum flokki gegn öllum eldri flokkum eignastéttanna, sem myndaðir hafa verið.

Þessi sameining verkalýðsins í pólitískum flokki er óhjákvæmileg til að tryggja sigur hinnar þjóðfélagslegu byltingar og ná lokatakmarkinu – afnámi stéttanna.

Sú sameining krafta verkalýðsins, sem þegar hefur náðzt í hagsmunabaráttunni, á að verða lyftistöng í höndum þessarar stéttar í baráttunni gegn pólitískum völdum arðræningjanna.

Þar sem drottnarar jarðeigna og auðs nota sér stöðugt hin pólitísku sérréttindi til verndar og viðhalds efnahagslegri einokunaraðstöðu sinni og til undirokunar vinnunnar, þá er það háleit skylda verkalýðsins, að ná hinum pólitísku völdum í sínar hendur.

8. Þar til fyrsta þingið kemur saman, skal nefndin, sem kosin var 28. september 1864, starfa sem bráðabirgða miðstjórn. Hún skal leitast við að fá verkalýðsfélög hinna ýmsu landa til að ganga í sambandið, afla aðildarfélaga í Bretlandi, gera nauðsynlegar undirbúningsráðstafanir og annast samkvaðningu almenna þingsins og ræða við samtök og félög einstakra landa um þau aðalmál, sem lögð verða fyrir þingið.

9. Sérhver félagsmaður, sem flyzt búferlum milli landa, mun hljóta bróðurlega aðstoð verkamannasamtakanna.

10. Þótt þau séu bundin varanlegum böndum bróðurlegrar sam-

---

[1] Á þingi Alþjóðasambandsins í Haag 1872 var samþykkt að fella inn í lögin *grein 7a* og þótti rétt að taka hana með hér. – *Útg.*

vinnu, munu öll verkalýðsfélög, sem ganga í Alþjóðasambandið, halda sínum félagslegu stofnunum óskertum.

Bráðabirgðastjórn sú, sem kosin var á stofnfundi Alþjóðasambands verkamanna 28. september 1864, kaus undirnefnd, sem Marx átti sæti í, til að semja drög að stefnuyfirlýsingu og starfsreglum fyrir sambandið. Eftir nokkur fundahöld í báðum þessum nefndum, lagði Marx fram sem tillögur ávarp það og bráðabirgðalög, sem þýdd eru hér að framan. Var hvorttveggja samþykkt einróma af ráðinu 1. nóvember sama ár. Marx segir í bréfi til Engels 4. nóv. 1864: „Það var mjög erfitt að semja þetta þannig að sjónarmið okkar kæmu fram í formi, sem aðgengilegt væri á því stigi, er verkalýðshreyfingin nú stendur á. – Það mun líða nokkur tími unz hin endurvakta hreyfing þolir fyrri dirfsku í málflutningi.“

Á þingi Alþjóðasambandsins í Genf 1866 voru lögin samþykkt með smávægilegum viðaukum. Um haustið 1866 þýddu þeir Marx og Lafargue lögin á frönsku og komu þau út í nóvemberlok í London. Árið eftir komu þau út á ensku og þá með þeim breytingum, sem gerðar voru á þinginu í Lausanne 1867. Á þingunum í Brüssel 1868 og Basel 1869 voru margar breytingar gerðar á lögunum.

Nú voru komnar í umferð ólíkar útgáfur af lögunum, þar sem sumar breytingar voru teknar með, aðrar ekki, og í nokkrum þýðingum, t. d. proudhonista í Frakklandi, var veigamiklum atriðum sleppt. Af þessum ástæðum fluttu þeir Marx og Engels tillögu um það á þinginu í London 1871 að gefa lögin út á helztu málum Evrópu og endurskoða þau fyrir þá útgáfu.

Í september og október 1871 bjuggu þeir Marx og Engels þessa nýju útgáfu til prentunar, endurskoðuðu allar breytingar frá þingum, námu burt þær sem tapað höfðu gildi, sömdu nýjan „viðauka“ og rökstuddu þar allar breytingar og viðbætur. Komu þau síðan út, fyrst á ensku fyrrihluta nóvembermánaðar sama ár, síðan á þýzku, frönsku og fleiri málum.

Í úrvali úr ritum þeirra Marx og Engels er ýmist birtur textinn frá 1864 eða 1871, og þó oftar sá síðari. Við samanburð sést, að furðu lítill orðamunur er á þeim greinum, sem mestu máli skipta, þótt aðrar breytingar séu nokkrar og greinar fleiri. Hér er hafður sá háttur að þýða upprunalega textann. – *Útg.*

KARL MARX

# Borgarastríðið í Frakklandi

## Ávarp sambandsráðs Alþjóðasambands verkamanna[1]

## Inngangur
## að útgáfunni frá 1891 eftir Friedrich Engels

Ég var óviðbúinn þeirri beiðni, að gefa út að nýju Ávarp sambandsráðs Alþjóðasambandsins „Borgarastríðið í Frakklandi" og fylgja því úr hlaði með inngangi. Ég get þessvegna aðeins fjallað hér um þýðingarmestu atriðin.

Ég birti hér bæði styttri ávörpin frá sambandsráðinu um stríðið milli Frakka og Þjóðverja á undan aðalverkinu. Ein ástæðan fyrir því er, að í „Borgarastríðinu" er vitnað til seinna

[1] „Borgarastríðið í Frakklandi" er eitt af mikilvægustu ritum marxismans. Í því er reynslan af Parísarkommúnunni hagnýtt til að auðga grundvallarkenningar marxismans um stéttabaráttuna, ríkið, byltinguna og alræði öreiganna. Verkið var skrifað sem ávarp sambandsráðs Alþjóðasambands verkamanna og sent deildum þess í Evrópu og Bandaríkjunum. Marx fylgdist af gaumgæfni með störfum Kommúnunnar, allt frá upphafi, og viðaði að sér upplýsingum úr frönskum, enskum og þýzkum blöðum, einkabréfum frá París o. s. frv. Þann 18. apríl 1871 lagði hann til að Sambandsráðið gæfi út ávarp um hina „almennu tilhneigingu" baráttunnar í Frakklandi. Tillagan var samþykkt og Marx vann að samningu verksins síðara hluta apríl og allan maí. Það var samþykkt í Sambandsráðinu 30. maí, tveim dögum eftir að síðasta götuvígið féll í París. „Borgarastríðið í Frakklandi" var fyrst gefið út um miðjan júní 1871 í London. Var útgáfan á ensku. Upplagið – 1000 eintök – gekk fljótt til þurrðar og voru þá gefin út 2000 eintök til viðbótar. Voru þá nöfn ensku verkalýðsleiðtoganna Lucraft og Odger horfin af undirskriftalistanum, en þeir höfðu lýst sig ósamþykka ávarpinu í borgarablöðunum og sagt sig úr Sambandsráðinu. 1871–72 var verkið þýtt og gefið út á öllum helztu Evrópumálunum. Engels þýddi það á þýzku.

Árið 1891 ritstýrði Engels afmælisútgáfu á ávarpinu, en þá voru 20 ár liðin frá Parísarkommúnunni. Er hér fylgt texta þeirrar útgáfu og jafnframt látinn fylgja inngangur sá, er Engels skrifaði fyrir afmælisútgáfunni. Þá eru og látin fljóta með bæði ávörpin sem Sambandsráðið sendi frá sér um styrjöldina milli Frakka og Þjóðverja 1870–71. Hafa þau yfirleitt fylgt með í öllum útgáfum „Borgarastríðsins", enda eru þau ómissandi heimildir um aðdraganda Kommúnunnar. – *Útg.*

ávarpsins, sem hinsvegar skilst ekki til fulls án hins fyrra. Í öðru lagi af því, að þessi ávörp bæði, sem einnig eru samin af Marx, eru ekki síður en „Borgarastríðið“ frábær sýnishorn undraverðra eiginleika höfundar síns. Þessir hæfileikar, sem fyrst komu í ljós í „Átjánda brumaire Lúðvíks Bónaparte“, fólust í að gjörskilja eðli, umfang og óhjákvæmilegar afleiðingar mikilla atburða á þeim tíma, þegar þeir voru enn að gerast meðal okkar eða voru einmitt nýafstaðnir. Og að lokum vegna þess, að við í Þýzkalandi verðum enn í dag að þjást vegna þeirra afleiðinga þessara atburða, sem Marx sagði fyrir um.

Eða hefur það ekki komið fram, sem sagt var í fyrsta ávarpinu, að ef varnarstríð Þýzkalands gegn Lúðvík Bónaparte breyttist í landvinningastyrjöld gegn frönsku þjóðinni, myndi öll sú ógæfa er skall yfir Þýzkaland eftir hin svonefndu frelsisstríð dynja yfir á ný, og nú hálfu verri? Hefur Bismarck ekki enn verið við völd í ein tuttugu ár? Hafa ekki Bráðabirgðalögin[1] og sósíalistaofsóknirnar komið í stað Lýðskrumaraofsóknanna?[2] Hafa ekki fylgt þessu sömu ógnþrungnu lagaskýringarnar?

Og hefur ekki sannazt áþreifanlega sú spá, að innlimun Elsass-Lothringens myndi „varpa Frakklandi í faðm Rússlands“? Og að Þýzkaland myndi eftir innlimunina annaðhvort gerast yfirlýstur þræll Rússlands ellegar verða, eftir stutta hvíld, að búa sig undir nýja styrjöld, að þessu sinni „kynþáttastyrjöld gegn hinum sameinuðu kynþáttum Slava og Rómana“? Hefur innlimun frönsku héraðanna ekki fleygt Frakklandi í faðm Rússa? Hefur Bismarck ekki biðlað árangurslaust í heil tuttugu ár um hylli zarsins með því að veita honum þjónustu, sem var enn

[1] Bráðabirgðalögin (Sósíalistalög, „lög gegn þjóðhættulegri viðleitni sósíaldemókrata“) voru samþykkt á Ríkisþinginu í október 1878 að undirlagi Bismarcks. Þar með hafði Bismarck náð því takmarki að „sósíaldemókratarnir voru settir utan við lögin. Blöð verkamanna, yfir fimmtíu að tölu, voru bönnuð, sjóðir gerðir upptækir og fundir þeirra leystir upp af lögreglunni. Þetta allt var svo kórónað með því, að hægt er að lýsa heilar borgir og fylki í „hernaðarástand“ ...“ (F. Engels í „Bismarck og þýzki verkamannaflokkurinn“). Handtökur hófust og fjölda manns var vísað úr landi. Þrátt fyrir þessar kúgunaraðgerðir starfaði Sósíaldemókrataflokkurinn áfram ólöglega. Verkalýðsstéttinni tókst að knýja fram afnám laganna 1. október 1890. – *Útg.*

[2] Lýðskrumaraofsóknir nefndust ofsóknir á hendur andstöðuhreyfingu meðal þýzkra menntamanna eftir Napóleons-styrjaldirnar. Mörg þýzk stúdentafélög (Burschenschaften) risu upp á tímum baráttunnar gegn Napóleon og börðust gegn hinni íhaldssömu stjórnskipun í þýzku ríkjunum eftir Vínarfundinn. Þau skipulögðu stjórnmálafundi þar sem sett var fram krafan um sameiningu Þýzkalands. Árið 1819 drap stúdent nokkur, Sand að nafni, rússneska njósnarann Kozebue, sem var ákafur fylgismaður Helga bandalagsins. Var atburður þessi notaður sem átylla til þvingunaraðgerða gegn „lýðskrumurunum“, eins og meðlimir þessarar hreyfingar voru nefndir í samþykktum ráðherrafundar þýzku ríkjanna í Karlsbad 1819. – *Útg.*

lágkúrulegri en hið litla Prússland var vant að veita hinu heilaga Rússlandi, áður en Prússland varð „mesta stórveldi Evrópu“. Og hangir ekki Damoklesarsverð stríðsins stöðugt yfir höfði okkar; styrjaldar þar sem hin skjalfestu bandalög furstanna myndu hrynja eins og spilaborg þegar á fyrsta degi; styrjaldar sem engin vissa ríkir um nema hin algjöra óvissa um úrslitin; kynþáttastríðs þar sem fimmtán til tuttugu milljónir vopnaðra manna færu eldi um alla Evrópu? Því aðeins hefur þessi styrjöld ekki skollið á enn, að jafnvel það öflugasta af herveldunum stóru óar við því, hve erfitt er að segja fyrir um úrslit hennar.

Þeim mun frekar er það skylda okkar að veita þýzkum verkamönnum aðgang að þessum hálfgleymdu frábæru sönnunargögnum um framsýna alþjóðastefnu verkamanna frá árinu 1870.

Það sem á við um bæði þessi ávörp á einnig við um „Borgarastríðið í Frakklandi“. Hinn 28. maí voru síðustu bardagamenn Kommúnunnar ofurliði bornir í Belleville-brekkunum. Þegar tveim dögum síðar, 30. maí, las Marx verk sitt upp fyrir sambandsstjórnina. Þar var söguleg þýðing Parísarkommúnunnar dregin upp í stuttum kröftugum en svo meitluðum og framar öllu svo sönnum dráttum, að engu er til að jafna í öllu því ógrynni ritaðs máls, sem síðar hefur fjallað um þetta efni.

Vegna efnahagslegrar og stjórnmálalegrar þróunar í Frakklandi eftir 1789 hefur París í fimmtíu ár búið við það ástand, að þar gat ekki gerzt bylting án þess að hún yrði í eðli sínu öreigabylting. Það gerðist þannig að öreigastéttin, sem kaupir sigur sinn með blóði, setti að unnum sigri fram sínar eigin kröfur. Þessar kröfur voru að meira eða minna leyti óskýrar og jafnvel ruglingslegar. Það fór eftir þroska verkamannanna í París hverju sinni. En í raun og veru stefndu þær allar að því að má burtu stéttaandstæðurnar milli kapítalista og verkamanna. Að vísu vissu menn ekki hvernig það átti að gerast. En sjálf krafan, hversu óljóst sem hún var sett fram, fól í sér hættu fyrir ríkjandi þjóðskipulag. Verkamennirnir, sem settu hana fram, voru enn vopnaðir. Afvopnun verkamannanna var því fyrsta boðorð borgaranna, sem héldu um stjórnvöl þjóðarskútunnar. Þessvegna hófst ný barátta eftir hverja byltingu, sem verkamenn báru fram til sigurs. Sú barátta endaði ætíð með ósigri verkamanna.

Þetta gerðist í fyrsta sinn 1848. Hinir frjálslyndu borgarar stjórnarandstöðunnar í þinginu[1] héldu veizlur, þar sem krafizt var umbóta á kosningalöggjöfinni, sem áttu að tryggja flokki

[1] Hinir frjálslyndu borgarar í stjórnarandstöðunni studdu Orleans-ættina, en álitu að völd hennar yrðu bezt tryggð og komið í veg fyrir byltingu með hófsamri rýmkun á ákvæðum kosningalaganna. – *Útg.*

þeirra völd. Í baráttu sinni við ríkisstjórnina neyddust þeir æ meir til að höfða til alþýðunnar. Smátt og smátt neyddust þeir til að láta forustuna af hendi við hina róttæku og lýðveldissinnuðu hluta borgara- og smáborgarastéttanna. En að baki þeim stóðu hinir byltingarsinnuðu verkamenn. Þeir höfðu öðlazt mun meira stjórnmálalegt sjálfstæði eftir 1830 en borgararnir og jafnvel lýðveldissinnarnir renndu grun í. Þegar átökin hófust milli ríkisstjórnarinnar og stjórnarandstöðunnar voru það verkamennirnir, sem hófu götubardagana. Lúðvík Filippus hvarf og með honum umbæturnar á kosningalögunum. Í þeirra stað reis lýðveldið, sem hinir sigursælu verkamenn sjálfir nefndu „félagslega" lýðveldið. Enginn, og ekki heldur sjálfir verkamennirnir voru sér fyllilega meðvitandi um hvaða skilning bar að leggja í þetta félagslega lýðveldi. En nú höfðu þeir vopn og voru orðnir að valdi í ríkinu. Þessvegna var það fyrsta takmark stjórnar lýðeldissinna, er þeir stóðu orðið nokkurnveginn föstum fótum, að afvopna verkamennina. Þetta tókst með því að svíkja beinlínis loforð við þá, smána þá opinberlega og gera tilraun til þess að dæma þá atvinnulausu í útlegð í útkjálkasveitum. Þeir voru þvingaðir í uppreisnina í júní 1848.[1] Stjórnin hafði séð fyrir því að ofurefli hennar var yfirþyrmandi. Verkamennirnir lutu í lægra haldi eftir fimm daga hetjulega baráttu. Og í kjölfar þessa fylgdi dráp varnarlausra fanga, sem ekki átti sinn líka síðan á dögum borgarastyrjaldanna, sem voru upphafið að hruni rómverska lýðveldisins. Þetta var í fyrsta sinn, sem borgarastéttin sýndi þá vitskertu grimmd hefndaræðisins, sem grípur hana um leið og öreigastéttin vogar sér að birtast andspænis henni sem sérstök stétt með eigin hagsmuni og eigin kröfur. Og þó voru atburðirnir 1848 aðeins barnaleikur hjá æðinu, sem á hana rann árið 1871.

En henni hegndist von bráðar fyrir þetta. Öreigastéttin var enn ekki orðin fær um að stjórna Frakklandi; en borgarastéttin var ekki fær um að stjórna því lengur, að minnsta kosti ekki á meðan hún var að meirihluta til konungssinnuð. Hún var klofin í þrjá flokka konungssinna[2] og einn lýðveldissinnaðan. Þessir flokkadrættir gerðu ævintýramanninum Lúðvík Bónaparte kleift

---

[1] Uppreisn verkamanna í París 24.–26. júní 1848. Cavaignac hermálaráðherra kæfði hana í blóði. Engels nefndi þessa uppreisn „fyrstu orustuna milli öreiganna og borgarastéttarinnar". – *Útg.*

[2] Lögerfðamenn voru stuðningsmenn annarrar af tveimur kvíslum úr Bourbon-ættinni, sem töldust réttbornar til valda. Sú ætt ríkti í Frakklandi 1589–1793 og á viðreisnartímanum (restauration) 1814–30. Þeir voru fulltrúar erfðaaðalsins meðal stórjarðeigenda. *Orleanistar* voru fylgismenn Orleans-ættarinnar, sem ríkti í Frakklandi 1830–48 (Júlíkonungdæmið, kennt við valdatökuna í júlí 1830). Þeir voru fulltrúar fésýslumanna og stóriðju-

að ná öllum máttarstoðum ríkisins á sitt vald – hernum, lögreglunni, stjórnarbákninu – og sprengja síðasta örugga vígi borgarastéttarinnar, þjóðþingið, 2. desember 1851. Óaldarflokkur stjórnmála- og fjárglæframanna tók að mergsjúga Frakkland á tímum annars keisaraveldisins. En jafnframt hófst þá iðnþróun, sem ekki hafði verið framkvæmanleg innan hins smásmugulega og kveifarlega stjórnkerfis Lúðvíks Filippusar, þar sem aðeins lítill hluti stórborgarastéttarinnar sat einn að völdunum. Lúðvík Bónaparte svipti kapítalistana stjórnmálalegum völdum sínum undir því yfirskini að hann væri að vernda þá gegn verkamönnum, og á hinn bóginn verkamenn gegn þeim. En í staðinn studdi stjórn hans gróðabrall og atvinnurekstur, í fáum orðum uppgang og auðsöfnun gervallrar borgarastéttarinnar í ríkari mæli en hingað til hafði þekkzt. Að vísu þróuðust þau öfl í enn ríkari mæli, sem lifðu á spillingu og stórkostlegum fjársvikum. Þau flykktust að keisarahirðinni og drógu sér eigi alllítinn hundraðshluta fyrrnefndrar auðsöfnunar.

En Annað keisaraveldið höfðaði þó ekki sízt til frönsku þjóðrembingsstefnunnar. Það krafðist endurheimtar landamæra Fyrsta lýðveldisins. Franskt keisaraveldi var óhugsandi til lengdar innan hinna gömlu landamæra konungdæmisins, og það m. a. s. hinna þröngu landamæra frá 1815. Af þessu leiddi að tímabundnar styrjaldir og landamæraútfærslur voru óumflýjanlegar. Engin landamæraútfærsla lyfti hugarflugi frönsku þjóðrembumannanna í aðrar eins hæðir og draumurinn um að leggja undir sig hinn þýzka vinstri bakka Rínar. Þótti þeim meiri fengur í einni fermílu við Rín en tíu í Ölpunum eða annarsstaðar. Það eitt var óvíst, hvenær krafan um endurheimt vinstri bakka Rínar, í heilu lagi eða í spildum, yrði sett fram, svo lengi sem Annað keisaraveldið stóð. Þessi stund rann upp með stríðinnu milli Prússa og Austurríkismanna 1866. Þar sem bæði Bismarck og hin ofkæna hikstefna hans sjálfs höfðu prettað hann um þær „bætur fyrir landamissinn“, sem hann hafði vænt sér, átti Bónaparte nú ekki um annað að velja en fara í stríð. Það skall á 1870 og hrakti hann til Sedan[1] og þaðan til Wilhelmshöhe.[2]

Hin óumflýjanlega afleiðing var byltingin í París 4. septem-

hölda. Á tímum Annars keisaraveldisins mynduðu báðir þessir armar kjarnann í hinum íhaldssama stjórnfestuflokki“ (Parti de l'Ordre). – Bónapartistar, stuðningsmenn Bónapartes, skipulögðu sig ekki sem flokk fyrr en 1871. – *Útg.*

[1] Í orustunni við Sedan 1. og 2. sept. 1870 umkringdu þriðji og fjórði her Prússa heri Frakka undir stjórn Mac-Mahons. Frakkar gáfust upp eftir harða bardaga. Napóleon 3. og áttatíu þúsund manna lið hans voru tekin til fanga. Ófarirnar við Sedan flýttu fyrir hruni Annars keisaraveldisins og leiddu til lýðveldisstofnunarinnar í París 4. sept. 1870. Styrjöldin var í

ber 1870. Keisaraveldið hrundi eins og spilaborg og lýst var yfir stofnun lýðveldis. En óvinurinn stóð við borgarhliðin. Herir keisaraveldisins voru ýmist í vonlausri herkví í Metz eða í haldi í Þýzkalandi. Í þessum nauðum heimilaði alþýðan fulltrúum Parísar á fyrrverandi löggjafarþingi að dubba sig upp í „landvarnastjórn". Þetta var leyft þeim mun fúslegar, að nú höfðu allir vopnfærir íbúar Parísar í varnarskyni gengið í þjóðvarðliðið og vopnazt, þannig að verkamenn voru þar í miklum meirihluta. En andstæðurnar komu fljótt í ljós milli stjórnarinnar, sem var nær eingöngu skipuð borgurum, og hinnar vopnuðu öreigastéttar. Hinn 31. október gerðu verkamannaherflokkar áhlaup á ráðhúsið og tóku nokkra af ráðherrunum fasta. Svik og brigðmælgi stjórnarinnar ásamt íhlutun nokkurra broddborgaraherflokka frelsuðu þá. Og til þess að ekki blossaði upp borgarastyrjöld í borginni sjálfri, sem var umsetin af erlendu herveldi, var gömlu stjórninni leyft að halda völdum.

Hinn 28. janúar gafst París loks upp í sveltinu. En hún gafst upp með meiri sóma en um getur í allri styrjaldarsögunni. Virkin voru látin af hendi og hringmúrinn afvopnaður. Vopn fastahersins og útboðsliðsins[1] voru afhent og litið á liðsmennina sem stríðsfanga. Þjóðvarðliðið hélt hinsvegar fallbyssum sínum og öðrum vopnum og gerði aðeins vopnahlé gagnvart sigurvegurunum. En þeir voguðu sér ekki sjálfir að fara sigurgöngu inn í Parísarborg. Þeir hættu aðeins á að hertaka lítið horn af borginni, sem þar á ofan var að nokkru leyti almenningsgarðar, og það aðeins í nokkra daga! Og allan þann tíma voru þeir, sem setið höfðu um París í 131 dag, umsetnir af vopnuðum verkamönnum Parísar. Þeir gættu þess vendilega að enginn „Prússi" færi yfir hin þröngu takmörk hornsins, sem látið hafði verið af hendi við hinn erlenda landræningja. Slíka virðingu vöktu verkamenn Parísar hjá þeim her, sem allir herir keisaraveldisins höfðu lagt niður vopn fyrir. Og prússnesku júnkararnir, sem voru

eðli sínu ekki lengur varnarstyrjöld af hálfu Prússa, enda komu nú landvinningaáform júnkaranna og prússnesku borgarastéttarinnar greinilega í ljós. Alþýða allra landa fékk nú það hlutverk að verja frönsku þjóðina í varnarstyrjöld hennar gegn Prússum. Marx fjallar um þetta breytta eðli styrjaldarinnar í „Öðru ávarpi Sambandsráðsins um stríðið milli Frakka og Þjóðverja". – *Útg.*

[2] Napóleon 3. hélt sig með fylgdarliði sínu í Wilhelmshöhe hjá Kassel, lystihöll prússnesku konunganna, á meðan hann var fangi Prússa (5. sept. 1870 – 19. marz 1871).

[1] Útboðsliðið (garde mobile) var stofnað samkv. tilskipun bráðabirgðastjórnarinnar 25. febrúar 1848 til að berjast við byltingaröflin. Það var einkum skipað illvirkjum og tötralýð (sjá lýsingu Marx í „Stéttabaráttan í Frakklandi 1848–50"). Því var beitt gegn uppreisn verkamanna í París í júní 1848. – *Útg.*

komnir til að taka út hefnd sína í þessari gróðrarstíu byltingarinnar, urðu að láta sér lynda að standa lotningarfullir og lyfta hendi til heiðurskveðju frammi fyrir þessari vopnuðu byltingu!

Á meðan styrjöldin stóð höfðu verkamennirnir í París látið sér nægja að krefjast þess, að baráttunni yrði haldið einarðlega áfram. En nú, þegar friður komst á eftir uppgjöf Parísar, hlaut Thiers, hið nýja höfuð ríkisstjórnarinnar, að sjá fram á, að stöðug hætta vofði yfir völdum eignastéttanna – stórjarðeigenda og kapítalista – svo lengi sem verkamenn borgarinnar voru undir vopnum. Fyrsta verk hans var að reyna að afvopna þá. Hinn 18. marz sendi hann deildir úr fastahernum með skipun um að ræna stórskotaliðsvopnum, sem þjóðvarðliðið átti. Þau höfðu verið smíðuð meðan París var í umsátri og greidd með opinberum framlögum. Tilraunin mistókst. París bjóst til varnar sem einn maður. Yfirlýst stríð hófst milli Parísar og frönsku ríkisstjórnarinnar, sem sat í Versailles. Hinn 26. marz var Parísarkommúnan kjörin og stofnun hennar kunngjörð þann 28. marz. Eftir að miðnefnd Þjóðvarðliðsins, sem fram til þessa hafði farið með völd, hafði lýst yfir því, að hin hneykslanlega „siðalögregla“ Parísar skyldi lögð niður, fékk hún völdin í hendur Kommúnunni. Hinn 30. marz afnam Kommúnan herskráninguna og fastaherinn og lýsti því yfir, að Þjóðvarðliðið væri eini herafli ríkisins, en í því skyldu allir vopnfærir borgarar vera. Hún gaf allar húsaleiguskuldir eftir frá október 1870 fram í apríl, en upphæðir, sem þegar höfðu verið greiddar, skyldu ganga upp í leigu eftir þann tíma. Hún stöðvaði sölu á veðsettum munum í veðlánahúsi borgarinnar. Sama dag var kjör þeirra útlendinga staðfest, sem kosnir höfðu verið í Kommúnuna, því „fáni Kommúnunnar er fáni heimslýðveldisins“.[1] – 1. apríl var ákveðið að laun starfsmanna Kommúnunnar, að meðlimum hennar sjálfrar meðtöldum mættu ekki vera hærri en 6000 frankar. Daginn eftir var gefin út tilskipun um aðskilnað ríkis og kirkju. Hætt var öllum opinberum greiðslum til trúariðkana og eignir kirkjunnar gerðar að almenningseign. Í samræmi við þetta var hinn 8. apríl lagt bann við öllum trúartáknum, myndum, kreddum, bænum, í stuttu máli, „öllu því, sem heyrir undir samvizku hvers og eins“,[2] í skólunum. Banninu var fylgt eftir í verki eftir því sem tími vannst til. – Vegna þess að það endurtók sig daglega, að handteknir kommúnuliðar voru skotnir af Verailles-hernum, gaf Kommúnan hinn 5. apríl út tilskipun um töku gísla, en hún

[1] Skýrsla kjörnefndar um kjör Kommúnunnar, birt 31. marz 1871 í málgagni Kommúnunnar, „Journal Officiel de la République française“. – *Útg.*

[2] Engels vitnar hér greinilega í ummæli Edouard Vaillant, fræðslufulltrúa Parísarkommúnunnar, birt í „Journal Officiel ...“ 12. maí 1871. – *Útg.*

kom aldrei til framkvæmda.[1] – Hinn 6. apríl sótti 137. herflokkur Þjóðvarðliðsins fallöxina og brenndi hana opinberlega við almennan fögnuð alþýðu. – Þann 12. apríl ákvað Kommúnan að brjóta niður Sigursúluna á Vendôme-torginu, þar sem hún væri táknmynd þjóðrembingsstefnu og þjóðahaturs. Þessa súlu hafði Napóleon látið steypa eftir styrjöldina 1809 úr fallbyssum, sem hann hafði tekið herfangi. Ákvörðunin kom til framkvæmda 16. maí. – Hinn 16. apríl skipaði Kommúnan fyrir um skrásetningu þeirra verksmiðja, sem iðnrekendur höfðu stöðvað. Gerðar skyldu áætlanir um rekstur verksmiðjanna. Skyldu stofnuð samvinnufélög verkamanna þeirra, sem þar höfðu unnið. Áttu þau að reka verksmiðjurnar og sameinast í einu félagasambandi. – Þann 20. apríl afnam hún næturvinnu bakaranna, svo og ráðningarstofu þá, er í tíð Annars keisaraveldisins hafði verið rekin sem einokunarstofnun nokkurra lúamenna – arðræningja af fyrstu gráðu – tilnefndra af lögreglunni. Verkefnum hennar var vísað til borgarstjórna hinna tuttugu borgarhverfa Parísar. – Hinn 30. apríl skipaði hún svo fyrir, að veðlánastofurnar skyldu afnumdar, þar sem þær væru einkastofnanir til að arðræna verkamenn og væru í andstöðu við rétt verkamanna til atvinnutækja sinna og rétt þeirra til að fá lán. – Þann 5. maí ákvað hún niðurrif iðrunarkapellu þeirrar, sem hafði verið reist til afplánunar fyrir aftöku Lúðvíks sextánda.

Stéttareðli hreyfingarinnar í París, sem horfið hafði í skugga baráttunnar gegn hinni erlendu innrás, kom þannig skýrt og greinilega fram eftir 18. marz. Kommúnan var því nær eingöngu skipuð verkamönnum ellegar viðurkenndum fulltrúum verkamanna. Ákvarðanir hennar voru eindregið í anda öreigastéttarinnar. Annaðhvort fyrirskipaði hún umbætur, sem hin lýðveldissinnaða borgarastétt hafði vanrækt í bleyðiskap sínum, en voru ómissandi grundvöllur að frjálsum athöfnum verkalýðsstéttarinnar, t. d. framkvæmd þess ákvæðis að *gagnvart ríkinu* væru trúarbrögðin einkamál; ellegar hún gaf út tilskipanir, sem voru beinlínis í þágu verkalýðsstéttarinnar og mörkuðu sumpart djúp spor í hið gamla þjóðskipulag. En í umsetinni borg var í hæsta lagi hægt að byrja á því að hrinda öllu þessu í framkvæmd. Og frá byrjun maí að telja þurfti á öllum kröftum að halda í baráttunni gegn sameinuðum herjum Versailles-stjórnarinnar, sem urðu æ fjölmennari.

Hinn 7. apríl höfðu Versailles-menn náð leiðinni yfir Signu við Neuilly á vesturvígstöðvum Parísar á sitt vald. Á hinn bóg-

[1] Tilskipunin kvað svo á að taka mætti hvern þann í gíslingu sem yrði ber að stuðningi við Versailles-stjórnina. Parísarkommúnan reyndi með þessu að hamla gegn því að Versailles-menn myrtu liðsmenn hennar. – *Útg.*

inn hratt Eudes hershöfðingi árás þeirra á suðurvígstöðvunum þann 11. og hrakti þá á blóðugan flótta. Sprengjuhríðin dundi stöðugt á París og það fyrir tilstilli sömu manna og höfðu brennimerkt skothríð Prússa á sömu borg sem helgispjöll. Sömu menn betluðu nú af stjórn Prússlands að hún sendi sem skjótast til baka frönsku hermennina, sem handteknir höfðu verið við Sedan og Metz. Þeir skyldu vinna París fyrir þá á ný. Þessar hersveitir skiluðu sér smámsaman heim og frá byrjun maí höfðu Versailles-menn óskoraða yfirburði. Þetta sýndi sig þegar 23. apríl, er Thiers sleit viðræðunum um það tilboð Kommúnunnar að skipta á erkibiskupnum í París[1] og heilum hóp annarra klerka, sem haldið var í gíslingu í París, gegn Blanqui einum, sem hafði verið kosinn tvisvar í Kommúnuna, en var tekinn fastur í Clairvaux. Og enn betur kom þetta fram í breyttu tungutaki Thiers. Hálfvelgja hans og tvöfeldni breyttust nú skyndilega í ósvífni, ógnanir og grimmd. Á suðurvígstöðvunum tóku Versailles-menn 3. maí virkisgarðinn við Moulin-Saquet, þann 9. Issy-virkið, sem hafði gjörsamlega verið lagt í rúst og hinn 14. Vanves-virkið. Á vesturvígstöðvunum sótti hið fjölmenna lið þeirra hægt og bítandi alveg heim að aðalborgarmúrnum og lagði undir sig þorp og byggingar, sem lágu við hringmúrinn. Þann 21. heppnaðist þeim að brjótast inn í borgina með aðstoð svikara og vegna vanrækslu þjóðvarðliðanna, sem voru staðsettir þarna. Prússarnir, sem höfðu setulið í virkjunum norðan og austan borgarinnar, leyfðu Versailles-liðinu að sækja fram yfir svæðið norðan við borgina, enda þótt vopnahléssamningurinn bannaði þeim það. Þannig gátu þeir gert árás á langri víglínu, sem Parísar-menn hlutu að álíta trygga vegna vopnahléssamningsins og höfðu þessvegna lítið lið þar. Af þessu leiddi að aðeins var lítið um varnir í vesturhelmingi Parísar, hinu eiginlega auðmannahverfi. Þær urðu öflugri og harðvítugri því nær sem innrásarliðið nálgaðist austurhelminginn, verkamannahverfið. Fyrst eftir vikulangan bardaga tókst að sigra síðustu varnarhermenn Kommúnunnar á hæðunum Belleville og Ménilmontant. Og nú náðu morðin á varnarlausum körlum, konum og börnum hámarki sínu, en morðæðið hafði geisað af vaxandi heift alla vikuna. Afturhlaðningarnir drápu nú ekki lengur nógu hratt. Hinir sigruðu voru skotnir hundruðum saman með eldvörpum. Enn í dag stendur „múr kommúnuliðanna“[2] í Père-Lachaise-

[1] Darboy.

[2] Múr kommúnuliðanna (le mûr de fedérés) nefnist múrveggurinn umhverfis Père-Lachaise kirkjugarðinn í París. Þar bjuggust tvö hundruð kommúnuliðar til varnar 27. maí 1871. Þeir voru yfirbugaðir og skotnir af Versailles-hernum. – *Útg.*

kirkjugarðinum, þar sem síðustu fjöldamorðin voru framin, sem ærandi þögult vitni um það æði, sem getur gripið hina ríkjandi stétt um leið og öreigarnir dirfast að krefjast réttar síns. Fjöldahandtökur hófust, þegar ókleift reyndist að kála öllum. Valdir voru fangar af handahófi úr hópnum og þeir skotnir, en hinir fluttir í stórar búðir, þar sem þeir biðu þess að vera leiddir fyrir herrétt. Prússnesku hersveitirnar, sem sátu um norðausturhelming Parísar, höfðu skipun um að hleypa engum flóttamönnum í gegn. En liðsforingjarnir létust þó oft ekki sjá þegar hermennirnir hlýddu fremur boði mannúðarinnar en herstjórnarinnar. Einkum ber saxnesku herdeildinni heiður fyrir mannúðlega framkomu. Hún hleypti mörgum í gegn, sem auðsæilega voru kommúnuliðar.

-------

Ef við nú, að tuttugu árum liðnum, lítum til baka á starf og sögulega þýðingu Parísarkommúnunnar frá 1871, þá komumst við að raun um að bæta þarf nokkrum atriðum í þá mynd, sem dregin er upp í „Borgarastríðinu í Frakklandi“.

Félagar Kommúnunnar voru klofnir í meirihluta, Blanquistana, sem einnig höfðu haft yfirhöndina í miðnefnd Þjóðvarðliðsins, og minnihluta, sem skipaður var meðlimum Alþjóðasambands verkamanna og flestir studdu Proudhon-sósíalismann. Megnið af Blanquistunum voru þá aðeins sósíalistar af byltingarsinnaðri eðlisávísun öreigans. Einungis hjá fáum hafði vaknað verulega fastmótaður skilningur fyrir tilstilli Vaillants, sem var kunnugur hinum þýzka vísindalega sósíalisma. Það er þessvegna skiljanlegt að Kommúnan lét ýmislegt það ógert á efnahagssviðinu, sem hún, að áliti okkar nú, hefði þurft að framkvæma. Torskildust er að vísu sú heilaga lotning, sem menn fylltust frammi fyrir dyrum Frakklandsbanka. En í því fólust einnig mikil pólitísk mistök. Í höndum Kommúnunnar var bankinn meira virði en tíu þúsund gíslar. Það hefði þýtt að öll franska borgarastéttin hefði knúið á Versailles-stjórnina um að semja frið við Kommúnuna. Þó er allt það rétta sem Kommúnan, þessi samsteypa Blanquista og Proudhonista, gerði, miklu dásamlegra þrátt fyrir allt. Að sjálfsögðu bera Proudhonistarnir fyrst og fremst ábyrgð á efnahagslegum tilskipunum Kommúnunnar, og þá jafnframt hinum lofsverðu atriðum í þeim sem hinum, er ekki eiga hrós skilið. En Blanquistarnir eru ábyrgir fyrir pólitískum gerðum og vanrækslum hennar. Og í báðum tilvikum hagaði kaldhæðni sögunnar því svo til – eins og jafnan er kenningasmiðir komast til valda – að báðir breyttu gagnstætt því, sem fræðikenningin bauð þeim.

Proudhon var sósíalisti smábóndans og handverksmeistarans. Samtök voru eitur í hans beinum. Hann sagði að þau fælu meira illt en gott í sér, væru í eðli sínu ófrjó og jafnvel skaðleg, þar sem þau legðu frelsi verkamannsins í fjötra. Þau væru hreinræktuð kredda, óarðbær og hvimleið. Þau væru bæði andstæð frelsi verkamannsins og nýtingu vinnunnar. Ókostir þeirra yxu hraðar en kostir þeirra. Andstætt þeim væru samkeppni, verkaskipting og einkaeign efnahagslegir drifkraftar. Samtök verkamanna ættu aðeins við í undantekningartilvikum – eins og Proudhon nefnir þau – stóriðjunnar og stórfyrirtækjanna, t. d. járnbrautanna (sjá „Idée générale de la révolution", 3. étude[1]).

En árið 1871 var stóriðjan orðin svo langt frá því að vera undantekning, jafnvel í París, miðstöð listhandiðnanna, að lang þýðingarmesta tilskipun Kommúnunnar fyrirskipaði skipulagningu stóriðjunnar og jafnvel handiðnaðarins. Átti skipulagningin ekki aðeins að byggjast á samtökum verkamanna í öllum verksmiðjum, heldur einnig að sameina öll þessi samvinnufélög í einu stóru sambandi. Þetta fyrirkomulag tók sem sagt mið af kommúnismanum, eins og Marx segir réttilega í „Borgarastríðinu", þ. e. hinni algjöru andstæðu við kenningar Proudhons. Og þess vegna varð Kommúnan líka gröf Proudhon-sósíalismans. Þessi stefna er horfin meðal franskra verkamanna. Þar ríkir óumdeilanlega kenning Marx, ekki síður hjá possibilistum[2] en hjá „Marxistum". Proudhonistar eru nú orðið einungis til meðal hinna „róttæku" borgara.

Ekki fór betur fyrir Blanquistunum. Þeir höfðu alizt upp í kenningu samsærisins og haldið hópinn í samræmi við strangan aga þess. Þeir litu svo á, að á hagstæðu augnabliki gæti tiltölulega lítill hópur einbeittra vel skipulagðra manna hrifsað til sín völdin. Og með því að einbeita öllum kröftum sínum til hins ýtrasta og af algeru tillitsleysi myndi þeim m. a. s. takast að halda þeim, unz þeim hefði heppnazt að hrífa fjöldann til þátttöku í byltingunni og fylkt honum um hina fámennu forustusveit. Til þess arna þurfti framar öðru að sameina öll völdin undanbragðalaust og með valdboði í höndum hinnar nýju byltingarstjórnar. Og hvað gerði nú Kommúnan, sem að meirihluta var skipuð einmitt þessum Blanquistum? Í öllum yfirlýsingum til íbúa landsbyggðarinnar hvatti hún þá til að koma á fót

[1] Fyrsta útgáfa af riti Proudhons kom út í París 1851. Marx gagnrýndi verkið í bréfi sínu til Engels 8. ágúst 1851. – *Útg.*

[2] Possibilistar nefndist flokksbrot hentistefnumanna innan frönsku verkalýðshreyfingarinnar undir forustu Brousse, Malons o. fl. Það myndaðist eftir klofning franska Verkamannaflokksins 1882. Leiðtogar þess boðuðu þá umbótasinnuðu meginreglu að menn skyldu leitast við að ná fram því „mögulega" (possible); af því stafar nafngiftin. – *Útg.*

frjálsu bandalagi allra franskra kommúna við París, þjóðlegum samtökum, sem í fyrsta sinn skyldu verða til fyrir tilverknað þjóðarinnar sjálfrar. Það átti einmitt að steypa hvarvetna kúgunarvaldi – her, pólitískri lögreglu, skriffinnsku – hins fyrrverandi miðlæga stjórnarforms, sem Napóleon hafði mótað 1798. Síðan þá hafði þetta stjórnarform verið kærkomið verkfæri sérhverrar nýrrar ríkisstjórnar og þær beitt því gegn andstæðingum sínum. Einmitt þessu valdi átti að steypa eins og því hafði verið steypt í París.

Þegar í upphafi hlaut Kommúnan að viðurkenna að verkalýðsstéttin gat ekki notazt við gömlu ríkisvélina, þegar hún einu sinni var komin til valda. Annars vegar varð verkalýðsstéttin að ryðja burt þessu gamla kúgunartæki, sem hingað til hafði verið beitt gegn henni sjálfri, ef hún átti ekki að glata þeim völdum, sem hún var nýbúin að vinna. Á hinn bóginn varð hún að tryggja sjálfa sig gegn eigin fulltrúum og embættismönnum með því að lýsa yfir að setja mætti þá af, hvenær sem var og hvern sem var, án nokkurra undantekninga. Í hverju fólst helzta eðliseinkenni ríkisins fram til þessa? Þjóðfélagið hafði skapað sér sínar eigin stofnanir, upphaflega með einfaldri verkaskiptingu, til að uppfylla sameiginlegar þarfir sínar. En í þjónustu sinna eigin sérhagsmuna höfðu þessar stofnanir, með ríkisvaldið fremst í flokki, með tímanum breytzt úr þjónum þjóðfélagsins í herra þess. Þetta getur t. d. ekki aðeins að líta í hinu arfgenga konungdæmi, heldur er það alveg jafn greinilegt í hinu lýðræðislega lýðveldi. Hvergi eru „stjórnmálamennirnir" afmarkaðri eða voldugri hópur með þjóðinni en í Norðurameríku. Þar er báðum flokkunum,[1] sem skiptast á um völdin, stjórnað af mönnum, er hafa stjórnmálin að féþúfu. Sumir braska með sæti í löggjafarsamkundu Sambandsins eða einstakra ríkja þess. Aðrir lifa á því að reka áróður fyrir flokk sinn og fá stöður að launum, vinni hann sigur. Það er alkunna, hvernig Bandaríkjamenn hafa í þrjátíu ár reynt að losa sig undan þessu óbærilega oki, og hvernig þeir, þrátt fyrir allt, sökkva æ dýpra í þetta dýki spillingarinnar. Einmitt í Ameríku sjáum við greinilegast, hvernig til verður þetta óhæði ríkisvaldsins gagnvart þjóðfélaginu, en upphaflega átti ríkisvaldið aðeins að verða verkfæri þjóðfélagsins. Þar er engin þjóðhöfðingjaætt, enginn aðall, enginn fastaher, ef frá eru taldir þessir fáu menn sem gæta Indíánanna, ekkert skriffinnskubákn með föstum stöðum og eftirlaunaréttindum. Og þó eru þarna tveir óaldarflokkar stjórnmálabrask-

---

[1] Demókrataflokkurinn (stofn. 1828) og Repúblikanaflokkurinn (stofn. 1854). – *Útg.*

ara, sem skiptast á um að leggja undir sig ríkisvaldið og hagnýta sér það eftir gjörspilltum leiðum að gjörspilltum markmiðum. Og þjóðin er máttvana gagnvart þessum tveim stóru samsteypum stjórnmálamanna sem gefa í skyn að þeir vinni í þágu hennar, en drottna í raun og veru yfir henni og rýja hana inn að skinni.

Kommúnan beitti tveim óbrigðulum ráðum gegn því að ríkið og stofnanir þess breyttust úr þjónum þjóðfélagsins í herra þess, eins og óhjákvæmilega hafði gerzt í öllum ríkjum fram til þessa. Í fyrsta lagi lét hún kjósa í allar stöður, jafnt í opinberri stjórn sem í dómstólum og skólum. Allir, sem hlut áttu að máli, höfðu atkvæðisrétt, og gátu hvenær sem var ógilt kjörið. Í öðru lagi greiddi hún aðeins verkamannalaun fyrir öll störf, æðri sem lægri. Hámarkslaun, sem hún greiddi voru 6000 frankar. Með þessu var vendilega girt fyrir stöðukapphlaupið og metorðastritið og það án þeirra takmarkana á umboðum fulltrúa á fulltrúasamkundum, sem bætt var við að óþörfu.

Því er nákvæmlega lýst í þriðja kafla „Borgarastríðsins" hvernig gamla ríkisvaldinu var splundrað og í staðinn skapað nýtt, í raun og sannleika lýðræðislegt ríkisvald. En þó er nauðsynlegt að víkja hér stuttlega að fáeinum atriðum þaraðlútandi, því að einmitt í Þýzkalandi hafa hindurvitnin um ríkið borizt frá heimspekinni inn í vitund borgarastéttarinnar almennt og jafnvel margra verkamanna. Samkvæmt hugmyndum heimspekinnar er ríkið „framkvæmd hugmyndarinnar"[1] eða ríki guðs á jörðu þýtt á mál heimspekinnar. Það er það svið, þar sem hinn eilífi sannleikur og hið eilífa réttlæti rætast eða eiga að rætast. Og af þessu leiðir svo hjátrúarfulla lotningu fyrir ríkinu og öllu, sem er í tengslum við það. Hana er auðvelt að vekja, þar sem menn hafa vanizt því frá blautu barnsbeini að ímynda sér, að þeim störfum og þeim hagsmunum, sem eru öllu þjóðfélaginu sameiginlegir, sé ekki hægt að sinna öðruvísi en gert hefur verið fram að þessu, þ. e. af ríkinu og hinum vel hýstu yfirvöldum þess. Og menn halda að þeir hafi þegar stigið geysidjarflegt skref, þegar þeir hafa frelsað sig frá trúnni á hið arfgenga konungdæmi og svarið hinu lýðræðislega lýðveldi hollustueið. En í raun og veru er ríkið ekkert annað en tæki einnar stéttar til að kúga aðra, og það ekki síður í lýðræðis-lýðveldinu en í konungdæminu. Þegar bezt lætur er það böl, sem hin sigursæla öreigastétt erfir í baráttunni um völd stéttanna. Hún mun ekki fremur en Kommúnan komast hjá að sníða verstu agnúana af

---

[1] Engels höfðar hér til rits Hegels: „Grundlinien der Philosophie des Rechts, oder Naturrecht und Staatswissenschaft im Grundrisse". – *Útg.*

því þegar í stað, unz ný kynslóð, vaxin upp í nýju frjálsu þjóðskipulagi, verður þess megnug að losa sig við allt farganið í heilu lagi.

Þýzki broddborgarinn varð nýlega lostinn heilsusamlegri skelfingu við að heyra orðin: alræði öreiganna. Nú, ágætt herrar mínir, viljið þið vita, hvernig þetta alræði lítur út? Lítið á Parísarkommúnuna. Hún var alræði öreiganna.

London, á tuttugu ára afmæli Parísarkommúnunnar,
18. marz 1891.
F. Engels.

# Fyrsta ávarp Sambandsráðsins vegna stríðsins milli Frakka og Þjóðverja[1]

## Til félaga Alþjóðasambands verkamanna í Evrópu og Bandaríkjunum

Í stofnskrá Sambands okkar í nóvember 1864 sögðum við: „Ef bróðurleg eining og samstarf eru forsendur fyrir frelsun verkalýðsstéttarinnar, hvernig getur hún þá uppfyllt þessa háleitu köllun sína, ef utanríkisstefnan byggist á glæpsamlegum áætlunum, espar fordóma einnar þjóðar gegn annarri og sóar blóði og auði þjóðarinnar í ránsstyrjöldum?“ Og við skilgreindum með eftirfarandi orðum þá utanríkisstefnu, sem Alþjóðasambandið telur að keppa beri að: „Hið einfalda lögmál velsæmis og réttlætis, sem á að ráða í samskiptum einstaklinganna, verður einnig að komast á sem æðsta lögmál í samskiptum þjóðanna“.

Lúðvík Bónaparte rændi völdunum í Frakklandi með því að hagnýta sér stéttabaráttuna í landinu og framlengdi þau með því, að heyja hverja utanlandsstyrjöldina á fætur annarri. Það þarf því engan að undra, að hann hefur frá upphafi umgengizt Alþjóðasambandið eins og hættulegan fjandmann sinn. Fyrir þjóðaratkvæðagreiðsluna[2] hóf hann herferð gegn meðlimum deildastjórna Alþjóðasambands verkamanna í París, Lyon, Rouen, Marseille, Brest, m. ö. o. í Frakklandi öllu undir því yfirskini að Alþjóðasambandið væri leynifélag og stæði að sam-

---

[1] Ávarpið var samið 19. –23. júlí 1870 samkv. ákvörðun sambandsráðs Alþjóðasambandsins. Það var samþykkt á fundi ráðsins 26. júlí og birtist fyrst í Lundúnablaðinu „The Pall Mall Gazette“ 28. júlí. – *Útg.*

[2] Í maí 1870 lét ríkisstjórn Napóleons 3. fara fram þjóðaratkvæðagreiðslu til þess að festa sig í sessi. Spurningarnar sem lagðar voru fyrir kjósendur voru þó þannig orðaðar, að hefðu þeir hafnað stefnu Napóleons 3. hefði það jafngilt að þeir vísuðu öllum lýðræðislegum umbótum á bug. Þrátt fyrir þessar skrumkenndu aðferðir, sannaði þjóðaratkvæðagreiðslan að andstaðan gegn stjórninni fór vaxandi: 1.5 milljón kjósendur greiddu atkvæði gegn henni, en 1.9 milljónir sátu heima. Fyrir þjóðaratkvæðagreiðsluna hófst víðtæk kúgunarherferð gegn verkalýðshreyfingunni. Rætnum hviksögum um verkamannafélögin og markmið þeirra var komið á kreik, til þess að vekja ótta millistéttanna við „rauðu hættuna“.

Þann 24. apríl 1870 gáfu Samband Parísardeilda Alþjóðasambandsins (Les sections parisiennes fédérées de l'Internationale) og Sambandsþing verkamannafélaganna (Chambre fédérale des Sociétés ouvriéres) í París út yfir-

særi um að myrða hann. En jafnvel dómarar sjálfs hans afhjúpuðu þessa átyllu þegar í stað sem fullkomna smekkleysu. Hvert var hið raunverulega afbrot frönsku deildanna í Alþjóðasambandinu? Að þær skýrðu frönsku þjóðinni skorinort frá því að stuðningur við þjóðaratkvæðið jafngilti stuðningi við harðstjórn innanlands og styrjöld utanlands. Og það var reyndar fyrir tilstilli þeirra að verkalýðsstéttin reis upp sem einn maður í öllum stórborgum og iðnaðarmiðstöðvum Frakklands og hafnaði þjóðaratkvæðinu. Til allrar óhamingju voru þær bornar atkvæðum af þunglamalegri fáfræði sveitahéraðanna. Um nær alla Evrópu fögnuðu kauphallirnar, ráðuneytin, valdastéttirnar og dagblöðin þjóðaratkvæðinu sem glæsilegum sigri franska keisarans yfir verkalýðsstéttinni. Það gaf í raun og veru merki um morð, ekki eins einstaklings, heldur heilla þjóða.

Styrjaldarsamsærið í júlí 1870 er aðeins endurbætt útgáfa á valdaráninu í desember 1851.[1] Við fyrstu sýn virtist málið svo fáránlegt, að Frakkar ætluðu ekki að fást til að leggja trúnað á alvöru þess. Þá trúðu þeir fremur þingmanninum,[2] sem áleit að stríðsæsingaræður ráðherranna væru aðeins kauphallarklækir. Þegar löggjafarþinginu var loks skýrt opinberlega frá styrjöldinni þann 15. júlí, þá neitaði öll stjórnarandstaðan um heimild til bráðabirgðafjárveitingar. Jafnvel Thiers kallaði styrjöldina „andstyggilega". Öll óháð blöð í París fordæmdu hana og, aldrei þessu vant, tóku blöðin úti á landi undir nærri undantekningarlaust.

Á meðan þessu fór fram höfðu félagar Alþjóðasambandsins í París tekið til starfa á ný. Hinn 12. júlí birtu þeir í „Réveil"[3] ávarp sitt „til verkamanna allra þjóða", þar sem segir:

lýsingu, þar sem flett var ofan af öllu skruminu og verkamenn hvattir til að greiða ekki atkvæði. Rétt fyrir þjóðaratkvæðagreiðsluna voru meðlimir Sambandsins handteknir. Lögreglan sakaði þá um samsæri til að myrða Napóleon 3. Ríkisstjórnin notfærði sér þessar sakargiftir til nýrra ofsókna á hendur félaga Alþjóðasambandsins í Frakklandi öllu. Við réttarhöldin yfir félögum Parísarsambandsins 22. júní – 5. júlí 1870 reyndist ákæran haldlaus. Þrátt fyrir það voru margir félagar Alþjóðasambandsins í Frakklandi dæmdir til fangelsisvistar fyrir þá sök eina, að hafa gengið í það. Þessar ofsóknir leiddu til víðtækra mótmæla meðal verkalýðsstéttarinnar. – *Útg.*

[1] Þann 2. desember 1851 rauf Lúðvík Bónaparte stjórnarskrána, en hann hafði verið forseti franska lýðveldisins frá 10. desember 1848. Hann leysti löggjafarsamkomuna og ríkisráðið upp og lét handtaka marga fulltrúa. Í 32 héruðum var lýst yfir stríðsástandi og sósíalískum og lýðveldissinnuðum leiðtogum vísað úr Frakklandi. 14. janúar 1852 var ný stjórnarskrá samþykkt, en samkvæmt henni var valdið fært í hendur forsetans. Lúðvík Bónaparte lét síðan útnefna sig keisara Frakka 2. desember 1852 undir nafninu Napóleon 3. – *Útg.*

[2] Jules Favre.

[3] Vikublað vinstrisinnaðra lýðveldissinna, síðar dagblað (maí 1869). – *Útg.*

„Enn á ný ógnar stjórnmálametnaður heimsfriðnum undir yfirskini þjóðarsóma og jafnvægisins í Evrópu. Franskir, þýzkir og spænskir verkamenn! Samstillum raddir okkar í andúðarhrópi frammi fyrir styrjöldinni ... Í augum verkamanna getur styrjöld vegna valdamisræmis eða þjóðhöfðingjaættar aðeins verið glæpsamleg heimska. Andspænis stríðshvatningum þeirra, sem kaupa sér frelsi frá blóðskattinum og eygja í ógæfu almennings aðeins tækifæri til nýrra fjárglæfra mótmælum við eindregið, við, sem þörfnumst friðar og vinnu! ... Þýzku bræður! Klofningur okkar myndi aðeins leiða til sigurs harðstjórnarinnar á báðum bökkum Rínar ... Verkamenn allra landa! Hver sem stundarárangur sameiginlegrar viðleitni okkar kann að vera sendum við, félagar í Alþjóðasambandi verkamanna, sem ekki þekkjum nein landamæri, ykkur góðar óskir og kveðjur franskra verkamanna sem tryggingu fyrir órjúfandi samhug".

Fjölmörg frönsk ávörp fylgdu í kjölfar þessarar yfirlýsingar Parísardeilda okkar. Við vitnum hér aðeins í eitt: yfirlýsinguna frá Neuilly-sur-Seine, sem birt var í „Marseillaise"[1] 22. júlí:

„Er stríðið réttmætt? Nei! Er stríðið þjóðlegt? Nei! Þetta er einungis þjóðhöfðingjastríð. Í nafni réttlætisins, lýðræðisins og hinna sönnu hagsmuna Frakklands tökum við fullkomlega og af einbeitni undir mótmæli Alþjóðasambandsins gegn stríðinu".

Í þessum mótmælum birtust einlægar tilfinningar franskra verkamanna, eins og einkennilegt atvik sannaði von bráðar. Þegar Tíundadesember-óaldarflokkurinn,[2] sem upphaflega var stofnaður í forsetatíð Lúðvíks Bónaparte, var sendur dulbúinn í verkamannatreyjum út á göturnar og látinn dansa indíánastríðsdansa til að herða á stríðsæðinu, þá svöruðu hinir raunverulegu verkamenn úthverfanna með gífurlegum kröfugöngum fyrir friði. Þær voru svo yfirþyrmandi að Pietri lögreglustjóri áleit ráðlegast að binda þegar í stað enda á öll götustjórnmál undir því yfirskini að hin trygga alþýða Parísar hefði þegar fengið nægilega útrás fyrir margniðurbælda ættjarðarást sína og innilega stríðshrifningu.

Hvernig sem styrjöld Lúðvíks Bónaparte við Prússland kann að fara, þá hefur líkaböng Annars keisaraveldisins þegar glumið í París. Það mun enda eins og það byrjaði: með skopstælingu. En gleymum ekki að það voru ríkisstjórnir og valdastéttir Evrópu sem gerðu Lúðvík Bónaparte kleift að leika skrípaleik *endurreisnar keisaraveldisins* í full átján ár.

---

[1] Dagblað vinstrisinnaðra lýðveldissinna frá des. 1869 til sept. 1870. – *Útg.*

[2] Sjá lýsingu Marx í 5. kafla ritsins „Átjánda brumaire Lúðvíks Bónaparte".

Af þýzkri hálfu er þetta varnarstríð. En hver kom Þýzkalandi í þær þrengingar að það neyddist til að verjast? Hver gerði Lúðvík Bónaparte það mögulegt að fara með stríði á hendur Þýzkalandi? *Prússland!* Það var Bismarck, sem gerði samsæri með þeim sama Lúðvík Bónaparte um að berja niður andstöðu almennings heimafyrir og leggja Þýzkaland undir Hohenzollenættina. Hefði orrustan við Sadowa[1] tapazt í stað þess að vinnast hefðu franskar hersveitir streymt inn yfir Þýzkaland sem bandamenn Prússa. Eða hefur Prússland nokkru sinni dreymt um það eftir sigurinn að stilla frjálsu Þýzkalandi andspænis hinu kúgaða Frakklandi? Einmitt það gagnstæða! Það lagði alúðarfulla rækt við hinn áskapaða yndisleik hins gamla kerfis síns og bætti þess utan við öllum prettum Annars keisaraveldisins: harðstjórn og gervilýðræði, pólitískri sýndarmennsku og fjárglæfrum, háværum vígorðum og svívirðilegum loddarabrögðum. Hið bónapartíska stjórnarfar, sem hingað til hafði aðeins blómgazt á öðrum bakka Rínar, eignaðist þannig hliðstæðu á hinum árbakkanum. Og úr því að svo var komið, hvað gat leitt af því annað en *stríðið?*

Ef þýzka verkalýðsstéttin leyfir að núverandi styrjöld breytist úr hreinni varnarstyrjöld í stríð gegn frönsku þjóðinni þá verða sigur og ósigur jafn gæfusnauðir. Öll sú ógæfa er skall yfir Þýzkaland eftir hin svonefndu frelsisstríð mun dynja yfir á ný og nú hálfu verri.

Meginsjónarmið Alþjóðasambandsins hafa þó náð meiri útbreiðslu og fest styrkari rætur meðal þýzkrar verkalýðsstéttar en svo að við þurfum að óttast svo dapran endi. Rödd frönsku verkamannanna hefur bergmálað frá Þýzkalandi. Fjöldafundur verkamanna í Braunschweig hinn 16. júlí lýsti yfir fullum stuðningi við Parísarávarpið, vísaði öllum fullyrðingum um þjóðlegar andstæður gagnvart Frakklandi á bug og gerði samþykktir, þar sem segir:

„Við erum andstæðingar allra styrjalda, en þó framar öllu fjölskyldustyrjalda þjóðhöfðingja ... Við erum slegnir harmi og sársauka og lítum á það sem hvert annað óhjákvæmilegt böl að vera neyddir út í varnarstyrjöld. En jafnframt skorum við á allan hugsandi verkalýð að hindra, að svo hörmuleg þjóðfélagsleg ógæfa geti endurtekið sig með því að krefjast ákvörðunarvaldsins um stríð og frið til handa þjóðunum sjálfum og gera þær þannig að húsbændum sinna eigin örlaga".

Í Chemnitz samþykkti fundur trúnaðarmanna 50 000 saxneskra verkamanna einróma eftirfarandi ályktun:

[1] Einnig nefnd orustan við Köninggrätz; 3. júlí 1866. Hún tryggði Prússum sigur í styrjöldinni við Austurríkismenn. – *Útg.*

„Við lýsum yfir því í nafni þýzks lýðræðis og sér í lagi í nafni verkamanna innan Sósíaldemókrataflokksins að styrjöld sú er nú geisar er eingöngu þjóðhöfðingjastyrjöld ... Með fögnuði tökum við í framrétta bróðurhönd frönsku verkamannanna ... Með vígorð Alþjóðasambands verkamanna í huga: *Öreigar allra landa, sameinizt!* munum við aldrei gleyma því að verkamenn *allra* landa eru *vinir* okkar en harðstjórar *allra* landa *óvinir* okkar".[1]

Berlínardeildir Alþjóðasambandsins svöruðu einnig Parísarávarpinu:

„Við styðjum mótmæli ykkar heilshugar ... Við strengjum þess hátíðlega heit að hvorki lúðurþytur né fallbyssudrunur, hvorki sigur né ósigur skal aftra okkur í sameiginlegu átaki okkar til að sameina verkamenn allra landa."

Í bakgrunni þessarar sjálfsmorðsbaráttu liggur rússneska óvættin í leyni. Það veit á illt að einmitt á þessari stundu, er merkið var gefið um að þessi styrjöld skyldi hefjast, hafði stjórn Rússlands rétt lokið við hinar hernaðarlega mikilvægu járnbrautir sínar og stefnt liðssafnaði til Pruthfljóts. Það gildir einu, hversu mikla samúð Þjóðverjar verðskulda í varnarstyrjöld gegn bónapartískri árás. Þeir fyrirgerðu rétti sínum til hennar þegar í stað um leið og þeir leyfðu þýzku ríkisstjórninni að kalla á hjálp kósakkanna eða þó ekki væri nema að veita henni viðtöku. Vonandi minnast þeir þess að eftir frelsisstríð sitt gegn Napóleon fyrsta lá Þýzkaland áratugum saman hjálparvana við fætur zarsins.

Verkalýðsstétt Englands réttir jafnt frönskum sem þýzkum verkamönnum bróðurhönd sína. Hún er þess fullviss að hvernig sem þessi viðbjóðslega styrjöld endar, sem nú stendur fyrir dyrum, þá muni bandalag verkamanna allra landa útrýma styrjöldum að lokum. Á meðan stjórnir Frakklands og Þýzkalands etja til bræðravíga senda verkamennirnir hver öðrum boðskap friðar og vináttu. Þessi einstæða stórfenglega staðreynd opnar sýn til bjartari framtíðar. Hún sannar að nýtt þjóðfélag, andstætt efnahagslegri eymd og stjórnmálalegri vitfirringu þess gamla, er í uppsiglingu. Hin alþjóðlega meginregla þess verður *friður*, af því að hjá sérhverri þjóð ríkir sama meginregla – *vinna!*

Brautryðjandi þessa nýja þjóðfélags er Alþjóðasamband verkamanna.

London, 23. júlí 1870.

[1] Fundirnir í Braunschweig og Chemnitz voru boðaðir af stjórn Sósíaldemókratíska verkamannaflokksins (Eisenach-flokksins). Þeir voru haldnir til að mótmæla landvinningastefnu valdastéttanna. – *Útg.*

# Annað ávarp Sambandsráðsins vegna stríðsins milli Frakka og Þjóðverja[1]

## Til félaga Alþjóðasambands verkamanna í Evrópu og Bandaríkjunum

Í fyrri yfirlýsingu okkar frá 23. júlí sögðum við: „Líkaböng Annars keisaraveldisins hefur þegar glumið í París. Það mun enda eins og það byrjaði: með skopstælingu. En gleymum ekki að það voru ríkisstjórnir og valdastéttir Evrópu sem gerðu Lúðvík Bónaparte kleift að leika skrípaleik *endurreisnar keisaraveldisins* í full átján ár."

Við handlékum þannig hina bónapartísku sápukúlu eins og fortíðarfyrirbæri, þegar áður en stríðsaðgerðirnar hófust.

Okkur skjátlaðist ekki um lífshæfni Annars keisaravaldisins. Ótti okkar við að styrjöldin af hálfu Þýzkalands „breytist úr hreinni varnarstyrjöld í stríð gegn frönsku þjóðinni" reyndist ekki heldur ástæðulaus. Varnarstyrjöldinni lauk raunverulega er Lúðvík Napóleon gafst upp, með uppgjöfinni í Sedan og lýðveldisstofnuninni í París. En herráð prússnesku hirðgæðinganna tók ákvörðunina um landvinninga sína löngu fyrir þessa atburði, þegar á þeirri stundu er ljóst var hversu gegnrotinn her Bónapartistanna var. Að vísu var *persónuleg yfirlýsing Vilhjálms konungs frá því í stríðsbyrjun* þeim óþægur ljár í þúfu. Í hásætisræðu sinni í norðurþýzka ríkisþinginu hafði hann lýst því hátíðlega yfir að hann ætti aðeins í styrjöld við franska keisarann en ekki við frönsku þjóðina. Hinn 11. ágúst hafði hann gefið út ávarp til frönsku þjóðarinnar, þar sem hann sagði:

„Napóleon keisari hefur ráðizt á þýzku þjóðina á láði og á legi, en hún hefur óskað og óskar þess enn að lifa í friði við frönsku þjóðina. Ég hef tekið yfirstjórn þýzka hersins í mínar hendur *til þess að hnekkja árás hans* og *hernaðaratvik* hafa neytt mig til þess *að fara yfir landamæri Frakklands.*"

---

[1] Marx samdi ávarpið 6.–9. sept. 1870. Þann 16. sept. birti „The Pall Mall Gazette" útdrátt úr því, en nokkrum dögum áður hafði því verið dreift sem flugriti í London, ásamt fyrra ávarpinu. – *Útg.*

Hann lét sér ekki nægja að fullyrða um „hreint varnareðli" styrjaldarinnar með því að segja að hann hefði aðeins tekið yfirstjórn þýzka hersins í sínar hendur *„til þess að hnekkja árásum"* heldur bætti hann því við að „hernaðaratvik hefðu neytt hann til" að fara yfir landamæri Frakklands. Varnarstyrjöld útilokar að sjálfsögðu ekki árásaraðgerðir, ef „hernaðaratvik" knýja á um þær.

Samkvæmt þessu hafði þessi guðhræddi konungur sem sagt skuldbundið sig til þess frammi fyrir Frakklandi og heiminum að heyja hreina varnarstyrjöld. Hvernig átti að leysa hann undan þessu hátíðlega heiti? Leikstjórarnir urðu að sýna hann þannig á sviðinu eins og hann léti nauðugur undan ósveigjanlegri skipun þýzku þjóðarinnar. Þeir gáfu hinni frjálslyndu þýzku millistétt, prófessorunum, kapítalistunum, borgarafulltrúunum, blaðasnápunum lausnarorðið þegar í stað. Þessi millistétt, sem í sjónarspili baráttunnar fyrir borgaralegu frjálsræði 1846–1870 hafði sýnt meiri hálfvelgju, hæfileikaskort og bleyðiskap en dæmi voru til um áður, var auðvitað yfir sig hrifin af því að ganga inn á leiksvið Evrópu sem grenjandi ljón þýzkrar ættjarðarástar. Hún íklæddist falsgervi ríkisborgaralegs óhæðis til þess að svo virtist sem hún þvingaði upp á prússnesku stjórnina – hverju? Leynilegum fyrirætlunum þessarar sömu ríkisstjórnar. Hún gerði yfirbót fyrir margra ára gamalt og nærri trúarlegt traust sitt á óskeikulleik Lúðvíks Bónaparte með því að krefjast sundurlimunar franska lýðveldisins. Hlustum aðeins andartak á hinar sannfærandi fortölur þessara bjargföstu ættjarðarvina!

Þeir dirfast ekki að fullyrða að íbúar Elsass-Lothringens þrái að falla í faðm Þýzkalands. Öðru nær. Til þess að rækta franska ættjarðarást í Strassborg var „þýzkri" kúlnahríð tilgangslaust og villimannlega beint í heila sex daga að þessu vígi, sem er stjórnað frá eigin kastala. Síðan var lagður að því eldur og mikill fjöldi varnarlausra íbúa drepinn. Já, einmitt! Lendur þessa héraðs höfðu fyrir löngu verið eign hins löngu útdauða Þýzka ríkis. Svo virðist því sem gera verði jörðina og fólkið, sem þar hefur vaxið upptæk sem óforgengilega þýzka eign. Ef einhvern tíma á að færa Evrópukortið til samræmis við sögulegan rétt, þá megum við ekki gleyma því að kjörfustinn af Brandenborg hafði hinar prússnesku lendur sínar að léni frá Pólska lýðveldinu.

Að vísu kröfðust hinir slægvitru ættjarðarvinir Elsass og þýzka Lothringens sem „hlutlægrar tryggingar" gegn árásum Frakka. Þar sem þessi fyrirlitlega átylla hefur villt um fyrir ýmsu veikgeðja fólki, teljum við okkur skylt að víkja nánar að henni.

Á því leikur enginn vafi að staðhættir í Elsass og á bökkunum handan Rínar svo og tilvist svo ramgers vígis sem Strassborg er,

miðja vegu milli Basel og Germersheim, auðveldar mjög franska innrás í Suðurþýzkaland. Jafnframt torvelda þeir sérlega innrás frá Suðurþýzkalandi inn í Frakkland. Ennfremur er ekkert vafamál að innlimun Elsass og þýzka Lothringens myndi efla mjög landamæri Suðurþýzkalands. Það réði þá yfir endilöngum Vogesa-fjallhryggnum og varnarvirkjunum við norðurskörð hans. Væri Metz einnig innlimuð hefði Frakkland vissulega verið svipt tveim aðalsóknarvígjum sínum gegn Þýzkalandi. En það kæmi ekki í veg fyrir að ný væru reist við Nancy eða Verdun. Þýzkaland hefur Koblenz, Mainz, Germersheim, Rastatt og Ulm, sem allt eru sóknarvígi gegn Frakklandi, og það hefur rækilega notfært sér þau í þessari styrjöld. Hvaða snefill af réttlæti felst í því að það getur ekki unnað Frakklandi að ráða yfir Metz og Strassborg, einu mikilvægu virkjunum á þessu svæði.

Auk þess stofnar Strassborg Suðurþýzkalandi einungis svo lengi í hættu sem það er aðskilið frá Norðurþýzkalandi. Frá 1792 til 1795 var aldrei ráðizt á Suðurþýzkaland úr þessari átt, af því að Prússland tók þátt í stríðinu gegn frönsku byltingunni. En jafnskjótt og Prússland samdi um sérfrið 1795[1] og lét Suðurþýzkaland eitt um málefni sín hófust árásirnar á Suðurþýzkaland. Þeim var stjórnað frá Strassborg og þær stóðu til 1809. Í rauninni getur *sameinað* Þýzkaland gert Strassborg sér óskaðlega og hvaða franskan her sem er í Elsass, ef það safnar öllum hersveitum sínum milli Saarlouis og Landau, eins og gerðist í þessari styrjöld, og sækir fram ellegar leggur til orustu á leiðinni frá Mainz til Metz. Meðan meginhluti þýzku hersveitanna er staðsettur þar, komast þær á svig við sérhvern innrásarher frá Strassborg inn í Suðurþýzkaland og ógna aðflutningsleiðum hans. Hafi herför sú er nú stendur yfir sýnt eitthvað, þá sýndi hún hve auðvelt er að ráðast á Frakkland frá Þýzkalandi.

En í alvöru talað, er það ekki yfir höfuð fjarstæða og tímaskekkja, ef hernaðarsjónarmið eru gerð að þeirri meginreglu sem ákvarða skal landamæri ríkja. Ef við ætluðum að fylgja þessari reglu, þá ætti Austurríki kröfu til Feneyja og Mincio-línunnar, en Frakkland til Rínar-línunnar til að vernda París, sem áreiðanlega er í meiri hættu fyrir árásum frá norðaustri en Berlín frá suðvestri. Ef hernaðarhagsmunir eiga að ákvarða landamærin, munu rísa óendanlegar landakröfur þar sem ekki fer hjá því að sérhver víglína hafi sína galla sem bæta má úr með innlimun frekari landsvæða. Og auk þess verður hún aldrei

[1] Basel-friðarsamningurinn sem Prússar og Frakkar gerðu með sér 5. apríl 1795. Af samningnum leiddi að Fyrsta ríkjabandalagið gegn Frakklandi tók að gliðna sundur. – *Útg.*

ákveðin endanlega og réttlætt þar sem sigurvegarinn þvingar ætíð hinn sigraða til að fallast á hana og þar af leiðandi felur hún í sér frjóanga nýrrar styrjaldar.

Þetta er lærdómur allrar sögu. Þjóðum er líkt farið og einstaklingum: til þess að gera þeim ókleift að gera árás verður að svipta þá öllum varnartækjum sínum. Það nægir ekki aðeins að grípa um kverkar þeirra, heldur verður líka að drepa þá. Hafi landvinningamaður nokkurn tíma tekið sér „hlutlægar tryggingar" til að brjóta þjóð á bak aftur, þá gerði Napóleon 1. það með Tilsit-samningunum[1] og framkvæmd þeirra gagnvart Prússlandi og öðrum þýzkum héruðum. Og þó brast tröllaukið veldi hans eins og fúafauskur fyrir þýzku þjóðinni nokkrum árum síðar. Hverjar eru þær „hlutlægu tryggingar" sem Prússland, í villtustu draumórum sínum, getur eða má þvinga upp á Frakkland í samanburði við þær sem Napóleon 1. þvingaði upp á það sjálft? Afleiðingarnar verða ekki síður óheillavænlegar í þetta sinn. Refsing sögunnar verður ekki í réttu hlutfalli við þann fermílufjölda sem hrifsaður verður af Frökkum, heldur við stærð þess glæps, að *landvinningastefnan* hefur verið vakin aftur til lífsins á seinni hluta 19. aldar.

Dálætismenn þýzkrar ættjarðarástar segja: en þið megið ekki rugla saman Þjóðverjum og Frökkum. *Við* viljum ekki orðstír, heldur öryggi. Þjóðverjar eru í eðli sínu friðelskandi þjóð. Íhugul aðgát þeirra breytir jafnvel landvinningum úr orsök ókominnar styrjaldar í tryggingu fyrir eilífum friði. Auðvitað var það ekki Þýzkaland sem réðist inn í Frakkland 1792 í þeim háleita tilgangi að berja byltingu 18. aldarinnar niður með vopnum! Var það ekki Þýzkaland sem flekkaði hendur sínar er Ítalía var hneppt í þrældóm, Ungverjaland kúgað og Pólland limað sundur? Núverandi hernaðarkerfi þess skiptir öllum fullfærum karlmönnum í tvo hópa – einn starfandi fastaher og annan fastaher í leyfi. Báðum hópunum er skylt að auðsýna undirgefna hlýðni gagnvart ríkisstjórunum af guðs náð. Slíkt hernaðarkerfi er auðvitað „hlutlæg trygging" fyrir heimsfriði og þar á ofan æðsta takmark siðmenningarinnar! Gæðingar valdsins

[1] 7. og 9. júlí 1807 sömdu aðilarnir að Fjórða ríkjabandalaginu gegn Frakklandi, Rússland og Prússland, um frið við Napóleon eftir ósigur sinn fyrir Frökkum. Prússar urðu að ganga að afar hörðum friðarskilmálum og misstu m. a. öll lönd sín vestan Elbu. Rússland missti engin lönd, en varð að viðurkenna landvinninga Frakka. Þá varð Alexander Rússakeisari að láta sér lynda að Frakkar stofnsettu stórhertogadæmið Varsjá og að gerast aðili að hafnbanninu á England. Þjóðverjar undu þessum nauðungarsamningum illa og plægðu þeir þannig akurinn fyrir frelsishreyfingu þeirra gegn hinni erlendu áþján, sem lét til skarar skríða árið 1813. – *Útg.*

eitra almenningsálitið í Þýzkalandi eins og hvarvetna annarsstaðar með smjaðri og upplognu sjálfshóli.

Þessir þýzku ættjarðarvinir virðast fyllast gremju við að sjá vígi Frakka í Metz og Strassborg, en þeir sjá ekkert rangt við hið óhugnanlega kerfi af virkjum, sem minna á Moskvu, Varsjá, Modlin og Ívangorod. Þeir titra af ótta við innrásir Bónapartista en loka augunum fyrir smán verndarstjórnar zarsins.

Rétt eins og Lúðvík Bonaparte og Bismarck skiptust á loforðum 1865, þannig skiptust Gortsjakoff og Bismarck á loforðum 1870.[1] Rétt eins og Lúðvík – Napóleon gortaði af því að gagnkvæm örmagnan Austurríkis og Prússlands í stríðinu 1866 myndi gera hann að æðsta dómara um málefni Þýzkalands, þannig gortaði Alexander af því að gagnkvæm örmagnan Þýzkalands og Frakklands í stríðinu 1870 myndi gera hann að æðsta dómara um málefni Vesturevrópu. Rétt eins og Annað keisaraveldið áleit að Norðurþýzka bandalagið[2] samrýmdist ekki tilvist sinni, á nákvæmlega sama hátt hlýtur Rússneska einveldið að líta á þýzkt ríki undir forustu Prússlands sem ógnun við sig. Þetta er lögmál hins gamla stjórnmálakerfis. Innan þess græðir annar þegar hinn tapar. Yfirþyrmandi áhrif zarsins í Evrópu eiga rætur að rekja til hefðbundinna yfirráða hans yfir Þýzkalandi. Getur zarinn, þegar það vofir yfir að tröllaukin félagsleg öfl í Rússlandi skaki jafnvel styrkustu stoðir einveldisins, sætt sig við að staða hans gagnvart umheiminum veikist? Moskvublöðin eru þegar tekin að endurtaka það sem blöð Bónapartista sögðu eftir stríðið 1866. Trúa vegsamendur Þýzkalands því raunverulega að friður og frelsi Þýzkalands séu tryggð, ef þeir neyða Frakkland í faðm Rússlands? Ef vopnalán, sigurhroki og þjóðhöfðingjaklækir leiða Þýzkaland út í það að ræna frönsku landi, þá standa því aðeins tvær leiðir opnar. Annaðhvort verður það,

[1] Á fundi sínum með Napóleon 3. í Biarritz í október 1865 fékk Bismarck raunverulega samþykki Frakklands við bandalagi Prússa og Ítala og við styrjöld Prússlands gegn Austurríki. Vænti Napóleon þess að styrjöldin myndi dragast á langinn; Prússar myndu tapa henni, og ætlaði hann sér að hagnast á því.

Þegar stríðið milli Frakka og Þjóðverja skall á, lýsti Gortjsakoff, utanríkisráðherra zarsins, yfir því í viðræðum við Bismarck í Berlín, að Rússland myndi taka upp velviljaða hlutleysisstefnu og beita Austurríki stjórnmálalegum þvingunum. Prússneska stjórnin skuldbatt sig að sínu leyti til að leggja ekki stein í götu Rússa á Balkanskaga. – *Útg.*

[2] Norðurþýzka bandalagið var þýzkt sambandsríki undir forustu Prússlands. Var það stofnað að undirlagi Prússa eftir sigur þeirra yfir Austurríkismönnum 1867. Það leysti Þýzka bandalagið af hólmi, en það hafði gliðnað sundur. Í Norðurþýzka bandalaginu voru 19 þýzk ríki og 3 fríborgir. Prússar höfðu tögl og hagldir í þessu bandalagi. Ný ríki bættust í það 1870 (Bayern, Baden, Würtemberg og Hessen-Darmstadt), en við stofnun Þýzka ríkisins 1871 var hlutverki þess lokið. – *Útg.*

hvað sem af því kann að leiða, að gerast *yfirlýstur* þræll útþenslu Rússlands, ellegar það verður að búa sig undir nýtt „varnar"-stríð. Það verður ekki eitt af þessum nýbökuðu „staðbundnu" stríðum, heldur *kynþáttastyrjöld* við sameinaða kynþætti Slava og Rómana.

Þýzka verkalýðsstéttin, sem ekki hafði afl til að stöðva styrjöldina, studdi hana eindregið sem stríð fyrir sjálfstæði Þýzkalands og fyrir frelsun Þýzkalands og Evrópu frá þrúgandi fargi Annars keisaraveldisins. Það voru þýzku iðnverkamennirnir sem ásamt landbúnaðarverkamönnunum mynduðu kjarnann í hinum hugprúðum herjum. Þeir yfirgáfu fjölskyldur sínar hálfdauðar úr hungri. Þeir voru strádrepnir í orustunum erlendis og þeir munu verða strádrepnir í eymdinni heimafyrir. Þeir krefjast nú „trygginga" fyrir sig, tryggingar fyrir því að hinar gífurlegu fórnir þeirra hafi ekki verið færðar til einskis, að þeir hafi unnið sér frelsi, að sigrunum sem þeir unnu yfir herjum Bónapartista verði ekki breytt í ósigur þýzku þjóðarinnar eins og árið 1815.[1] Og fyrstu tryggingarnar sem þeir krefjast eru „drengskaparfriður við Frakkland" og „viðurkenning franska lýðveldisins".

Miðstjórn hins Sósíaldemókratíska verkamannaflokks Þýzkalands birti yfirlýsingu 5. september, þar sem hún hélt fast við þessar tryggingar.

„Við", sagði hún, „mótmælum innlimun Elsass-Lothringens. Og við vitum, að við tölum í nafni þýzku verkalýðsstéttarinnar. Vegna sameiginlegra hagsmuna Frakklands og Þýzkalands í þágu friðar og frelsis og í þágu vestrænnar siðmenningar gegn austrænni villimennsku munu þýzkir verkamenn ekki þola innlimun Elsass-Lothringens ... Við munum standa trúir við hlið félaga okkar, verkamanna allra landa, í stuðningi við sameiginlegan alþjóðlegan málstað öreigastéttarinnar!"

Illu heilli getum við ekki búizt við skjótum árangri þeirra. Úr því að frönsku verkamennirnir gátu ekki stöðvað árásaraðilann á friðartímum, eru þá meiri líkur til að þýzku verkamennirnir geti stöðvað sigurvegarann í miðju vopnaglamrinu? Yfirlýsing þýzku verkamannanna krefst þess að Lúðvík Bónaparte verði framseldur franska lýðveldinu sem óbótamaður. Yfirboðarar þeirra leggja sig alla fram um að koma honum í Tuilerie-höllina, þar sem hann sé kjörinn til að leggja Frakkland í

[1] Öfl lénsveldisins hrósuðu sigri í Þýzkalandi, og í Evrópu yfirleitt, eftir að veldi Napóleons hrundi. Þýzk alþýða hafði lagt sitt af mörkum í baráttunni gegn Napóleon. En hinir lénsku valdhafar Evrópu nutu ávaxtanna af sigrinum. Bandalag gagnbyltingaraflanna, Helga bandalagið, réð lögum og lofum í Evrópu. Það beitti sér gegn öllum framfarahreyfingum. Lénseinveldið festist í sessi í þýzku ríkjunum, aðallinn hélt öllum forréttindum sínum og arðránið á leiguliðunum óx. – *Útg.*

rústir. Hvað sem því líður þá mun sagan sýna að þýzkir verkamenn eru ekki jafn lingerðir og þýzka millistéttin. Þeir munu gera skyldu sína.

Við fögnum eins og þeir stofnun lýðveldisins í Frakklandi. En jafnframt sækja að okkur áhyggjur sem vonandi reynast ástæðulausar. Þetta lýðveldi steypti ekki krúnunni. Það settist í autt sæti hennar. Því var ekki lýst yfir sem félagslegu átaki heldur sem þjóðlegri varnaraðgerð. Það er í höndum bráðabirgðastjórnar sem sumpart er skipuð alræmdum Orleanistum, sumpart borgaralegum lýðveldissinnum. Á meðal þeirra eru nokkrir sem eru óafmáanlega brennimerktir síðan í júníuppþotinu 1848. Verkaskiptingin í ríkisstjórninni virðist ekki lofa góðu. Orleanistarnir sölsuðu undir sig valdastöðurnar – herinn og lögregluna – en hinir svokölluðu lýðveldissinnar fengu kjaftastólana. Sumar af fyrstu aðgerðum þeirra sanna greinilega að Annað keisaraveldið hefur ekki aðeins arfleitt þá að haugum af rústum, heldur einnig að ótta við verkalýðsstéttina. Þeir gefa stórorðar yfirlýsingar og lofa óframkvæmanlegum hlutum í nafni lýðveldisins. Er það ekki gert til að laða fram kröfuna um „mögulega" ríkisstjórn? Á lýðveldið ekki í augum borgaranna, sem gjarna myndu vilja taka því gröfina, aðeins að verða stökkpallur fyrir endurreisn Orleanistanna?

Franska verkalýðsstéttin er þannig í afar erfiðri aðstöðu um þessar mundir. Sérhver tilraun til að steypa hinni nýju ríkisstjórn væri örvæntingarfull firra, nú þegar óvinurinn stendur fyrir hliðum Parísarborgar. Frönsku verkamennirnir verða að gera skyldu sína sem þegnar lands síns. En þeir mega ekki láta drottna yfir sér með þjóðlegum skírskotunum til ársins 1792, eins og frönsku bændurnir létu blekkja sig með þjóðlegum skírskotunum til Fyrsta keisaraveldisins.[1] Þeir eiga ekki að endurtaka fortíðina heldur byggja upp framtíðina. Rólegir og einbeittir ættu þeir að notfæra sér það frelsi sem lýðveldið veitir þeim til þess að skipuleggja stétt sína frá grunni. Við það myndu þeir öðlast nýja jötunefld krafta í þágu endurfæðingar Frakklands og í þágu sameiginlegs verkefnis okkar – frelsunar öreigastéttarinnar. Örlög lýðveldisins eru háð krafti þeirra og vizku.

Verkamenn Englands hafa þegar stigið spor í þá átt að veita ríkisstjórn sinni hæfilegt aðhald og knýja hana til að láta af

[1] Lúðvík Bónaparte naut hylli bænda af því að hann var frændi Napóleons fyrsta. Þeir litu svo á að Napóleon hefði staðið vörð um ávinninga þeirra frá tímum byltingarinnar með því að berjast gegn endurreisn lénsveldis og konungdæmis og gegn erlendum innrásarherjum. Þeim sást þó yfir eða gleymdist að Napóleon var fyrst og fremst fulltrúi auðugasta hluta borgarastéttarinnar, sem hafði makað krókinn í byltingunni, og að styrjaldir hans kostuðu frönsku þjóðina óheyrilegar blóðfórnir. – *Útg.*

andstöðu sinni við að viðurkenna franska lýðveldið.[1] Hik ensku ríkisstjórnarinnar nú á sennilega að bæta fyrir stríðið gegn Jakobínum 1792, rétt eins og hinn ósiðsamlegi asi sem var á henni þegar hún samþykkti valdaránið.[2] Ensku verkamennirnir krefjast þess auk þess af ríkisstjórn sinni að hún beiti sér af alefli gegn sundurlimun Frakklands, en nokkur hluti frönsku blaðanna er nægilega blygðunarlaus til þess að æpa henni til stuðnings. Þetta eru sömu blöðin og vegsömuðu Lúðvík Bónaparte sem guðlega forsjón Evrópu í full tuttugu ár og klöppuðu uppreisn amerísku þrælahaldaranna óspart lof í lófa. Nú eins og þá fylkja þau liði með þrælahöldurunum.

Megi deildir Alþjóðasambands verkamanna í öllum löndum hvetja verkalýðsstéttina til dáða. Ef verkamennirnir gleyma skyldu sinni og verða óvirkir, mun þessi hræðilega styrjöld aðeins verða undanfari enn hræðilegri alþjóðlegra átaka. Þau munu í öllum löndum leiða til nýrra ósigra verkamanna fyrir herrum sverðsins, jarðarinnar og auðmagnsins.

Vive la république!

London, 9. september 1870.

---

[1] Þegar 5. september 1870 héldu enskir verkamenn fjöldafundi og fóru í kröfugöngur í stórborgunum til stuðnings við hið nýstofnaða franska lýðveldi og kröfðust þess, að það væri viðurkennt. – *Útg.*

[2] England tók virkan þátt í að koma bandalagi lénsveldanna í Evrópu á laggirnar, sem hóf styrjöldina 1792 gegn hinu byltingarsinnaða Frakklandi. England varð fyrst Evrópuríkja til að viðurkenna valdarán Lúðvíks Bónaparte 2. des. 1851. – *Útg.*

# Borgarastríðið í Frakklandi

## Ávarp Sambandsráðs Alþjóðasambands verkamanna

### Til félaga í Alþjóðasambandi verkamanna í Evrópu og Bandaríkjunum

### I

Hinn 4. september 1870 kunngerðu verkamenn Parísar lýðveldisstofnunina. Næstum samstundis fagnaði allt Frakkland, engin mótmælarödd heyrðist. Sama dag slógu nokkrir málafærslumenn, fláráðir metorðastritarar, þar sem Thiers lék stjórnmálamanninn en Trochu hershöfðingjann, eign sinni á Hotel de Ville (ráðhúsið). Ofstækisfull trú þessara manna á forustuhlutverk Parísar á öllum erfiðleikatímabilum í sögu Frakklands gagntók þá svo, að þeir þóttust geta réttlætt ríkisstjóratitla sína með því að framvísa útrunnum kjörbréfum sínum sem þingmenn Parísar. Í öðru ávarpi okkar um nýafstaðna styrjöld, fimm dögum eftir að þessum mönnum skaut upp, sögðum við ykkur hverjir þeir voru. Í allri ringulreiðinni létu Parísarbúar þó viðgangast að þeir hrifsuðu til sín völdin, þótt hinir raunverulegu foringjar verkamanna væru enn í fangelsum Bónaparte og Prússar stefndu her sínum á borgina. En að vísu settu þeir það ótvíræða skilyrði að þetta ríkisvald starfaði eingöngu í þágu landvarna. En París varð ekki varin án þess að vopna verkalýðsstéttina, breyta henni í nothæft baráttutæki og þjálfa hana í sjálfum skóla stríðsins. En París undir vopnum, það var byltingin undir vopnum. Sigur Parísar yfir prússnesku árásaröflunum jafngilti sigri franska verkamannsins yfir franska kapítalistanum og ríkisblóðsugum hans. Í þessum reipdrætti milli þjóðlegrar skyldu og stéttahagsmuna kom aldrei hið minnsta hik á landvarnastjórnina – hún breyttist í þjóðsvikaríkistjórn.

Það fyrsta sem hún gerði var að senda Thiers í betlileiðangur til allra konungshirða Evrópu. Bað hann þær að miðla málum, en bauð í staðinn að skipta á lýðveldinu og einhverjum konungi. Fjórum mánuðum eftir að umsátrið hófst, þegar tími virtist kominn til að fara að minnast á uppgjöf, ávarpaði Trochu fund borgarstjóra (hverfastjóra) Parísar, að Jules Favre og öðrum ráðherrum viðstöddum, svofelldum orðum:

„Fyrsta spurningin, sem starfsbræður mínir lögðu fyrir mig þegar að kvöldi hins 4. september, var: eru einhverjar líkur á því að París fái staðizt umsátur prússneska hersins? Ég hikaði ekki við *að neita* spurningunni. Fjölmargir starfsbræðra minna sem hér eru viðstaddir munu ganga í ábyrgð fyrir sannleiksgildi þessara orða og fastheldni mína við þessa skoðun. Ég sagði þeim með þessum sömu orðum, að eins og málum væri komið væri það heimska að reyna að halda París andspænis prússnesku umsátursliði. Án efa, bætti ég við, hetjuleg heimska; en það væri líka allt og sumt ... Atburðirnir" (sem hann sjálfur stjórnaði) „hafa staðfest það sem ég sá fyrir."

Síðar birti einn af borgarstjórunum sem viðstaddir voru, herra Carbon, þennan snotra ræðustúf Trochus.

Sem sé: sama kvöldið og lýðveldið var kunngjört var starfsbræðrum Trochus kunnugt um að „áætlun" hans fólst í uppgjöf Parísar.

Hefði hin þjóðlega vörn verið meira en einskær átylla fyrir persónuleg völd Thiers, Favre og félaga – hefðu uppskafningarnir frá 4. september sagt af sér þann 5. Þeir hefðu leitt alþýðu Parísar í allan sannleika um „áætlun" Trochus og annað hvort hvatt hana til að gefast upp þegar í stað eða til að taka örlög sín í eigin hendur. En þess í stað ákváðu hinir ærulausu þorparar að lækna París af hinni „hetjulegu heimsku" með hungrinu og höggstokknum og blekkja hana á meðan með stórorðum yfirlýsingum eins og t. d.: „Trochu, herstjóri Parísar, mun aldrei gefast upp!" og Jules Favre, utanríkisráðherra, „mun ekki gefa eftir einn þumlung landsvæðis okkar og ekki einn stein úr virkjum okkar". Í bréfi til Gambettas viðurkennir sá sami Jules Favre að það sem þeir „vörðu" sig gegn voru ekki hermenn Prússa heldur *verkamenn Parísar.* Allan umsátурstímann viðhöfðu hinir bónapartísku morðvargar, sem Trochu af vizku sinni hafði trúað fyrir herstjórninni í París, lúalega kerskni um hina augljósu háðungarvörn í leynilegum bréfaskiptum sínum. Lesið t. d. bréf Alphonse-Simon Guiod, yfirmanns stórskotaliðsins í París, handhafa Stórkross Heiðursfylkingarinnar, til Susane, deildarforingja í stórskotaliðinu, sem birt voru af Kommúnunni. Loks 28. janúar 1871[1] létu þeir grímuna falla. Af allri hugdirfsku

[1] Hér er átt við samninginn um vopnahlé og uppgjöf Parísar sem Bismarck og Jules Favre undirrituðu 28. janúar 1871. Landvarnastjórnin neitaði að veita hinum prússneska landvinningaher frekari mótspyrnu og féllst á smánarlega uppgjöf Parísar. Í þessu fólust svik við þjóðarhagsmuni Frakklands. Ríkjandi stéttir streittust af öllum mætti við að bæla niður byltingarhreyfinguna og skeyttu engu um hagsmuni landsins. Með þessum samningi gekk Jules Favre að hinum niðurlægjandi kröfum Prússa: að greiða þeim 200 millj. franka í stríðsskaðabætur innan tveggja

hinnar ýtrustu sjálfsniðurlægingar gekk landvarnastjórnin fram fyrir skjöldu við uppgjöf Parísar sem *ríkisstjórn Frakklands í umboði fanga Bismarcks* – en frá svo svívirðilegu hlutskipti hafði jafnvel Lúðvík-Napóleon hrökklazt í Sedan. Á trylltum flótta sínum til Versailles eftir þann 18. marz skildu þessir „Capitulards" eftir skjalfesta sönnun um svik sín í París. Í því skyni að eyðileggja hana, segir í einu af ávörpum Kommúnunnar til héraðanna úti á landi,

„myndu þessir menn ekki hika við að breyta París í rústahaug, umflotinn hafsjó af blóði".

En auk þess höfðu nokkrir af höfuðpaurum landvarnastjórnarinnar alveg sérstakar einkaástæður til þess að koma slíkum endalyktum í kring.

Stuttu eftir vopnahléssamningana birti Millière, fulltrúi Parísar á Þjóðþinginu, en hann var skotinn í skyndi að skipun Jules Favre, nokkur óvefengjanleg réttarskjöl. Þau sanna að Jules Favre sem lifði í óvígðu hjónabandi með konu drykkjurúts nokkurs, búsetts í Alsír, hafði orðið auðugur maður er hann klófesti stóran arf í nafni hórbarna sinna með fölsunum, sem tóku yfir mörg ár. Og ennfremur, að hann hafði því aðeins komizt hjá að verða afhjúpaður, þegar hinir lögmætu erfingjar höfðuðu mál á hendur honum, að hann naut sérstakra ívilnana hinna bónapartísku dómstóla. Þar eð þess var ekki kostur að þagga þessi þurru málsskjöl niður, jafnvel þó beitt væri ómældum hestöflum mælskulistar, hélt Jules Favre sér saman í fyrsta skipti á ævinni og beið þess í ró og næði að borgarastyrjöldin brytist út. En þá trylltist hann og vændi alþýðu Parísar um að vera óaldarflokk strokufanga í ósvífinni uppreisn gegn fjölskyldunni, trúnni, lögunum og eigninni. Og vart var þessi sami falsari kominn til valda þegar hann, fullur samúðar, lét Pic og Taillefer lausa, strax eftir hinn 4. september. En þeir höfðu báðir verið dæmdir fyrir fölsun, og það á tímum keisarans, í sambandi við hneykslismál blaðsins „L'Étendard".[1] Annar þessara dáindismanna, Taillefer, var svo ósvífinn að halda til Parísar á dögum Kommúnunnar, en var þegar stungið inn aftur. Og þó hrópaði Jules Favre frammi fyrir alþjóð, úr ræðustóli þjóðþingsins, að Parísarbúar létu alla tugthúslimi sína lausa!

---

vikna, að láta af hendi við þá flest virki Parísar, að afhenda þeim vopn stórskotaliðsins og Parísarhersins. Bismarck og Favre þorðu ekki að kveða á um afvopnun Þjóðvarðliðsins, þar sem það var mestmegnis skipað verkamönnum. Samningurinn gerði ennfremur ráð fyrir að Þjóðþing yrði kjörið eins fljótt og auðið var. Skyldi það ákveða, hvort halda skyldi stríðinu áfram eða gera friðarsamninga. – *Útg.*

[1] Stuðningsblað Bónapartista. Kom út árin 1866–68 í París. Útgefendur þess urðu uppvísir að fjársvikum og urðu að hætta útgáfunni. – *Útg.*

Ernest Picard, Karl Vogt[1] landvarnastjórnarinnar – sem útnefndi sjálfan sig innanríkisráðherra lýðveldisins eftir árangurslausa viðleitni til að verða innanríkisráðherra keisaraveldisins –, er bróðir Arthurs nokkurs Picard. En hann var rekinn frá kauphöllinni í París vegna svindilbrasks (skýrsla lögreglustjóraembættisins í París frá 31. júlí 1867). Einnig sannaðist á hann samkvæmt eigin játningu að hann hafði stolið 300 000 frönkum þegar hann var forstjóri eins af útibúum Société générale[2] í Rue Palestro nr. 5 (skýrsla lögreglustjóraembættisins frá 11. desember 1868). Þennan Arthur Picard útnefndi Ernest Picard ritstjóra blaðs síns „L'Électeur libre".[3] Á meðan hinn venjulegi kauphallarlýður var blekktur með opinberum lygum þessa ráðherrablaðs hljóp Arthur Picard fram og aftur milli ráðuneytisins og kauphallarinnar, þar sem hann skipti ósigrum frönsku herjanna í reiðufé. Öll viðskiptabréf þessara ráðvöndu bræðra féllu Kommúnunni í hendur.

Jules Ferry, sem fyrir 4. september var atvinnulaus málafærslumaður, tókst að auðgast á hungursneyðinni með gróðabralli sínu sem hverfisstjóri í París á umsátrurstímunum. Dagurinn þegar hann verður að svara til saka vegna misferlis síns verður um leið hans eigin dómsdagur.

Þessir menn sáu sína tickets-of-leave[4] aðeins í rústum Parísar; þeir voru mennirnir sem Bismarck þurfti á að halda. Að afloknum fáeinum loddarabrögðum birtist Thiers, sem hingað til hafði verið hinn leynilegi hvíslari ríkisstjórnarinnar – að þessu sinni í fararbroddi hennar með tickets-of-leave-mennina sem ráðherra.

Thiers, þessi dvergsóburður, hefur töfrað frönsku borgarastéttina í meira en hálfa öld af því að hann er andlega háþróaðasta afurð spillingar þessarar stéttar. Áður en hann gerðist stjórnmálamaður hafði hann þegar sannað hæfileika sína til að ljúga sem sagnritari. Annáll hins opinbera lífs hans er sagan um ógæfu Frakklands. Fyrir 1830 var hann í bandalagi við lýðveldissinnana, en krækti sér í ráðherrastöðu í stjórnartíð Lúðvíks Filippusar með því að svíkja velunnara sinn Laffitte. Hann kom sér í mjúkinn hjá konungi með því að æsa til skrílslátanna gegn

[1] Í ensku útgáfunni Joe Miller, í þeirri frönsku Falstaff. – *Útg.*

[2] Société générale de crédit mobilier var franskur verðbréfabanki, stofnaður af Péreire-bræðrum 1852. Banki þessi var útlánastofnun og aflaði sér einkum tekna með kauphallarbraski. Hann starfaði í nánum tengslum við ríkisstjórn Napóleons 3. og naut verndar hennar. Hann varð gjaldþrota 1867. – *Útg.*

[3] Málgagn hægrisinnaðra lýðveldissinna.

[4] Í Englandi fá óbótamenn oft orlofsskírteini er þeir hafa afplánað hluta af refsivist sinni. Eru þeir þá látnir lausir undir lögreglueftirliti. Þessi skírteini nefnast tickets-of-leave og handhafar þeirra tickets-of-leavemen. (Skýringargrein eftir Engels við þýzku útgáfuna 1871). – *Útg.*

klerkastéttinni þegar Saint-Germain l'Auxerrois-kirkjan og erkibiskupshöllin voru rænd og með framkomu sinni gagnvart hertogaynjunni af Berry, þar sem hann lék bæði hlutverk ríkisstjórnarspæjara og fangelsisljósmóður.[1] Það var *hann* sem lét brytja niður lýðveldissinnana í Rue Transnonain, og það var *hann* sem stóð að hinum illræmdu septemberlögum rétt á eftir gegn prent- og félagafrelsi.[2] 1840, þegar honum skaut upp aftur sem forsætisráðherra, gerði hann alla Frakka hvumsa með áætlun sinni um að víggirða París.[3] Þegar lýðveldissinnar báru fram þá ásökun að þessi áform fælu í sér sviksamlegt samsæri gegn frelsi Parísar, svaraði hann þeim í fulltrúadeildinni:

„Hvað? Þér ímyndið yður að víggirðingar gætu einhverntíma stofnað frelsinu í hættu? Framar öðru rægið þér sérhverja hugsanlega ríkisstjórn, ef þér gerið ráð fyrir að hún einhverju sinni kynni að reyna að halda völdum með því að beina sprengjuregni yfir París ... slík ríkisstjórn væri hundraðfalt ótækari eftir sigur sinn en fyrir hann."

Sannast sagna myndi engin ríkisstjórn hafa dirfzt að hefja skothríð á París úr virkjunum nema sú ríkisstjórn, sem áður hefði afhent Prússum þessi virki.

---

[1] 14. og 15. febr. 1831 voru skipulagðar mótmælaaðgerðir í París gegn lögerfðamönnum og kirkjunni. Í mótmælaskyni við fjöldagöngu lögerfðamanna í tilefni af útför hertogans af Berry braut manngrúinn niður kirkjuna St.-Germain l'Auxerrois og höll Quélens erkibiskups, en hann var þekktur fyrir stuðning sinn við lögerfðamenn. Ríkisstjórn Orleanista var ósárt um, þó klekkt væri á lögerfðamönnum, og greip því ekki til neinna aðgerða gegn mannfjöldanum. Thiers var viðstaddur þegar kirkjan og erkibiskupshöllin voru brotin niður og taldi Þjóðvarðliðið á að blanda sér ekki í málið. – Árið 1832 lét Thiers, sem þá var innanríkisráðherra, handtaka hertogaynjuna af Berry, móður greifans af Chambord, en hann var konungsefni lögerfðamanna. Í fangelsinu gekkst hún undir all nærgöngula læknisskoðun. Ætlunin var að hagnýta leynilegt hjónaband hennar og aðalsmanns nokkurs frá Napoli, svo og það að hún var þunguð, til að gera út af við hana pólitískt. – *Útg.*

[2] Thiers innanríkisráðherra bældi miskunnarlaust niður uppreisn verkamanna í París 13.–14. apríl 1834. Uppreisnarmenn kröfðust afnáms Júlíkonungdæmisins og stofnunar lýðveldis. Uppreisnin var skipulögð af Mannréttindafélaginu, leynisamtökum sem börðust fyrir lýðveldi og lýðræði. Hún varð tilefni taumlausra grimmdarverka og hefndaraðgerða af hálfu ríkisstjórnarinnar. Til dæmis voru íbúar húss nokkurs við Rue Transnonain blátt áfram brytjaðir niður. Thiers var aðalhvatamaður þessara grimmilegu ofsókna. – Septemberlögin voru gefin út af frönsku stjórninni í september 1835 sem svar við tilraun til að myrða Lúðvík Filippus konung. Þau þrengdu verksvið kviðdómanna og takmörkuðu réttindi blaðanna að ýmsu leyti. – *Útg.*

[3] Þessi áætlun bar það með sér að hinar nýju víggirðingar höfðu fyrst og fremst þann tilgang, að auðveldara yrði að bæla niður alþýðuuppreisnir í borginni. Sérstaklega mörg og sterkbyggð vígi voru reist umhverfis norður- og austurhluta borgarinnar, verkamannahverfin. – *Útg.*

Í janúar 1848, þegar Bomba konungur reyndi að taka Palermo,[1] reis Thiers, sem þá var löngu hættur ráðherrastörfum, enn upp í deildinni:

„Þér vitið, herrar mínir, hvað er að gerast í Palermo. Það fer um yður hrollur" (í þingræðislegum skilningi) „þegar þér fregnið að skothríð hafi dunið á stórri borg í fjörutíu og átta stundir samfleytt. Frá hverjum? Frá erlendum óvini sem beitir stríðsrétti sínum? Nei, herrar mínir, frá hennar eigin ríkisstjórn. Og hversvegna? Vegna þess að hin ógæfusama borg krafðist réttar síns. Og fyrir það hlaut hún fjörutíu og átta stunda sprengjuhríð ... Leyfið mér að höfða til álits Evrópu. Það er þjónusta við mannúðina, ef vér rísum upp og látum nokkur orð" (já, einmitt, orð!) „reiðinnar yfir slíkum verkum hljóma frá þeim ræðustól sem ef til vill ber hæst í Evrópu. Þegar Espartero ríkisstjóri, sem hafði þjónað landi sínu" (og það var meira en Thiers gerði nokkurntíma) „áformaði að hefja skothríð á Barcelona til þess að bæla niður uppreisn, gullu við reiðióp hvaðanæva úr heiminum."

Átján mánuðum síðar var Thiers meðal æstustu stuðningsmanna skothríðar franskra herja á Róm.[2] Yfirsjón Bomba konungs virðist raunar aðeins hafa verið fólgin í því að hann takmarkaði skothríð sína við fjörutíu og átta stundir.

Nokkrum dögum fyrir Febrúarbyltinguna gaf Thiers yfirlýsingu í fulltrúadeildinni. Hann var þá orðinn afundinn vegna hinnar löngu útlegðar frá tign og titlum, sem Guizot hafði dæmt hann í. Jafnframt skynjaði hann vaxandi hræringar meðal alþýðu. Hann talaði í hinum hjáróma hetjustíl, sem aflaði honum spéheitisins Mirabeau-mouche (Mirabeau-flugan):

„*Ég er í flokki byltingarinnar,* ekki aðeins í Frakklandi, heldur í Evrópu. Ég óska þess að ríkisstjórn byltingarinnar megi haldast í höndum hófsamra manna; ... en færi svo að þessi ríkisstjórn lenti í höndum ákafamanna, jafnvel róttækra, myndi ég ekki hvika frá mínum málstað þess vegna. Ég mun alltaf verða í flokki byltingarinnar."

---

[1] Í janúar 1848 vörpuðu hersveitir Ferdinands 2. af Napoli sprengjum á Palermo. En hann fékk viðurnefnið Bomba konungur vegna miskunnarlausrar skothríðar sinnar á borgina Messina um haustið það ár. Ferdinand ætlaði sér að berja niður uppreisn sem varð í Palermo. Hún leiddi hinsvegar til borgaralegrar byltingar í ríkjum Ítalíu 1848–49. – *Útg.*

[2] Í apríl 1849 sendi franska ríkisstjórnin í bandalagi við Austurríki og Napoli herlið til Ítalíu. Átti það að koma Rómverska lýðveldinu fyrir kattarnef og endurreisa veraldleg völd páfa. Lýðveldið varðist hetjulega, en varð að gefast upp um síðir fyrir grimmilegri innrás franska liðsins, sem hélt Róm í umsátri og hertók borgina eftir að hafa haldið uppi miskunnarlausri skothríð á hana. – *Útg.*

Febrúarbyltingin kom. En í staðinn fyrir að setja ráðuneyti Thiers í stað ráðuneytis Guizots setti hún lýðveldið í stað Lúðvíks Filippusar. Á fyrsta degi sigursins faldi hann sig vandlega og gleymdi því, að fyrirlitning verkamannanna verndaði hann gegn hatri þeirra. Samt hélt hann sig fjarri opinberu lífi af gamalkunnri hugdirfsku sinni þar til Júníblóðbaðið hafði rutt sviðið fyrir aðgerðir af hans tagi. Þá gerðist hann leiðtogi stjórnfestuflokksins[1] og hins þingræðislega lýðveldis, þessa nafnlausa innskotsríkis, þar sem margvísleg flokksbrot ríkjandi stéttar frömdu samsæri hvert *með* öðru til þess að kúga alþýðu og hvert *gegn* öðru í viðleitninni til að endurreisa hvert sitt konungsveldi. Þá eins og nú sakaði Thiers lýðveldissinna um að vera einu hindrunina í vegi þess að lýðveldið festist í sessi; þá eins og nú talaði hann til lýðveldisins eins og böðullinn til Don Carlos: „Ég mun myrða þig, en ég geri það af því að það er þér sjálfum fyrir beztu.“ Nú eins og þá mun hann neyðast til að hrópa daginn eftir sigur sinn: „L'Empire est fait“ – keisaraveldið er búið að vera. Þrátt fyrir hræsnisfullar prédikanir hans um „nauðsynlegt frelsi“ og persónulega gremju í garð Lúðvíks Bónaparte, sem færði hann sér í nyt og fleygði þingræðinu á dyr – og utan hins tilbúna andrúmslofts þingræðisins lyppast manntetrið niður og verður að engu, eins og hann sjálfur veit –, þrátt fyrir allt þetta hafði Thiers hönd í bagga með öllum svívirðum Annars keisaraveldisins, allt frá hernámi frönsku hersveitanna í Róm til styrjaldarinnar gegn Prússlandi, sem hann æsti til með hinum heiftarlegu árásum sínum á einingu Þýzkalands –, sem hann réðist ekki á vegna þess að hún væri skálkaskjól fyrir harðstjórn Prússa, heldur að hún væri íhlutun um hinn arftekna rétt Frakklands til óeiningar Þýzkalands. Um leið og dvergsarmar hans sveifluðu gjarna framan í Evrópu sverði Napóleons fyrsta, sem hann var orðinn sagnfræðilegur skóburstari fyrir, náði utanríkisstefna hans ævinlega hámarki sínu í dýpstu niðurlægingu Frakklands. Þannig var það allt frá Lundúnasamþykktinni 1841[2] til uppgjafar Parísar 1871 og yfirstandandi borgarastyrjaldar, þar sem hann með náðarsamlegu leyfi Bismarcks æsti fangana í Sedan og Metz gegn París.[3] Þrátt fyrir fjölhæfar gáfur og sí-

[1] Stjórnfestuflokkurinn var samsteypa lögerfðamanna og Orleanista. Hann var áhrifamesti flokkur löggjafarþingsins í Öðru lýðveldinu 1849–51 og fulltrúi hinnar afturhaldssömu stórborgarastéttar. – *Útg.*

[2] Eftir að stefna frönsku stjórnarinnar í Austurlöndum hafði beðið skipbrot, fékk stjórnin því ágengt að Frakkland gerðist aðili að Lundúnasamþykktinni frá 1841, sem lagði bann við ferðum erlendra herskipa um tyrknesku sundin á friðartímum. – *Útg.*

[3] Thiers var umhugað um að efla Versailles-herinn. Samkvæmt bráðabirgðasamningnum frá 26. febr. 1871 mátti hann ekki fara yfir 40.000 manns.

breytileg stefnumið hefur allt æviskeið þessa manns verið rígskorðað í steinrunnum farvegi. Það er ljóst að hinir djúpristari straumar nútímaþjóðfélags hlytu að verða honum eilífur leyndardómur; en jafnvel hinar áþreifanlegustu breytingar á yfirborði þjóðfélagsins áttu tregan aðgang að þeim heila sem hafði glatað allri lífsorku sinni yfir til talfæranna. Þannig þreyttist hann aldrei á því að stimpla sérhvert frávik frá hinu úrelta franska verndartollakerfi sem helgispjöll. Sem ráðherra Lúðvíks Filippusar reyndi hann að hrópa niður járnbrautirnar sem heilaspuna og glópsku; í stjórnarandstöðunni í tíð Lúðvíks Bónaparte brennimerkti hann sérhverja tilraun til umbóta á hinu rotna skipulagi franska hersins sem saurgun. Á hinum langa stjórnmálaferli sínum gerði hann sig aldrei sekan um að framkvæma eina einustu ráðstöfun – ekki einu sinni smávægilega – sem hefði hagnýtt gildi. Sjálfum sér samkvæmur var Thiers aðeins í fégræðginni og hatri sínu á þeim mönnum sem veittu honum brautargengi. Hann fór blásnauður í fyrsta ráðuneyti sitt í tíð Lúðvíks Filippusar; hann yfirgaf það sem milljónamæringur. Þegar síðasta ráðuneyti hans í tíð sama konungs (frá 1. marz 1840) ákærði hann opinberlega fyrir fulltrúadeildinni fyrir fjárdrátt, lét hann sér nægja að svara með táraflóði –, bragð, sem hann leikur nákvæmlega jafn „vel" og Jules Favre eða hver annar krókódíll. Fyrsta skref hans í Bordeaux til að bjarga Frakklandi frá yfirvofandi fjárhagshruni var að gera sjálfan sig út með þriggja milljóna árstillagi. Það var fyrsta og síðasta orð þess „sparsama lýðveldis", sem hann hafði gefið kjósendum sínum í París fyrirheit um 1869. Einn fyrrverandi starfsfélagi hans úr fulltrúadeildinni frá 1830, herra Beslay, sem sjálfur er kapítalisti –, enda þótt það hindraði hann ekki í því að verða fórnfús meðlimur Parísarkommúnunnar –, ávarpaði Thiers nýlega í veggblaði:

„Hornsteinn stefnu yðar var ævinlega að kúga vinnuna með auðmagninu. Síðan þér sáuð verkamannalýðveldið taka sér aðsetur í ráðhúsi Parísar hrópuðuð þér án afláts til Frakklands: „Sjáið þessa glæpamenn!" ".

Thiers er meistari í smásmugulegu stjórnmálaníði, snillingur í meinsæri og svikum. Hann er útlærður í öllum hinum lágkúru-

---

Thiers bað Bismarck um að fá að fjölga í hernum og fullvissaði hann um, að hersveitunum yrði eingöngu beitt til að bæla niður uppreisnina í París. Leyfið fékkst, fyrst fyrir 80 000 manns, en síðar 100 000. Leysti þýzka herstjórnin í skyndingu lið Frakka úr haldi, er gefizt hafði upp við Sedan og Metz. Kom Versailles-stjórnin liði þessu fyrir í lokuðum herbúðum, þar sem lögð var sérstök áherzla á að innræta hermönnunum hatur á Parísarkommúnunni. – *Útg.*

legu glímubrögðum, fláráðu prettum og andstyggilegu heitrofum hinnar þingræðislegu flokkastreitu. Hann er ævinlega reiðubúinn til að æsa til byltingar þegar honum hefur verið vikið úr embætti, en kæfa hana í blóði um leið og hann heldur um stjórnvöl ríkisins. Hann setur stéttarfordóma í stað hugsjóna, hann hefur hégómagirnd í staðinn fyrir hjarta. Einkalíf hans er jafn svívirðilegt og hið opinbera líf hans er níðingslegt. – En jafnvel nú er hann leikur hlutverk hins franska Sulla, getur hann ekki stillt sig um að auka á viðbjóð verka sinna með skopleik mikilmennskubrjálæðisins.

Með uppgjöf Parísar, sem færði Prússum ekki aðeins París heldur allt Frakkland, lauk langvarandi refskák við óvininn sem valdaræningjarnir frá 4. september höfðu, eins og Trochu sjálfur hefur sagt, hafið samdægurs. Með henni hófst hinsvegar borgarastyrjöldin sem þeir urðu að heyja með stuðningi Prússa gegn lýðveldinu og París. Þegar í orðalagi yfirlýsingarinnar um uppgjöfina var gildrunni komið fyrir. Þá höfðu óvinirnir röskan þriðjung landsins á sínu valdi. Höfuðborgin var króuð af frá öðrum héruðum landsins. Öll flutningatæki voru í óreiðu. Við slíkar kringumstæður var óhugsandi að kjósa raunverulega fulltrúa Frakklands, ef ekki yrði gefinn nægur tími til undirbúnings. *Einmitt þess vegna* gerði uppgjafaryfirlýsingin það að skilyrði að Þjóðþing skyldi kosið innan viku, þannig að í mörgum landshlutum barst fréttin um væntanlegar kosningar fyrst daginn áður. Ennfremur skyldi þingið, samkvæmt greinilegu ákvæði uppgjafaryfirlýsingarinnar, aðeins kosið í þeim eina tilgangi að taka ákvarðanir um stríð og frið og gera friðarsamning, ef svo bæri undir. Þjóðin varð að skynja, að vopnahlésskilmálarnir gerðu það óhugsandi að halda stríðinu áfram, og að verstu menn Frakklands væru einmitt þeir beztu til að staðfesta þann frið sem Bismarck hafði þvingað fram. En Thiers nægðu ekki allar þessar varúðarráðstafanir. Áður en Parísarbúum var opinberaður leyndardómur vopnahlésins, var hann lagður af stað í kosningaferðalag um byggðir landsins til þess að blása líftórunni á ný í flokk lögerfðamanna, sem nú ásamt Orleanistunum yrðu að fylla skarð Bónapartistanna er svo skyndilega voru úr leik. Hann óttaðist þá ekki. Hvaða flokkur – nú þegar þeir voru óhugsandi sem ríkisstjórn hins nýja Frakklands og þess vegna fyrirlitlegir sem keppinautar – hvaða flokkur var kærkomnara verkfæri afturhaldsins en sá sem í starfsemi sinni, – eins og Thiers orðaði það sjálfur (í fulltrúadeildinni, 5. janúar 1833),

„hafði ætíð takmarkað sig við þrjú hjálparmeðöl: innrás að utan, borgarastyrjöld og stjórnleysi"?

En þeir, lögerfðamennirnir, trúðu í sannleika á komu hins

endurheimta þúsundáraríkis síns. Þarna voru hælar innrásarinnar og utan sem tróðu Frakkland í svaðið; þarna var hrun keisaraveldis og fangelsun eins af Bónaparte-meiðnum; og þarna voru þeir sjálfir komnir aftur. Hjól sögunnar hafði augsýnilega snúizt til baka til Chambre introuvable[1] (Ríkisráðs- og júnkaraþingsins) frá 1816. Á samkomum lýðveldisins frá 1848 til 1851 höfðu hinir menntuðu og þjálfuðu þingleiðtogar verið fulltrúar þeirra. En nú ruddust hinir óbreyttu hermenn flokksins fram – allir Pourceaugnakkar Frakklands.

Jafnskjótt og þing þessara Ruraux (káljúnkara)[2] hafði verið sett í Bordeaux, gerði Thiers þeim ljóst að þeir yrðu þegar í stað að samþykkja umsamda friðarskilmála, jafnvel án virðingartákna þinglegrar umræðu. Aðeins að því tilskildu myndu Prússar leyfa þeim að hefja stríðið við lýðveldið og hið öfluga vígi þess, París. Gagnbyltingin mátti satt að segja engan tíma missa. Annað keisaraveldið hafði tvöfaldað skuldir ríkisins og steypt stórborgunum í stórskuldir. Stríðið hafði gert mjög auknar kröfur til þjóðarinnar og látið greipar sópa um bjargir hennar. Til að fullkomna hrunið stóð hinn prússneski Shylock tilbúinn með ávísun á viðurgerning til handa hálfri milljón hermanna sinna á franskri grund og á fimm milljarða skaðabætur ásamt 5 prósent vöxtum af ógoldnum afborgunum af þeim.[3] Hver átti að borga reikninginn? Því aðeins að þeim tækist að steypa lýðveldinu með valdi gátu þeir menn, sem slógu eign sinni á auðinn, vænzt þess að geta velt byrðunum af þeirri styrjöld, sem þeir sjálfir höfðu stofnað til, yfir á bök þeirra sem sköpuðu þennan auð. Þannig var það einmitt hið botnlausa hrun Frakklands, sem hvatti þessa föðurlandselskandi fulltrúa landeigna og auðmagns til þess að bæta sér upp utanlandsstyrjöldina með borgarastríði – með þrælahaldarauppreisn í augsýn og undir náðarsamlegri vernd hins erlenda landræningja.

---

[1] Chambre introuvable – þingið makalausa. „Þetta nafn hefur sagan gefið hinu ofstækisfulla fulltrúaþingi öfgafullra konungssinna og íhaldsmanna, sem kosið var 1815 jafnskjótt og Napóleon var oltinn úr sessi öðru sinni". (Engels).

[2] Franska orðið ruraux, sveitamenn, er hér þýtt með þýzka orðinu Krautjunker, „káljúnkarar". Nafngiftin túlkar fyrirlitningu á fulltrúum Þjóðþingsins, sem kom saman í Bordeaux í febrúar 1871. En meirihluti þeirra voru íhaldssamir konungssinnar, óðalseigendur, embættismenn og kaupmenn, kjörnir í sveitakjördæmum. Af 630 þingmönnum voru um 430 konungssinnar.

[3] Í bráðabirgðafriðarsamningunum frá 26. febr. 1871 var kveðið svo á, að Frakkland skyldi afsala sér austurhluta Lothringens og greiða Þjóðverjum 5 millj. franka í stríðsskaðabætur. Þýzkt setulið skyldi dvelja í Frakklandi, unz þær væru að fullu greiddar. Endanlegur friðarsamningur var undirritaður í Frankfurt am Main 10. maí 1871. – *Útg.*

Í vegi þessa samsæris stóð ein stór hindrun – París. Fyrsta skilyrði fyrir árangri var að afvopna París. Thiers hvatti þess vegna París til að leggja niður vopn sín. Síðan var París espuð með hinum fjandsamlegu samþykktum káljúnkaraþingsins gegn lýðveldinu og tvíræðum ræðum Thiers sjálfs um réttarstöðu lýðveldisins; með hótunum um að svipta París höfði og höfuðborgartitli (décapiter et décapitaliser); útnefningu orleanískra sendiherra; lögum Dufaures vegna gjaldfallinna víxla og húsaleigu,[1] sem ógnuðu viðskiptum og iðnaði í París með hruni; tveggja sentíma skatti Pouyer-Quertiers á hvert einasta eintak prentaðs máls; dauðadómnum yfir Blanqui og Flourens; kúgunaraðgerðunum gegn blöðum lýðveldissinna; flutningi Þjóðþingsins til Versailles; endurnýjun umsátursástandsins, sem Palikao hafði lýst yfir, en hinn 4. september bundið enda á; útnefningu desemberhetjunnar Vinoys[2] sem herstjóra, lögregluliðans Valentins sem lögreglustjóra og jesúítahershöfðingjans d'Aurelle de Paladines sem yfirmanns Þjóðvarðliðsins í París.

Og nú þurfum við að leggja eina spurningu fyrir herra Thiers og landvarnamennina, þjóna hans. Vitað er að Thiers sótti um lán, sem greiða átti út þegar í stað, tvo milljarða að upphæð, með aðstoð fjármálaráðherra síns, herra Pouyer-Quertiers. Er það satt eða ekki,

1) að þannig hafi verið frá þessum viðskiptum gengið, að umboðslaun að upphæð nokkur hundruð milljónir runnu í vasa Thiers, Jules Favre, Ernest Picard, Pouyer-Quertier og Jules Simon, og

2) að engin greiðsla skyldi fara fram fyrr en *eftir* „pacification" (friðun) Parísar?

Að minnsta kosti hlýtur málið að hafa verið mjög aðkallandi, því að Thiers og Jules Favre báðu um það án nokkurrar blygðunar í nafni Bordeaux-fundarins, að prússneskar hersveitir hertækju París. En það passaði ekki í kramið hjá Bismarck,

---

[1] Hinn 10. marz 1871 samþykkti Þjóðþingið lög um frestun gjalddaga á víxlum. Mátti innheimta víxla sem fallið höfðu í gjalddaga á tímabilinu 13.8–12.11. 1870 þann 13. marz 1871. Gjalddögum víxla sem féllu 13.11 1870–12.4. 1871 var frestað til 13.6.–12.7. 1871. Þetta hafði í för með sér að dagana 13.–17. marz voru hvorki meira né minna en 150 000 víxlar afsagðir og urðu fjölmörg smáfyrirtæki og kaupsýslumenn gjaldþrota. – Á meðan París var í umsátursástandi hafði húsaleigugreiðslum í borginni verið frestað frá einum ársfjórðungi til annars. Í marzlok 1871 var enn einn ársfjórðungur fallinn í gjalddaga. Þjóðþingið hafðist ekkert að í málinu þrátt fyrir áskoranir Millières. 1. apríl féll þannig sex mánaða leiga í gjalddaga. Það leiddi til þess að hundruð þúsunda launþega urðu algjörlega háðir náð húseigenda og komust á vonarvöl. – *Útg.*

[2] Desemberhetja (decembriseur). Nafngift á þátttakendum í valdaráni Bónapartista 1851. – *Útg.*

eins og hann, háðskur en mjög opinskár, sagði hinum aðdáunarfullu broddborgurum í Frankfurt við heimkomuna til Þýzkalands.

## II

París var eina alvarlega hindrunin í vegi samsæris gagnbyltingarmanna. Það varð sem sé að afvopna París. Í sambandi við þetta atriði var Bordeaux-fundurinn hreinskilnin sjálf. Ef æðisöskur káljúnkaranna þar hafði ekki heyrzt nógu vel, þá tók það af allan vafa þegar Thiers framseldi París í hendur þrímenninganna: Vinoys, desembermorðingjans, Valentins, hins bónapartíska lögregluliða og Aurelle de Paladines, jesúítahershöfðingjans. En meðan samsærismennirnir opinberuðu ósvífnir hinn raunverulega tilgang afvopnunarinnar, hvöttu þeir París til að láta af hendi vopn sín undir yfirskini, sem var argasta blekking og blygðunarlausasta lýgi. Fallbyssur Þjóðvarðliðsins, sagði Thiers, eru eign ríkisins og verða að afhendast því aftur. Staðreyndin var þessi: allt frá uppgjafardeginum, þegar fangar Bismarcks framseldu honum Frakkland, en sömdu um fjölmennan lífvörð til handa sjálfum sér í þeim tilgangi einum að halda París í skefjum – allt frá þeim degi stóð París á verði. Þjóðvarðliðið endurskipulagði sig og fól æðstu stjórn sína í hendur miðnefndar, sem hinir óbreyttu liðsmenn kusu að undanskildum nokkrum bónapartískum herdeildum. Þegar fyrir dyrum stóð, að Prússar héldu með her sinn inn í París, höfðu uppgjafarsinnarnir skilið eftir fallbyssur og sprengjuvörpur í og við þau borgarhverfi, sem Prússarnir myndu hernema. Miðnefndin sá um að þær voru fluttar til Montmartre, La Villette og Belleville. *Þessi* skotvopn voru fengin fyrir framlög Þjóðvarðliðsins sjálfs. Þau voru opinberlega yfirlýst eign þess, í uppgjafaryfirlýsingunni frá 28. janúar, og þess vegna tekin frá sérstaklega, þegar hin almenna afhending vopna í eigu ríkisins til sigurvegaranna fór fram. En Thiers skorti svo mjög einhverja, jafnvel hina smáskítlegustu átyllu til þess að hefja stríðið við París, að honum varð ekki annað handbært en þessi helbera lýgi: að fallbyssur Þjóðvarðliðsins væru ríkiseign!

Það átti aðeins að verða forleikur að hinni almennu afvopnun Parísar og þar með byltingarinnar 4. september, að gera fallbyssurnar upptækar. En þessi bylting var orðin lögfest staða Frakklands. Lýðveldið, verk hennar, var viðurkennt af sigurvegurunum í texta uppgjafaryfirlýsingarinnar. Eftir uppgjöfina hafði það hlotið viðurkenningu allra erlendra ríkja. Í þess nafni var þingið kallað saman. Verkamannabyltingin í París 4. september

var sá eini lagastafur, sem Þjóðþingið í Bordeaux og framkvæmdavald þess studdist við. Án 4. septembers hefði Þjóðþingið þegar orðið að víkja fyrir löggjafarsamkundunni frá 1869, sem kjörin hafði verið í almennum kosningum á valdatímum Frakka, ekki Prússa, en byltingin hafði rofið hana með valdi. Thiers og ticket-of-leave-menn hans hefðu orðið að semja um griðabréf, undirritað af Lúðvík Bónaparte, til þess að komast hjá því að fara til Cayenne.[1] Þjóðþingið, með umboði sínu til að semja frið við Prússa, var einn einstakur hlekkur í atburðarás þessarar byltingar. Hin raunverulega holdtekja hennar var hin vopnaða París; sú París sem með áframhaldandi andspyrnu í trássi við áætlun Trochus hafði skapað grundvöllinn að harðvítugri varnarstyrjöld úti á landsbyggðinni. Og nú skyldi París gera annað tveggja: ganga að hinni niðurlægjandi kröfu hinna uppreisnargjörnu þrælahaldara í Bordeaux um að leggja niður vopn og viðurkenna, að bylting hennar frá 4. september táknaði aðeins einfalda yfirfærslu valdsins frá Lúðvík Bónaparte til konunglegra meðbiðla hans, ellegar ganga fram fyrir skjöldu og leggja sjálfa sig að veði í baráttunni fyrir Frakkland. En Frakkland gat ekki bjargazt frá hruni né endurfæðzt nema að hinum pólitísku og félagslegu aðstæðum yrði gjörbreytt, sem höfðu fætt af sér Annað keisaraveldið og gegnrotnað undir verndarvæng þess. París, sem enn var úttauguð eftir fimm mánaða hungur, hikaði ekki eitt augnablik. Hugdjörf ákvað hún að bjóða öllum hættum andspyrnunnar gegn frönsku samsærismönnunum byrginn, þrátt fyrir það að prússneskar fallbyssur ginu stöðugt yfir henni frá hennar eigin virkjum. En í viðbjóði sínum á þeirri borgarastyrjöld, sem þvinga átti upp á París, hélt miðnefndin sig í varnarstöðu, þrátt fyrir storkanir þingsins, íhlutun framkvæmdavaldsins og ögrandi liðssamdrátt í og í kringum París.

Thiers hóf sjálfur borgarastyrjöldina, er hann gerði út heilan flokk lögregluliða og nokkrar fastaherdeildir undir forustu Vinoys í næturránsferð til Montmartre til þess að koma flatt upp á Þjóðvarðliðið og ræna fallbyssum þess. Öllum er kunnugt hvernig þessi tilraun misheppnaðist vegna mótspyrnu Þjóðvarðliðsins og vegna þess að herdeildirnar sórust í bræðralag við fólkið. Aurelle de Paladines hafði prentað sigurfréttirnar fyrirfram og Thiers hafði tilbúnar veggauglýsingar, sem áttu að kunngjöra valdaránsaðgerðir hans. Hvorutveggja varð nú að víkja

[1] Pólitískir fangar voru fluttir til borgarinnar Cayenne í Franska Guayana í S-Ameríku. Var borgin nefnd „þurra fallöxin“ vegna þess að fangarnir hrundu niður af völdum illrar meðferðar og hins banvæna hitabeltisloftslags. – *Útg.*

fyrir boðskap Thiers, þar sem hann auglýsti þá veglyndu ákvörðun sína að leyfa Þjóðvarðliðinu að halda vopnum sínum. Hann efaðist ekki um, sagði hann, að það myndi nota þau til að snúast gegn uppreisnarseggjunum, við hlið ríkisstjórnarinnar. Af 300 000 þjóðvarðliðum hlýddu aðeins 300 því kalli Thiers litla að snúast til fylgis við hann, en gegn sjálfum sér. Hin frækilega verkamannabylting 18. marz lagði París undir sig svo að ekki varð um villzt. Miðnefndin varð bráðabirgðastjórn. Eitt andartak virtist Evrópa vera í vafa um, hvort hinar aðdáunarverðu megin-, ríkis- og styrjaldaraðgerðir, sem hún hafði nýlokið, væru á einhvern hátt raunverulegar, eða hvort þær væru draumur löngu liðinnar fortíðar.

Frá 18. marz til innrásar Versailles-liðssveitanna í París var öreigabyltingin svo gersneydd öllum þeim ofbeldisverkum, sem byltingar og enn frekar gagnbyltingar „æðri stéttanna" voru svo morandi af, að andstæðingar hennar fundu ekkert til að skeyta skapi sínu á nema aftöku hershöfðingjanna Lecomte og Clément Thomas og áreksturinn á Place Vendôme. Einn hinna bónapartísku liðsforingja, Lecomte hershöfðingi, sem lagði sitt af mörkum í næturárásinni á Montmartre, hafði skipað 81. herdeild fastahersins fjórum sinnum að skjóta á óvopnaðan mannfjölda á Place Pigalle. Þegar herdeildirnar neituðu því, jós hann yfir þær svívirðingum. En í stað þess að skjóta konur og börn skutu menn hans hann sjálfan. Hinar rótgrónu venjur, sem hermönnunum voru tamdar af óvinum verkamanna, týnast að sjálfsögðu ekki niður í sama vetfangi og hermennirnir ganga í lið með verkamönnum. Það voru sömu menn sem tóku Clément Thomas af lífi.

„Hershöfðinginn" Clément Thomas, óánægður fyrrverandi lögregluvarðstjóri, hafði ráðið sig hjá ritstjórn lýðveldissinnablaðsins „Le National" undir lok valdatímabils Lúðvíks Filippusar. Þar gegndi hann samtímis stöðum leppábyrgðarmanns (gérant responsable, sem tók að sér að sitja af sér fangelsisdóma) og hólmgöngumanns þessa afar bardagaglaða blaðs. Eftir Febrúarbyltinguna, þegar herrarnir frá „National" tóku við stjórnartaumunum, gerðu þeir þennan gamla varðstjóra að hershöfðingja. Þetta var rétt fyrir júnímorðin. En hann – og sömuleiðis Jules Favre – hafði verið með í að leggja á ráðin um þau og hann tók að sér eitt af níðingslegustu böðulshlutverkunum. Síðan hvarf hann í langan tíma ásamt með hershöfðingjaembætti sínu, en skaut aftur upp 1. nóvember 1870. Daginn áður hafði „landvarnastjórnin" heitið Blanqui, Flourens og fleiri fulltrúum verkamanna því hátíðlega í ráðhúsinu að fá völdin, sem hún hafði hrifsað til sín, í hendur kommúnu sem Parísarbúar myndu

kjósa í frjálsum kosningum.[1] Í stað þess að standa við orð sín sigaði hún Bretónum Trochus á París, sem nú komu í stað Korsíkumanna Bónapartes.[2] Tamisier hershöfðingi var sá eini sem neitaði að flekka heiður sinn með slíkum svikum og sagði af sér sem yfirmaður Þjóðvarðliðsins. Í stað hans varð Clément Thomas nú aftur hershöfðingi. Hann háði styrjöld alla sína embættistíð, ekki gegn Prússum heldur gegn Þjóðvarðliðinu í París. Hann hindraði almennan vígbúnað þess, espaði borgaraherfylkin gegn verkamannaherfylkjunum, vék frá þeim liðsforingjum sem andvígir voru „áætlun" Trochus og leysti upp – og brennimerkti sjálfan sig þar með sem raggeit – þau sömu öreigaherfylki, sem nú hafa vakið aðdáun jafnvel einbeittustu andstæðinga sinna fyrir hugdirfsku. Clément Thomas var verulega stoltur af því að hafa unnið á ný júní-tign sína sem persónulegur óvinur öreigastéttarinnar í París. Aðeins nokkrum dögum fyrir 18 marz gerði hann sína eigin áætlun um „að útrýma kjarnanum af skríl Parísar" fyrir Le Flô hermálaráðherra. Eftir ósigur Vinoys gat hann ekki stillt sig um að fara á vígvöllinn að njósna. Miðnefndin og verkamenn Parísar voru nákvæmilega jafn ábyrg fyrir því að Clément Thomas og Lecomte voru skotnir eins og prinsessan af Wales fyrir afdrifum þess fólks, sem var kramið til bana í þrönginni, þegar hún hélt innreið sína í London.

Drápin á vopnlausum borgurum, sem eiga að hafa átt sér stað á Place Vendôme, eru tilbúningur sem Thiers og káljúnkararnir í þinginu hafa þagað vendilega um. Þeir létu sér nægja að láta ormstungur evrópsku dagblaðanna breiða hann út.

„Menn laga og reglu", afturhaldsseggirnir í París, titruðu frammi fyrir sigrinum 18. marz. Fyrir þá var hann jarteikn hinna síðbúnu alþýðuhefnda. Vofur fórnarlambanna, sem myrt voru að undirlagi þeirra allt frá júnídögum ársins 1848 til 22. janúar 1871,[3] risu upp fyrir sjónum þeirra. Skelfingin var þeirra eina

[1] Verkamenn í París og hinn byltingarsinnaði hluti Þjóðvarðliðsins gerðu uppreisn 31. okt. 1870 eftir að fréttir bárust af uppgjöfinni í Metz, ósigrinum í Le Bourget (hjá París) og viðræðum Thiers við Prússa á vegum landvarnastjórnarinnar. Uppreisnarmenn hertóku ráðhúsið og mynduðu byltingarráð, Velferðarnefndina, undir forustu Blanquis. Verkamenn neyddu ríkisstjórnina til að heita því að segja af sér og láta fara fram kosningar til Kommúnunnar 1. nóvember. Hún rauf þó heit sín. Hún notfærði sér að byltingaröflin í París voru illa skipulögð og að lítil samstaða var með Blanquistum og hinum smáborgaralegu lýðveldissinnum (Jakobínum), sem voru í forustu fyrir uppreisninni. Hún náði ráðhúsinu á ný með aðstoð þeirra herdeilda í Þjóðvarðliðinu, sem enn reyndust henni trúar. – *Útg.*

[2] Bretónar voru útboðslið frá Bretagne sem Trochu hafði í lögreglusveitum sínum. – Korsíkumenn mynduðu drjúgan hluta lögreglunnar í tíð Annars keisaraveldisins. – *Útg.*

[3] Öreigastéttin í París og Þjóðvarðliðið stofnuðu til kröfugöngu að undirlagi Blanquista 22. jan. 1871. Göngumenn kröfðust þess að ríkisstjórninni

hegning. Jafnvel lögregluliðþjálfarnir, sem þó hefði átt að afvopna og læsa inni, komu að hliðum Parísar galopnum og komust óhultir undan til Versailles. Það var ekki aðeins að þessa menn sakaði ekki. Þeim var meira að segja leyft að gera samblástur á ný og leggja undir sig fleiri en eitt öflugt vígi í París miðri. Þetta umburðarlyndi miðnefndarinnar, þetta veglyndi hinna vopnuðu verkamanna sem var svo einstætt andspænis starfsvenjum stjórnfestuflokksins, var af honum mistúlkað sem tákn meðvitaðs vanmáttar. Af því spratt hin fáráðlingslega ráðagerð hans að reyna það aftur undir yfirskini óvopnaðrar kröfugöngu, sem Vinoy hafði ekki tekizt með fallbyssum sínum og sprengjuvörpum. Hinn 22. marz lagði ganga „fínna manna" upp frá borgarhverfum sællífisins. Þar ægði saman öllum spjátrungunum og í broddi fylkingar fóru hinir góðkunnu heimagangar keisaratignarinnar, Heeckeren-arnir, Coëtlogon-arnir, Henri de Péne o. fl. Þetta illþýði skipaði sér í sveit undir því blauða yfirskini að þar færi friðsamleg fjöldaganga, en á laun var það búið vopnum launmorðingja og afvopnaði og misþyrmdi varðmönnum og gæzlusveitum Þjóðvarðliðsins, sem á vegi þess urðu. Og um leið og það ruddist úr Rue de la Paix inn á Place Vendôme reyndi það undir hrópunum: „Niður með miðnefndina! Niður með morðingjana! Lifi Þjóðþingið!", að brjótast fram hjá vörðunum, sem þar höfðu verið settir, og komast þannig óvænt inn í aðalstöðvar Þjóðvarðliðsins bak við þá. Sem svari við skammbyssuskotum þeirra var beint til þeirra hinum venjulegu lögmætu áskorunum.[1] Þegar þær báru ekki árangur skipaði hershöfðingi Þjóðvarðliðsins að skjóta. *Ein* kúlnahríð nægði til að þeir dreifðust á skipulagslausum flótta, þessi fláráðu sertimenni sem höfðu haldið að það eitt að þeir stilltu hinu „siðsama samfélagi" sínu til sýnis, myndi hafa sömu áhrif á Parísarbyltinguna og lúðrar Jósúa á múra Jeríkóborgar. Þeir létu eftir sig tvo dauða þjóðvarðliða, níu helsærða (þar á meðal einn úr miðnefndinni[2] og til merkis um stórvirki þeirra lágu skammbyssur, rýtingar og lagsverð á víð og dreif eins og til vitnis um hið „óvopnaða" eðli hinnar „friðsömu" fjöldagöngu. Hinn 13.

---

yrði steypt og stofnsett Kommúna. Hið bretónska útboðslið sem gætti ráðhússins hóf skothríð á þá að skipun ríkisstjórnarinnar. Þessu fylgdu handtökur, lokun allra klúbba í París, bann við fundahöldum og útgáfu nokkurra blaða. Er byltingarhreyfingin hafði verið bæld niður tók ríkisstjórnin að undirbúa uppgjöf Parísar. – *Útg.*

[1] Samkv. frönskum lögum frá 1831 máttu yfirvöldin þá fyrst leysa upp kröfugöngur, fundi o.s.frv., þegar áskorun (svokölluð sommation) til mannfjöldans um að dreifa sér hafði verið endurtekin þrisvar sinnum. Væri henni ekki hlýtt að heldur mátti beita valdi. – *Útg.*

[2] Maljournal.

júní 1849 fór Þjóðvarðlið Parísar í raunverulega friðsama kröfugöngu til þess að mótmæla ræningjaáhlaupi franskra hersveita á Róm. Þá var Changarnier, þáverandi hershöfðingi stjórnfestuflokksins, prísaður af þjóðþinginu, og einkum Thiers, sem bjargvættur samfélagsins, af því hann lét herflokka sína ráðast á þetta vopnlausa fólk, umkringja það, skjóta það niður, brytja það í spað og troða það undir hófum hestanna. Þá voru sett herlög í París. Dufaure pískaði ný kúgunarlög gegnum þingið. Þessu fylgdu fangelsanir, nýir útlegðardómar, ný ógnarstjórn. En „lægri stéttirnar" fara öðruvísi að. Miðnefndin frá 1871 lét hetjurnar úr hinni „friðsamlegu kröfugöngu" einfaldlega taka til fótanna. Með þessu móti var þeim, þegar að tveim dögum liðnum, kleift að safnast saman undir forustu Saisset aðmíráls til þessarar *vopnuðu* kröfugöngu, sem endaði með skipulögðu úthlaupi til Versailles. Í andófi sínu gegn því að leggja til þeirrar borgarastyrjaldar, sem Thiers hafði hafið með næturinnbrotinu á Montmartre, gerði miðnefndin sig í þetta sinn seka um þau örlagaríku mistök að stefna ekki her sínum þegar í stað til Versailles, sem þá var algjörlega bjargarlaus. Með því hefði samsæri Thiers og káljúnkara hans öðlazt tilgang. Í stað þess var stjórnfestuflokknum leyft að reyna krafta sína enn einu sinni við kjörborðið, þegar Kommúnan var kjörin 26. marz. Þennan dag skiptust hinir löghlýðnu á vinsamlegum sáttaorðum við allt of veglynda sigurvegara sína á skrifstofum hverfastjóranna. Samtímis strengdu þeir þess heit í hjarta sínu, að koma fram blóðugum hefndum í fyllingu tímans.

Og sjáið nú hina hliðina á myntinni! Thiers hóf aðra herför sína gegn París í byrjun apríl. Fyrsta fangalestin frá París, sem kom til Versailles, hlaut smánarlega meðferð. Á meðan Ernest Picard slangraði um með hendur í vösum og hæddi fangana, stóðu eiginkonur Thiers og Favre í hópi hirðmeyja sinna uppi á svölum og klöppuðu svívirðingum Versailles-skrílsins lof í lófa. Hinir handteknu fastahermenn voru einfaldlega skotnir. Okkar hrausti vinur Duval hershöfðingi, járnsteypumaðurinn, var myrtur án nokkurs réttarhalds. Gallifet, „umboðsmaður" eiginkonu sinnar, sem hafði orðið svo alræmdur fyrir að halda blygðunarlausar sýningar á líkama hennar í svallveizlum Annars keisaraveldisins, gortaði af því í tilkynningu einni, að hann hefði gefið skipun um að myrða nokkra þjóðvarðliða, sem riddarar hans höfðu komið að óvörum og afvopnað, ásamt með höfuðsmanni þeirra og liðsforingja. Vinoy, úthlaupskempan, var sæmdur Stórkrossi Heiðursfylkingarinnar af Thiers fyrir dagskipun sína, þar sem hann mælti svo fyrir að sérhver fastahermaður, sem handtekinn yrði hjá kommúnumönnum, skyldi skot-

inn. Desmaret lögregluliði var heiðraður af því að hann hafði með svikum höggvið hinn hjartaprúða og drenglundaða Flourens í spað líkt og slátrari. En það var Flourens sem 31. október 1870 hafði bjargað lífi landvarnaráðherranna.[1] Af þeim mun meiri ánægju upplýsti Thiers þjóðþingið um hin „uppörvandi smáatriði" morðsins. Með uppbelgdri hégómagirnd hins þingræðislega þumalmennis, sem leyft er að leika hlutverk Timurlans, neitaði hann uppreisnarmönnunum gegn lítilmennsku hans um allan rétt til siðmenntaðs styrjaldarreksturs, jafnvel um griðarétt fyrir sáraumbúðastöðvar þeirra. Ekkert er viðbjóðslegra en þessi api, sem Voltaire hafði þegar haft grun um og sem um skamma hríð fær að gefa dýrslegum hvötum sínum lausan tauminn.[2]

Eftir að Kommúnan (tilskipun frá 7. apríl) hafði skipað fyrir um hefndaraðgerðir og lýst yfir þeirri skyldu sinni „að vernda París fyrir grimmdarverkum Versailles-þorparanna og heimta auga fyrir auga, tönn fyrir tönn" – stöðvaði Thiers samt ekki hina grimmilegu meðferð á föngunum. Hann bætti gráu ofan á svart og móðgaði þá í skýrslum sínum: „Aldrei hafa dapurleg augu heiðarlegra manna litið svo vanhelguð andlit svo vanhelgaðs lýðræðis", – heiðarlegra manna eins og Thiers sjálfs og ticket-of-leave-manna hans. Þrátt fyrir það var um skeið hætt að skjóta fanga. En vart höfðu Thiers og desemberherforingjar hans komizt að raun um að hefndartilskipun Kommúnunnar var aðeins marklaus hótun: að jafnvel lögreglusnápum þeirra, sem gripnir voru dulbúnir sem þjóðvarðliðar í París, að meira að segja lögregluliðþjálfum og tilræðismönnum með íkveikjusprengjur var hlíft – þegar aftur var tekið að skjóta fanga í hrönnum og var því haldið áfram þar til yfir lauk. Hús, sem þjóðvarðliðar höfðu flúið inn í, voru umkringd af lögreglumönnum, hellt yfir þau steinolíu (í fyrsta sinn sem slíkt gerist) og kveikt í þeim. Sjúkraliðar blaðanna (í Les Ternes) náðu síðar í hálfbrunnin líkin. Fjórir þjóðvarðliðar, sem 25. apríl höfðu gefizt upp hjá Belle-Épine fyrir nokkrum ríðandi skyttum, voru á eftir skotnir einn af öðrum af höfuðsmanni riddaranna, verðugum þræli Gallifets. Einn fjórmenninganna, Scheffer, sem skilinn var eftir og álitinn dauður, skreið til útvarða Parísar og afhenti einni af nefndum Kommúnunnar löglegan vitnisburð um þennan atburð. Þegar Tolain spurði hermálaráðherrann um skýrslu nefndarinnar, drukknaði rödd hans í öskrum káljúnkaranna. Þeir bönnuðu Le

---

[1] Einn af þátttakendum uppreisnarinnar 31. okt. krafðist þess að ráðherrarnir, sem voru í haldi í ráðhúsinu, yrðu skotnir. Flourens hindraði það. – *Útg.*

[2] Voltaire í „Birtingi", kafla 22.

Flô að svara. Það væri móðgun við hinn „frækna“ her þeirra að tala um gerðir hans. Hinn kæruleysislegi tónn í skýrslum Thiers um slátrunina á þjóðvarðliðunum, sem ráðizt var að sofandi hjá Moulin-Saquet, og um fjöldadrápin í Clamant særði jafnvel taugar Lundúnablaðsins „Times“, sem eru vissulega ekki úr hófi viðkvæmar. En það væri hlægilegt að ætla sér að telja upp þessi andstyggðarverk, – sem aðeins voru inngangurinn –, framin af þeim sem létu kúlnahríðina dynja á París og æstu upp til þrælahaldarauppreisnar í skjóli hins erlenda landræningja. Í miðjum þessum ógnum öllum gleymir Thiers þingræðislegum harmatölum sínum vegna þeirrar hræðilegu ábyrgðar, sem hvílir á dvergsherðum hans. Hann geipar um það, að l'Assemblée siège paisiblement (þingið starfi áfram í friði). Og hann sannar með stöðugum veizluhöldum sínum, í dag með desemberhershöfðingjunum, á morgun með þýzkum prinsum, að það er alls ekkert sem truflar meltingu hans, ekki einu sinni vofur Lecomtes og Clément Thomas.

## III

Að morgni 18. marz 1871 var París vakin með hinu þrymjandi hrópi: „Lifi Kommúnan!“ Hvað er þessi Kommúna, þessi sfinx, sem hefur orðið vitsmunum borgarastéttarinnar svo óblíð þolraun?

„Í miðjum ósigrum og svikum ríkjandi stéttar hefur öreigum Parísar skilizt“, sagði miðnefndin í einu af ávörpum sínum hinn 18. marz, „að sú stund er upprunnin, er þeir verða að bjarga við ástandinu með því að taka stjórn opinberra mála í sínar eigin hendur ... Þeim hefur skilizt, að það er æðsta skylda þeirra og óvefengjanlegur réttur að ráða sjálfir örlögum sínum og taka ríkisstjórnarvaldið í eigin vörzlu“.

En verkalýðsstéttin getur ekki einfaldlega slegið eign sinni á hina tilbúnu ríkisvél og beitt henni fyrir sinn eigin plóg.

Hið sameinaða ríkisvald með öllum hinum alnálægu stofnunum sínum – fastaher, lögreglu, skriffinnskubákni, klerkastétt, dómurum; stofnunum, sem byggðar eru upp eftir áætlun um kerfisbundna starfsskiptingu samkvæmt tignarröð – varð til á tímum hins einvalda konungdæmis. Það varð að öflugu vopni í höndum hins upprennandi borgarasamfélags í baráttu þess við lénsveldið. Ýmislegt fargan frá miðöldum varð þó til að tefja fyrir þróun þess: forréttindi óðalsbænda og aðals, staðbundin sérréttindi, einokunaraðstaða borga og gilda, stjórnskipunarlög einstakra fylkja. Risavöndur átjándu aldar byltingarinnar frönsku sópaði burt öllum þessum rústabrotum liðins tíma og ruddi um

leið síðustu tálmunum af þjóðfélagsgrunninum, sem hindruðu byggingu hins nýja ríkisbákns. Þetta nýja ríkisbákn reis á tímum Fyrsta keisaraveldisins, sem hinsvegar var sjálft til orðið vegna samsteypustyrjalda hinnar gömlu hálflénsku Evrópu gegn hinu nýja Frakklandi. Í tíð þeirra breytilegu stjórnarhátta sem á eftir fylgdi var ríkisstjórnin sett undir þingræðislegt eftirlit, þ. e. eftirlit eignastéttanna. Annarsvegar breyttist hún nú í gróðrarstíu fjallhárra ríkisskulda og óbærilegrar skattpínslu og varð, vegna ómótstæðilegs aðdráttarafls embættisvalds síns, tekna og stöðuveitingavalds, bitbein stríðandi flokksbrota og glæframanna innan ríkjandi stétta. Hins vegar breyttist pólitískt eðli hennar samfara efnahagslegum breytingum á þjóðfélaginu. Því meir sem framfarir nútíma iðnaðar mótuðust, breikkuðu og dýpkuðu stéttarandstæðurnar milli auðmagns og vinnu, þeim mun meir fékk ríkisvaldið á sig svip valdatækis stéttar – opinbers valds til að kúga verkalýðsstéttina. Á eftir hverri byltingu sem markar spor fram á við í baráttu stéttanna kemur hið ómengaða kúgunareðli ríkisvaldsins greinilegar í ljós. Í byltingunni 1830 fluttist ríkisvaldið úr höndum landeigendanna yfir í hendur kapítalistanna, og þar með úr höndum hinna fjarlægari í hendur hinna nálægari andstæðinga verkamannanna. Hinir borgaralegu lýðveldissinnar, sem þrifu stjórnvöl ríkisins í nafni Febrúarbyltingarinnar, notuðu það til að framkvæma júnímorðin, til að sanna verkalýðsstéttinni að hið „félagslega“ lýðveldi táknaði ekkert annað eða meira en félagslega kúgun hennar með tilstyrk lýðveldisins –, og til að sanna þeim fjölda borgara og landeigenda, sem voru á bandi konungs, að þeir gætu rólegir látið hina borgaralegu lýðveldissinna um áhyggjur og peningahagnað ríkisstjórnarinnar. Eftir þessa einu hetjudáð sína í júní áttu hinir borgaralegu lýðveldissinnar þó ekki annars úrkosti en draga í land. Í stað þess að vera í fremstu röð skipuðu þeir aftasta bekk í stjórnfestuflokknum – samsteypu allra flokksbrota og -hópa arðránsstéttanna, sem nú voru í opinberlega yfirlýstri andstöðu við framleiðslustéttirnar. Sem stjórnarform þótti henni þingræðislegt lýðveldi með Lúðvík Bónaparte sem forseta hæfa sér bezt. En sú ríkisstjórn var ódulbúin ógnarstjórn einnar stéttar, vísvitandi móðgun við „la vile multitude“ (hinn vesæla múg). Enda þótt hið þingræðislega lýðveldi væri það stjórnarform, eins og Thiers sagði, sem einna sízt klauf flokksbrot ríkjandi stéttar hvert frá öðru, skapaði það á hinn bóginn hyldýpisgjá milli þessarar stéttar og alls þjóðfélagslíkamans, sem lifði og hrærðist utan hinna þunnskipuðu raða hennar. Þeir fjötrar sem innri klofningur þessarar stéttar höfðu lagt á ríkisvaldið í tíð fyrri stjórna, voru nú horfnir við sameiningu hennar. Hin sameinaða

eignastétt notfærði sér nú ríkisvaldið á tillitslausan og ósvífinn hátt andspænis uppreisn öreigastéttarinnar, sem hið þjóðlega stríðstæki auðmagnsins gegn vinnunni. En linnulaus krossferð hennar á hendur hinum skapandi fjölda þvingaði hana ekki aðeins til að auka í sífellu kúgunarvald framkvæmdavaldsins. Hún þvingaði hana einnig til þess að svipta hina þingræðislegu háborg sína – Þjóðþingið – smámsaman öllum tækjum til að verjast framkvæmdavaldinu. Framkvæmdavaldið, í persónu Lúðvíks Bónaparte, rak það á dyr. Annað keisaraveldið var holdlegt afsprengi lýðveldis stjórnfestunnar.

Valdaránið var fæðingarvottorð keisaraveldisins, hinn almenni kosningarréttur nafnskírteini þess, en veldissproti þess var sverðið. Það lézt styðjast við bændur, þennan stóra fjölda framleiðenda, sem ekki er beinlínis flæktur í baráttuna milli auðmagns og vinnu. Það lézt bjarga verkalýðsstéttinni með því að binda enda á þingræðisfyrirkomulagið og þar með hina ódulbúnu undirgefni ríkisstjórnarinnar við eignastéttirnar. Það lézt bjarga eignastéttunum með því að viðhalda efnahagslegum yfirráðum þeirra yfir verkalýðsstéttinni. Og það lézt sameina allar stéttir með því að endurnýja tálsýn hins þjóðlega orðstírs. En í raun og veru var það hið eina hugsanlega stjórnarform á þeim tímum, þegar borgarastéttin var búin að glata hæfileikum sínum til að ríkja yfir þjóðinni, en verkalýðsstéttin hafði enn ekki öðlazt þessa hæfileika. Gjörvöll veröldin laust upp gleðióp og tók því sem bjargvætti samfélagsins. Hið borgaralega þjóðfélag, sem nú var firrt öllum stjórnmálalegum áhyggjum sínum, náði í valdatíð sinni meiri þroska, en það hafði nokkurn tíma órað fyrir. Iðnaður þess og verzlun tútnuðu út í ómælisstærðir. Fjármálabraskið varð að alþjóðlegri svallveizlu. Eymd fjöldans komst í æpandi mótsögn við blygðunarlausa sundurgerð, prjál og ofhlæði illa fengins óhófsmunaðar. Þó var ríkisvaldið sjálft, sem virtist svífa í lausu lofti, hátt yfir þjóðfélaginu, svívirðilegasta svívirðing þess og jafnframt gróðrarstía spillingarinnar. Spilling þessa ríkisvalds og þess þjóðfélags sem það hafði borgið birtist nakin frammi fyrir byssustingjum Prússlands, sem sjálft brann af löngun til þess að flytja aðalstöðvar þessa stjórnarfars frá París til Berlínar. Heimsvaldastefnan er gjörspilltasta og jafnframt síðasta þróunarstig þess ríkisvalds, sem hið uppvaxandi borgaralega þjóðfélag skóp sem baráttutæki gegn lénsveldinu, en hið háþróaða borgaralega þjóðfélag breytti í kúgunartæki auðmagnsins gegn vinnunni.

Hin algjöra andstæða keisaraveldisins var Kommúnan. Öreigastétt Parísar hóf Febrúarbyltinguna með kröfunni um „félagslegt lýðveldi“. Þetta var óskilgreind krafa um lýðveldi, sem ekki

aðeins leysti konungdæmið af hólmi sem form stéttaveldisins, heldur stéttaveldið sjálft. Kommúnan var hið skilgreinda form þessa lýðveldis.

París, – miðstöð og aðsetur hinnar gömlu valdstjórnar og jafnframt þjóðfélagsleg þungamiðja frönsku verkalýðsstéttarinnar –, París hafði gert vopnaða uppreisn gegn tilraun Thiers og káljúnkara hans til þess að endurreisa þessa gömlu valdstjórn, sem keisaraveldið hafði eftirlátið þeim, og gera hana ódauðlega. Því aðeins gat París veitt mótspyrnu, að hún var laus við herinn, vegna umsátursins, en í hans stað hafði hún sett þjóðvarðlið sem einkum var skipað verkamönnum. Það reið nú á að gera þetta fyrirkomulag varanlegt. Því bauð fyrsta tilskipun Kommúnunnar að fastaherinn skyldi leystur upp og í hans stað kæmi hin vopnaða alþýða.

Kommúnan var mynduð af borgarfulltrúum, sem kjörnir voru í almennum kosningum í hinum ýmsu hverfum Parísar. Þeir voru ábyrgir gagnvart henni og hægt var að svipta þá störfum hvenær sem var. Þeir voru að sjálfsögðu að meirihluta verkamenn eða viðurkenndir fulltrúar verkalýðsstéttarinnar. Kommúnan átti ekki að vera þingræðisleg heldur starfs-stofnun, framkvæmandi og löggefandi í senn. Lögreglan, sem hingað til hafði verið verkfæri ríkisstjórnarinnar, var þegar í stað svipt stjórnmálaeiginleikum sínum. Hún varð nú verkfæri Kommúnunnar, ábyrg gagnvart henni, og hægt var að víkja henni frá hvenær sem vera skyldi. Sama gilti um embættismenn allra annarra stjórnarstofnana. Opinberir starfsmenn, allt frá meðlimum Kommúnunnar og niður úr, urðu að vinna störf sín á *verkamannakaupi.* Hin áunnu réttindi og risna hinna háu tignarmanna ríkisins hurfu með þessum tignarmönnum sjálfum. Opinber embætti hættu að vera einkaeign handlangara ríkisstjórnarinnar. Kommúnan tók ekki aðeins stjórn borgarinnar í sínar hendur, heldur einnig öll þau verkefni sem ríkið hafði haft frumkvæði um fram til þessa.

Þegar Kommúnan hafði rutt fastahernum og lögreglunni úr vegi, þessum veraldlegu valdatækjum gömlu ríkisstjórnarinnar, hófst hún þegar í stað handa um að vinna bug á hinu geistlega kúgunartóli, klerkaveldinu. Hún gaf út tilskipun um að allar kirkjur skyldu lagðar niður og eignir þeirra gerðar upptækar, væru þær eignastofnanir yfirleitt. Prestunum var á ný vísað inn í kyrrð einkalífs síns til að nærast á ölmusum trúaðra að hætti fyrirrennara sinna, postulanna. Allar menntastofnanir voru opnaðar alþýðu endurgjaldslaust og jafnframt leystar undan allri íhlutun ríkis og kirkju. Það var ekki einungis, að með þessu væri öllum leyft að afla sér menntunar, heldur voru sjálf vísindin leyst úr viðjum stéttafordóma og ríkisvalds.

Embættismenn á sviði dómsmála glötuðu þessu sýndaróhæði sem aðeins hafði haft þann tilgang að breiða yfir undirgefni þeirra við hverja ríkisstjórnina á fætur annarri, þannig að þeir hver um sig sóru og rufu á víxl starfseiða sína. Framvegis skyldu þeir vera kosnir, ábyrgir og afsetjanlegir eins og aðrir opinberir starfsmenn.

Parísarkommúnan átti auðvitað að verða öllum stórum atvinnumiðstöðvum í Frakklandi fyrirmynd. Strax og kommúnufyrirkomulagið hefði komizt á í París og í byggðakjörnum í næsta stærðarflokki við hana, hefði hin gamla landsstjórn einnig orðið að víkja á landsbyggðinni fyrir sjálfsstjórn framleiðendanna. Í stuttum drögum að skipulagningu á landsmælikvarða, sem Kommúnunni vannst ekki tími til að vinna betur úr, er beinlínis sagt að jafnvel í hinu minnsta þorpi skuli kommúnan verða hið pólitíska skipulagsform. Til sveita skyldu alþýðugæzlusveitir með mjög skammri þjónustuskyldu leysa fastaherinn af hólmi. Sameiginleg mál sveitarfélaga í hverju héraði skyldu ráðin til lykta á fulltrúaþingi í höfuðborg héraðsins og þessi héraðsþing síðan senda fulltrúa á þjóðfulltrúasamkomu í París. Fulltrúum átti að mega víkja frá hvenær sem svo bæri undir og þeir skyldu vera bundnir af fyrirmælum frá kjósendum sínum. Þau fáu en þýðingarmiklu hlutverk, sem síðan féllu í hlut sérstakrar ríkisstjórnar, átti ekki að afnema eins og vísvitandi rangtúlkanir hafa látið liggja að. Þau átti að fela embættismönnum Kommúnunnar, er væru stranglega ábyrgir gagnvart henni. Það átti ekki að rjúfa einingu þjóðarinnar, heldur þvert á móti, koma á hana skipulagi með stjórnskipunarlögum Kommúnunnar. Það átti að gera hana að veruleika með því að útrýma því ríkisvaldi, sem þóttist vera holdtekja þessarar einingar, en vildi vera óháð og hafið yfir þjóðina, þótt það væri í raun og veru aðeins blóðsuga á líkama hennar. Um leið og það var fyrir öllu að mola hin beinu kúgunartæki gömlu valdstjórnarinnar, skyldu hin lögmætu verkefni þess valds, sem veita átti þjóðfélaginu forstöðu, af henni tekin og fengin ábyrgum þjónum þjóðfélagsins á ný. Í stað þess að ákveða á þriggja eða sex ára fresti hvaða meðlimur ríkjandi stéttar skuli vera fulltrúi fyrir – og gegn – alþýðu á þingi, átti hinn almenni kosningarréttur í kommúnuskipulaginu að þjóna alþýðunni líkt og hið einstaklingsbundna valfrelsi hverjum öðrum vinnuveitanda til að velja verkamenn, verkstjóra og bókhaldara í fyrirtæki sínu. Og það er kunnara en frá þurfi að segja, að sé um raunveruleg framkvæmdaatriði að ræða, kunna félög alveg eins vel og einstaklingar að finna réttan mann í starfið. En skjátlist þeim í einhverju tilviki, kunna þau skjót ráð til að bæta úr því. En hinsvegar gat ekkert verið jafn

andstætt anda Kommúnunnar og að taka upp vegtylluþrepaðar embættisveitingar í stað almenns kosningarréttar.

Það verður venjulega hlutskipti nýrra sköpunarverka sögunnar, að þau eru rangtúlkuð sem hliðstæður eldri og jafnvel úreltra þjóðfélagshátta, sem þau að einhverju leyti líkjast. Þannig hefur verið litið svo á að með þessari nýju kommúnu, sem brýtur ríkisvald nútímans á bak aftur, ætti að endurvekja kommúnur miðalda, sem voru fyrirrennarar þessa ríkisvalds og mynduðu síðar grundvöll þess. – Stjórnarskrá Kommúnunnar hefur ranglega verið álitin tilraun til að koma á fót smáríkjabandalagi eins og Montesquieu og Gírondista[1] dreymdi um, í stað þeirra stórþjóðaeininga sem nú, enda þótt þeim væri upphaflega komið á með valdi, eru orðnar öflugir þættir hinnar félagslegu framleiðslu. – Andstaða Kommúnunnar gegn ríkisvaldinu hefur verið misskilin sem ýkt mynd hinnar fornu baráttu gegn ofstjórn. Vera má að sérstakar sögulegar aðstæður hafi í öðrum löndum hindrað hina sígildu þróun borgaralegra stjórnarhátta, eins og hún varð í Frakklandi. Þær kunna að hafa leitt til þess, eins og í Englandi, að spilltir sóknarnefndarfundir (vestries), brallsamir borgarráðsmenn og froðufellandi fátækrafulltrúar bættu upp hinar viðamiklu stofnanir ríkisins í borgunum, en til sveita friðdómarar, sem voru raunverulega arfgeng embætti. Stjórnarskrá Kommúnunnar hefði hinsvegar gefið þjóðfélagslíkamanum allan þann mátt á ný, sem þetta sníkjuæxli „ríki" – en það nærist á þjóðfélaginu og hindrar eðlilega þróun þess – hafði rænt hann til þessa. En jafnvel þó hún hefði ekki afrekað fleira, hefði það orðið upphafið að endurfæðingu Frakklands. – Millistétt fylkisborganna eygði í Kommúnunni viðleitni til að endurreisa völd hennar yfir sveitunum, sem hún hafði notið á tímum Lúðvíks Filippusar, en Lúðvík Bónaparte bolað henni frá undir því yfirskini, að sveitirnar ættu að ríkja yfir borgunum. En í raun hefði stjórnarskrá Kommúnunnar sameinað framleiðendur til sveita undir andlegri forustu fylkishöfuðborganna. Og þar hefðu þeim verið tryggðir eðlilegir fulltrúar hagsmuna sinna, þar sem voru verkamenn bæjanna. – Sjálf tilvera Kommúnunnar leiddi sjálfstjórn héraðanna af sér sem sjálfsagðan hlut. En nú var hún ekki lengur mótvægi gegn ríkisvaldinu, sem orðið var ofaukið. Aðeins Bismarck, sem gjarna, þegar hann ekki er upptekinn við blóð-og-járn-refskák sína, hverfur að sínu gamla starfi við „Kladderadatsch",[2] er svo vel hæfir andlegu atgervi

[1] Gírondistar voru flokkur kaupsýslumanna og iðnrekenda á tímum frönsku byltingarinnar. Þeir börðust gegn stjórn Jakobína 1793, fyrir sjálfstjórn einstakra fylkja. – *Útg.*

[2] Skopblað, gefið út í Berlín.

hans, – aðeins slíkum manni gat komið til hugar að gera Parísarkommúnunni það upp, að hún vildi líkja eftir þeirri skrípamynd af gömlu frönsku borgastjórnskipuninni frá 1791, sem sú prússneska er: stjórnskipun, sem gerir borgarstjórnirnar að tannhjólum í prússnesku ríkisvélinni. – Kommúnan gerði kjörorð allra borgaralegra byltinga: ódýra ríkisstjórn! – að veruleika, þegar hún afnam tvo stærstu útgjaldaliðina: herinn og embættabáknið. Forsenda sjálfrar tilveru hennar var afnám konungdæmisins, sem að minnsta kosti í Evrópu, er beinlínis kjölfesta og ómissandi skálkaskjól stéttayfirdrottnunar. Hún skóp lýðveldinu grundvöllinn að raunverulegu lýðræðisfyrirkomulagi. En lokatakmark hennar var hvorki hin „ódýra ríkisstjórn" né hið „sanna lýðveldi"; hvorttveggja fylgdi með í kaupunum eins og af sjálfu sér.

Hinar mörgu og ólíku skoðanir sem fram hafa komið um Kommúnuna, ásamt þeim mörgu og ólíku hagsmunum sem sameinuðust í henni, sanna að hún var afar teygjanlegt pólitískt form, andstætt öllum fyrri stjórnarformum, sem einkennzt höfðu af kúgunareðli sínu. Hinn raunverulegi leyndardómur hennar var þessi: hún var í eðli sínu *ríkisstjórn verkalýðsstéttarinnar*, árangur baráttu stéttar framleiðenda gegn stétt arðræningjanna. Hún var hið síðfundna pólitíska form sem gerði efnahagslega frelsun vinnunnar framkvæmanlega.

Án þessa síðasta skilyrðis hefði stjórnskipun Kommúnunnar verið óhugsandi. Hún hefði verið blekking. Pólitísk völd framleiðandans og ævarandi félagsleg þrælkun hans geta ekki farið saman. Kommúnan átti þess vegna að verða sú vogarstöng sem bylti um hinum efnahagslega grunni, sem stéttirnar og þarmeð stéttaveldið hvíldi á. Þegar vinnan hefur einu sinni verið leyst úr viðjum þess, þá verður sérhver maður verkamaður. Framleiðslustörf hætta að vera stéttareiginleiki.

Það er einkennileg staðreynd að þrátt fyrir alla mælgina og hinar ómælisvíðu bókmenntir síðustu sextíu ára um frelsun verkamanna, þá hafa verkamenn tæpast nokkurs staðar tekið málin svo í sínar hendur að ekki gylli þegar í talsmönnum núverandi þjóðskipulags með báðum skautum þess: auðmagni og launaþrælkun (landeigandinn er nú orðið ekki annað en hljóðlátur lagsbróðir kapítalistans). Af afsökunarhjali þeirra mætti ráða að auðvaldsskipulagið lifi enn í óspjölluðum meydómi, að grundvallaratriði þess séu enn vanþróuð, að öll sjálfsblekking þess hafi enn ekki verið afhjúpuð, að ekki hafi enn verið flett ofan af gjörspilltum veruleika þess! Kommúnan ætlar, hrópa þeir, að afnema eignina, grundvöll allrar siðmenningar! Já, herrar mínir, Kommúnan ætlaði að afnema þá stéttareign, sem

breytir vinnu þeirra mörgu í auðæfi þeirra fáu. Hún stefndi að eignaupptöku hjá eignaupptökumönnunum. Hún ætlaði að gera einkaeignina að sannleika með því að breyta framleiðslutækjunum, jörðinni og auðmagninu, sem núna eru fyrst og fremst tæki til að kúga og arðræna vinnuna, í verkfæri frjálsrar og félagslegrar vinnu. – En þetta er kommúnismi, hinn „ómögulegi" kommúnismi! Nú, þeir menn innan ríkjandi stétta, sem hafa nægan skilning til að sjá að núverandi fyrirkomulag fær ekki staðizt til lengdar – og það eru margir –, hafa hreykt sér upp sem fjálgir og gleiðmæltir postular samyrkjuframleiðslunnar. En ef samyrkjuframleiðslan á ekki að verða einskær sýndarmennska og blekking, ef hún á að ryðja hinu kapítalíska fyrirkomulagi úr vegi, ef samyrkjufyrirtækin í heild eiga að samræma þjóðarframleiðsluna eftir sameiginlegri áætlun, taka stjórn hennar í sínar hendur og binda enda á hið stöðuga stjórnleysi og hin síendurteknu tímabundnu krampaflog, sem eru óhjákvæmileg örlög kapítalískrar framleiðslu –, hvað væri þetta, herrar mínir, annað en kommúnisminn, hinn „mögulegi" kommúnismi?

Verkalýðsstéttin krafðist þess ekki af Kommúnunni að hún gerði kraftaverk. Þjóðin skipaði henni ekki að leiða sig inn í einhver tilbúin draumalönd. Verkalýðsstéttin veit að hún verður að heyja langa baráttu til að frelsa sjálfa sig og koma á þeim bættu lífsháttum, sem þjóðfélag nútímans stefnir að, knúið áfram í óstöðvandi sókn af sinni eigin efnahagsþróun. Verkalýðsstéttin veit að hún verður að fika sig í gegnum mörg þróunarstig sögunnar, sem munu gjörbreyta bæði mönnunum og aðstæðum þeirra. Hún þarf ekki að gera neinar hugsýnir að veruleika. Hún þarf aðeins að leysa þá frumkrafta hins nýja þjóðfélags úr viðjum, sem þegar hafa þróazt í skauti hins hrynjandi þjóðfélags borgarastéttarinnar. Verkalýðsstéttin er sér fyllilega meðvitandi um sögulegt hlutverk sitt og hefur tekið þá hetjulegu ákvörðun að reynast því verðug. Hún getur leyft sér að brosa að kauðalegum skammavaðli blaðasnápanna og kennimannlegri vernd góðviljaðra kreddumeistara borgarastéttarinnar, sem prédika fávíslegar upptuggur og sértrúarþvælu í véfréttartón vísindalegs óskeikulleika.

Þegar Parísarkommúnan tók stjórn byltingarinnar í sínar hendur, þegar óbreyttir verkamenn voguðu sér fyrsta sinni að snerta við stjórnarforréttindum „náttúrulegra yfirboðara" sinna, eignamannanna, og unnu störf sín við erfiðari skilyrði en dæmi eru til um, yfirlætislausir, samvizkusamir og ötulir, – þeir unnu fyrir laun, sem þegar bezt lét námu tæpum fimmtungi þess, sem samkvæmt heimildum hálærðs manns (prófessor Huxley) er lágmarkskaup fyrir ritara fræðslumálafulltrúa í London –, þá engd-

ist gamli heimurinn í reiðiflogum við að sjá rauða fánann, tákn lýðveldis vinnunnar, blakta á ráðhúsinu.

Og þó var þetta fyrsta byltingin, þar sem það var viðurkennt hreinskilnislega að verkalýðsstéttin væri eina stéttin, sem enn væri fær um að hafa þjóðfélagslegt frumkvæði. Þetta var jafnvel viðurkennt af hinni fjölmennu millistétt Parísar – smákaupmönnum, handverksmönnum, kaupmönnum, ríkir kapítalistar voru eina undantekningin. Kommúnan hafði bjargað henni með viturlegri afgreiðslu hins sífellda deiluefnis meðal miðstéttanna: vandamáls skuldunauta og lánardrottna.[1] Sami hluti miðstéttanna hafði tekið þátt í að bæla niður verkamannauppreisnina 1848. En strax á eftir hafði stjórnlagaþingið umsvifalaust sent þá í klærnar á lánardrottnum sínum.[2] En þetta var ekki eina ástæðan til þess að hann slóst nú í lið með verkamönnum. Hann fann að það var aðeins um tvennt að velja: Kommúnuna eða keisaraveldið í einhverri mynd. Keisaraveldið hafði rúið þessa millistétt inn að skinni. Því olli sóun þess á þjóðarauðnum, fjármálabraskið, sem það hafði alið á, og stuðningur þess við samþjöppun auðmagnsins, sem það hafði örvað með ýmsum ráðum og þar með gert stóran hluta millistéttarinnar eignalausan. Það hafði kúgað hana pólitískt. Það hafði hneykslað hana með svallveizlum sínum. Það hafði sært Voltairisma hennar með því að afhenda hinum „fávísu bræðrum"[3] uppeldi barna hennar. Það hafði sært þjóðerniskennd hennar sem Frakka með því að steypa henni út í styrjöld. Einu bæturnar sem fengust fyrir þann skaða, sem styrjöldin olli, voru – afnám keisaraveldisins. Það er staðreynd, að eftir að hinn háttsetti bónapartíski og kapítalíski trantaralýður flykktist burt frá París steig hinn raunverulegi millistéttarflokkur laga og reglu fram á sviðið sem „Union républicaine".[4] Hann skipaði sér undir merki Kommúnunnar og varði hana gegn vísvitandi rangfærslum Thiers. Óséð

---

[1] Þann 16. apríl 1871 gaf Parísarkommúnan út tilskipun sem mælti svo fyrir að allar skuldaviðurkenningar mætti greiða með afborgunum á þrem árum og án vaxta. – *Útg.*

[2] Þjóðþingið felldi þann 22. ágúst 1848 frumvarp til laga um „concordats à l'amiable", vinsamlegt samkomulag milli lánardrottna og skuldunauta. Lagafrumvarpið gerði ráð fyrir framlengingu gjalddaga fyrir þá skuldunauta, sem gátu sannað að þeir hefðu komizt í greiðsluþrot vegna viðskiptaerfiðleika af völdum byltingarinnar. Afleiðing þess að frumvarpið var fellt varð sú, að mikill fjöldi smáfyrirtækja komst í þrot. – *Útg.*

[3] Viðurnefni trúbræðralags (reglu) nokkurs sem stofnað var í Reims 1680 og helgaði sig kennslu barna fátæklinga. – *Útg.*

[4] Samband smáborgaralegra átthagafélaga í París. Það studdi Kommúnuna, hvatti til baráttu gegn Versailles-stjórninni og Þjóðþinginu og studdi stofnun kommúna í öllum fylkjum landsins. – *Útg.*

er enn hvort þakklæti þessa stóra hluta miðstéttarinnar stenzt þær erfiðu raunir, sem hann nú má þola.

Kommúnan hafði algjörlega rétt fyrir sér í ákalli sínu til bænda: „Sigur okkar er von ykkar!“ Svívirðilegust allra þeirra lyga, sem klakið var út í Versailles og hinir fræknu evrópsku blaða-súavar[1] básúnuðu síðan út, var sú að káljúnkarar Þjóðþingsins væru fulltrúar franskra bænda. Við getum rétt ímyndað okkur hvílíka ást franski bóndinn hafði haft á þeim mönnum, sem hann varð að borga einn milljarð í skaðabætur[2] eftir 1815! Í augum franska bóndans er sjálf tilvera stórlandeiganda íhlutun í sigra hans frá 1789. Árið 1848 hafði borgarastéttin lagt aukaskatt á jarðarskika bóndans, 45 sentímur á hvern franka, en hún gerði það í nafni byltingarinnar. Nú hafði hún hrundið af stað borgarastyrjöld gegn byltingunni til þess að velta yfir á bændur meginbyrðinni af þeim fimm milljörðum, sem Prússum hafði verið heitið í stríðsskaðabætur. Kommúnan lýsti því hinsvegar strax yfir í einni af fyrstu tilkynningum sínum, að hinir raunverulegu frumkvöðlar styrjaldarinnar yrðu einnig að greiða kostnaðinn af henni. Kommúnan hefði fellt niður drápsskattinn á bóndanum. Hún hefði fært honum ódýra ríkisstjórn og breytt blóðsugunum, lögbókaranum, málafærslumanninum, fógetanum og öðrum sníkjudýrum réttarfarsins í launaða kommúnustarfsmenn, kjörna af honum sjálfum og ábyrga gagnvart honum. Hún hefði frelsað hann frá gerræðisvaldi akurvarðarins, lögregluliðans og amtmannsins. Hún hefði látið kennarann uppfræða hann í staðinn fyrir að láta prestinn forheimska hann. Og franski bóndinn er manngerð, sem fyrst og fremst vegur hlutina og metur. Honum hefði þótt það afar skynsamlegt að greiðslan til prestsins yrði háð frjálsri starfrækslu guðsóttahvatar sóknarbarnanna, í stað þess að skattheimtumaðurinn innheimti hana. Þetta voru hinir miklu beinu búhnykkir, sem blöstu við frönskum bændum, hefði Kommúnan – en aðeins hún – verið við völd. Það er þess vegna algjör óþarfi að fjalla hér nánar um hin flóknari vandamál, sem vissulega voru til, og aðeins Kommúnan hefði verið fær um að leysa –, og hún hefði neyðzt til að leysa í þágu bóndans: veðskuldina, sem hvíldi eins og farg á kotinu hans, sveitaöreigana, sem alltaf fjölgaði innan dyra

[1] Súavar nefndust hermenn í nýlenduher þeim er Frakkar komu á fót í Alsír 1830. Þeir voru þekktir fyrir blinda hlýðni. Marx notar hér þessa nafngift í háði um undirgefni blaðasnápa borgarastéttarinnar. – *Útg.*

[2] Afturhaldsstjórn Karls 10. setti 27. apríl 1825 lög um bótagreiðslur til fyrrverandi útlaga fyrir eignir þeirra, sem gerðar höfðu verið upptækar á byltingarárunum. Bætur þessar námu einum milljarði franka og runnu að mestu leyti í vasa hirðaðalsins og óðalseigendanna. – *Útg.*

þess, og missi eignarréttarins yfir jarðarskikanum. En sú hætta varð æ uggvænlegri vegna hraðrar þróunar nútíma akuryrkju og samkeppni kapítalískrar jarðyrkju.

Franski bóndinn hafði kosið Lúðvík Bónaparte til forseta lýðveldisins, en stjórnfestuflokkurinn skóp Annað keisaraveldið. Á árunum 1849 og 1850 tók franski bóndinn að sýna, hvers hann raunverulega þarfnast, er hann stillti hvarvetna hreppstjóranum sínum upp gegn ríkisamtmanninum, skólakennaranum gegn ríkisklerkinum og sjálfum sér gegn ríkislögreglunni. Öll lög sem stjórnfestuflokkurinn gaf út í janúar og febrúar 1850[1] voru viðurkenndar þvingunarráðstafanir gegn bændum. Bóndinn var Bónapartisti af því að hin mikla bylting, með öllum hagsbótum sínum fyrir hann, var í hans augum holdtekin í persónu Napóleons. Hvernig átti þessi blekking, sem var á hröðu undanhaldi á tímum Annars keisaraveldisins (og hún var í innsta eðli sínu fjandsamleg káljúnkurunum), þessi fortíðarhégilja, að fá staðizt andspænis Kommúnunni, sem höfðaði til lífshagsmuna og brýnustu þarfa bænda?

Káljúnkararnir vissu – og það var í rauninni það sem þeir óttuðust mest – að ef frjálsar samgöngur héldust í þrjá mánuði milli Parísarkommúnunnar og sveitahéraðanna, myndi það hafa almenna uppreisn bændanna í för með sér. Af því stafaði angistarfullt óðagot þeirra við að slá lögregluhring um París og hindra útbreiðslu búfjárpestarinnar.

Kommúnan var hinn sanni fulltrúi allra heilbrigðra afla í franska þjóðfélaginu. Þess vegna var hún í sannleika þjóðleg ríkisstjórn. En sem verkamannaríkisstjórn og djörf forustusveit í baráttunni fyrir frelsun vinnunnar var hún jafnframt alþjóðleg í fyllstu merkingu þess orðs. Í augsýn prússneska hersins, sem vann tvö af héruðum Frakklands undir Þýzkaland, vann Kommúnan verkamenn alls heimsins fyrir Frakkland.

Annað keisaraveldið var fagnaðarhátíð heimsborgaralegra pretta. Fjárglæframenn allra landa hlýddu kalli þess og flykktust að til að taka þátt í svalli þess og féflettingu franskrar alþýðu. Jafnvel á þessari stundu er Ganesco, þorparinn frá Valakíu, hægri hönd Thiers, en Markovski, rússneski njósnarinn, sú vinstri. Kommúnan veitti öllum útlendingum aðgang – aðgang að þeim heiðri, að falla fyrir ódauðlegt málefni. – Á milli utanlandsstyrjaldarinnar, sem tapaðist vegna svika borgarastéttarinnar, og borgarastyrjaldarinnar, sem hún hratt af stað í samspili við hinn erlenda landræningja, hafði henni gefizt tími til að rækja föðurlandsást sína með því að skipuleggja lögregluof-

[1] Marx gerir grein fyrir þessum lögum í riti sínu „Stéttabaráttan í Frakklandi 1848–50". – *Útg.*

sóknir á hendur Þjóðverjum, búsettum í Frakklandi. Kommúnan gerði Þjóðverja að verkamálaráðherra sínum.[1] – Thiers, borgarastéttin og Annað keisaraveldið höfðu æ ofan í æ blekkt Pólverja með háværum fyrirheitum um stuðning. En á sama tíma voru þau í raun og veru að vinna skítverkin fyrir Rússa og svíkja Pólland í hendur þeirra. Kommúnan heiðraði hina hugdjörfu syni Póllands með því að fela þeim forustu fyrir vörnum Parísar.[2] Og til að auðkenna þannig að ekki yrði um villzt hið nýja söguskeið sem hún hóf, í fullri vitund um gerðir sínar, velti Kommúnan Vendôme-súlunni um koll. Hún reif niður þetta hrikalega tákn stríðsfrægðarinnar fyrir augum beggja, annars vegar hinna sigursælu Prússa, hinsvegar bónapartíska hersins undir forustu bónapartískra hershöfðingja.

Hin mikla þjóðfélagsaðgerð kommúnunnar fólst í hinni starfsömu tilveru hennar sjálfrar. Hinar sérstöku aðgerðir hennar gátu aðeins gefið ábendingu um, í hvaða átt ríkisstjórn alþýðu, í umboði alþýðu, stefnir. En á meðal þeirra var afnám næturvinnu hjá bakarasveinum; bann að viðlagðri refsingu, við þeirri almennu venju vinnuveitenda að lækka laun verkamanna með því að gera þeim að greiða fjársektir undir allskonar yfirskini. Samkvæmt þessari málsmeðferð var vinnuveitandinn löggjafi, dómari og refsandi í einni persónu og hirti þar á ofan peningana. Enn ein aðgerð af þessu tagi var sú að afhenda sameignarfélögum verkamanna öll verkstæði og verksmiðjur, sem hafði verið lokað. Var þá áskilið að greiddar skyldu skaðabætur án tillits til hvort hlutaðeigandi kapítalisti hafði flúið eða kosið að hætta starfrækslu sinni.

Fjárhagsaðgerðir Kommúnunnar einkenndust af íhygli og hófsemi. Þær urðu að takmarkast við það, sem var á færi borgar í umsátursástandi. Með tilliti til þeirra óhemjuupphæða, sem hin stóru fjármálafyrirtæki og byggingarverktakar stálu af Parísarborg í valdatíð Haussmanns,[3] hefði Kommúnunni borið mun meiri réttur til að gera eigur þeirra upptækar en Lúðvík Bónaparte að taka upp eigur Orleans-fjölskyldunnar. Hohenzollen-arnir og ensku aðalsjöfrarnir, sem hvorir tveggja geta rakið drjúgan hluta eigna sinna til þjófstolinna eigna kirkjunnar, voru að sjálfsögðu stórhneykslaðir á Kommúnunni, sem þó aðeins hagnaðist um 8000 franka á skilnaði ríkis og kirkju.

Jafnskjótt og ríkisstjórnin í Versailles hafði safnað kjarki og kröftum á ný, tók hún að beita svæsnustu ofbeldisaðgerðum gegn Kommúnunni. Hún lagði fjötra á tjáningarfrelsið í Frakk-

[1] Leo Frankel.
[2] Jaroslav Dombrovski og Valeri Vroblevski.
[3] Amtmaður Signu-fylkis á sjötta og sjöunda tug 19. aldar. – *Útg.*

landi öllu og bannaði jafnvel fulltrúafundi stórbæjanna. Hún rak njósnir í Versailles og um allt Frakkland, mun verri en Annað keisaraveldið á sínum tíma. Hún lét rannsóknarréttardómara lögreglunnar brenna öll blöð, sem prentuð voru í París, og opna öll bréf frá og til Parísar. Í Þjóðþinginu voru hinir hugdeigustu tilburðir til að taka upp hanzkann fyrir París æptir niður á þvílíkan hátt, að jafnvel aðalsmannaþingið 1816 stenzt ekki samanburð. Versailles-liðið háði blóðþyrsta styrjöld gegn París utanfrá og reyndi að múta henni og koma á stað samsæri innanfrá: hefði Kommúnan ekki brugðizt smánarlega hlutverki sínu undir þessum kringumstæðum, ef hún hefði tekið tillit til allra siðareglna frjálslyndisstefnunnar, eins og á tímum hins tryggasta friðar? Hefði ríkisstjórn Kommúnunnar verið skyld ríkisstjórn Thiers, hefði verið nákvæmlega jafn ástæðulaust að banna blöð stjórnfestuflokksins í París eins og blöð Kommúnunnar í Versailles.

Það var í sannleika sagt gremjulegt fyrir káljúnkarana, að einmitt um það leyti sem þeir lýstu því yfir, að eina ráðið til að bjarga Frakklandi fælist í afturhvarfi til kirkjunnar, þá skyldi hin trúlausa Kommúna fletta ofan af hinum sérstæðu leyndardómum Picpus-nunnuklaustursins og St-Laurent-kirkjunnar.[1] Það var kaldhæðnislegt fyrir Thiers, að meðan hann lét Stórkrossana rigna yfir hershöfðingja sína fyrir snilli þeirra í að tapa orustum, skrifa undir uppgjafaskilmála og vefja sígarettur í Wilhelmshöhe,[2] þá vék Kommúnan sínum hershöfðingjum frá og tók þá fasta, jafnskjótt og grunur féll á þá um vanrækslu í starfi. Einum liðsmanni Kommúnunnar var vikið frá og hann tekinn fastur. Hann hafði laumað sér inn undir fölsuðu nafni, en áður hafði hann setið sex daga í fangelsi í Lyon vegna gjaldþrots. Var þetta ekki þaulhugsuð móðgun, slöngvað beint í andlit falsarans Jules Favre? Hann var þá ennþá utanríkisráðherra Frakka, ennþá að selja Bismarck Frakkland, ennþá að skipa hinni óviðjafnanlegu ríkisstjórn Belgíu fyrir verkum. En sannast sagna gerði Kommúnan enga kröfu til að vera talin óskeikul eins og allar gömlu ríkisstjórnirnar gerðu, undantekningarlaust. Hún birti allar ræður og fundargerðir og gerði almenningi grein fyrir öllum brestum sínum.

---

1 Blaðið „Le Mot d'Ordre" birti fréttir um þessi hneyksli 5. maí 1871. Í Picpus-klaustrinu höfðu nunnur verið lokaðar inni árum saman. Auk þess fundust þar pyndingartæki. Í Saint-Laurent kirkjunni fannst leynileg steinhvelfing með beinagrindum og þótti sannað, að fórnarlömbin hefðu verið myrt. Kommúnan gaf út bækling um þessi mál – „Les crimes des congrégations religieuses". – *Útg.*

2 Aðalstarf fanganna í Wilhelmshöhe var að vefja sígarettur – handa sjálfum sér. – *Útg.*

Í sérhverri byltingu ryðjast ætíð fram, við hlið hinna raunverulegu byltingarmanna, einstaklingar af öðru sauðahúsi. Sumir eru eftirlifendur fyrri byltinga og orðnir þeim samdauna; þá skortir skilning á straumum samtíðarinnar, en þeir eiga ennþá mikil ítök í alþýðu vegna alkunnrar dirfsku sinnar og atgervis eða þá aðeins vegna hefðar. Aðrir eru einungis hávaðaseggir, sem hafa laumazt inn í raðirnar með því að endurtaka árum saman sama reiðilesturinn yfir ríkjandi stjórn. Slíkir menn komu einnig fram í dagsljósið eftir þann 18. marz og í nokkrum tilvikum var framlag þeirra m. a. s. framúrskarandi. Fengju þeir völd í hendur urðu þeir til trafala í raunhæfu starfi verkalýðsstéttarinnar, líkt og þeir höfðu hindrað að allar fyrri byltingar kæmust til fulls þroska. Þessir menn eru óhjákvæmilegt böl. Með tímanum er hægt að losa sig við þá, en einmitt til þess vannst Kommúnunni enginn tími.

Þær breytingar sem Kommúnan kom til leiðar í París voru í sannleika sagt dásamlegar. Það var ekki snefill eftir af hinni sukksömu París Annars keisaraveldisins. París var ekki lengur safnþró brezkra landeigenda, írskra „absentees",[1] fyrrverandi þrælahaldara og uppskafninga frá Ameríku, fyrrverandi rússneskra lénsdrottna og valakískra bojara. Það voru engin lík lengur í „Morgue" (líkgeymsla fyrir óþekkt lík. – *Þýð.),* engin innbrot að næturlagi, tæpast neinir þjófnaðir lengur. Í fyrsta sinn, síðan í febrúar 1848, var fólk raunverulega óhult á götum Parísar, og það án nokkurrar lögreglu.

„Við", sagði einn meðlimur Kommúnunnar, „heyrum nú orðið ekkert um morð, rán og líkamsárásir. Það virðist í raun og veru eins og allir hinir tryggu vinir lögreglunnar hafi drattazt á eftir henni til Versailles".

Daðurdrósirnar höfðu fundið slóð verndara sinna á ný – hinna hviklyndu manna fjölskyldunnar, trúarinnar og, framar öðru, eignarinnar. Í þeirra stað komu hinar raunverulegu konur Parísar fram í dagsljósið – hugdjarfar, hjartaprúðar og fórnfúsar eins og konur fornaldar. París vann, hugsaði, barðist, blæddi og undirbjó nýtt þjóðfélag, svo að við lá að hún gleymdi mannætunum við borgarhliðin. Borgin geislaði af hrifningu yfir sögulegu frumkvæði sínu!

Og sjáið nú, andspænis þessum nýja heimi í París, gamla heiminn í Versailles: þessa samkundu af náætum allra útdauðra stjórnkerfa. Þar gat að líta lögerfðamenn og Orleanista sem biðu þess gráðugir að rífa í sig hræið af frönsku þjóðinni. Eftir

[1] Absentees eða absenters nefndust írskir óðalseigendur, sem lifðu áhyggjulausu lífi fjarri óðölum sínum. Létu þeir ráðsmenn stjórna búum sínum, en þeir leigðu aftur fátækum leiguliðum landið fyrir okurverð. – *Útg.*

þeim fylgdi digur slóði lýðveldissinna, sem virtust vera eldri en syndaflóðið; þeir veittu þrælahaldarauppreisninni blessun sína með nærveru sinni á þinginu; þeir vonuðust til að hégómagirnd gamla loddarans í forustu ríkisstjórnarinnar myndi halda tórunni í þingræðislýðveldinu þeirra; þeir afskræmdu árið 1789 með því að halda draugasamkomu sína í Jeu de Paume (knattleikahús, þar sem Þjóðþingið gerði hinar frægu samþykktir sínar 1789). Þarna var hún þessi samkunda, fulltrúi alls þess í Frakklandi sem var dautt og aflóga. Henni var stillt þannig upp að hún virtist enn vera með lífi. En það eina sem hélt henni uppi voru korðar hershöfðingja Lúðvíks Bónaparte. París var sannleikurinn, Versailles var lygin. Og þessi lygi streymdi af vörum Thiers.

Thiers sagði við sendinefnd borgarstjórna Seine- og Oise-héraðsins:

„Þér getið reitt yður á orð mín, sem ég hef *aldrei* svikið!"

Þinginu sjálfu sagði hann að „Frakkland hefði aldrei haft þing, sem væri jafn frjálshuga og hefði verið kosið í jafn frjálsum kosningum". Hinu marglita málaliði sínu sagði hann að það „nyti aðdáunar um allan heim og væri sá ágætasti her, sem Frakkland hefði nokkru sinni átt". Landsbyggðinni sagði hann að það væri skröksaga að sprengjum væri látið rigna yfir París:

„Enda þótt nokkrum fallbyssuskotum hafi verið hleypt af, þá var það ekki Versailles-herinn sem þar var að verki, heldur nokkrir uppreisnarseggir, sem vilja láta menn standa í þeirri trú að þeir séu að berjast, enda þótt þeir dirfist ekki að láta sjá sig neinsstaðar".

Síðan segir hann við landsbyggðina:

„Stórskotaliðið í Versailles sendir ekki kúlnahríð yfir París, bara kúlur".

Erkibiskupi Parísar segir hann að það sé einskær lygi, sem hermt sé upp á Versaille-herliðið, að það skjóti fanga og beiti hefndar(!)aðgerðum. Hann flytur París þann boðskap, að hann stefni aðeins að því „að frelsa hana frá þeim andstyggilegu harðstjórum, sem þjaki hana"; París Kommúnunnar sé í raun og veru „aðeins örfáir glæpamenn".

Þessi París Thiers var ekki hin raunverulega París hins „vesæla lýðs", heldur París ímyndunarinnar, París raggeitanna, París breiðstrætanna, karlkyns sem kvenkyns. Þetta var hin ríka, kapítalíska, gullhúðaða París letingjanna, sem þyrptist nú saman í Versailles, Saint-Denis, Rueil og Saint-Germain ásamt þjónaliði sínu, fjárglæframönnum, bókmenntalegum trantaralýð og daðurdrósum. Fyrir þetta lið var borgarastyrjöldin aðeins þægilegt millispil. Það horfði á bardagann gegnum sjónauka, taldi fall-

byssuskotin og sór við eigin heiður og hórkvenna sinna, að þessi sviðsetning tæki öllu fram sem sést hefði í leikhúsinu í Porte Saint-Martin. Þeir föllnu voru raunverulega dauðir, óp hinna særðu voru ekki bara látalæti. Og, að lokum, hversu heimssögulegir voru ekki þessir atburðir í heild sinni!

Þetta er París herra Thiers, alveg eins og útlagarnir í Koblenz voru Frakkland herra de Calonne.[1]

## IV

Fyrsta tilraun þrælahaldarasamsærisins til að brjóta París á bak aftur með því að láta Prússa hertaka hana strandaði á neitun Bismarcks. Önnur tilraunin, þann 18. marz, endaði með ósigri hersins og flótta ríkisstjórnarinnar til Versailles, með allt stjórnarbáknið í eftirdragi. Með því að láta í það skína, að hann væri að hefja friðarumleitanir við París, vannst Thiers tími til að búa sig undir styrjöld við París. En hvar átti hann að taka herinn? Leifar fastaherdeildanna voru fáliðaðar og lítt á þær að treysta. Fjálglegum áskorunum hans til fylkjanna um að bregðast skjótt við og koma nú Versailles til hjálpar með þjóðvarðliðasveitir sínar og sjálfboðaliða var skorinort hafnað. Einungis Bretagnefylki sendi fáeina sjúana (chouans[2]), sem börðust undir hvítum fána með hjarta Jesú framan á hvítum línserknum og hrópuðu heróp sitt: vive le roi! (lifi konungurinn!). Thiers átti sem sagt ekki annarra kosta völ en að hóa saman í skyndi sundurleitu óaldarliði, hásetum, sjóliðum, súövum[3] úr Páfagarði, lögregluliðum Valentins, borgarliðþjálfum Piétris og „mouchards" (lögregluspæjurum). Þessi her hefði þó aðeins nægt til aðhláturs, ef ekki hefðu smámsaman bætzt í hópinn stríðsfangar úr keisarahernum, sem Bismarck lét lausa með afborgunarkjörum, þannig að nægði, annars vegar til að halda borgarastríðinu gangandi, en hinsvegar til að viðhalda auvirðilegu ósjálfsstæði Versailles gagnvart Prússum. Meðan á stríðinu sjálfu stóð þurfti Versailles-lögreglan að hafa gát á Versailleshernum. Lögregluliðarnir urðu að drösla hernum áfram, en á hættustundum skárust þeir ætíð sjálfir úr leik. Virkin sem féllu

[1] Á dögum frönsku byltingarinnar var Koblenz miðstöð gagnbyltingarmanna, útlægra konungssinna, sem undirbjuggu innrás í Frakkland. Var sett þar á laggirnar útlagastjórn undir forsæti íhaldsmannsins Calonnes, sem var ráðherra í tíð Lúðvíks 16. – *Útg.*

[2] Sjúanar (chouans) voru upphaflega konungssinnar frá Vesturfrakklandi, er börðust gegn frönsku byltingunni. Kommúnumenn notuðu þetta nafn á herdeild orleanskra konungssinna í Versailles-hernum. – *Útg.*

[3] (Sjá bls. 275 hér að framan).

voru ekki tekin, heldur keypt. Hugdirfska Kommúnumanna sannfærði Thiers um, að herstjórnarlist hans sjálfs og byssustingir þeir, er hann réð yfir, gætu ekki brotið andspyrnu Parísar á bak aftur.

Samtímis fóru tengsl hans við fylkin hríðversnandi. Það bólaði ekki á svo mikið sem einni stuðningsyfirlýsingu, er glatt gæti Thiers og káljúnkara hans; öðru nær. Sendinefndir og ávörp streymdu að hvaðanæva og kröfðust – í enganveginn virðingarfullum tón – sátta við París. Grundvöllur sáttanna skyldi vera ótvíræð viðurkenning á lýðveldinu, staðfesting á réttindum bæjarfélaga, og þingrof, enda væri kjörtímabil Þjóðþingsins útrunnið. Þessar kröfur bárust í svo stríðum straumum að Dufaure, dómsmálaráðherra Thiers, gaf saksóknurum ríkisins þá skipun í bréfi frá 23. apríl, að farið skyldi með „áskorun um sættir" eins og glæp! Thiers ákvað þó að breyta um baráttuaðferð með tilliti til þeirrar vonlausu aðstöðu sem herferð hans virtist mundu leiða hann í. Ákvað hann að halda bæjar- og sveitarstjórnarkosningar í landinu öllu 30. apríl á grundvelli þess nýja skipulags sveitarfélaga, sem hann hafði þröngvað Þjóðþinginu til að fallast á. Fullur trúnaðartrausts beitti hann nú ýmist undirferli amtmanna sinna eða lögregluógnunum og vonaðist til, að úrskurður fylkjanna gerði honum kleift að fá Þjóðþinginu það siðferðilega vald, sem það hafði aldrei haft, og að fylkin fengju honum það efnalega vald, sem hann skorti til að sigra París.

Allt frá upphafi hafði Thiers álitið það nauðsynlegt að hressa ofurlítið upp á ránsstyrjöld sína gegn París, sem dásömuð var í fréttatilkynningum hans sjálfs, og tilraunir ráðherra hans til að koma á ógnarstjórn í Frakklandi öllu með því að setja dálítinn sáttaskrípaleik á svið. En hann hafði fleiri en einn tilgang. Hann átti að villa um fyrir fylkjunum, laða að millistéttina í París og, umfram allt, gefa hinum svokölluðu lýðveldissinnum á Þjóðþinginu tækifæri til þess að fela svik sín við París bak við trú sína á Thiers. Þann 21. marz, þegar hann hafði enn engum her á að skipa, lýsti hann yfir við þingið:

„Hvað sem á dynur mun ég ekki senda neinn her til Parísar".

Þann 27. marz stóð hann enn upp:

„Ég sá lýðveldið sem fullgerðan hlut, og ég er fastákveðinn í að viðhalda því".

Í raunveruleikanum bældi hann niður byltinguna í Lyon og Marseille[1] í nafni lýðveldisins. Og jafnvel nafn þess, væri það

[1] Öreigabyltingin í París sem leiddi til stofnunar Kommúnunnar varð til þess, að haldnir voru byltingarsinnaðir fjöldafundir í Lyon, Marseille og fleiri borgum. Þann 22. marz hertóku þjóðvarðliðar og verkamenn ráðhúsið í Lyon og stofnsettu þar kommúnu. Voru undirbúnar kosningar til komm-

nefnt í Versailles, kafnaði í öskri káljúnkaranna. Eftir þessa hetjudáð mildaði hann hinn fullgerða hlut niður í ráðgerðan hlut. Orleansprinsarnir, sem hann af varfærni hafði kvatt frá Bordeaux, voru nú frjálsir að því að reka undirróður sinn í Dreux, enda þótt það væri skýlaust brot á lögum. Tilslakanir þær er hann lét skína í á endalausum fundum með fulltrúum frá París og fylkjunum – hversu breytilegar sem þær voru að tón og blæbrigðum –, báru raunar allar með sér að hefnd hans myndi að öllum líkindum takmarkast við þá „fáu glæpamenn, sem tóku þátt í morðunum á Clément Thomas og Lecomte", með því sjálfsagða skilyrði, að París og Frakkland viðurkenndu herra Thiers sjálfan sem bezta lýðveldið. Þetta var nákvæmlega það sama og hann hafði leikið við Lúðvík Filippus árið 1830. Og jafnvel þessar tilslakanir – það var ekki aðeins að hann lét sér annt um að gera þær tvíræðar með þeim skýringum, sem ráðherrar hans gáfu á þeim í þjóðþinginu; hann hafði einnig Dufaure sinn til að semja. Dufaure, þessi gamli orleaníski málafærslumaður, hafði farið með yfirdómarastarfið hvenær sem herlög voru sett. Eins og nú, 1871, í tíð Thiers, þannig hafði það verið 1839 í tíð Lúðvíks Filippusar og 1849 í tíð Lúðvíks Bónaparte.[1] Væri hann ekki ráðherra auðgaði hann sig á málsóknum fyrir auðmenn Parísar og safnaði pólitískum auði með því að sækja mál gegn þeim lögum, sem hann sjálfur hafði sett. Nú nægði honum ekki að berja nokkur kúgunarlög gegnum Þjóðþingið, sem skyldu að París fallinni þurrka út síðustu leifar lýðréttinda í borginni. Hann kunngerði sjálfur fyrirfram, hver myndu verða örlög Parísar, með því að stytta málsmeðferð herdómstólanna, sem honum þótti of tafsöm, og með því að setja ný grimmdarleg lög um nauðungarflutninga. Byltingin 1848 nam úr gildi dauðarefsingu fyrir pólitíska glæpi, en innleiddi nauðungarflutninga í hennar stað. Lúðvík Napóleon þorði ekki að endurreisa veldi fallaxarinnar, að minnsta kosti ekki opinskátt. Júnkaraþingið, sem enn dirfðist jafnvel ekki að láta að því liggja að Parísarbúar væru ekki uppreisnarmenn heldur morðingjar, varð þess vegna að takmarka ráðgerða hefnd sína gegn París við

únunnar. En undirbúningsnefndin hafði hvorki nægu herliði á að skipa, né starfaði hún í nógu nánum tengslum við almenning og við Þjóðvarðliðið. 30. apríl stofnuðu verkamenn til nýrra óeirða, sem lögreglusveitir bældu niður af mikilli grimmd. – Í Marseille kom einnig til óeirða. Amtmannssetrið var hernumið og amtmaðurinn handtekinn. Ákveðið var að kjósa kommúnu 5. apríl. Stjórnarherinn kæfði byltingarhreyfinguna í Marseille 4. apríl, eftir að hafa haldið uppi stórskotahríð á borgina. – *Útg.*

[1] Í maí 1839 barði Dufaure niður byltingarsamsæri Blanquista í París. – Í júní 1849 stjórnaði hann kúgunaraðgerðum gegn byltingarsinnum í Þjóðvarðliðinu, en aðgerðir stjórnarandstöðunnar höfðu leitt til stjórnmálakreppu í landinu. – *Útg.*

hin nýju lög Dufaures um nauðungarflutninga. Við þessar aðstæður allar hefði Thiers alls ekki getað haldið sáttaskopleik sínum áfram jafn lengi og raun bar vitni, hefði skrípaleikurinn ekki orðið til þess, eins og hann einmitt vonaðist til, að káljúnkararnir ráku upp æðisöskur. En andleg tregða þeirra olli því, að þeir hvorki skildu taflið né nauðsyn hræsninnar, fláttskaparins og undanbragðanna.

Þegar leið að sveitarstjórnakosningunum 30. apríl sviðsetti Thiers þann 27. einn þáttinn úr sáttasjónarspili sínu. Í miðjum flaumi tilfinningakennds ræðuvaðals hrópaði hann úr ræðustóli Þjóðþingsins:

„Eina samsærið gegn lýðveldinu er samsærið í París, sem neyðir okkur til að úthella frönsku blóði. Ég endurtek það aftur og enn einu sinni: látið þessi guðlausu vopn falla úr höndum þeirra sem bera þau, og refsingin verður þegar í stað stöðvuð með friðargerð, sem aðeins útilokar lítinn hóp glæpamanna".

Heiftúðugum frammíköllum káljúnkaranna svaraði hann:

„Segið mér herrar mínir, ég bið yður þess vinsamlegast, hef ég á röngu að standa? Tekur það yður í raun og veru sárt að ég get sagt yður þann sannleika, að glæpamennirnir eru aðeins lítill hópur? Er það ekki lán í öllu okkar óláni að þeir menn, sem gátu úthellt blóði Clément Thomas og Lecomte hershöfðingja, eru aðeins sjaldgæfar undantekningar?"

Enda þótt Thiers skjallaði sjálfan sig fyrir þingræðislegan hafgúusöng, daufheyrðust Frakkar við ræðum hans. Af samtals 700.000 bæjar- og sveitarstjórnarfulltrúum sem kjörnir voru í þeim 35 000 sveitarfélögum, sem enn tilheyrðu Frakklandi, fengu lögerfðamenn, Orleanistar og Bónapartistar sameinaðir ekki 8000. Í auka- og endurkosningum sem fóru fram síðar, voru úrslitin enn óhagstæðari. Í stað þess að fylkin fengju Þjóðþinginu það efnislega vald, sem það vanhagaði um, missti það jafnvel endanlega rétt sinn til siðferðilegs valds: þann rétt, er byggðist á því að það væri afsprengi almenns kosningarréttar Frakka. Og til þess að fulkomna ósigurinn hótuðu hinir nýkjörnu bæjarfulltrúar allra borga í Frakklandi þingi valdaránsmannanna í Versailles að halda gagnþing í Bordeaux.

Þar með var hin langþráða stund upp runnin fyrir Bismarck að skerast í leikinn. Hann skipaði Thiers valdsmannslega að senda tafarlaust fulltrúa til Frankfurt til þess að semja endanlega um frið. Í auðmjúkri hlýðni við kall herra síns og meistara flýtti Thiers sér að senda hinn þrautreynda Jules Favre af stað, en honum til aðstoðar Pouyer-Quertier. Pouyer-Quertier, hinn „frábæri" baðmullarspunamaður frá Rouen, var eldheitur og allt að því þýlyndur stuðningsmaður Annars keisaraveldisins.

Hann hafði aldrei uppgötvað neitt rangt við Annað keisaraveldið að undanskildum verzlunarsamningnum við England,[1] sem skaðaði hagsmuni hans sem verksmiðjueiganda. Vart hafði Thiers sett hann í fjármálaráðherraembættið í Bordeaux, þegar hann hóf árásir sínar á þennan „guðlausa" samning. Hann gaf í skyn að hann yrði brátt numinn úr gildi og var jafnvel svo ósvífinn, enda þótt það kæmi fyrir ekki (þar eð hann hafði gert upp dæmið án þess að reikna með Bismarck), að reyna að innleiða á ný gömlu verndartollana gagnvart Elsass. En þar, sagði hann, stæðu engir gildir alþjóðasamningar í veginum. Þessi maður, sem leit á gagnbyltinguna sem tæki til að halda niðri verkalaununum í Rouen, og á afsal franskra héraða sem tæki til að skrúfa upp verðið á vörum sínum í Frakklandi – var hann ekki þegar fyrirfram útvalinn sem verðugur félagi Jules Favre við það svikaverk, sem krónaði feril þess síðarnefnda?

Þegar þetta glæsilega fulltrúapar kom til Frankfurt, hreytti Bismarck þegar í stað í þá skipun sinni: annaðhvort verður keisaraveldið endurreist, ellegar gengið að mínum eigin friðarskilmálum skilyrðislaust! Þessi skilyrði fólu m. a. í sér styttingu gjaldfrestsins á stríðsskaðabótunum, auk áframhaldandi hersetu prússnesks liðs í virkjum Parísar, þar til Bismarck sjálfur teldi viðunandi ástand vera komið á í Frakklandi. Þannig var Prússland viðurkennt sem æðsti dómari um innri málefni Frakklands! Á hinn bóginn var hann fús til að láta hinn fangelsaða her Bónapartista lausan til þess að þurrka út París og ljá honum til þess beinan stuðning liðssveita Vilhjálms keisara. Hann setti tryggingu fyrir eigin heiðarleik og ákvað að greiðsla fyrstu afborgunar af stríðsskaðabótunum skyldi miðast við „friðun" Parísar. Thiers og fulltrúar hans ginu að sjálfsögðu við slíku agni. Þeir undirrituðu samninginn hinn 10. maí og létu Þjóðþingið staðfesta hann þegar þann 18.

Þann tíma, sem leið frá friðarsamningnum þar til hinir bónapartísku fangar komu, þóttist Thiers skuldbundinn til að taka á ný til við sáttaskrípaleikinn, og það því fremur sem hin lýðveldissinnuðu þý hans skorti mjög átyllu til að látast ekki taka eftir undirbúningnum að blóðbaðinu í París. Enn, 8. maí, svaraði hann sendinefnd sáttfúsra miðstéttarborgara:

„Jafnskjótt og uppreisnarseggirnir ákveða að gefast upp, skulu hlið Parísar standa í heila viku upp á gátt fyrir alla, nema morðingja hershöfðingjanna Clément Thomas og Lecomte".

[1] Verzlunarsamningurinn milli Englands og Frakklands frá 23. jan. 1860. Ein afleiðing hans var að ódýrar enskar vörur flæddu inn í Frakkland, svo að samkeppnin um innanlandsmarkaðinn harðnaði mjög. Olli þetta óánægju franskra iðnrekenda. – *Útg.*

Nokkrum dögum síðar, þegar káljúnkararnir kröfðu hann skýrra reikningsskila fyrir þetta heit sitt, neitaði hann að gefa nokkrar skýringar, en bætti við þessari táknrænu ábendingu:

„Ég segi yður, það eru nokkrir óþolinmóðir meðal yðar, sem liggur of mikið á. Þessir menn verða enn að bíða í viku. Í lok hennar mun engin hætta lengur á ferðum og þá mun viðfangsefnið samsvara djörfung þeirra og hæfni".

Jafnskjótt og Mac-Mahon gat heitið því að hann myndi brátt halda inn í París, lýsti Thiers yfir því í Þjóðþinginu, að hann

„myndi halda innreið sína í París með *lögin* í hendinni og krefjast fullrar yfirbótar af þeim vesalingum, sem hafa fórnað lífum hermanna og eyðilagt opinber minnismerki".

Þegar úrslitastundin nálgaðist, sagði hann við Þjóðþingið: „Ég mun ekki sýna neina miskunn". Við París sagði hann að dómurinn yfir henni væri fallinn. Hinum bónapartísku þorpurum sínum sagði hann, að þeir hefðu opinbert leyfi til að hefna sín á París að hjartans lyst. Loksins hinn 22. maí, daginn eftir að hlið Parísar höfðu verið opnuð með svikum fyrir Douay hershöfðingja, opinberaði Thiers káljúnkurum sínum „markmið" sáttfýsiskopleiksins, sem þeir höfðu misskilið svo þrákelknislega:

„Ég sagði yður fyrir nokkrum dögum, að við nálguðumst takmarkið. Í dag kem ég til að segja yður: takmarkinu er náð. Loks hafa lögin, réttlætið og siðmenningin sigrað".

Og það höfðu þau gert. Siðmenning og réttlæti borgaraskipulagsins birtast í sannri hrollvekjandi birtu sinni um leið og þrælar þessa skipulags æsa sig upp gegn húsbændum sínum. Þá birtast siðmenningin og réttlætið sem ódulbúin villimennska og lagalaus hefnd. Sérhver ný átök í stéttabaráttunni milli þess, sem slær eign sinni á auðinn, og þess, sem skapar hann, varpar nýju ljósi á þessa staðreynd. Andstyggðarverk borgarastéttarinnar frá því í júní 1848 hverfa jafnvel í skugga níðingsverkanna frá 1871. Hin ósérplægna hugdirfska sem alþýða Parísar – karlar, konur og börn – sýndu í bardögunum við Versailles-liðið í heila viku eftir að það brauzt inn í borgina, endurspeglar í sama mæli mikilleik málstaðar hennar, eins og vítisverk málaliðsins endurspeglar hinn innborna anda þeirrar siðmenningar, sem leigði það til að berjast og koma fram hefndum fyrir sig. Það er vissulega frækleg siðmenning sem átti sér það vandamál brýnast, þegar bardögunum var lokið, hvað gera ætti við kösina af líkum þeirra sem hún myrti.

Við verðum að fara aftur í tímann, allt til Sulla og beggja þrímenningsstjórnanna rómversku, til þess að finna hliðstæður Thiers og blóðhunda hans: sömu kaldrifjuðu fjöldamorðin; sama

skeytingarleysi fyrir aldri og kynferði hinna myrtu; sömu aðferðir til að pynda fanga; sömu útlegðardóma, en í þetta sinn gegn heilli stétt; sömu trylltu leitina að leiðtogum í felum til þess að ekki svo mikið sem einn kæmist undan; sama söguburðinn um pólitíska og persónulega fjandmenn; sama tómlætið gagnvart því að fólk, er alls engan þátt tók í bardögunum, var brytjað niður. Það munaði aðeins því, að Rómverjar áttu engar eldvörpur, svo þeir gætu gert út af við skóggangsmennina í stórum hópum. Þeir báru heldur ekki „lögin í höndum sér“ né vígorðið „siðmenning“ á vörunum.

Og lítið nú, á eftir þessum níðingsverkum, á aðra enn viðbjóðslegri hlið þessarar siðmenningar borgarastétarinnar eins og hennar eigin blöð lýsa henni! Fréttaritari íhaldsblaðs eins í London skrifar:

„Enn hljóma einstöku skothvellir í fjarska. Særðir menn, sem ekki njóta neinnar aðhlynningar, enda líf sitt innan um legsteinana í Père-Lachaise. 6000 skelfdir uppreisnarmenn hafa villzt í völundarhúsi katakombanna og berjast í örvæntingu upp á líf og dauða. Við horfum á óhamingjusamt fólk reika um göturnar, og síðan brytjað niður hópum saman með eldvörpunum. Það er viðbjóðslegt, – en meðan þessu fer fram sjáum við kaffihúsin full af brennivínsþjórurum, knattborðsleikurum og dóminóspilurum. Á breiðstrætunum getur að líta vændiskonurnar gera sig gleiðar, en frá einkaherbergjum virðulegra veitingahúsa dynur svallglaumurinn og truflar næturkyrrðina.“

Í „Journal de Paris“,[1] Versailles-sinnuðu blaði sem Kommúnan bannaði, skrifar herra Edouard Hervé:

„Það var meira en léttúðarfullt að sjá hvernig íbúar (!) Parísar létu ánægju sína í ljós í gær. Og við óttumst að það fari versnandi er á líður. París hefur á sér hátíðablæ sem nú er vissulega ekki viðeigandi. Það verður að binda enda á þetta, ef við óskum ekki að heitið „París hnignunarinnar“ festist við okkur.“

Og síðan vitnar hann í Tacitus, þar sem hann segir:

„Og samt, morguninn eftir þennan hræðilega bardaga, og jafnvel áður en hann var að fullu útkljáður, byrjaði Róm, svívirt og gjörspillt, að velta sér á ný í því dýki lostans, sem eyðilagði líkama hennar og flekkaði sál hennar – alibi proelia et vulnera, alibi balneae popinaque (annarsvegar bardagar og sár, hinsvegar böð og veitingastofur)“.

Herra Hervé gleymir bara að þeir „íbúar Parísar“ sem hann talar um, eru aðeins íbúar Parísar Thiers, raggeiturnar, sem

[1] Orleanskt vikurit í París.

flykkjast tilbaka frá Versailles, Saint-Denis, Rueil og Saint-Germain, hin raunverulega „París hnignunarinnar“.

Í sérhverjum blóðidrifnum sigri sínum yfir hinum ósérplægnu bardagamönnum nýs og betra þjóðfélags yfirgnæfir þessi smánarlega siðmenning, sem grundvallast á kúgun vinnunnar, óp fórnarlamba sinna í orustunni með níðhrópi, sem bergmálar um víða veröld. Í höndum blóðvarga „laga og reglu“ breytist hin glaðværa verkamanna-París Kommúnunnar í djöfladýki. Og hvað sannar þessi óhugnanlega breyting í hugum borgara allra landa? Ekkert, nema að Kommúnan var samsæri gegn siðmenningunni! Alþýða Parísar fórnar sér í hrifningu fyrir Kommúnuna. Tala hinna dauðu fer fram úr öllum fyrri orustum. Hvað sannar það? Ekkert, nema að Kommúnan var ekki ríkisstjórn alþýðunnar sjálfrar, heldur ofbeldisathöfn fáeinna glæpamanna! Konur Parísar láta glaðar líf sitt, jafnt á vígvellinum sem á aftökustaðnum. Hvað sannar það? Ekkert, nema að púkar Kommúnunnar hafa breytt þeim í nornir og forynjur! Þá tvo mánuði sem Kommúnan er örugglega við völd, fær ekkert jafnazt á við hófsemi hennar, nema ef vera skyldi hin hetjulega vörn hennar. Hvað sannar það? Ekkert, nema að Kommúnan leyndi vendilega blóðþorsta sínum og djöfullegum losta í heila tvo mánuði undir grímu hófsemi og mannúðar, en gaf þeim síðan lausan tauminn, er stund dauðastríðs hennar rann upp!

Í hetjulegri sjálfsvörn sinni dró París verkamannanna byggingar og minnisvarða með sér á bálið. Þegar þeir sem ríkja yfir öreigastéttinni lima sundur líkama hennar kvikan, geta þeir vart búizt við að halda sigri hrósandi aftur til ósnortinna bústaða sinna. Versailles-stjórnin hrópar: íkveikja! Þessu lausnarorði hvíslar hún að þýjum sínum hvarvetna, allt til afskekktasta þorps, til að þeir hundelti andstæðingana rétt eins og þeir væru atvinnubrennuvargar. Borgarastéttin um víða veröld horfir með velþóknun á fjöldamorðin, framin *eftir* orustuna, en hneykslast á því, að nokkur mannvirki hafi verið vanhelguð!

Þegar ríkisstjórnir gefa styrjaldarflotum sínum ríkiseinkaleyfi til „að drepa, brenna og eyða“, gildir þá einkaleyfið fyrir íkveikju? Var um íkveikju að ræða, þegar hinar ólmu hersveitir Breta brenndu Hvíta húsið í Washington og Sumarhöll Kínakeisara.?[1] Var um íkveikju að ræða, þegar Thiers lét skothríð-

---

[1] Í ágúst 1814, í styrjöldinni milli Englands og Bandaríkjanna, lögðu enskar hersveitir eld að þinghúsinu (Capitol), Hvíta húsinu og fleiri opinberum byggingum í Washington. – Í nýlendustyrjöld sinni gegn Kínverjum 1857–60 rændu Bretar og Frakkar Sumarhöllina í Peking (okt. 1860) og brenndu hana síðan til ösku. – *Útg.*

ina dynja á París í sex vikur undir því yfirskini, að hann ætlaði sér aðeins að kveikja í þeim húsum, þar sem fólk hefðist við? – Í styrjöld er eldur fyllilega lögmætt vopn. Skothríðin er látin dynja á byggingum á valdi óvinarins til þess að kveikja í þeim. Neyðist þeir, sem til varnar eru, til að yfirgefa þær, kveikja þeir sjálfir í þeim, svo að árásarmennirnir geti ekki búið þar um sig. Það hafa ætíð verið óhjákvæmileg örlög bygginga, sem hafa verið staðsettar á víglínu allra reglulegra herja, að vera brenndar. En í stríði hinna kúguðu gegn kúgurum sínum, hinu eina réttmæta stríði sögunnar, þá á þetta fyrir enga muni að gilda! Kommúnan notaði eld sem varnarvopn í strangasta skilningi þess orð. Hún notaði hann til þess að loka þessum löngu beinu götum fyrir Versailles-hersveitunum, sem Haussmann hafði vísvitandi skipulagt opnar fyrir stórskotahríð; ennfremur til að hlífa sér á undanhaldi, alveg eins og Versailles-liðið notaði handsprengjurnar, þegar það sótti fram, og þær eyðilögðu að minnsta kosti jafn mörg hús og eldar Kommúnunnar. Enn er umdeilt, hvaða byggingum hvor kveikti í, þeir sem vörðust eða árásarliðið. Og varnaraðilinn greip ekki til eldsins fyrr en eftir að Versailles-hersveitirnar höfðu hafið fjöldamorðin á föngunum. – Reyndar hafði Kommúnan löngu áður tilkynnt opinberlega að hún, í ýtrustu neyð, myndi grafa sig undir rústunum og gera París að annarri Moskvu. En það loforð hafði landvarnastjórnin líka gefið, að vísu aðeins sem skálkaskjól fyrir svikum sínum. En einmitt í þeim tilgangi hafði Trochu dregið að nauðsynlegt magn af steinolíu. Kommúnan vissi að andstæðingar hennar kærðu sig kollótta um líf Parísarbúa, en var hinsvegar mjög annt um eigin byggingar í París. Og Thiers hafði fyrir sitt leyti lýst því yfir að hann yrði miskunnarlaus í hefnd sinni. Jafnskjótt og hann, annars vegar, hafði vígbúið her sinn, en Prússar hinsvegar lokað útgönguleiðunum, hrópaði hann: „Ég verð miskunnarlaus! Iðrunin verður algjör, en réttarfarið ósveigjanlegt.“ Hafi verk verkamannanna í París verið villimennska, þá voru þau villimennska í nauðvörn, en ekki villimennska sigurgleðinnar, lík þeirri sem kristnir menn gerðu sig seka um gagnvart hinum raunverulega ómetanlegu listaverkum heiðninnar í fornöld; og jafnvel þessi villimennska hefur verið réttlætt af sagnriturum sem óhjákvæmilegur og tiltölulega þýðingarlaus liður í tröllauknum átökum nýs, upprennandi þjóðfélags við gamalt hnignandi þjóðfélag. Enn síður var það villimennska Haussmanns, sem sópaði burt hinni sögufrægu París til að rýma fyrir París slæpingjanna.

En gíslarnir sextíu og fjórir – með erkibiskupinn af París fremstan í flokki –, sem Kommúnan lét taka af lífi! – Í júní

1848 höfðu borgarastéttin og herir hennar tekið upp að nýju sið, sem löngu var horfinn í styrjaldarrekstri – að skjóta varnarlausa fanga. Síðan hefur þessi grimmúðlegi siður tíðkast meira og minna í Evrópu og á Indlandi, í hvert sinn sem alþýðuuppreisnir voru bældar niður. Og þar með er sannað að í honum felist raunveruleg „framsókn siðmenningarinnar"! Á hinn bóginn höfðu Prússar endurlífgað þann sið í Frakklandi að taka gísla – líf saklauss fólks var tekið að veði fyrir aðgerðir annarra. Þegar Thiers, eins og við höfum rakið, lögleiddi þegar í upphafi baráttunnar þann mannlega sið að skjóta Kommúnufangana, átti Kommúnan ekki annarra kosta völ til að vernda líf fanganna en að grípa til hinnar prússnesku siðvenju að taka gísla. Réttur gíslanna til að lifa rann hvað eftir annað út, þar eð Versaillesmenn héldu uppteknum hætti, að skjóta fanga. Hvernig var hægt að hlífa lífi þeirra lengur eftir blóðbaðið, þegar Pretorar[1] Mac-Mahons héldu hátíðlega innreið sína í París? Átti síðasti mótleikurinn gegn takmarkalausri villimennsku borgarastjórnarinnar – taka gíslanna – einnig að vera innantómt gys? Hinn raunverulegi morðingi Darboys biskups er Thiers sjálfur. Kommúnan hafði hvað eftir annað boðizt til að skipta á erkibiskupnum og heilli hersingu af klerkum gegn aðeins einum af föngum Thiers – Blanqui. Thiers þverskallaðist. Hann vissi að með Blanqui léti hann Kommúnunni leiðtoga í té, en hinsvegar þjónaði erkibiskupinn bezt tilgangi sínum sem – lík. Thiers fór í þessu máli að dæmi Cavaignacs. Hvílíkt skelfingarvein ráku ekki Cavaignac og stjórnfestuflokksmenn upp í júní 1848, þegar þeir brennimerktu uppreisnarmenn sem morðingja Affre erkibiskups! Og þó vissu þeir harla vel að erkibiskupinn hafði verið skotinn af hermönnum stjórnfestunnar. Þegar eftir verknaðinn hafði aðalaðstoðarprestur erkibiskupsins, Jacquemet, afhent vitnisburð sinn þar að lútandi.

Það bregzt aldrei að stjórnfestuflokkurinn taki að kyrja þennan níðsöng um fórnarlömb sín á blóðhelgum flokksins. En það sannar einungis að borgari nútímans lítur á sig sem lögmætan eftirmann lénsherrans, sem áleit öll vopn réttlætanleg sem hann sjálfur beitti gegn almúganum, en túlkaði það fyrirfram sem glæp að almúginn bæri eitthvert vopn.

Samsæri ríkjandi stéttar um að steypa byltingunni með borgarastyrjöld í skjóli hins erlenda landræningja – en við höfum rakið feril þessa samsæris frá því í september þar til Pretorar Mac-Mahons héldu inn um St.Cloud-hliðið – náði hámarki sínu

[1] Austurríki og Neapel tóku ásamt Frakklandi þátt í innrásinni gegn Rómverska lýðveldinu. Lýðveldið féll þann 3. júlí 1849.

í blóðbaðinu í París. Bismarck horfir glaður í sinni á rústir Parísar. Ef til vill birtist honum í þeim „fyrsti áfanginn“ í þeirri almennu eyðingu stórborganna, sem hann grátbændi um, þegar hann var enn óbreyttur sveitamaður í hinni prússnesku „chambre introuvable“ frá 1849.[1] Hann horfir ánægður á lík öreiganna í París. Að hans áliti er þetta ekki aðeins útrýming byltingarinnar heldur jafnframt útrýming Frakklands, sem nú hefur raunverulega verið afhöfðað og ofan í kaupið af frönsku þjóðinni sjálfri. Í þeirri grunnfærni, sem fengsælum stjórnmálamönnum er ætíð eiginleg, sér hann einungis yfirborð þessa ógnvekjandi sögulega atburðar. Hvenær áður hefur sagan leitt sigurvegara fram á sviðið, sem ekki aðeins krónar sigur sinn með því að gerast lögregluforingi, heldur gerist líka leigumorðingi hinnar sigruðu ríkisstjórnar? Milli Prússa og Parísarkommúnunnar var ekkert stríð. Þvert á móti hafði Kommúnan gengið að friðarskilmálunum og lýst yfir hlutleysi gagnvart Prússlandi. Prússland var sem sagt ekki aðili að stríðinu. Það lék launmorðingja; blauðan launmorðingja, því það stofnaði sér ekki í neina hættu; leigumorðingja, af því að það miðaði fyrirfram greiðslu blóðpeninganna, að upphæð 500 milljónir, við fall Parísar. Og þannig birtist loks hið sanna eðli þessarar styrjaldar, sem forsjónin hafði komið í kring til þess að hið guðhrædda og siðprúða Þýzkaland gæti tyftað hið guðlausa og siðspillta Frakkland. En þetta óheyrilega brot á þjóðarrétti, jafnvel samkvæmt skilningi lögfræðinga gamla heimsins, raskar ekki ró hinna „siðmenntuðu“ ríkisstjórna Evrópu. Þær gera ekki prússneska lögbrjótinn, handbendi ráðuneytisins í Pétursborg, útlægan úr samfélagi þjóðanna. Í stað þess grufla þær yfir því, hvort ekki beri einnig að framselja böðlunum í Versailles þau fáu fórnarlömb, sem sleppa gegnum tvöfalda varðmannaröðina í kringum París!

Svo fáheyrður atburður, að herir sigurvegaranna og hinna sigruðu skuli í lok hrikalegustu styrjaldar síðari tíma taka saman höndum um að slátra öreigastéttinni, sannar ekki, eins og Bismarck heldur, að nú hafi loks tekizt að stemma stigu við framsókn hins nýja þjóðfélags. Hann sannar algjört hrun gamla borgaraþjóðfélagsins. Þjóðernisstyrjöldin var æðsta stig þess hetjuskapar sem gamla þjóðfélagið var fært um að sýna. Hún birtist nú sem ósvikin landstjórnarblekking, sem hefur engan annan tilgang lengur en að slá stéttabaráttunni á frest. Blekkingin verður gagnsæ um leið og stéttabaráttan brýst út sem borgarastyrjöld. Valdstjórn stéttanna fær ekki lengur dulizt í einkennisbún-

---

[1] Marx líkir hér prússneska þinginu í háði við franska þingið frá 1814. (Sbr. skýringargrein á bls. 93 hér að framan).

ingi þjóðrækninnar. Hinar þjóðlegu ríkisstjórnir verða eitt andspænis öreigastéttinni.

Enginn friður og engin grið koma lengur til greina milli verkamanna Frakklands og þeirra, sem slá eign sinni á arðinn af vinnu þeirra, eftir sunnudaginn í hvítasunnu 1871. Vera má að járngreipar leigðra málaliða geti haldið báðum stéttunum niðri um nokkurt skeið. En baráttan hlýtur að hefjast á ný, æ ofan í æ, og verða sífellt víðtækari. Og enginn vafi getur leikið á því hver sigrar að lokum – hinir fáu arðræningjar eða hinn gífurlegi vinnandi meirihluti. Og frönsku verkamennirnir mynda aðeins framvarðarsveit öreigastéttar nútímans í heild.

Um leið og ríkisstjórnir Evrópu staðfesta þannig útifyrir París hið alþjóðlega eðli stéttavaldsstjórnarinnar, æpa þær ókvæðisorð að Alþjóðasambandi verkamanna – hinum alþjóðlegu gagnsamtökum vinnunnar gegn heimssamsæri auðmagnsins –, eins og það sé meginuppspretta allrar þessarar ógæfu. Thiers sakaði það um að vera harðstjóra vinnunnar sem þættist vera frelsari hennar. Picard gaf þá skipun að rjúfa skyldi öll tengsl félaga Alþjóðasambandsins í Frakklandi við félaga þess erlendis. Jaubert greifi, hinn gamli kalkaði sökunautur Thiers frá 1835, lýsti því sem höfuðverkefni allra ríkisstjórna að útrýma því. Káljúnkararnir á Þjóðþinginu æpa að því og öll evrópsku blöðin taka undir. Æruverðugur franskur rithöfundur, sem er sambandi okkar með öllu ókunnur, segir eftirfarandi:

„Miðnefndarmenn Þjóðvarðliðsins, svo og meirihluti liðsmanna Kommúnunnar eru athafnasömustu, skynsömustu og duglegustu forustumenn Alþjóðasambands verkamanna ... Þetta fólk er mjög heiðarlegt, hreinskilið, skynsamt, fullt einlægni, fábrotið og ofstækisfullt í *góðri* merkingu þess orð."

Hinn lögreglulitaði skilningur borgarastéttarinnar ímyndar sér auðvitað Alþjóðasamband verkamanna sem einskonar leynileg samsærissamtök og að yfirstjórn þeirra skipi öðru hverju fyrir um uppreisnir í hinum ýmsu löndum. Í raunveruleikanum er Samband okkar aðeins sú alþjóðlega taug sem sameinar framsæknustu verkamennina í ýmsum löndum hins siðmenntaða heims. Hvenær, í hvaða mynd og við hvaða skilyrði sem stéttabaráttan fær eitthvert inntak, þá er það einnig eðlilegt að félagar í samtökum okkar gangi fremstir í flokki. Sá jarðvegur, sem þau spretta upp úr, er sjálft þjóðfélag nútímans. Hversu miklu blóði sem er úthellt, þá verða þau ekki lögð að velli. Til þess að leggja þau að velli yrðu ríkisstjórnirnar fyrst og fremst að leggja valdstjórn auðmagnsins yfir vinnunni að velli – þ. e. forsendu sinnar eigin sníkjutilveru.

París verkamannanna og Kommúnunnar mun um ókomna tíð

verða hyllt sem hið glæsta fyrirheit um nýtt þjóðfélag. Píslarvottum hennar hefur verið búinn staður í hinu stóra hjarta verkalýðsstéttarinnar. Sagan hefur nú þegar neglt tortímendur hennar við þá níðstöng, sem allar bænir klerka þeirra fá ekki losað þá af.

London, 30. maí 1871.

# Úr bréfum Karls Marx

## Marx til Ludwigs Kugelmanns í Hannover (brot)

London, 12. apríl 1871.

Þegar þú flettir síðasta kafla verks míns „Átjánda brumaire" kemst þú að raun um, að ég segi þar að næsta tilraun frönsku byltingarinnar mun ekki lengur verða, eins og áður að flytja skriffinnsku- og hernaðarbáknið úr einni hendi yfir í aðra, heldur þurfi að *mölva* það. Og þetta er forsenda sérhverrar raunverulegrar alþýðubyltingar á meginlandinu. Og þetta er það líka sem hinir hugprúðu flokksfélagar okkar í París eru að reyna. Hvílíkur sveigjanleiki, hvílíkt sögulegt frumkvæði, hvílík fórnargeta býr í þessum Parísarbúum! Eftir sex mánaða hungurumsátur og eftir að svikarar í þeirra eigin röðum hafa skaðað þá meira en hinir utanaðkomandi fjandmenn rísa þeir upp undir byssustingjum Prússa, rétt eins og styrjöldin milli Frakka og Þjóðverja hefði aldrei átt sér stað og óvinirnir stæðu ekki enn fyrir hliðum Parísar! Sagan þekkir ekkert dæmi jafn stórfenglegt! Bíði þeir lægra hlut, þá er engu um að kenna nema „góðsemi" þeirra. Eftir að Vinoy og síðan hinn íhaldsami hluti Þjóðvarðliðsins í París höfðu yfirgefið vígvöllinn af sjálfsdáðum, reið á að halda þegar í stað fylktu liði til Versailles. Samvizkuefasemdir öftruðu að hið rétta augnablik væri hagnýtt. Menn vildu ekki *hefja borgarastyrjöldina,* rétt eins og sá mischievous avorton[1] Thiers hefði ekki þegar hafið hana með tilraun sinni til að afvopna París! Önnur yfirsjón: Miðnefndin lagði of snemma niður völd til þess að víkja fyrir Kommúnunni. Enn á ný var hin alltof „sómakæra" efahyggja að verki! Hvað sem því viðvíkur, þá er þessi uppreisn í París núna – enda þótt hún láti í minni pokann fyrir úlfum, svínum og hundtíkum gamla þjóðfélagsins – frækilegasta afrek flokks okkar síðan Júníuppþotið var gert í París. Líkið þessum himnabrjótum Parísar við himnaþræla þýzk-prússneska heilaga róm-

[1] illyrmislegi dvergur.

verska ríkisins og síðborna grímudansleiki þess, sem lykta af herbúðum, kirkju, káljúnkurum og, framar öðru, broddborgurum.

Vel á minnzt. Í hinni *opinberu skrá* yfir þá sem njóta styrks beint úr sjóðum L. Bonapartes er þess getið að *Vogt* hafi fengið 40 000 franka í ágúst 1859. Ég tilkynnti Liebknecht um þessa fait[1] til þess að hann gæti fært sér hana frekar í nyt.

Þú getur sent mér Haxthausen,[2] því ég hef fengið *undanfarið* ýmsa bæklinga o. fl. óskaddaða, ekki aðeins frá Þýzkalandi heldur jafnvel frá Pétursborg.

Þakka þér fyrir blöðin sem þú hefur sent mér (ég bið um meira, því ég ætla að skrifa eitthvað um Þýzkaland, Ríkisþingið o. s. frv. ...)

Eftir handriti.

## Marx til Ludwigs Kugelmanns í Hannover (brot)

(London) 17. apríl 1871.

Bréf þitt kom heilu og höldnu. Ég á mjög annríkt þessa stundina, þess vegna skrifa ég aðeins fáeinar línur. Mér er algjörlega óskiljanlegt hvernig þú getur líkt smáborgaralegum kröfugöngum a la 13. júní 1849[3] etc. við þá baráttu sem nú á sér stað í París.

Veraldarsagan væri raunar mjög auðveld í framkvæmd, ef baráttan væri aðeins háð við skilyrði óbrigðulla og ákjósanlegra tækifæra. Á hinn bóginn væri hún mjög dularfull, ef „tilviljanir" skiptu engu máli. Þessar tilviljanir falla að sjálfsögðu inn í hinn almenna þróunarferil og upphefjast fyrir tilstilli annarra tilviljana. En það er mjög undir slíkum „tilviljunum" komið, hvort þróunin verður hraðari eða hægir á sér, þar á meðal einnig þeirri „tilviljun" hvernig þeir einstaklingar eru gerðir, sem í fyrstu veita hreyfingunni forustu.

Sú „tilviljun" sem í þetta sinn er eindregið óhagstæð felst ekki

[1] staðreynd.

[2] Marx á við bók Haxthausens: „Die ländliche Verfassung Russlands. Ihre Entwicklung und ihre Feststellung in der Gesetzgebung von 1861", en hún kom út í Leipzig 1866. – *Útg.*

[3] Hinn 13. júní 1849 efndi hinn smáborgaralegi Fjallsflokkur (Montagne) til friðsamlegrar kröfugöngu í París til þess að mótmæla brottsendingu franskra hersveita til Ítalíu til að bæla niður byltinguna þar. Var þetta brot á 5. grein frönsku stjórnarskrárinnar. Kröfugangan mistókst. Var henni tvístrað af herliði. Þessir atburðir sýndu greinilega að hinir smáborgaralegu lýðræðissinnar í Frakklandi voru komnir í algjört þrot. Margir af forustumönnum Fjallflokksins voru handteknir eða neyddir til að fara úr landi. – *Útg.*

í hinum almennu skilyrðum fransks þjóðfélags heldur í nærveru Prússa í Frakklandi og setu þeirra rétt utan við París. Þetta vissu Parísarbúar mjög vel. Þetta vissu líka hinir borgaralegu þorparar frá Versailles. Einmitt þessvegna gerðu þeir Parísarbúum þá kosti að hefja átökin eða bíða lægri hlut átakalaust. Hefði síðari kosturinn verið valinn hefði verkalýðsstéttin beðið siðferðilegt afhroð sem hefði verið stærri ógæfa en þótt hún missi einhvern fjölda „forustumanna". Með baráttunni í París hefur barátta verkalýðsstéttarinnar gegn stétt kapítalista og ríki þeirra komizt á nýtt stig. Hvernig sem þetta mál mun þróast, þá hefur fengizt ný viðmiðun, sem hefur heimssögulega þýðingu.

FRIEDRICH ENGELS

# Þýzka bændastríðið. – Formálar

## Formáli að 2. útgáfu 1870

Ritsmíð sú, sem hér fer á eftir, var skrifuð í London sumarið 1850, þegar ég var undir ferskum áhrifum þeirrar gagnbyltingar, sem þá var rétt um garð gengin. Hún birtist í 5. og 6. hefti „Nýrra Rínartíðinda", Hamborg 1850. – Pólitískir vinir mínir í Þýzkalandi óska eftir endurprentun verksins, þar sem það er enn í fullu gildi verð ég við beiðni þeirra, mér til mikillar hrellingar.

Höfundur gerir ekkert tilkall til þess að hafa með því lagt fram sjálfstæðar rannsóknir. Þvert á móti, allt efni varðandi bændauppreisnirnar og Thomas Münzer er tekið frá Zimmermann.[1] Þótt bók hans sé gloppótt hér og þar, er hún ennþá bezta samantekt um það, sem raunverulega gerðist. Og um leið hafði Zimmermann gamli ánægju af viðfangsefninu. Sama byltingarsinnaða eðlið og hér birtist okkur alls staðar í þágu hinna undirokuðu gerði hann síðar meir að einum bezta liðsmanni róttækustu vinstrisinna í Frankfurt. Síðan á honum að vísu að hafa hrakað eitthvað.

En enda þótt lýsingu Zimmermanns skorti innra samhengi, enda þótt honum takist þar ekki að sýna fram á trúarlegar og pólitískar deilur þessa tímabils sem endurspeglun samtíma stéttabaráttu; enda þótt hann sjái í stéttaátökum þessum aðeins kúgara og kúgaða, vonda og góða, og lokasigur hins illa; enda þótt innsýn hans í þjóðfélagsaðstæðurnar, sem réðu bæði upphafi og endalokum átakanna, sé afskaplega ábótavant, þá var þetta villa þess tíma, er bókin var skrifuð. Hún er, miðað við þennan tíma, skrifuð af miklu raunsæi, og er þannig lofsamleg undantekning meðal ídealískra sagnfræðirita þýzkra.

Um leið og ég í frásögn minni dreg aðeins upp útlínur átakanna frá sögulegu sjónarmiði, reyni ég að skýra upptök bænda-

[1] W. Zimmermann: Allgemeine Geschichte des grossen Bauernkrieges (Almenn saga bændastríðsins mikla), þrjú bindi, fyrst útgefin 1841–43. – *Útg.*

stríðsins, stöðu hinna ýmsu flokka, sem þar koma við sögu, pólitískar og trúarlegar kenningar, sem flokkar þessir settu fram til að gera sér eigin stöðu ljósa, og að lokum úrslit átakanna sjálfra út frá nauðsyn þeirra sögulegu og félagslegu lífsskilyrða, sem stéttir þessar þá bjuggu við. Það er sem sagt reynt að sýna fram á þáverandi stjórnmálalegt ásigkomulag Þýzkalands, uppreisnina gegn því og pólitískar og trúarlegar kenningar þessa tíma, ekki sem orsök heldur sem afleiðingu þess þróunarstigs, sem akuryrkja, iðnaður, samgöngur á landi og fljótum og vöru- og peningaverzlun á Þýzkalandi þá höfðu náð. Þessi söguskoðun, sú eina sem byggir á efnishyggju, er ekki frá mér runnin, heldur frá Marx, og hana er einnig að finna í verkum hans varðandi frönsku byltinguna 1848–49 í sama tímariti, svo og í „Átjándi Brumaire Loðvíks Bónaparta."

Hliðstæðan milli þýzku byltingarinnar frá 1525 og byltingarinnar 1848–49 var of augljós, til að hægt væri að vísa henni alveg frá. En þrátt fyrir endurtekningu í rás viðburða, þar sem eitt og hið sama herlið aðalsins barði niður hverja uppreisnina á fætur annarri í hinum ýmsu héruðum, þrátt fyrir oft hlægileg svipmót í hegðun borgarastéttar bæjanna í báðum tilfellum, þá birtist líka mismunurinn skýrt og greinilega.

„Hver hagnaðist á byltingunni 1525? Furstarnir. – Hver hagnaðist á byltingunni 1848? *Stóru* furstarnir, Austurríki og Prússland. Að baki litlu furstanna frá 1525 stóðu smáborgararnir, sem hlekkjuðu hina fyrrnefndu við sig með aðstoð skattsins, að baki stóru furstunum frá 1850, að baki Austurríkis og Prússlands, standa borgaralegir auðjöfrar nútímans, sem knésetja hina fyrrnefndu fljótt með ríkisskuldunum. Og að baki auðjöfranna standa öreigarnir."[1]

Mér þykir leitt að verða að segja það, að með þessari málsgrein var þýzku borgarastéttinni sýndur alltof mikill heiður. Hún átti tækifærið, bæði í Austurríki og Prússlandi, til að „knésetja" einveldið „fljótt með ríkisskuldunum"; aldrei né nokkurs staðar var þetta tækifæri notað.

Austurríki féll sem gjöf í skaut borgarastéttarinnar með styrjöldinni 1866. En hana vantar vit til að drottna, hún er máttlaus og óhæf til alls. Aðeins eitt getur hún. Hamazt gegn verkamönnum, strax og þeir byrja að hreyfa sig. Hún er enn við stjórn, aðeins af því að *Ungverjar* þarfnast hennar.

Og Prússar? Jú, ríkisskuldin hefur reyndar vaxið og margfaldazt, greiðsluhallinn er orðinn viðurkennt ástand, ríkisútgjöldin aukast frá ári til árs, borgarastéttin hefur meirihluta í

[1] Friedrich Engels: Þýzka bændastríðið. – *Útg.*

þingdeildinni, og án hennar er hvorki hægt að hækka skatta né taka lán, – en hvar er vald hennar yfir ríkinu? Fyrir aðeins fáum mánuðum, þegar aftur var greiðsluhalli, voru þeir í hinni beztu aðstöðu. Með aðeins *smávegis* þolgæði hefðu þeir getað knúið fram myndarlegar tilslakanir. En hvað gera þeir? Þeir líta á það sem næga tilslökun, að ríkisstjórnin *leyfi þeim* að leggja að fótstalli hennar nálægt níu milljónir, ekki í *eitt* ár, nei, *árlega* og um ókomnar tíðir.

Ég vil ekki hirta „Frjálslyndu"[1] aumingjana í þingdeildinni meira en þeir eiga skilið. Ég veit, að þeir hafa verið yfirgefnir af þeim, sem að baki þeim standa, það er þorra borgarastéttarinnar. Allur þessi fjöldi *vill* ekki stjórna. Hann hefur enn beinverki frá árinu 1848.

Síðar verður rætt um það, hvers vegna þýzka borgarastéttin sýnir svo furðulegan bleyðiskap.

Að öðru leyti hefur setningin, sem vitnað var til áðan, staðizt að fullu. Eftir 1850 hverfa smáríkin æ meir yfir í bakgrunninn og þjóna aðeins sem lyftistöng fyrir prússneskan eða austurrískan undirróður; heiftúðugri barátta milli Austurríkis og Prússlands um einráð völd magnast stöðugt og að síðustu koma hin vopnuðu átök frá 1866, en að þeim loknum heldur Austurríki eigin landsvæðum, Prússland undirokar beint eða óbeint allt norðursvæðið, og suðvesturríkin þrjú eru sett út á guð og gaddinn um skeið.

Af öllum þessum ríkis- og stjórnaraðgerðum er aðeins eftirfarandi þýðingarmikið fyrir þýzkan verkalýð:

Í fyrsta lagi, að með hinum almenna kosningarrétti hafa verkamenn fengið vald til að eignast eigin fulltrúa á löggjafarsamkundunni.

Í öðru lagi, að Prússland hefur gengið fram fyrir skjöldu með góðu fordæmi og gleypt þrjár aðrar krúnur af guðs náð. En að það eigi sjálft enn sömu óflekkuðu krúnuna af guðs náð, sem það taldi sér áður, *eftir* þessar aðgerðir, því trúa jafnvel ekki „frjálslyndir".

Í þriðja lagi, að á Þýzkalandi er nú aðeins að finna *einn* umtalsverðan andstæðing byltingarinnar, – prússnesku ríkisstjórnina.

Og í fjórða lagi, að þýzkir Austurríkismenn verði nú loks að leggja fyrir sig þá spurningu, hvað þeir vilji vera: Þjóðverjar eða Austurríkismenn; hvoru þeir vilji heldur tilheyra, – Þýzkalandi eða hinum transleithanísku[2] útkjálkum sínum, sem byggðir

[1] Frjálslyndir: Nationalliberale Partei, flokkur stofnaður 1866, málsvari iðjuhölda. Studdi Bismarck á þingi. – *Útg.*

[2] Transleithanía er hérað í Ungverjalandi austan árinnar Leitha. – *Útg.*

eru öðrum þjóðum. Löngu er augljóst, að þeir verða að taka annan hvorn kostinn, en yfir það hefur alltaf verið dregin fjöður af lýðræði smáborgaranna.

Hvað varðar önnur þýðingarmikil ásteytingarefni út af atburðum ársins 1866, sem rædd hafa verið milli „Frjálslyndra" annars vegar og „Þjóðflokksins" hins vegar, unz allir eru orðnir leiðir, þá er þess að vænta, að saga næstu ára leiði í ljós, að því sé deilt svo heiftúðlega um þessi tvö sjónarmið, að þau eru andstæð skaut á sömu þröngsýninni.

Í þjóðfélagslegum aðstæðum Þýzkalands breytti árið 1866 nær engu. Hinar fáu borgaralegu umbætur, – sama mál og vog, aðsetursfrelsi, atvinnufrelsi o. s. frv., allt með takmörkunum samkvæmt geðþótta skrifstofuvaldsins – ná ekki einu sinni því, sem borgarastétt annarra landa í Vestur-Evrópu hefur fyrir löngu fengið fram, og hreyfa ekki við aðal agnúanum, undanþágukerfi skrifstofuveldisins. Fyrir almúgann eru lögin um aðsetursfrelsi, ríkisfang, afnám vegabréfa og fleira gerð óvirk með alþekktum lögregluaðgerðum.

Það sem er miklu þýðingarmeira en allar hinar mikilfenglegu ríkisaðgerðir ársins 1866, er vöxturinn í þýzkum iðnaði og verzlun, hjá járnbrautum, síma og í úthafssiglingum gufuskipa frá því árið 1848. Svo mjög sem þessar framfarir standa að baki því, sem gerzt hefur á sama tíma á Englandi og jafnvel Frakklandi, þá eru þær feikilegar á mælikvarða Þýzkalands og hafa skilað meira á tuttugu árum en gerðist á heilli öld áður fyrr. Þýzkaland er nú fyrst í alvöru og fyrir fullt og allt orðið þátttakandi í *heimsverzluninni*. Fjármagn iðnrekendanna hefur margfaldazt skjótt, og þjóðfélagsleg staða borgarastéttarinnar hefur hafizt að sama skapi. Öruggasta tákn blómlegs iðnaðar, *fjárglæfrar,* hefur birzt í ríkum mæli og tjóðrað greifa og hertoga við sigurvagn sinn. Þýzkt fjármagn leggur nú rússneskar og rúmenskar járnbrautir – megi það verða því til góðs! – í stað þess að fyrir fimmtán árum gengu þýzk járnbrautarfélög bónarveg til enskra fyrirtækja. Hvernig má það þá vera, að borgarastéttin skuli ekki einnig hafa náð pólitískum völdum, að hún skuli sýna slíkt hugleysi gagnvart ríkisstjórninni?

Þýzka borgarastéttin var svo óheppin, að hún eftir vinsælli þýzkri venju var of seint á ferðinni. Blómaskeið hennar verður á sama tímabili og þegar farið er að halla undan fæti fyrir borgarastétt annarra landa Vestur-Evrópu. Á Englandi tókst borgarastéttinni ekki að koma raunverulegum fulltrúa sínum, Bright, inn í ríkisstjórn öðruvísi en með því að rýmka til um kosningarrétt, en það hlýtur að leiða af sér endalok á veldi borgarastéttarinnar. Á Frakklandi var borgarastéttin sem slík, sem heildar-

stétt, aðeins við völd í tvö ár, 1849–1850, á dögum lýðveldisins, og gat aðeins framlengt félagslega tilveru sína með því að afsala pólitískum völdum sínum í hendur Loðvíks Bónaparta og hersins. Og vegna hinna gífurlega auknu víxláhrifa milli þriggja háþróuðustu landa Vestur-Evrópu, er nú ekki lengur hugsanlegt, að borgarastéttin á Þýzkalandi geti hreiðrað í makindum um pólitísk völd sín, þegar þessi völd eru þverrandi á Englandi og Frakklandi.

Það er einmitt sérkenni borgarastéttarinnar í samanburði við allar valdastéttir fyrri tíðar, að á þróunarbraut hennar er að finna hvörf, en frá og með þeim verður öll frekari valdaaukning fyrst og fremst í formi fjármagns, aðeins til þess að svipta hana æ meir hæfileikanum til pólitískrar drottnunar. *„Að baki stóreignastéttarinnar standa öreigarnir.“* Í sama mæli og borgarastéttin eflir iðnað sinn, verzlun og samgöngur, í sama mæli fæðir hún af sér öreigastétt. Og þegar ákveðnu marki er náð, – sem ekki þarf að gerast alls staðar á sama tíma eða sama þróunarstigi, – fer hún að sjá, að þessi öreigatvífari hennar er að vaxa henni yfir höfuð. Frá og með því augnabliki hefur hún misst máttinn til óskiptrar, pólitískrar yfirdrottnunar: Hún litast um eftir bandamönnum, sem hún allt eftir aðstæðum geti deilt með völdunum eða falið völdin að fullu.

Á Þýzkalandi birtust borgarastéttinni þessi hvörf þegar árið 1848. Og reyndar voru það ekki svo mjög hinir þýzku, heldur hinir frönsku öreigar, sem skutu borgarastéttinni skelk í bringu. Júníforustan í París 1848 sýndi henni, hvers hún mætti vænta; þýzku öreigarnir voru einmitt í nægu uppnámi til að sanna henni, að einnig hér væri komið það útsæði í jörð, sem af mætti vænta sömu uppskeru; og frá þeim degi að telja hafði sljóvgazt broddurinn á stjórnmálaaðgerðum borgarastéttarinnar. Hún leitaði bandamanna, hún samdi við þá, hvað sem það kostaði, – og hún hefur líka til þessa dags ekki komizt einu einasta skrefi lengra.

Þessir bandamenn eru allir íhaldssinnaðir. Þar er konungsvaldið með her sinn og skriffinnsku, þar er hinn mikilfenglegi háaðall, þar eru hinir litlu sveitajúnkarar, þar eru jafnvel prestarnir. Við alla þessa hefur borgarastéttin tekið höndum saman og samið, allt til að bjarga eigin skinni, unz hún hafði ekkert lengur til að pranga með. Og því meir sem öreigarnir efldust, því meir sem þeir fóru að finna til sín sem stétt og að breyta sem stétt, þeim mun hugdeigari varð borgarastéttin. Þegar hin afbragðsvonda herstjórnarlist Prússa bar, svo furðulegt sem það virðist, sigur af hólmi yfir enn verri herstjórnarlist Austurríkismanna við Sadowa, þá var erfitt að segja, hvor varpaði öndinni

léttar, – prússneski borgarinn, sem einnig hafði beðið ósigur við Sadowa, eða sá austurríski.

Stórborgarastétt okkar gerir enn árið 1870 alveg hið sama og miðlungsborgararnir frá 1525 gerðu. Hvað varðar smáborgarana, iðnmeistara og smásala, þá verða þeir alltaf samir við sig. Þeir vonast til að geta prettað sig upp í stóreignastéttina, þeir óttast að þeim verði hrundið niður í hóp öreiganna. Milli vonar og ótta munu þeir reyna að bjarga sínu verðmæta skinni, meðan á baráttunni stendur, og að henni lokinni ganga sigurvegaranum á hönd. Það er þeirra eðli.

Samfara eflingu iðnaðar eftir 1848 hafa félagslegar og pólitískar aðgerðir verkalýðsins vaxið að sama skapi. Það hlutverk, sem þýzkir verkamenn nú fara með í verkalýðsfélögum sínum, samvinnufélögum, stjórnmálafélögum og á fundum, í kosningum og á hinu svokallaða ríkisþingi, sýnir ótvírætt, hversu róttæk bylting hefur gengið hljóðlaust yfir Þýzkaland síðustu tuttugu árin. Það er þýzkum verkamönnum til hins mesta sóma, að *þeim einum* hefur tekizt að senda verkamenn og fulltrúa verkamanna inn á þing, á meðan hvorki Frakkar né Englendingar hafa náð því marki til þessa.

Og öreigarnir eru heldur ekki vaxnir frá hliðstæðunni við 1525. Stétt sú, sem algjörlega og til lífstíðar er háð vinnulaununum, er enn mjög langt frá því að mynda meirihluta þýzku þjóðarinnar. Hún er sem sagt einnig háð bandamönnum, og þeirra er aðeins að leita meðal smáborgara, tötralýðs borganna, meðal smábænda og landbúnaðarverkamanna.

Um *smáborgarana* höfum við þegar talað. Þeir eru mjög ótrúverðugir, nema sigur hafi unnizt, en þá eru hróp þeirra á bjórknæpum takmarkalaus. Þrátt fyrir það er meðal þeirra að finna mjög góða einstaklinga, sem ótilkvaddir ganga í lið með verkamönnum.

*Tötralýðurinn,* þetta úrhrak niðurdrabbaðs lýðs úr öllum stéttum, sem hefur bækistöð sína í stórborgunum, er af öllum hugsanlegum bandamönnum sá versti. Þetta hyski er ótvírætt mútuþægt og nærgöngult. Þegar franskir verkamenn rituðu í hverri byltingu á húsveggi: Mort aux voleurs! Deyðum þjófana! og skutu líka marga, þá gerðist það ekki af hollustu við eignaréttinn, heldur af þeim rétta skilningi, að umfram allt verði að halda þessum óaldarlýð í hæfilegri fjarlægð. Sérhver verkalýðsleiðtogi, sem notar þennan tötralýð sem framverði eða reiðir sig á hann, lýsir sig strax með slíku athæfi svikara við hreyfinguna.

*Smábændurnir,* – því að þeir stærri tilheyra borgarastéttinni –, eru af misjöfnum toga. Annaðhvort eru þeir *lénsbændur* og verða að standa hinum náðuga húsbónda skil á vinnukvöð. Eftir

að borgarastéttin hefur vanrækt að frelsa þetta fólk frá þrældómi vinnukvaðarinnar, sem var þó skylda hennar, mun ekki reynast erfitt að sannfæra það um, að það geti nú aðeins vænzt frelsunar frá verkalýðsstéttinni.

Eða þeir eru *leiguliðar*. Í þessu tilfelli er ástandið að mestu leyti eins og á Írlandi. Leigumálinn er skrúfaður svo hátt, að bóndinn með fjölskyldu sinni rétt dregur fram lífið af meðaluppskeru; þegar uppskera er léleg, sveltur hann heilu hungri, getur ekki greitt leigumálann og verður þannig algjörlega upp á náð landeigandans kominn. Fyrir slíkt fólk gerir borgarastéttin þá fyrst eitthvað, að hún sé til þess neydd. Frá hverjum ætti það að vænta sér blessunar öðrum en verkamönnum.

Eftir eru þá þeir bændur, sem nytja sitt *eigið smábú*. Þeir eru yfirleitt svo mjög hlaðnir veðskuldum, að þeir eru álíka háðir okraranum eins og leiguliðinn landeigandanum. Einnig þeir fá aðeins mögur vinnulaun, sem eru auk þess mjög stopul vegna góðra og vondra ára. Allra sízt þeir geta vænzt nokkurs af borgarastéttinni, því að þeir eru raunar einmitt mergsognir af henni, ofurseldir okurstarfsemi auðmannanna. En þeir eru oftast mjög bundnir eign sinni, enda þótt hún sé raunverulega ekki þeirra eign, heldur okrarans. Þrátt fyrir það ætti að mega koma þeim í skilning um, að því aðeins verði þeir leystir undan okraranum, að ríkisstjórn, sem háð sé alþýðu, breyti öllum veðlánaskuldunum í ríkisskuldir og lækki þar með vaxtastofninn. Og þessu getur aðeins verkalýðurinn fengið áorkað.

Alls staðar þar sem meðalstórar lendur og stórjarðir eru ríkjandi þáttur eru *landbúnaðarverkamenn* fjölmennasta stéttin til sveita. Þannig er það á öllu norðan- og austanverðu Þýzkalandi, og hér finna iðnverkamenn borganna sína *fjölmennustu* og *eðlilegustu* samherja. Á sama hátt og kapítalistinn stendur gagnvart iðnverkamanninum, eins stendur stórjarðeigandi eða landsdrottinn gagnvart landbúnaðarverkamanninum. Sömu aðferðirnar og gagna öðrum, hljóta einnig að hjálpa hinum. Iðnverkamennirnir geta því aðeins öðlazt frelsi, að þeir breyti auðmagni kapítalistans, það er að segja hráefnum, vélum, tækjum og matvælum, sem nauðsynleg eru til framleiðslunnar, í þjóðfélagslega eign, það er að segja í eign, sem þeir nýta sameiginlega. Á sama hátt er aðeins hægt að hefja landbúnaðarverkamennina upp úr þeirra andstyggilegu eymd, ef helzta viðfangsefni vinnu þeirra framar öllu öðru, jörðin sjálf, er tekin úr einkaeign stórbænda og enn stærri lénsherra og breytt í félagslega eign, sem rekin er sem samvinnubú landbúnaðarverkamanna og fyrir sameiginlegan reikning. Og hér komum við að hinni frægu ályktun alþjóðaráðstefnu verkamanna í Basel: Að það sé þjóðfélaginu í hag að

breyta jarðeignum í sameiginlega þjóðfélagseign. Þessi ályktun er samin aðallega með þau lönd í huga, þar sem stórjarðeignir og þá einnig ræktun stórra landeigna er fyrir hendi, og yfir þessum landeignum landsdrottinn og margir daglaunamenn. Þetta ástand er hins vegar enn ríkjandi á Þýzkalandi í öllum aðalatriðum, og því var ályktunin *einmitt sérstaklega tímabær fyrir Þýzkaland* næst á eftir Englandi. Landbúnaðarverkalýðurinn, daglaunamenn sveitanna, – en úr þeirri stétt smala furstarnir flestum í heri sína. Það er sú stétt, sem sendir alla aðalsmennina og júnkarana á þing í skjóli hins almenna kosningaréttar; en það er líka sú stétt, sem stendur iðnverkalýð borganna næst, deilir með þeim sömu lífskjörum og er jafnvel sokkin enn dýpra í eymd en þeir. Næsta aðkallandi mál þýzkrar verkalýðshreyfingar er að vekja þessa stétt til lífsins og draga hana með inn í hreyfinguna, þessa stétt, sem nú er lömuð, af því að hún er klofin og dreifð, en dulið afl hennar þekkja bæði aðall og ríkisstjórn svo vel, að þau af ásettu ráði láta skólana drabbast niður, svo að hún umfram allt verði fákunnandi áfram. Frá þeim degi að telja, sem allur þorri daglaunamanna til sveita hefur lært að skilja sína eigin hagsmuni, frá þeim degi er afturhaldssöm, lénssinnuð ríkisstjórn embættismanna eða borgara óhugsandi á Þýzkalandi.

## Formáli að 3. útgáfu 1875

Línurnar hér að framan voru skrifaðar fyrir meira en fjórum árum. Þær eru enn í fullu gildi. Það, sem rétt taldist fyrir Sadowa og skiptingu Þýzkalands, hefur hlotið staðfestingu einnig eftir Sedan og stofnun Hins heilaga þýzka ríkis prússneskrar þjóðar. Svo lítils eru „heimsskekjandi“ aðgerðir ríkisins á sviði svokallaðrar stórpólitíkur megnugar í þá átt að breyta stefnu hinnar sögulegu þróunar.

Það, sem þessar mikilfenglegu aðgerðir hins vegar megna, er að auka hraða þessarar þróunar. Og í þessu tilliti hafa frumkvöðlar ofangreindra „heimsskekjandi viðburða“ óviljandi náð árangri, sem er þeim eflaust sjálfum í hæsta máta á móti skapi, en sem þeir verða að taka með í kaupunum, hvort sem þeim líkar betur eða verr.

Þegar með stríðinu 1866 riðaði hið gamla Prússland allt frá grunni. Það hafði þegar eftir 1848 kostað erfiði að koma gömlum agafjötrum á byltingarsinnuð iðnaðarsvæði vesturhéraðanna, jafnt hinn borgaralega aðila sem öreigana; en strax og það hafði tekizt, voru hagsmunir *júnkaranna* í austurhéruðunum, næst á eftir hagsmunum hersins, orðnir hið ráðandi afl í ríkinu. Árið

1866 varð nær allt Norðvestur-Þýzkaland prússneskt. Fyrir utan hið óbætanlega siðferðilega tjón, sem hin prússneska krúna af guðs náð varð fyrir, þegar hún gleypti þrjár aðrar krúnar af guðs náð, þá færðist nú þungamiðja einveldisins talsvert til vesturs. Hinar fimm milljónir íbúa Rínarhérðanna og Westfalens fengu nú liðsauka, fyrst frá þeim fjórum milljónum Þjóðverja, sem beinlínis voru innlimaðir, og síðan frá sex milljónum, sem innlimaðar voru óbeinlínis með Norðurþýzka bandalaginu. Og 1870 bættust enn við 8 milljónir Suðvestur-Þjóðverja, þannig að í hinu „nýja ríki" stóðu nú 14½ milljón rótgróinna Prússa (úr héruðunum sex austan Elbu, og þar til viðbótar 2 milljónir Pólverja) gegn nær 25 milljónum, sem fyrir löngu voru vaxnar frá hinu gamalgróna júnkara-lénsskipulagi Prússlands. Þannig fluttu einmitt sigrar prússneska hersins alla undirstöðu prússneska ríkisbáknsins úr stað; yfirdrottnun júnkaranna varð jafnvel æ meir óþolandi fyrir sjálfa ríkisstjórnina. En á sama tíma hafði hin hraðfara þróun iðnaðarins ýtt til hliðar baráttunni milli júnkara og borgarastéttar, og í staðinn var komin baráttan milli borgarastéttar og verkalýðs, þannig að einnig hið innra höfðu undirstöður hins gamla ríkis tekið algjörri umbreytingu. Einveldið, sem smám saman var að veslast upp eftir 1840, hafði haft að tilveruskilyrði baráttuna milli aðals og borgara, þar sem það tryggði jafnvægi. Frá því augnabliki, er ekki var lengur um það að ræða að vernda aðalinn gegn framsókn borgarastéttarinnar, heldur allar eignastéttir gegn framsókn verkalýðsins, varð hið gamla, algera einveldi að breytast að fullu í stjórnarform, sem eingöngu var sniðið í þessu augnamiði: *hið bónapartíska einveldi.* Þessi umskipti Prússlands til bónapartisma hef ég þegar fjallað um á öðrum stað („Húsnæðismál")[1] Það sem ég þurfti ekki að leggja áherzlu á þar, en sem skiptir hins vegar hér mjög miklu máli, er að þessi umskipti voru *mesta* framför, sem orðið hafði á Prússlandi frá því 1848; svo mjög var Prússland orðið á eftir í nútíma þróun. Það var sem sé enn að hálfu lénsríki, en bónapartisminn hefur að forsendu útrýmingu lénsveldisins. Prússland verður sem sagt að taka ákvörðun um að fjarlægja hinar fjölmörgu leifar lénsveldisins, að fórna veldi júnkaranna sem slíku. Auðvitað gerist þetta eftir mildustu leiðum og undir vinsælu lagi: Alltaf með hægð áfram! Þannig er t. d. með hina margfrægu héraðstilskipun. Hún nemur úr gildi lénsforréttindi hvers einstaks júnkara á landareign hans, en aðeins til að tryggja þau á ný sem forréttindi stórjarðeigenda í heild í héraðinu öllu. Málið er óbreytt, það hefur aðeins verið þýtt af lénskri mállýzku

[1] Sjá Marx/Engels: Ausgewählte Schriften I, Berlin 1951, bls. 548–49. – *Útg.*

yfir á borgaralega. Hinum rótgróna prússneska júnkara er mót vilja hans breytt í einskonar enskan squire (landeigandi, – *þýð.*), og hann þyrfti alls ekki að streitast svo mjög gegn þessu, því að báðir eru jafn heimskir.

Þannig hefur sem sé Prússlandi hlotnazt þau undarlegu örlög að leiða þá byltingu, sem það hóf 1808–1813 og þokaði nokkuð áfram 1848, til lykta við lok þessarar aldar í hinni þægilegu mynd bónapartismans. Og ef allt gengur vel og heimurinn verður sæmilega prúður og við allir nógu gamlir, þá getum við ef til vill orðið vitni að því, að ríkisstjórn Prússlands hafi raunverulega afnumið allar lénsstofnanirnar, að Prússland nái loks því marki, sem Frakkland stóð við árið 1792.

Afnám lénsveldisins í jákvæðri merkingu þýðir tilkomu borgaralegra aðstæðna. Í sama mæli og forréttindi aðalsins hverfa, verður löggjöfin borgaralegri. Og hér rekumst við á kjarna sambandsins milli borgarastéttarinnar þýzku og ríkisstjórnarinnar. Við höfum séð, að ríkisstjórnin er *nauðbeygð* til að innleiða þessar hægfara og lítilfjörlegu umbætur. En gagnvart borgarastéttinni heldur hún sérhverri þessara smá tilslakana á lofti sem *fórn*, sem færð hafi verið borgurunum, sem tilslökun, er með erfiðismunum hafi tekizt að ná af krúnunni, og í staðinn verði hún, borgarastéttin, nú einnig að gefa eitthvað eftir gagnvart ríkisstjórninni. Og borgarastéttin fellst á þessa blekkingu, enda þótt henni séu málavextir nokkurn veginn ljósir. Þetta er bakgrunnur þess þegjandi samkomulags, sem myndar hinn þögla grundvöll allra umræðna á ríkisþinginu og í þingdeildum í Berlín: Annars vegar breytir ríkisstjórnin lögum borgarastéttinni í hag með hraða snigilsins, víkur hindrunum frá tímum lénsveldisins og smáríkjanna úr vegi í þágu iðnaðarins, skapar einingar fyrir mynt, mál og vog, atvinnufrelsi o. s. frv., veitir þýzka auðmagninu ótakmarkaðan aðgang að vinnuafli Þýzkalands með því að koma á aðsetursfrelsi, dregur taum verzlunar og fjárglæfra. Hins vegar eftirlætur borgarastéttin ríkisstjórninni öll raunveruleg pólitísk völd, greiðir atkvæði með sköttum, lánum og herútgjöldum og veitir aðstoð við samningu allra nýrra umbótalaga, þannig að hið gamla lögregluvald yfir óþægilegum einstaklingum verði áfram í fullu gildi. Borgarastéttin kaupir hina hægfara félagslegu frelsun sína með því að gefa pólitískt vald sjálfrar sín þegar upp á bátinn. Auðvitað er aðal ástæðan fyrir því, að borgarastéttin skuli fallast á slíkan samning, ekki ótti við ríkisstjórnina, heldur ótti við verkalýðsstéttina.

Svo aumlega sem borgarastétt okkar nú hegðar sér á sviði stjórnmálanna, þá er ekki hægt að neita því, að hún gerir nú loksins skyldu sína á sviði iðnaðar og verzlunar. Efling í iðnaði

og verzlun, sem bent var á í inngangi annarrar útgáfu þessa rits, hefur síðan þróazt af enn meira krafti. Það sem gerzt hefur í þessu tilliti frá 1869 í iðnaðarhéraðinu Rínarland-Westfalen, er beinlínis með fádæmum og minnir á framfarir í verksmiðjuhéruðum Englands í byrjun þessarar aldar. Og á Saxlandi, Efri-Slésíu, í Berlín, Hannover og hafnarborgunum mun það vera eins. Við höfum loksins fengið heimsverzlun, raunverulegan og mikinn iðnað, raunverulega nýtízku borgarastétt; en við höfum einnig fengið raunverulegt hrun og einnig raunverulega, volduga öreigastétt.

Fyrir sagnritara framtíðarinnar mun orustugnýrinn frá Spichern, Mars-la-Tour og Sedan hafa miklu minni þýðingu í sögu Þýzkalands á tímabilinu 1869–1874 en hin yfirlætislausa, rólega en stöðuga framþróun þýzku öreigastéttarinnar. Þegar árið 1870 mætti þýzkum verkamönnum erfið prófraun: Hin bónapartíska stríðsögrun og eðlileg áhrif hennar, – almennur þjóðlegur fögnuður á Þýzkalandi. Þýzku, sósíalísku verkamennirnir létu ekki rugla sig eitt andartak. Ekki hinn minnsti vottur þjóðrembings kom fram hjá þeim. Mitt í brjálaðri sigurvímu héldu þeir rósemi sinni, heimtuðu „ódýran frið við franska lýðveldið og engar innlimanir“, og jafnvel umsátursástandið gat ekki þaggað niður í þeim. Enginn bardagaljómi, enginn þvættingur um þýzka „ríkisdýrð“ hafði áhrif á þá; eina takmark þeirra var frelsun allra öreiga Evrópu. Við getum sagt með vissu, að í engu öðru landi hafi verkamenn gengið undir svo erfitt próf og staðizt það með slíkum ágætum.

Umsátursástandi stríðsins fylgdu landráðaréttarhöld og réttarhöld vegna meiðyrða í garð tignarfólks og embættismanna, svo og sífellt vaxandi lögregluafskipti á friðartímum. Þrír eða fjórir af ritstjórum „Volksstaat“[1] sátu venjulega í fangelsi, ritstjórar hinna blaðanna í sama hlutfalli. Sérhver af þekktari talsmönnum flokksins varð að mæta a.m.k. árlega fyrir rétti, þar sem hann var nær alltaf dæmdur. Útlegðardómar, lögtök og fundabönn fylgdu eitt af öðru sem skæðadrífa. Allt árangurslaust. Í stað sérhvers, sem handtekinn var eða rekinn í útlegð, kom brátt annar; fyrir hvern þann fund, sem leystur var upp, voru boðaðir tveir nýir, og menn gerðu lögregluna þreytta á gjörræðisaðgerðum á æ fleiri stöðum með því að sýna þolgæði og algjöra löghlýðni. Allar ofsóknir höfðu þveröfug áhrif við það, sem til var ætlazt; þær voru langt frá því að brjóta Verkamannaflokkinn á bak aftur, og fengu ekki einu sinni beygt hann, heldur beindu stöðugt til hans nýjum liðsmönnum samfara því að skipulag hans var treyst. Í

[1] Volksstaat, málgagn Sósíaldemókratíska verkamannaflokksins, sem stofnaður var 1869. Því ritstýrði Wilhelm Liebknecht. – *Útg.*

baráttu sinni við yfirvöldin og einstaka burgeisa reyndust verkamenn alls staðar andlega og siðferðilega hinn sterki aðili, og sönnuðu, einkum í deilum sínum við svokallaða „vinnuveitendur“, að þeir, verkamennirnir, eru nú hin menntaða stétt, en kapítalistarnir hinir fákunnandi. Og um leið heyja þeir baráttu sína yfirleitt með gamansemi, sem er bezta sönnun þess hversu vissir þeir eru í sinni sök og sér meðvitandi um yfirburði sína. Barátta, sem þannig er háð í sögulega plægðum jarðvegi, hlýtur að skila árangri. Árangur janúarkosninganna er einstakur fram til þessa í sögu verkalýðshreyfingar síðari tíma, og sú undrun, sem hann olli í gjörvallri Evrópu, var fyllilega réttmæt.

Þýzkir verkamenn standa um tvennt verulega betur að vígi en starfsbræður þeirra annars staðar í Evrópu. Í fyrsta lagi með því, að þeir eru komnir af fræðilega sinnuðustu þjóð Evrópu og að þeir hafa varðveitt með sér fræðilegan áhuga, sem gjörsamlega hefur fjarað út hjá svokölluðum „menntamönnum“ Þýzkalands. Án forgöngu þýzkrar heimspeki, einkum Hegels, hefði vísindalegur sósíalismi á Þýzkalandi, – sá eini vísindalegi sósíalismi, sem sögur fara af, aldrei orðið til. Án fræðilegs áhuga meðal verkamanna hefði þessi vísindalegi sósíalismi aldrei orðið sá lifandi þáttur af þeim sjálfum, sem raun ber vitni. Og hve ómetanlegur kostur þetta er, sýnir sig annars vegar í því áhugaleysi gagnvart allri fræðikenningu, sem er ein aðal ástæðan fyrir því, hvers vegna verkalýðsstéttinni ensku miðar svo hægt áfram, þrátt fyrir alla ágætis skipulagningu einstakra verkalýðsfélaga; og hins vegar á þeirri óhæfu og ringulreið, sem proudhonisminn í sinni upprunalegu mynd hefur valdið meðal Frakka og Belga, og í afskræmdara búningi Bakúnins hjá Spánverjum og Ítölum.

Og annar kostur frá tímasjónarmiði, er sá, að Þjóðverjar komu síðastir inn í raðir verkalýðshreyfingarinnar. Á sama hátt og fræðilegi, þýzki sósíalisminn mun aldrei gleyma, að hann hvílir á herðum Saint-Simons, Fouriers og Owens, þriggja manna, sem þrátt fyrir alla draumóra og skýjaborgir teljast til markverðustu hugsuða allra tíma og sögðu af snilld sinni ýmsa hluti fyrir, sem við erum nú að sanna á vísindalegan hátt – eins má hin faglega, þýzka verkalýðshreyfing aldrei gleyma, að hún hefur þróazt á herðum ensku og frönsku hreyfingarinnar, einfaldlega hagnýtt sér dýrkeypta reynslu hennar, og getur nú forðazt þau víxlspor, sem hún áður fyrr óhjákvæmilega hafði hlotið að stíga. Hvar værum við nú staddir án forgöngu ensku verkalýðfélaganna og pólitískrar baráttu franskra verkamanna án þeirrar gífurlegu hvatningar, sem Parísarkommúnan gaf öðru fremur?

Það verður að segjast um þýzka verkamenn, að þeir hafa notfært sér kosti vígstöðu sinnar af sjaldgæfu raunsæi. Í fyrsta

skipti frá tilkomu verkalýðshreyfingarinnar er baráttan nú háð samhljóða, í samhengi og samkvæmt áætlun til þriggja átta, – fræðilegrar, pólitískrar og hagrænnar. Í þessum svo til samhæfðu áhlaupum er fólginn styrkur og sigurvissa þýzku hreyfingarinnar.

Þýzkir verkamenn eru sem stendur framvarðsveit í baráttu öreiganna, annars vegar vegna sinnar hagstæðu aðstöðu, hins vegar vegna eyrænna sérkenna ensku hreyfingarinnar og ofbeldislegrar undirokunar frönsku hreyfingarinnar. Ekki er hægt að segja fyrir um, hversu lengi viðburðarásin eftirlætur þeim þennan virðingarsess. En svo lengi sem þeir skipa hann, munu þeir væntanlega gera það með sóma. Þar til heyra tvíefld átök á öllum sviðum baráttu og áróðurs . Það verður einkum skylda leiðtoganna að gera sér sem ljósust öll fræðileg vandamál, losa sig æ betur undan áhrifum arfgengra glamuryrða, sem einkenndu hina gömlu lífsskoðun, og missa aldrei sjónar á því, að frá því að sósíalisminn varð vísindagrein, þá ber einnig að rækja hann og nema sem vísindi. Það ríður á að útbreiða af vaxandi dugnaði meðal verkalýðsins þá stöðugt gleggri vitneskju, sem þannig hefur fengizt, og tengja skipulag flokksins og verkalýðsfélaganna æ traustari böndum. Enda þótt þau sósíalísku atkvæði, sem greidd voru í janúar, myndi nú þegar allvænan her, þá eru þau þó langt frá því að vera frá meirihluta þýzku verkalýðsstéttarinnar. Og svo hvetjandi sem ávöxtur áróðursins meðal sveitaalþýðunnar er, þá bíður þó einmitt hér óendanlega mikið starf óunnið. Það ríður á að þreytast ekki í baráttunni, að hrífa eina borgina, eitt kjördæmið eftir annað úr höndum óvinarins; en umfram allt þarf að gæta þess að varðveita alþjóðlegt hugarfar, sem hleypi engum ættjarðarrembingi upp á yfirborðið en tekur fagnandi sérhverjum nýjum ávinningi í hreyfingu öreiganna, án tillits til þess hvað þjóð leggur hann til. Þótt þýzkir verkamenn sæki þannig fram, þá er ekki þar með sagt að þeir gangi endilega í fylkingarbrjósti hreyfingarinnar – Það er alls ekki þessari hreyfingu í hag, að verkamenn einhverrar einstakrar þjóðar gangi þar fram fyrir skjöldu –, en þeir munu samt skipa virðingarsess í fremstu víglínu; og þeir munu standa þar vígreifir, ef annaðhvort óvæntar prófraunir eða stórviðburðir krefjast af þeim aukinnar dirfsku, meiri ákveðni og atorku.

*London, 1. júlí 1874.*

*Friedrich Engels.*

KARL MARX

# Athugasemdir við stefnuskrá þýzka verkamannaflokksins

## Formáli eftir Friedrich Engels

Árið 1875, skömmu fyrir sameiningarþingið,[1] var handrit það, sem hér er prentað, bæði fylgibréfið til Bracke og gagnrýnin á stefnuskrárfrumvarpinu, sent Bracke, og átti hann að sýna það þeim Geib, Auer, Bebel og Liebknecht og endursenda það síðan til Marx. Nú hefur flokksþingið í Halle sett umræður um Gothastefnuskrána á dagskrá í flokknum og mundi ég því að minni hyggju gera mig sekan um að stinga undir stól mikilvægu og ef til vill mikilvægasta málskjali þessara umræðna, ef ég léti lengur dragast að birta það almenningi.

En handritið hefur enn annað og víðtækara gildi. Hér er í fyrsta skipti gerð skýr og ákveðin grein fyrir afstöðu Marx til þeirrar stefnu, sem Lassalle markaði, eftir að hann fór að láta til sín taka í óróðrinum, og á þetta við um hvorttveggja, grundvallaratriðin í hagfræðikenningum hans og baráttuaðferðirnar.

Ekkert af þessu getur valdið sárindum nú eftir fimmtán ár, hvorki hið bitra tillitsleysi í krufningu stefnuskrárfrumvarpsins né miskunnarleysið í málflutningi höfundar, þegar hann gerir grein fyrir niðurstöðum sínum og flettir ofan af veilum frumvarpsins. Sérstakir Lassallesinnar eru nú ekki lengur til nema einstök reköld erlendis og í Halle hafa jafnvel höfundar Gothastefnuskrárinnar hafnað henni, þar sem þeir töldu hana með öllu ófullnægjandi.

Eigi að síður hef ég fellt niður nokkur persónulega bitur ummæli og dóma, er efnisins vegna skiptu ekki máli, og sett punkta í eyðurnar. Marx mundi hafa gert hið sama, ef hann hefði gefið handritið út nú. Tvennt var það, sem olli því, að ritið varð

[1] Á því þingi voru sameinuð í einn flokk tvenn sósíalísk verkamannasamtök, er þá störfuðu í Þýzkalandi, Sósíaldemókratíski verkamannaflokkurinn undir forustu Liebknechts og Bebels og Almenna þýzka verkamannafélagið, sem fylgdi stefnu Lassalle. – *Útg.*

hvassyrt á köflum. Í fyrsta lagi vorum við Marx í nánari tengslum við þýzku hreyfinguna en nokkra aðra. Hið ótvíræða skref aftur á bak, sem stefnuskrárfrumvarpið bar vitni um, hlaut að valda okkur sérstaklega sárrar gremju. Í öðru lagi voru þá varla liðin tvö ár frá þingi Alþjóðasambandsins í Haag og við áttum í ákafri baráttu við Bakunín og anarkista hans, er gerðu okkur ábyrga fyrir öllu því, sem gerðist í verkalýðshreyfingu Þýzkalands. Við hlutum því að gera ráð fyrir að okkur væri kennt um frumvarpið og taldir launfeður þess. Þessar ástæður eru nú úr sögunni, svo að ummæla þeirra, sem hér um ræðir, er ekki lengur þörf.

Einnig eru nokkrar setningar felldar niður og punktar settir í eyðurnar vegna prentfrelsislaganna. Þar sem ég hef orðið að velja mildara orðalag, er það haft innan hornklofa. Að öðru leyti er handritið prentað orðrétt.

London 6. janúar 1891.
*Fr. Engels.*

## Bréf til Bracke frá Marx

London 5. maí 1875

Kæri Bracke!

Þegar þér sjálfur hafið lesið eftirfarandi athugasemdir, þar sem sameiningarstefnuskráin er gagnrýnd, bið ég yður að gera svo vel að afhenda þær til yfirlits þeim Geib og Auer, Bebel og Liebknecht. Ég er önnum kafinn og hef þegar orðið að vinna miklu meira en læknarnir hafa mælt fyrir um. Svo að það er enganveginn „nautn“ fyrir mig að skrifa svona langan samsetning. Þó var það nauðsynlegt, til þess að flokksvinirnir, sem þessi orðsending er ætluð, misskilji ekki þær ráðstafanir, er ég verð að gera síðar.

Svo er mál með vexti, að eftir sameiningarþingið munum við Engels birta stutta yfirlýsingu þess efnis, að öll hlutdeild í umræddri stefnuskrá sé okkur víðsfjarri og að hún sé okkur með öllu óviðkomandi.

Þetta er óhjákvæmilegt vegna þess, að erlendis hafa menn þá alröngu skoðun, að við stjórnum héðan hreyfingu hins svo-

kallaða Eisenachflokks bak við tjöldin, og ala andstæðingar flokksins á þessari skoðun með mikilli elju. Í nýútkomnu rússnesku riti t. d. gerir Bakúnín mig eigi aðeins ábyrgan fyrir öllum stefnuskrám þessa flokks o. s. frv., heldur og fyrir hverju því skrefi, sem Liebknecht hefur stigið frá þeim degi, er hann tók upp samstarf við Þjóðflokkinn.

En hvað sem því líður, er það skylda mín að viðurkenna ekki með varfærinni þögn stjórnmálamannsins stefnuskrá, sem ég er sannfærður um að sé flokknum til andlegs niðurdreps og honum beri að hafna með öllu.

Sérhvert raunhæft skref hreyfingarinnar er meira virði en heil tylft af stefnuskrám. Ef ekki var unnt að komast *lengra áleiðis* en í Eisenachstefnuskránni, þá átti blátt áfram að komast að samkomulagi um baráttu gegn sameiginlegum óvini. Og tími og aðstæður voru þannig, að lengra var ekki unnt að komast. En ef gerðar eru stefnuskrár um grundvallaratriði í stað þess að bíða, þar til slíkir hlutir eru nægilega undirbúnir með löngu samstarfi, þá er verið að gera mælistiku í allra augsýn, sem miðað er við, þegar meta skal þroskastig flokkshreyfingarinnar. Höfðingjar Lassallesinna komu, af því að aðstæðurnar neyddu þá til þess. Ef þeim hefði verið sagt fyrirfram, að ekki kæmi til mála að makka um grundvallaratriði, þá hefðu þeir *orðið* að láta sér nægja starfskrá eða skipulagsáætlun um sameiginlega baráttu. Í stað þess var þeim leyft að koma vopnaðir umboðum og þessi umboð viðurkenndu menn af sinni hálfu sem fullgild og gáfust þannig skilmálalaust upp fyrir þeim, sem sjálfir voru hjálparþurfi. Og til þess að reka rembihnútinn á, héldu þeir svo þing *á undan sambræðsluþinginu,* en eigið flokksþing var hinsvegar haldið *post festum.*[1] Það var bersýnilega ætlunin, að skjóta sér undan allri gagnrýni og gefa sínum eigin flokki ekkert tóm til umhugsunar. Við vitum að staðreynd sameiningarinnar ein út af fyrir sig er verkamönnum mikið ánægjuefni, en mönnum skjátlast, ef þeir halda að þessi stundarárangur sé ekki of dýru verði keyptur.

Annars er stefnuskráin ekki nothæf, þótt ekki væri því til að dreifa, að trúarlærdómar Lassalle eru gerðir að heilögu orði.

Á næstunni mun ég senda yður lokaheftin af frönsku útgáfunni af „Auðmagninu". Framhald prentunarinnar tafðist lengi vegna banns frönsku stjórnarinnar. Í þessari viku eða byrjun þeirrar næstu verða þau tilbúin. Hafið þér fengið 6 fyrstu heftin? Gerið svo vel að senda mér líka heimilisfang Bernhards Beckers, en honum verð ég einnig að senda lokaheftin.

---

[1] Eftir dúk og disk. – *Útg.*

Lýðræðisbókaverzlunin[1] hefur sína siði. Til þessarar stundar hafa þeir til að mynda ekki sent mér eitt einasta eintak af útgáfu málskjalanna frá kommúnistamálaferlunum í Köln.

Með beztu kveðju
yðar
*Karl Marx.*

[1] Hér er átt við útgáfufyrirtæki Sósíaldemókratíska verkamannaflokksins, sem var í sambandi við aðalmálgagn flokksins, „Lýðríkið". – *Útg.*

# Athugasemdir við stefnuskrá þýzka verkamannaflokksins

## I

1. „Vinnan er uppspretta allra auðæfa og allrar menningar, *og þar sem nú að* öll gagnleg vinna er aðeins framkvæmanleg í þjóðfélaginu og fyrir atbeina þjóðfélagsins, hafa allir aðilar þjóðfélagsins jafnan rétt á óskiptum afrakstri vinnunnar".

*Fyrsti hluti greinarinnar:* „Vinnan er uppspretta allra auðæfa og allrar menningar".

Vinnan *er ekki uppspretta* allra auðæfa. Náttúran er ekki síður uppspretta notagildanna en vinnan. (En hvað skyldu hlutkennd auðæfi vera annað en notagildi!) Vinnan sjálf er ekki annað en náttúruafl að verki, vinnuafl mannsins. Þessi tízkusetning gengur aftur í öllum barnalærdómum og er að því leyti rétt, að *gert er ráð fyrir* að vinnan sé framkvæmd með þeim gögnum og tækjum, sem til þess heyra. En sósíalísk stefnuskrá átti sízt að leyfa sér að nota borgaraleg orðatiltæki af þessu tagi, og minnast ekki á þau *skilyrði,* sem verða að koma til, svo að vit verði í þeim. Að því leyti, sem maðurinn hegðar sér sem eigandi náttúrunnar, frumuppsprettu allra vinnutækja og efna, og fer með þau sem eign sína, verður vinna hans uppspretta notagilda og þá einnig auðæfa. Þegar borgarinn gefur vinnunni *yfirnáttúrulegan sköpunarmátt,* hefur hann góðar og gildar ástæður til slíks skáldskapar. Því að það er einmitt vegna þess, að vinnan er háð náttúrunni, að maðurinn, sem ekkert á annað en vinnuafl sitt, við hvaða þjóðfélags- og menningarskilyrði, sem hann býr, hlýtur að vera þræll hins mannsins, sem hefur gert sig að eiganda hinna hlutkenndu vinnuskilyrða hans. Unnið getur hann því aðeins að hinn leyfi, með öðrum orðum, hann getur því aðeins lifað að hinn leyfi.

Vér skulum nú láta setninguna eiga sig eins og hún stendur þarna eða öllu fremur haltrar. Hvaða ályktun hefði maður nú búizt við? Auðvitað þessari:

„Þar sem nú vinnan er uppspretta allra auðæfa, er því einnig svo háttað í þjóðfélaginu, að enginn getur aflað sér auðæfa nema þau séu framleidd með vinnu. Vinni hann ekki sjálfur, lifir hann af vinnu annarra og aflar sér menningar á kostnað annarra vinnu“.

Í stað þess er annarri setningu hnýtt aftan í með orðakengnum „og þar sem nú“ og af henni er svo leidd ályktun, en ekki af upphafssetningunni.

*Annar hluti greinarinnar:* „Gagnleg vinna er aðeins framkvæmanleg í þjóðfélaginu og fyrir atbeina þjóðfélagsins“.

Samkvæmt fyrstu setningunni var vinnan uppspretta allra auðæfa og allrar menningar, og því ekkert þjóðfélag hugsanlegt án vinnu. Nú erum vér aftur á móti frædd á því, að engin „gagnleg“ vinna sé framkvæmanleg án þjóðfélags.

Alveg eins hefði mátt segja, að vinna, sem er gagnslaus eða jafnvel skaðleg almenningi, gæti aðeins orðið atvinnugrein í þjóðfélagi, einungis í þjóðfélagi væri hægt að lifa af iðjuleysi o. s. frv., í stuttu máli taka afrit af öllum skrifum Rousseau.

Og hvað er gagnleg vinna? Aðeins sú vinna, sem verður að þeim notum, sem til er ætlazt. Þegar maðurinn hættir að vera api, er hann villimaður. Þegar villimaðurinn leggur dýr að velli með grjótkasti, safnar ávöxtum o. s. frv., þá vinnur hann „gagnlega“ vinnu.

*Í þriðja lagi: Ályktunin:* „Og þar sem nú öll gagnleg vinna er aðeins framkvæmanleg í þjóðfélaginu og fyrir atbeina þjóðfélagsins, hafa allir aðilar þjóðfélagsins jafnan rétt á óskiptum afrakstri vinnunnar“.

Prýðileg ályktun! Þar sem gagnleg vinna er aðeins framkvæmanleg í þjóðfélaginu og fyrir atbeina þjóðfélagsins, er þjóðfélagið réttur eigandi afrakstursins og í hlut hvers einstaks verkamanns fellur einungis það, sem er framyfir það, sem er nauðsynlegt til að viðhalda þjóðfélaginu – „skilyrði“ vinnunnar.

Í raun og veru hefur því, sem felst í setningu þessari, verið haldið fram af talsmönnum *allra þjóðfélagshátta* á öllum tímum. Fyrir öllu ganga kröfur stjórnarinnar með öllu sem þeim heyrir, því að hún er málgagn þjóðfélagsins til þess að viðhalda þjóðskipulaginu. Þá koma kröfur ýmsra einkaeigenda, því að ýmsar tegundir einkaeigna er sá grundvöllur, sem þjóðfélagið hvílir á, o. s. frv. Það er augljóst að slíkar froðusetningar má leggja út á ýmsan veg og teygja á ýmsa skjái.

Til þess að fá eitthvert skynsamlegt samhengi milli fyrsta og

annars hluta greinarinnar, verður að breyta orðalaginu þannig: „Vinnan getur því aðeins orðið uppspretta auðæfa og menningar að hún sé þjóðfélagsleg vinna", eða með öðrum orðum „í þjóðfélaginu og fyrir atbeina þjóðfélagsins".

Án efa er þessi setning rétt, því þó að einangruð vinna geti einnig skapað notagildi, ef hin hlutkenndu skilyrði eru tiltæk, er hún þess ekki megnug að skapa auðæfi eða menningu.

En óneitanlega er önnur setning jafnrétt, sem hljóðar þannig:

„Að sama skapi, sem vinnan þróast félagslega og verður uppspretta auðæfa og menningar, þróast og fátækt og umkomuleysi meðal verkafólksins, en auðæfi og menning meðal hinna, sem ekki vinna."

Þetta hefur verið lögmál veraldarsögunnar fram til þessa. Í staðinn fyrir almennt málæði um „vinnuna" og „þjóðfélagið" þurfti því að sýna og sanna hvernig auðvaldsþjóðfélag nútímans hefur loks skapað þau skilyrði, efnisleg og önnur, sem gera verkamennina hæfa til og neyða þá til að brjóta hina þjóðfélagslegu bölvun á bak aftur.

En í raun og veru hefur þessari vandræðasetningu, hvað mál og efni snertir, verið hnoðað saman til þess að letra á fána flokksins vígorð Lassalle um „óskiptan afrakstur vinnunnar". Seinna sný ég mér nánar að „afrakstri vinnunnar", „jafna réttinum" o. s. frv., því að þessir sömu hlutir koma aftur fyrir í nokkuð annarri mynd.

2. „Í núverandi þjóðfélagi hefur auðmannastéttin einokun á vinnutækjunum. Hin klafabundna afstaða verkalýðsstéttarinnar, sem af þessu leiðir, er orsök fátæktarinnar og þrældómsins í öllum myndum".

Setning þessi, sem tekin er upp úr lögum alþjóðasambandsins, er röng í þessari „endurbættu" útgáfu.

Í núverandi þjóðfélagi hafa jarðeigendur *og* auðmenn einokun á vinnutækjunum. (Einokun jarðeigenda er meira að segja grundvöllur auðmannaeinokunarinnar). Í lögum alþjóðasambandsins er hvorug einokunarstéttin nefnd í tilsvarandi málsgrein. Þar er rætt um *„einokun vinnutækjanna"*, þ. e. *uppsprettu lífsnauðsynjanna.* Viðbótin „uppspretta lífsnauðsynjanna" sannar fyllilega að lönd og lóðir eru talin með vinnutækjunum.

Endurbótin var gerð vegna þess, að Lassalle ræðst aðeins á auðmannastéttina en ekki jarðeigendur af ástæðum, sem nú eru almennt kunnar. Í Englandi er auðmaðurinn sjaldan svo mikið sem eigandi landa þeirra og lóða, sem verksmiðja hans stendur á.

3. „Til þess að leysa vinnuna úr læðingi er nauðsynlegt að

hefja vinnutækin á stig þjóðfélagslegrar sameignar og að skipuleggja vinnuna í heild með samvinnusniði þannig, að vinnuafrakstrinum verði réttilega skipt."

„Að hefja vinnutækin á stig sameignar" þýðir sennilega að breyta þeim í sameign. Þetta er aðeins athugasemd innan sviga.

Hvað er afrakstur vinnunnar? Það sem vinnan framleiðir eða verðmæti þess? Og sé hið síðara rétt, er þá átt við allt verðmæti framleiðslunnar eða aðeins þann hluta verðmætisins, sem vinnan hefur bætt við verðmæti þeirra framleiðslutækja, er eyðst hafa?

„Afrakstur vinnunnar" er losaraleg hugmynd, sem Lassalle hefur notað í staðinn fyrir ákveðin hagfræðileg hugtök.

Hvað er „rétt skipting"?

Fullyrða burgeisarnir ekki að núverandi skipting sé „réttlát"? Og er hún ekki í raun og veru eina „réttláta" skiptingin á grundvelli núverandi framleiðsluhátta? Lagar efnahagsástandið sig eftir réttarhugtökum, eða er því ekki farið á hinn veginn að réttarfarið eigi rót sína að rekja til hins efnahagslega? Hafa ekki hin og þessi flokksbrot sósíalista gert sér ólíkar hugmyndir um „réttláta" skiptingu?

Til þess að komast að raun um hvað átt er við með orðtækinu „réttlát skipting" í þessu tilviki, verðum vér að bera saman fyrstu og þriðju grein. Síðari greinin gerir ráð fyrir þjóðfélagi, þar sem „vinnutækin eru sameign og vinnan í heild er skipulögð með samvinnusniði", en fyrsta greinin fræðir oss um það, að „allir aðilar þjóðfélagsins hafi jafnan rétt á óskiptum afrakstri vinnunnar".

„Allir aðilar þjóðfélagsins"? Einnig þeir, sem ekki vinna? Hvað er þá orðið um „óskiptan afrakstur vinnunnar"? Aðeins vinnandi aðilar þjóðfélagsins? Hvað er þá orðið um hinn „jafna rétt" allra þjóðfélagsaðila?

En „allir aðilar þjóðfélagsins" og hinn „jafni réttur" eru bersýnilega aðeins orðatiltæki. Í þessu kommúníska þjóðfélagi verður hver verkamaður að fá það, sem Lasalle kallar „óskiptan afrakstur vinnunnar"; það er mergurinn málsins.

Fyrst um sinn skulum vér gera ráð fyrir, að „afrakstur vinnur hver verkamaður að fá það, sem Lassalle kallar „óskiptan afrakstur *öll framleiðsla þjóðfélagsins.*

Frá henni verður nú að draga:

*Í fyrsta lagi:* kostnaðinn við endurnýjun notaðra framleiðslutækja.

*Í öðru lagi:* Það sem varið er til að auka framleiðsluna.

*Í þriðja lagi:* Varasjóði eða tryggingasjóði til tryggingar gegn óhöppum, truflunum af náttúruvöldum o. s. frv.

Þessi frádráttur frá hinum „óskipta afrakstri vinnunnar" er efnahagsleg nauðsyn og stærð hans verður að ákveða eftir því, sem auðið er á hverjum tíma, að nokkru leyti með líkindareikningi; en samkvæmt réttlætinu er hann enganveginn útreiknanlegur.

Það sem eftir verður af heildarframleiðslunni, kemur í þann hlut, sem ætlaður er til neyzlu.

Áður en því er skipt milli einstaklinganna, verður enn að draga frá:

*Í fyrsta lagi: Hinn almenna stjórnunarkostnað, sem ekki heyrir til framleiðslunnar.*

Þessi hluti verður frá upphafi allmjög takmarkaður móts við það, sem hann er í núverandi þjóðfélagi og minnkar að sama skapi, sem hið nýja þjóðfélag þróast.

*Í öðru lagi: Það sem ákveðið er til að fullnægja sameiginlegum þörfum* svo sem til skóla, heilbrigðisráðstafana o. s. frv.

Þessi hluti verður frá upphafi allmikill móts við það, sem hann er í núverandi þjóðfélagi og vex að sama skapi, sem hið nýja þjóðfélag þróast.

*Í þriðja lagi: Sjóðir handa þeim, sem ekki eru færir til vinnu* o. s. frv., í stuttu máli, það sem nú er kallað opinber fátækraframfærsla.

Þá komum vér loks að þeirri „skiptingu", sem fyrir áhrif Lasalle er hin eina, sem stefnuskráin fjallar um í þröngsýni sinni. Hið eina, sem hún lætur sig skipta, eru þær neyzluafurðir, sem skipt er milli hinna einstöku framleiðenda samfélagsins.

„Hinn óskipti afrakstur vinnunnar" hefur orðið „takmarkaður" í meðförunum, enda þótt framleiðandinn njóti þess beinlínis eða óbeinlínis sem þjóðfélagsaðili, sem honum er varnað sem einstaklingi.

Eins og orðtækið „óskiptur afrakstur vinnunnar" er orðið að engu, svo mun og hitt um „afrakstur vinnunnar" yfirleitt leysast upp í ekki neitt.

Í samvirku þjóðfélagi, þar sem framleiðslutækin eru sameign, eiga engin afurðaskipti sér stað milli framleiðandanna. Þar er heldur ekki hægt að líta á vinnuna, sem fer til að framleiða þessar afurðir, *sem verðmæti* framleiðslunnar, nokkurskonar hlutkenndan eiginleika hennar. Því að vinna einstaklingsins verður nú beinlínis hluti af heildarvinnunni, gagnstætt því, er á sér stað í auðvaldsþjóðfélagi, þar sem hún verður það eftir krókaleiðum. Orðið „vinnuafrakstur" verður þannig með öllu innantómt, en nú þegar er það tvírætt og því ónothæft.

Hér er um að ræða kommúniskt þjóðfélag, sem auðvaldsþjóðfélagið *getur af sér,* en ekki þjóðfélag, sem *þróast* hefur á eigin

grundvelli; þjóðfélag, sem í öllum efnum, efnahagslegum, siðferðilegum og andlegum hefur ættareinkenni gamla þjóðfélagsins, sem hefur alið það í skauti sínu. Í samræmi við það ber hinn einstaki framleiðandi nákvæmlega úr býtum, það sem hann hefur lagt af mörkum að frádregnum almennum kostnaði. Vinnumagn hans sem einstaklings er það, sem hann leggur af mörkum. T. d. er hinn þjóðfélagslegi vinnudagur samanlagðar vinnustundir einstaklinganna. Vinnutími hins einstaka framleiðanda er sá hluti þjóðfélags-vinnudagsins, sem hann hefur látið í té, það sem í hans hlut fellur. Þjóðfélagið gefur honum vottorð um að hann hafi látið svo og svo mikla vinnu í té, en dregur frá tillag hans til sameiginlegra sjóða, og fyrir þessa ávísun fær hann úr forðabúri þjóðfélagsins neyzluafurðir, sem jafnmikla vinnu þurfti til að framleiða. Sama vinnumagn, sem hann lætur þjóðfélaginu í té í einni mynd, fær hann aftur í annarri.

Hér ríkir greinilega sama regla og í vöruskiptunum að því leyti, sem skipzt er á jöfnum verðmætum. Breyting hefur orðið á efni og formi, því að aðstæðurnar hafa breytzt þannig, að enginn getur látið annað í té en vinnu sína, og á hinn bóginn getur ekkert orðið eign einstakra manna nema það, sem þeir nota sjálfir til neyzlu. En hvað snertir skiptingu neyzluafurðanna til einstakra framleiðenda, ríkir sama meginreglan eins og þegar skipzt er á jöfnum vöruverðmætum. Menn skipta á vinnu í einni mynd og jafnmikilli vinnu í annarri.

Hinn *jafni réttur* er því enn sem fyrr í grundvallaratriðum ekki annað en hinn *borgaralegi réttur,* þótt meginregla og framkvæmd rekist ekki lengur á. En þegar um vöruskipti er að ræða, þá er ekki lengur skipzt á jöfnum verðmætum í hverju einstöku tilviki heldur aðeins að *meðaltali.*

Þrátt fyrir þessa framför eru hinum *jafna rétti* ávallt sett borgaraleg takmörk. Réttur framleiðendanna stendur í *beinu hlutfalli* við vinnu þá, sem þeir láta í té. Jöfnuðurinn er í því fólginn, að mælt er með *sama mælikvarða,* vinnunni.

Nú eru menn ekki jafnokar hvorki andlega né líkamlega, einn getur unnið meira á sama tíma en annar eða er þess megnugur að vinna lengri tíma en hinn. Til þess að vinnan geti orðið mælikvarði, verður að miða við ákveðna tímalengd eða afköst, annars yrði hún enginn mælikvarði. Hinn *jafni* réttur verður ójafn réttur fyrir ójafna vinnu. Hann viðurkennir engan stéttamun, því að allir eru einungis verkamenn. En hann viðurkennir í kyrrþey hina ójöfnu hæfileika einstaklinganna og þar með afkastagetu sem eðlileg sérréttindi. *Hann er þessvegna réttur ójafnaðarins í framkvæmd eins og allur réttur.* En hinir ójöfnu einstaklingar (væru þeir ekki ójafnir, væru þeir alls ekki einstaklingar) verða

aðeins mældir á sama mælikvarða frá *einu og sama* sjónarmiði, tiltekinni viðmiðun, í þessu tilviki er t. d. *það eitt* sameiginlegt með þeim, að þeir eru allir *verkamenn*. Á það eitt er litið, en augum lokað fyrir öllu öðru. Ennfremur: Nú er einn verkamaður kvæntur, en annar ókvæntur; einn á fleiri börn en annar o. s. frv., o. s. frv. Láti þeir báðir sömu vinnu í té og falli því jafnmikið í hlut þeirra beggja úr neyzluforða þjóðfélagsins, þá fær annar raunverulega meira en hinn og er því ríkari en hinn o. s. frv. Til þess að forðast alla þessa ágalla yrði rétturinn að vera ójafn en ekki jafn.

En þessir ágallar eru óhjákvæmilegir á fyrsta stigi sameignarþjóðfélagsins, sem sprottið er upp úr skauti auðvaldsþjóðfélagsins eftir langar fæðingarhríðir. Rétturinn getur aldrei farið fram úr efnahagsskipaninni og menningarlegu þróunarstigi þjóðfélagsins, sem á rót sína að rekja til hins fyrrnefnda.

Seinna á æðra stigi sameignarþjóðfélagsins eftir að þrældómsoki vinnuskiptingarinnar hefur verið létt af einstaklingunum og andstæða andlegrar og líkamlegrar vinnu er þar með horfin úr sögunni, verður öldin önnur. Þá verður vinnan ekki lengur einungis ráðstöfun til að halda í sér lífinu, heldur verður hún sjálf óhjákvæmilegasta þörf lífsins. Það er ekki fyrr en einstaklingarnir hafa þroskað hæfileika sína á öllum sviðum, framleiðsluöflin vaxa að sama skapi og allir gosbrunnar hinna samfélagslegu auðæfa flóa yfir barma sína, að unnt verður að víkka sjóndeildarhring hins borgaralega réttar og þjóðfélagið getur letrað á fána sinn: Hver og einn vinnur það, sem hann er hæfur til og fær í sinn hlut það, sem þarfir hans krefjast.

Ég hef verið langorður um „óskipta vinnuafraksturinn" annarsvegar og „jafna réttinn" hinsvegar til þess að sýna fram á, hversu illt verk það er að reyna að neyða upp á flokk vorn, eins og trúarlærdómar væru, hugmyndum, sem á vissu tímabili höfðu ákveðna þýðingu, en eru nú orðnar úrelt orðagjálfur – og eins hitt að rugla að nýju þá raunsæisskoðun, er flokkurinn hefur aflað sér með miklum erfiðismunum og hefur nú fest þar rætur, með hugmyndalegum glamuryrðum um rétt og annað, þeim hinum sömu, sem lýðræðissinnum og frönskum sósíalistum eru svo tungutöm.

Óháð því, sem hér hefur verið sagt, var það með öllu rangt að gera slíkt veður út af *skiptingunni* svokölluðu og að gera hana að aðalatriði.

Skipting neyzluafurðanna á hverjum tíma er aðeins afleiðing af skiptingu sjálfra framleiðsluskilyrðanna. En skipting þeirra er það, sem einkennir framleiðsluhættina. Það sem t. d. einkennir framleiðsluhætti auðvaldsins, er að hin hlutkenndu fram-

leiðsluskilyrði eru í höndum manna, sem ekki vinna, í mynd auðmagns og landeigna. Hinsvegar á allur fjöldinn ekki annað en hin persónulegu framleiðsluskilyrði, sem sé vinnuaflið. Þegar þáttum framleiðslunnar er skipt þannig, er núverandi skipting neyzluafurðanna sjálfsögð afleiðing. Verði hin hlutkenndu skilyrði samfélagsleg eign verkamannanna sjálfra, þá er og breytt skipting neyzluafurðanna sjálfsögð afleiðing. Hinn óvísindalegi sósíalismi hefur tekið það eftir borgaralegu hagfræðingunum að líta svo á, að skiptingin sé óháð framleiðsluháttunum og fjallað um málið samkvæmt því, skýrt sósíalismann á þann veg, að hann taki einkum til skiptingar lífsgæðanna. Sumir lýðræðissinnar hafa svo apað þetta eftir þessum sósíalistum. Nú þegar raunverulegir málavextir eru fyrir löngu orðnir ljósir, hversvegna þá að stíga skrefið afturábak?

4. „Frelsun vinnunnar verður að vera verk verkalýðsins, en andspænis honum eru allar aðrar stéttir ein afturhaldsfylking".

Fyrsta setningin er tekin úr inngangsorðum alþjóðasambandslaganna, en hún er „endurbætt". Þar stendur: „Frelsun verkalýðsstéttarinnar verður að vera verk verkamanna sjálfra". Hvað er það nú, sem verkalýðsstéttin á að frelsa? „Vinnan". Skilji hver, sem getur!

Í kaupbæti fáum vér svo aukasetningu, sem er hrein upptugga eftir Lasalle: „En andspænis honum (verkalýðnum) eru allar aðrar stéttir *ein afturhaldsfylking*".

Í Kommúnistaávarpinu stendur: „Af öllum þeim stéttum, sem standa andspænis borgarastéttinni, er öreigalýðurinn einn *byltingarsinnuð stétt í raun og sannleika*. Aðrar stéttir hrörna og líða undir lok á þróunarferli stóriðnaðarins, en öreigalýðurinn er skilgetið afkvæmi hans".

Hér er borgarastéttin, er ber á herðum sínum stóriðnaðinn, talin vera byltingarstétt gagnvart aðlinum og millistéttunum, sem vilja halda í þjóðfélagsaðstöðu sína, er byggist á úreltum framleiðsluháttum. Þær standa því ekki *saman með borgarastéttinni* í einni afturhaldsfylkingu.

Á hinn bóginn er öreigalýðurinn byltingarstétt gagnvart borgarastéttinni. Hann hefur vaxið upp úr jarðvegi stóriðnaðarins og leitast við að afmá auðvaldseðli framleiðslunnar, sem borgarastéttin reynir að viðhalda að eilífu. En ávarpið bætir við: „Miðstéttirnar ... verða byltingarsinnaðar vegna þess að þær sjá, að þær eru að verða öreigar".

Frá þessu sjónarmiði er það markleysa, að þær og borgarastéttin og meira að segja aðallinn myndi „eina afturhaldsfylkingu" andspænis verkalýðnum.

Hafið þér sagt við handiðnaðarmennina, smáiðnaðarmennina

og *bændurna* við síðustu kosningar: Þér standið í einni afturhaldsfylkingu með borgurum og aðli andspænis oss?

Lassalle kunni Kommúnistaávarpið utanað eins og þeir, sem á hann trúa, kunna sáluhjálparrit hans. Hann falsaði það svona ósvífið aðeins til að fegra samvinnu sína við andstæðingana, einveldismennina og aðalsmennina, gegn borgarastéttinni.

Spakmæli hans er þar á ofan klesst inn í ofannefnda grein án nokkurs samhengis við hina afskræmdu tilvitnun úr lögum alþjóðasambandsins. Hér er blátt áfram um ósvífni að ræða, sem herra Bismarck mun sízt láta sér mislíka, eitt af þessum óþokkabrögðum, sem Marat[1] Berlínarborgar er svo ör á.

5. „Verkalýðsstéttin vinnur að frelsun sinni fyrst um sinn á þeim vettvangi, er *markast af þjóðríki vorra tíma,* en veit þó vel, að alþjóðlegt bræðralag hlýtur að verða árangurinn af starfi hennar, sem er sameiginlegt verkamönnum allra menningarlanda".

Gagnstætt Kommúnistaávarpinu og öllum sósíalisma fyrir hans daga leit Lassalle á verkalýðshreyfinguna frá þröngu þjóðlegu sjónarmiði. Hér hefur dæmi hans verið fylgt í þessu efni þrátt fyrir starf alþjóðasambandsins.

Það segir sig sjálft, að til þess að geta barizt yfirleitt verður verkalýðurinn að bindast samtökum sem stétt í heimalandi sínu og þar verður hinn eiginlegi vettvangur baráttu hans. Að því leyti er barátta hans þjóðleg „að formi til", en eigi efni, eins og komizt er að orði í Kommúnistaávarpinu. En „takmörk þjóðríkis vorra tíma" eins og þýzka ríkisins til dæmis eru aftur „innan takmarka" heimsmarkaðsins í efnahagslegu tilliti og pólitískt „innan takmarka" ríkjakerfanna. Hver óbreyttur kaupmaður veit, að þýzka verzlunin er utanríkisverzlun um leið, og það eru einskonar *alþjóðastjórnmál,* sem hafa gert Bismarck að miklum manni.

Hvað er þá orðið eftir af alþjóðastefnu þýzka verkamannaflokksins? Vitundin um það, að árangurinn af starfi hans verði „alþjóðlegt bræðralag". Þetta almenna orðatiltæki, sem á að koma í staðinn fyrir alþjóðlegt bræðralag verkalýðsins í sameiginlegri baráttu gegn drottnandi stéttum og stjórnum þeirra, er tekið upp eftir borgaralega „Friðar- og frelsissambandinu".[2] Það er ekki minnzt einu orði á *hið alþjóðalega hlutverk* þýzka verkalýðsins! Og þannig á hann að búast til gagnsóknar gegn borgarastétt heimalands síns, sem þegar hefur gert fóstbræðralag við borgarastéttir allra annarra landa, og gegn hinni alþjóðlegu samsærispólitík herra Bismarcks!

---

[1] Hér mun Marx eiga við Hasselmann, aðalritstjóra málgagns Lassallesinna: Neuer Social-Demokrat. – *Útg.*

[2] Hér er um að ræða samtök borgaralegra lýðræðissinna og friðarsinna,

Í raun réttri stendur hin alþjóðlega játning stefnuskrárinnar *óraleið að baki* stefnuskrá Fríverzlunarflokksins í þessu efni. Sá flokkur fullyrðir einnig, að árangurinn af starfi hans verði „alþjóðlegt bræðralag". En hann *starfar* líka að því að gera verzlunina alþjóðlega og lætur alls ekki sitja við vitundina um það, að allar þjóðir verzli í sínu heimalandi.

Alþjóðleg starfsemi verkalýðsstéttarinnar er á engan hátt bundin við tilvist „Alþjóðlega verkamannasambandsins". Sambandið var aðeins fyrsta tilraunin til að skapa miðstöð fyrir þessa starfsemi. Sú tilraun hefur varanlegt gildi, vegna þess að hún kom skriði á málið, en eftir ósigur Parísarkommúnunnar var sambandið ekki lengur framkvæmanlegt *í sinni fyrstu mynd í veraldarsögunni.*

„Norddeutsche" hans Bismarcks hafði alveg rétt fyrir sér, þegar það lýsti ánægju meistara síns yfir því, að nú hefði þýzki verkamannaflokkurinn þvegið hendur sínar af alþjóðastefnunni í hinni nýju stefnuskrá.[1]

II

„Á þessum grundvelli vinnur þýzki verkamannaflokkurinn að því með öllum löglegum tækjum að koma á *frjálsu ríki – og –* sósíalísku þjóðfélagi. Hann vinnur að afnámi launafyrirkomulagsins *ásamt járnharða launalögmálinu* og arðránsins í allri mynd. Hann vinnur að því að útrýma öllum þjóðfélagslegum og pólitískum ójöfnuði".

Ég kem seinna að „frjálsa" ríkinu.

Samkvæmt þessu á þýzki verkalýðurinn að trúa á „járnharða launalögmálið" hans Lassalle frá þessari stundu! Til þess að það fari ekki milli mála, hafa höfundarnir gert sig seka í þeirri fásinnu að ræða um afnám „launafyrirkomulagsins" (á að vera launavinnufyrirkomulagsins) *ásamt* „járnharða launalögmálinu". Ef vér afnemum launavinnuna, afnemum vér einnig lögmál hennar og skiptir þá engu máli, hvort þau eru „járnhörð" eða dúnmjúk. En barátta Lassalle gegn launavinnunni snýst því nær eingöngu um þetta svokallaða lögmál. Til þess nú að sanna það, að söfnuður Lassalle hafi sigrað, verður að afnema „launafyrirkomulagið *ásamt* járnharða launalögmálinu" en ekki án þess.

Eins og kunnugt er, hefur Lassalle ekki fundið upp neitt, sem

sem stofnuð voru í Genf árið 1867. Undir forustu Marx og Engels tók I. Alþjóðasambandið upp baráttu gegn kjörorðum þessara samtaka, er voru til þess fallin að draga athygli verkalýðsins frá stéttabaráttunni. – *Útg.*

[1] Hér er átt við forustugrein, sem birtist í „Norddeutsche Allgemeine Zeitung" 20. marz 1875. – *Útg.*

snertir „járnharða launalögmálið“ nema orðið „járnhart“, sem tekið er að láni úr orðum Goethe: „eilífum, járnhörðum, miklum lögmálum“. Orðið „járnhart“ er kennimerki hinna rétttrúuðu, en þegar ég nú ræði um lögmálið með stimpli Lassalle og í merkingu hans, þá verð ég að ræða um rökstuðning hans. Hvernig er hann? Mannfjöldakenning Malthusar, eins og Lange sýndi fram á skömmu eftir lát Lassalle. (Lange boðaði sjálfur þessa kenningu). Ef nú þessi kenning er rétt, þá get ég ekki afnumið þetta lögmál, þótt ég afnemi launavinnuna hundrað sinnum, af þeirri ástæðu, að þá er það ekki einungis lögmál launavinnufyrirkomulagsins, heldur og *allra* þjóðskipulaga. Það er nú einmitt þessi röksemd, sem hagfræðingarnir hafa notað í meira en hálfa öld til þess að sanna það, að sósíalisminn sé þess ekki megnugur að útrýma fátæktinni, því að hún sé *náttúrulögmál.* Hann geti einungis *gert hana almenna,* jafnað henni samtímis niður á allt efra borð þjóðfélagsins!

Raunar er þetta ekki aðalatriðið. *Hvað sem líður* hinum *ranga* skilningi Lassalle á lögmálinu, þá er hér um að ræða í sannleika sagt ofboðslegt skref aftur á bak, sem felst í því, er nú skal greina:

Síðan Lassalle leið hefur rutt sér til rúms í flokki vorum sá vísindalegi skilningur á vinnulaununum, að þau séu ekki það, sem þau virðast vera, sem sé *verðmæti eða þá verð vinnunnar,* heldur eru þau aðeins *verðmæti* ellegar *verð vinnuaflsins* í dulargervi. Þar með var varpað fyrir borð öllum borgaralegum skilningi á vinnulaununum og sömuleiðis allri þeirri tegund af gagnrýni, sem hingað til hefur beinzt gegn honum, en sýnt og sannað, að daglaunamanninum er því aðeins leyft að vinna fyrir lífi sínu, þ. e. að *lifa,* að hann vinni um hríð ókeypis fyrir auðmanninn (og aðra þá, sem njóta verðmætisaukans með honum). Það var sýnt og sannað, að allt framleiðslukerfi auðvaldsins hefur það að markmiði að auka þessa ókeypisvinnu með lengingu vinnudagsins eða aukningu framleiðninnar, svo sem með því að gernýta vinnuaflið betur o. s. frv.; að launavinnufyrirkomulagið er þrældómsfyrirkomulag og að þrældómurinn harðnar að sama skapi sem þjóðfélagsleg framleiðsluöfl vinnunnar þróast, hvort heldur laun verkamanna hækka eða lækka. Þegar nú þessi vísindalegi skilningur var sem óðast að ryðja sér til rúms í flokki vorum, þá voru grafnir upp trúarlærdómar Lassalle, þótt það hefði átt að vera ljóst, að Lassalle *vissi ekki* hvað vinnulaunin eru, heldur ruglaði saman sýndinni og sjálfu eðli málsins eins og borgaralegu hagfræðingarnir.

Þessu má líkja við, að augu þræla hefðu um síðir lokizt upp fyrir leyndardómi þrældómsins, en þá kæmi einn úr þeirra hópi,

sem flæktur væri í úreltum hugmyndum, og ritaði á stefnuskrá uppreisnarinnar: Það verður að afnema þrældóminn fyrir þá sök, að þar sem þrælaskipulag ríkir, getur fóður þrælanna aldrei farið fram úr tilteknu hámarki!

Sú staðreynd ein út af fyrir sig, að fulltrúar flokks vors skyldu geta fengið sig til slíkra ódæma, slíks tilræðis við þann skilning, sem þegar hafði náð að festa rætur meðal fjöldans í flokki vorum, er næg sönnun þess, með hve glæpsamlegri léttúð og samvizkuleysi hefur verið unnið að samningu þessarar bræðingsstefnuskrár.

Í staðinn fyrir hið óákveðna vígorð í lok greinarinnar, „útrýming alls þjóðfélagslegs og pólitísks ójafnaðar", átti að segja: Með afnámi stéttamismunarins hverfur af sjálfu sér allur þjóðfélagslegur og pólitískur ójöfnuður, sem af honum leiðir.

## III

„Til þess að *ryðja braut úrlausn hins þjóðfélagslega vandamáls* krefst verkamannaflokkur Þýzkalands þess, að stofnuð verði sósíalísk framleiðslusamvinnufélög *með ríkisstyrk undir lýðræðislegu eftirliti hins vinnandi fólks.* Í iðnaði og landbúnaði *skal stofna* samvinnufélög í slíkum mæli, *að upp af þeim rísi hið sósíalíska skipulag allrar vinnu.*"

Næst á eftir „járnharða launalögmálinu" hans Lassalle kemur undralyf spámannsins. „Brautin er rudd" fyrir það, með þeim hætti, sem sómir því bezt. Í staðinn fyrir stéttabaráttuna, sem nú er háð, kemur blaðamannaglamur um „þjóðfélags*vandamálið*" og *„úrlausn"* þess, sem „rudd er braut". Í stað þess að vera árangur af umbyltingarframvindu þjóðfélagsins „rís" hið „sósíalíska skipulag allrar vinnu" upp og verður til með „ríkisstyrk", er ríkið veitir samvinnufélögum, *„stofnuðum"* af því sjálfu en ekki verkamönnum.

Vegna einhvers snefils af blygðunarsemi hefur „ríkisstyrkurinn" verið settur undir demókratískt eftirlit hins „vinnandi fólks".

Í fyrsta lagi er meirihluti „hins vinnandi fólks" í Þýzkalandi bændur en ekki öreigar.

Í öðru lagi þýðir „demókratískur" „lýðræðislegur" á voru máli. Hvað þýðir þá „lýðræðislegt eftirlit hins vinnandi fólks"? Og þá sér í lagi þegar um er að ræða vinnandi fólk, er með slíkum kröfum til ríkisins segir hug sinn allan um það, að hvorki fari það með völdin né heldur hafi það þroska til þess!

Í þessu sambandi er óþarft að gagnrýna lyfseðil þann, sem

Buchez ritaði á dögum Loðvíks Filippusar í *andstöðu* við frönsku sósíalistana og í samstöðu með afturhaldssömu verkamönnunum, sem fylktu sér um *„Atelier“*.[1] Það er heldur ekki ástæða til að hneykslast fyrst og fremst á því, að slík töframeðul skyldu vera tekin upp á stefnuskrána, heldur á hinu, að þegar á allt er litið, er stigið skref aftur á bak frá stéttarhreyfingu til klíkuhreyfingar.

Þegar verkamenn vinna að því að skapa skilyrði fyrir samvinnuframleiðslu í þjóðfélaginu og fyrst og fremst innan þjóðlegra takmarka síns lands, þá felst ekki í því annað en það, að þeir vinna að umbyltingu núverandi framleiðsluhátta og það á ekkert skylt við stofnun samvinnufélaga með ríkisstyrk. En að því er varðar samvinnufélög þau, sem nú starfa, þá hafa þau *því aðeins* gildi, að þau séu óháð verkamannasamtök, er þeir komi sér upp sjálfir, en standi hvorki undir verndarvæng ríkisstjórna né burgeisa.

## IV

Nú kem ég að lýðræðiskaflanum.

A. *„Frjálsræðisgrundvöllur ríkisins“*.

Samkvæmt öðrum kafla vinnur þýzki verkamannaflokkurinn að því, að koma á fót „frjálsu ríki“.

Frjálst ríki – hvað er það?

Það er alls ekki tilgangur verkamanna, sem hafa losað sig við hina takmörkuðu þegnvitund, að gera ríkið frjálst. Í Þýzkalandi er „ríkið“ næstum því eins „frjálst“ og í Rússlandi. Frelsið er í því fólgið, að breyta ríkinu, sem drottnar yfir þjóðfélaginu, í tæki, er eingöngu þjónar því, og einnig nú er ríkisskipunin því frjálsari sem „frelsi ríkisins“ er takmarkaðra.

Það er að minnsta kosti óhætt að segja, að ef þýzki verkamannaflokkurinn gerir þessa stefnuskrá að sinni, þá sýnir hann hve sósíalísku hugmyndirnar rista grunnt, þær eru aðeins á bláyfirborðinu. Í stað þess að fjalla um þjóðfélag nútímans sem *grundvöll* nútímaríkisins, fjallar stefnuskráin um ríkið sem sjálfstæða veru, er hefur sinn *„andlega, siðferðilega og frjálsræðislega grundvöll“*. Það sem hér hefur verið sagt um nútímaþjóðfélag og nútímaríki gildir einnig um sérhvert þjóðfélag og ríki í framtíðinni.

Þá kem ég að hinni taumlausu misnotkun stefnuskrárinnar á orðunum „ríki nútímans“ og „þjóðfélag nútímans“ og þeim mis-

---

[1] „Atelier“ var mánaðarrit, er út kom í París á árunum 1840–1850. Það fylgdi stefnu hins kaþólska sósíalisma, sem Buchez var fulltrúi fyrir. – *Útg.*

skilningi á ríkinu, sem hún beinir kröfum sínum til, en þá keyrir enn meir úr hófi!

„Þjóðfélag nútímans" er auðvaldsþjóðfélagið, sem ríkir í öllum menningarlöndum meira eða minna blandað miðaldaleifum, meira eða minna mótað af sögu hvers lands, lengra eða skemmra komið á þróunarbrautinni. Aftur á móti breytist „ríki nútímans" við hver landamæri. Það er öðruvísi í þýzk-prússneska ríkisumdæminu en í Sviss, öðruvísi í Englandi en í Bandaríkjunum. „Ríki nútímans" er því tilbúningur.

En þrátt fyrir alla fjölbreytnina að formi til hafa öll ríki menningarlandanna það sameiginlegt, að þau standa á grundvelli hins borgaralega þjóðfélags nútímans. Þau eru aðeins skemmra eða lengra komin á þróunarbraut auðvaldsins. Þau hafa því öll nokkur sameiginleg aðaleinkenni. Að þessu leyti er hægt að ræða um „ríkisskipan nútímans" gagnstætt ríkisskipan framtíðarinnar, sem rótum borgaralega þjóðfélagsins hefur verið kippt undan.

Þá er spurningin: Hverskonar umbylting verður í skipan ríkisins í kommúnísku þjóðfélagi? Með öðrum orðum: Hvaða verksvið þjóðfélagsins verða þar eftir skilin, er svara til hlutverks ríkisins nú? Þessari spurningu verður aðeins svarað með vísindalegri rannsókn og þótt maður tengi saman orðin þjóð og ríki þúsund sinnum, er maður ekki hænufeti nær úrlausninni.

Milli auðvaldsþjóðfélagsins og sameignarþjóðfélagsins er umbyltingartímabil er breytir hinu fyrrnefnda í hið síðarnefnda. Til þess svarar einnig stjórnarfarslegt umskiptatímabil, og þá getur ríkið ekki verið annað en *byltingarsinnað alræði öreiganna.*

En stefnuskráin ræðir hvorki um það né ríkisskipan sameignarþjóðfélagsins í framtíðinni.

Pólitísku kröfurnar eru ekkert annað en upptugga úr lýðræðisbænabókinni heimskunnu: almennur kosningarréttur, bein löggjöf, þjóðarréttur, þjóðvarnarlið o. s. frv. Ekkert annað en bergmál af borgaralega þjóðflokknum, Friðar- og frelsissambandinu. Að því leyti, sem þær fara ekki út í öfgar á flugi ímyndunaraflsins, eru þessar kröfur þegar *komnar í framkvæmd.* Ríkin, sem hafa framkvæmt þær, eru raunar ekki innan þýzku landamæranna heldur í Sviss og Bandaríkjunum og víðar. Þessi tegund „framtíðarríkis" er nútímaríki, þótt það sé utan þeirra mæra, sem þýzka ríkið „markast" af.

En eitt hefur gleymzt. Þýzki verkamannaflokkurinn lýsir yfir því skýrt og skorinort, að hann starfi innan takmarka „nútímaþjóðríkisins", þ. e. *síns* ríkis, þýzk-prússneska ríkisins, enda væri ekkert vit í flestum kröfunum annars, því að það er ekki hægt að krefjast annars en þess, sem maður hefur ekki. En þá hefðu þeir

ekki átt að gleyma höfuðatriðinu, að viðurkenning hins svokallaða þjóðarfullveldis er skilyrði allra þessara blessuðu fríðinda, svo að kröfurnar eiga aðeins heima í lýðræðislegu þjóðveldi.

Ekki hafa menn haft dirfsku til að bera fram kröfuna um lýðræðislegt þjóðveldi, eins og gert var í frönsku stefnuskránum á valdatímum Loðvíks Filippusar og Loðvíks Napóleons, og var raunar hyggilegt, því að ástandið er þannig að gæta verður allrar varúðar. En þá hefði ekki heldur átt að grípa til þeirrar brellu, sem hvorki var „heiðarleg"[1] né sæmileg, að krefjast þess, sem aðeins á heima í lýðræðislegu þjóðveldi, af ríki, sem ekki er annað en hervaldsstjórn undir lögregluvernd, uppdubbuð í þingræðisbúning, blönduð lénsveldisleifum, undir borgaralegum áhrifum, sem þegar eru farin að láta til sín taka, og klambrað saman með skriffinnsku. Og ekki bætir úr skák, þegar þar til kemur, að ríki þessu er gefið hátíðlegt fyrirheit um, að tilætlunin sé að þröngva því „með löglegum aðferðum" til alls þessa.

Jafnvel hin gagnrýnislausa lýðræðisstefna, sem álítur að með lýðræðislegu þjóðveldi sé þúsundáraríkið sett á stofn og grunar sízt, að einmitt í þessari síðustu ríkisskipan hins borgaralega þjóðfélags verður úrslitabaráttan milli stéttanna háð, – jafnvel hún er himinhátt hafin yfir þessa lýðræðistilburði innan takmarka þess, sem lögreglan leyfir en rökfræðin leyfir ekki.

Setningin: „Þýzki verkamannaflokkurinn krefst þess, að ríkið hvíli á þessum *efnahagslega grundvelli:* einum stighækkandi tekjuskatti o. s. frv." sannar, að með „ríki" er átt við stjórnarvélina eða það ríki, sem orðið er til fyrir verkaskiptingu í þjóðfélaginu og myndar sjálfstætt skipulagsform. Skattarnir geta ekki verið efnahagsgrundvöllur annars en stjórnarkerfisins. Í framtíðarríkinu, sem nú er veruleiki í Sviss, er þessi krafa framkvæmd að mestu. Forsenda tekjuskatts er þjóðfélagsleg stéttaskipting með mismunandi tekjulindum, með öðrum orðum auðvaldsþjóðfélagið. Það er því ofureðlilegt að fjármálaumbótamennirnir í Liverpool, burgeisar með bróður Gladstones í broddi fylkingar, krefjist hins sama og stefnuskráin.

B. „Þýzki verkamannaflokkurinn krefst þess, að andlegur og siðferðilegur grundvöllur ríkisins verði:

1. Almennt og *jafnt þjóðaruppeldi* af ríkisins hálfu. Almenn skólaskylda, ókeypis kennsla."

*Jafnt þjóðaruppeldi?* Hvaða ímyndun felst í þessum orðum? Ímynda þeir sér, að uppeldið geti verið *jafnt* fyrir allar stéttir í núverandi þjóðfélagi, og hér er aðeins um það að ræða? Eða

[1] Sósíaldemókratíski verkamannaflokkurinn undir forustu W. Liebknechts og A. Bebels (die „Eisenacher") var einnig nefndur „hinir heiðarlegu". – *Útg.*

krefjast þeir þess, að æðri stéttirnar verði neyddar til að láta sér nægja þá litlu uppfræðslu, sem fæst í barnaskólunum? En hagur daglaunamanna og raunar líka bænda er þannig, að um aðra menntun getur ekki verið að ræða handa þeim.

„Almenn skólaskylda, ókeypis kennsla". Hið fyrrnefnda er þegar í framkvæmd í Þýzkalandi, hið síðara í Sviss og Bandaríkjunum, að því er tekur til barnaskólanna. Í sumum ríkjum Bandaríkjanna er „ókeypis" kennsla við æðri menntastofnanir, sem þýðir að kostnaðurinn við menntun æðri stéttanna er greiddur af skattasúpu almennings. Meðal annarra orða: sama er að segja um „ókeypis lögfræðiþjónustu", sem minnzt er á í A 5. Lögfræðiþjónustu í málum, sem heyra undir hegningarlögin, er allsstaðar hægt að fá ókeypis. Borgaralegi rétturinn fjallar næstum því eingöngu um mál, er taka til árekstra vegna eigna og skiptir því aðra en eignastéttirnar litlu. Eiga eignamennirnir að standa í málaferlum á kostnað ríkissjóðs?

Í greininni um skólana hefði að minnsta kosti átt að krefjast þess, að komið yrði upp fræðilegum og hagnýtum tækniskólum í sambandi við barnaskólana.

Það nær engri átt að krefjast „þjóðaruppeldis af ríkisins hálfu". Það er allt annað, að í almennum lögum sé kveðið á um fjárveitingu til barnaskólanna, þekkingu kennaranna, námsgreinarnar o. s. frv., svo og að eftirlitsmenn ríkisins sjái um að fyrirmælum laganna sé fylgt, eins og gert er í Bandaríkjunum, og á þetta ekkert skylt við hitt, að útnefna ríkið sem uppeldisstofnun þjóðarinnar! Það ætti miklu fremur að útrýma öllum áhrifum jafnt stjórnar og kirkju á skólana. Á yfirráðasvæði þýzk-prússneska ríkisins bæri þvert á móti nauðsyn til að þjóðin notaði mjög ómjúkar uppeldisráðstafanir við ríkið. Það þýðir ekkert að fara undan í flæmingi með því að halda því fram, að hér sé átt við „framtíðarríkið". Vér höfum þegar tekið til athugunar hvernig því er háttað.

En þrátt fyrir lýðræðisglamrið er stefnuskráin gagnsýkt af þegnlegri trú Lassalle-safnaðarins á ríkið, eða kraftaverkatrú á lýðræðið, sem er engu betri, eða öllu heldur, hún er bræðingur þessara tveggja trúa á kraftaverk, sem hvortveggja er jafnóskild sósíalismanum.

„Frjáls vísindi". Svo hljóðar ein greinin í prússnesku stefnuskránni. Til hvers er það þá hér?

„Samvizkufrelsi"! Ef menn vildu minna frjálslyndu stefnuna á gömul kjörorð hennar nú á tímum menningarbaráttunnar,[1] var

[1] Sú „menningarbarátta", sem hér um ræðir, er barátta Bismarcks og lögregluofsóknir hans gegn kaþólskunni og kaþólska „Miðflokknum" á áttunda tug 19. aldar. – *Útg.*

aðeins hægt að gera það með orðalagi eitthvað á þessa leið: Hver og einn verður að geta sinnt trúarþörfum sínum jafnt sem líkamsþörfum án þess að snuðrandi lögregla skipti sér af því. En við þetta tækifæri hefði verkamannaflokkurinn þó átt að lýsa yfir því, að hann viti vel, að hið borgaralega „samvizkufrelsi" er ekki fólgið í öðru en því að umbera hverskonar *trúarlegt samvizkufrelsi* og að honum sé meira í mun að losa samvizku manna undan gjörningum trúarbragðanna. En þeim er umhugað um að fara aldrei út fyrir takmörk „borgaralegs" þroskastigs í hugsun.

Ég hef nú lokið máli mínu, því að síðasti liður stefnuskrárinnar er að engu leyti sérkennilegur fyrir hana. Ég get því verið mjög stuttorður um hann.

2. „*Hæfilegur almennur vinnudagur.*"

Í engu öðru landi hefur verkalýðsflokkur látið sér nægja svona óákveðna kröfu, heldur nefnt þann vinnutíma daglega, er honum þótti hæfilegur við hinar tilteknu aðstæður.

3. „Takmörkun á vinnu kvenna og bann við vinnu barna".

Takmörkun á daglegum vinnutíma hlaut einnig að ná til kvennavinnunnar, að því er varðar lengd vinnudagsins, vinnuhlé o. s. frv. Annars gat takmörkunin ekki þýtt annað en útrýmingu kvennavinnunnar úr þeim atvinnugreinum, sem eru sérstaklega skaðlegar fyrir heilbrigði kvenlegs líkama eða ósæmilegar fyrir konur. Ef átt var við þetta, þá þurfti að taka það fram.

„*Bann við vinnu barna*"*!* Hér þurfti skilyrðislaust að nefna lágmarksaldur.

*Almennt bann* við vinnu barna er ósamrýmanlegt stóriðnaðinum og er því ekki annað en marklaus, fróm ósk. Væri gerlegt að framkvæma slíkt bann, mundi það vera afturhaldsráðstöfun, því að sé vinnutíminn stranglega takmarkaður á ýmsu aldursskeiði og aðrar ráðstafanir gerðar til að vernda börnin, þá eru tengsl skapandi vinnu og fræðslu þegar á fyrstu stigum námsferilsins máttugasta aflið til að gerbreyta núríkjandi þjóðfélagi.

4. „Eftirlit ríkisins með verksmiðjum, vinnustofum og heimilisiðnaði".

Af þýzk-prússneska ríkinu var sjálfsagt að krefjast þess, að eftirlitsmönnum sé aðeins hægt að víkja frá með dómsúrskurði; að hver verkamaður geti kært þá fyrir dómstólunum, ef þeir bregðast skyldu sinni; að þeir séu úr læknastétt.

5. „Skipulagning fangelsisvinnunnar".

Smásmuguleg krafa í almennri verkamannastefnuskrá. Að minnsta kosti átti að taka það skýrt fram, að þess væri ekki óskað fyrir öfundar sakir við keppinauta, að farið væri með venjulega afbrotamenn eins og skynlausar skepnur, og sízt að

þeir væru sviptir eina betrunartækinu, hinni skapandi vinnu. Þetta var vissulega lágmark þess, sem vænta mátti af sósíalistum.

6. „Virk löggjöf um ábyrgðarskyldu."

Það þurfti að taka fram hvað átt væri við með „virkri" löggjöf um ábyrgðarskyldu.

Meðal annarra orða: Þegar rætt var um hæfilegan almennan vinnudag, hefur sá hluti verksmiðjulöggjafarinnar, sem fjallar um heilbrigðisráðstafanir, varnir gegn hættu o. s. frv., gleymzt. Lögin um ábyrgðarskyldu koma þá fyrst til framkvæmda, þegar þessi fyrirmæli eru brotin.

Dixi et salvavi animam meam.[1]

[1] Ég hef talað og frelsað sál mína. – *Útg.*

FRIEDRICH ENGELS

# Bréf til Bebels

London 18.–28. marz 1875

Ég hef fengið bréf yðar frá 23. febrúar og þykir mér vænt um að heyra að þér eruð við svo góða heilsu.

Þér spyrjið mig, hvernig okkur lítist á það, sem gerzt hefur í einingarmálunum. Því miður höfum við alveg sömu söguna að segja og þér. Hvorki Liebknecht né nokkur annar hefur skýrt okkur frá neinu og þessvegna vitum við ekki annað en það, sem stendur í blöðunum, og þar hefur ekki staðið orð, fyrr en stefnuskrárfrumvarpið kom fyrir um það bil viku. En vissulega þótti okkur það meira en litlli furðu sæta.

Flokkur okkar hefur svo oft rétt Lassallesinnum hönd til sátta eða að minnsta kosti boðið þeim bandalag og þeir Hasenclever, Hasselmann og Tölches hafa svo oft vísað tilboðum hans á bug með fyrirlitningu, að hvert barn hlaut að leiða af því þá ályktun, að þegar þessir herramenn koma nú og bjóða sættir, þá hljóti þeir að vera í afleitri klípu. Við þekkjum þessar manngerðir mætavel og með hliðsjón af því ber okkur skylda til að notfæra okkur þessa klípu til þess að setja skilyrði um hverskonar tryggingar, svo að þessu fólki takist ekki að styrkja aftur á kostnað okkar flokks sinn valta sess í almenningsáliti verkalýðsins. Það varð að taka þeim með miklum fáleikum og tortryggni, og afstaðan til sameiningarinnar varð að fara eftir því, hversu fúsir þeir væru til að láta sértrúarkjörorð sín og kröfuna um ríkisstyrk niður falla svo og til þess að viðurkenna Eisenachstefnuskrána frá 1869 í meginatriðum eða þá endurbætta útgáfu hennar í samræmi við nútímann. Í fræðilegum efnum, einmitt þeim, sem skipta mestu máli í stefnuskránni, gat flokkur okkar *alls ekkert lært* af Lassallesinnum, hinsvegar gátu þeir lært af honum. Fyrsta skilyrðið var, að þeir hættu að vera sértrúarflokkur, hættu að vera Lassallesinnar, þannig að framar öllu

létu þeir allra meina bót ríkisstyrksins annaðhvort niður falla eða þá að minnsta kosti viðurkenndu, að hann væri aðeins minniháttar ráðstöfun á umskiptatímum meðal margra annarra, er til greina gætu komið. Stefnuskrárfrumvarpið sýnir, að fræðilega höfðu okkar menn hundraðfalda yfirburði yfir Lassallesinna, en stóðu þeim jafnlangt að baki í pólitískri slægvizku. Hinir „heiðarlegu" létu hina óheiðarlegu leika grimmilega á sig.

Þá er fyrst til að taka, að tekið var gott og gilt hið hábelgingslega og sögulega ranga vígorð Lassalle, að andspænis verkalýðsstéttinni séu allar aðrar stéttir ein afturhaldsfylking. Þessi setning er aðeins rétt í ákveðnum undantekningartilvikum, til að mynda í öreigabyltingu eins og Kommúnunni eða í landi, þar sem burgeisastéttin hefur eigi aðeins mótað ríki og þjóðfélag í sinni mynd, heldur og hefur hin lýðræðislega smáborgarastétt þar á eftir framkvæmt þessa umsköpun út í yztu æsar. Ef það væri til dæmis rétt, að lýðræðissinnaðir smáborgarar í Þýzkalandi heyrðu til þessarar afturhaldsfylkingar, hvernig gat þá sósíaldemókratíski verkamannaflokkurinn tekið höndum saman við þá og Þjóðflokk þeirra árum saman? Hvernig stendur á því, að „Lýðríkið" skuli taka næstum allt stjórnmálaefni sitt úr lýðræðissinnaða smáborgarablaðinu „Frankfurter Zeitung"? Og hvernig má það vera, að upp í þessa sömu stefnuskrá skuli vera teknar hvorki meira né minna en sjö kröfur, sem eru beinlínis og orðrétt í fullu samræmi við stefnuskrá Þjóðflokksins og lýðræði smáborgaranna? Hér á ég við pólitísku kröfurnar sjö undir töluliðunum 1–5 og 1–2, en hver einasta þeirra er *borgaraleg* lýðræðiskrafa.[1]

Í öðru lagi er alþjóðaeðli verkalýðshreyfingarinnar nú á tímum í rauninni algerlega hafnað, þótt hér eigi hlut að máli menn, sem hafa haldið þessari meginreglu á loft með glæsibrag í fimm löng

[1] Þessar pólitísku kröfur frumvarpsins að Gothastefnuskránni hljóðuðu svo: „Þýzki verkamannaflokkurinn krefst þess, að ríkið hvíli á frjálsræðisgrundvelli, svo sem hér segir:

1. Almennur, jafn, beinn og leynilegur kosningarréttur allra karlmanna frá 21. aldursári við allar kosningar í ríki, bæjar- og sveitarfélögum.

2. Löggjafarvaldið ásamt tillögu- og höfnunarrétti sé beinlínis hjá þjóðinni.

3. Almenn varnarskylda. Þjóðvarðlið komi í stað fastahers. Fulltrúar þjóðarinnar taki ákvörðun um stríð og frið.

4. Afnám allra undantekningarlaga og fyrst og fremst þeirra, sem taka til prentfrelsis, félaga- og fundafrelsis.

5. Dómsvaldið sé hjá þjóðinni. Ókeypis lögfræðiþjónusta.

Þýzki verkamannaflokkurinn krefst þess, að andlegur og siðferðilegur grundvöllur ríkisins verði:

1. Almennt og jafnt þjóðaruppeldi af ríkisins hálfu. Almenn skólaskylda, ókeypis kennsla.

2. Frjáls vísindi. Samvizkufrelsi." – *Útg.*

ár við hinar erfiðustu aðstæður. Sú staðreynd, að þýzkir verkamenn skuli vera í fylkingarbrjósti í hreyfingu álfunnar, á *aðallega* rætur sínar að rekja til alþjóðlegrar afstöðu þeirra í stríðinu. Engin önnur verkalýðsstétt mundi hafa sýnt slíka háttprýði. Og nú eiga þeir að láta þessa meginreglu niður falla einmitt á sömu stundu, og erlendir verkamenn leggja allsstaðar áherzlu á hana að sama skapi, sem stjórnir landanna kappkosta að bæla niður hverja tilraun til að hrinda henni í framkvæmd með samtökum! Og hvað er þá orðið eftir af alþjóðahyggju verkalýðshreyfingarinnar? Óljós framtíðarvon, ekki einu sinni um samstarf evrópskra verkamanna í frelsisbaráttu þeirra síðar meir, heldur um „alþjóðlegt bræðralag þjóðanna“ í framtíðinni, um „Bandaríki Evrópu“, sem er stefnumál burgeisanna í Friðarsambandinu!

Það var auðvitað engin þörf á því að minnast á Alþjóðasambandið sjálft. En hið minnsta, sem hægt var að ætlast til, var þó hitt, að ekki yrði hörfað aftur á bak frá þeirri stöðu, er tekin var með stefnuskránni 1869 og sagt eitthvað á þessa leið: *Enda þótt* þýzki verkamannaflokkurinn starfi *fyrst og fremst* innan takmarka síns ríkis (hann hefur engan rétt til að tala í nafni evrópsks öreigalýðs og allra sízt að fara með rangt mál), þá er honum ljós samstaða hans með verkamönnum allra landa og hér eftir sem hingað til mun hann ætíð vera reiðubúinn til að gegna þeim skyldum, er sú samstaða leggur honum á herðar. Þesskonar skyldur eru í gildi jafnt fyrir það, þótt menn telji sig ekki hluta Alþjóðasambandsins eða lýsi yfir aðild sinni, til að mynda aðstoð í verkföllum og hindrun verkfallsbrota, umsjón með því, að flokksmálgögn þýzkra verkamanna láti þá fylgjast með hreyfingunni erlendis, áróður gegn styrjöldum, sem ríkisstjórnir ógna með eða hafa stofnað til, og framkoma í slíkum styrjöldum á borð við það fyrirmyndarfordæmi, er gefið var á árunum 1870 og 1871.

Í þriðja lagi hafa okkar menn látið Lassallesinna neyða upp á sig „járnharða launalögmálinu“, sem grundvallast á algerlega úreltri hagfræðikenningu, þeirri, að verkamenn fái að meðaltali í sinn hlut *lágmarks*vinnulaun, vegna þess að samkvæmt mannfjöldakenningu Malthusar eru verkamennirnir alltaf of margir. (Þetta var rökstuðningur Lassalle). Nú hefur Marx sýnt rækilega fram á í „Auðmagninu“, að lögmál þau, sem stjórna hreyfingu vinnulaunanna, eru mjög flókin, að allt eftir aðstæðum sé ýmist þetta eða hitt mestu ráðandi, svo að þau séu enganveginn járnhörð heldur þvert á móti mjög sveigjanleg, og að málinu verði alls ekki gerð full skil með nokkrum orðum, eins og Lassalle ímyndaði sér. Í kaflanum um „samsöfnun auðmagnsins“ hefur Marx afsannað rækilega rökstuðning Malthusar fyrir lögmáli því,

sem Lassalle skrifaði upp eftir honum og Ricardo (raunar falsaði hann orð hins síðarnefnda), til dæmis í þeirri mynd, er tekin er upp á 5. blaðsíðu „Verkamannalesbókarinnar" sem tilvitnun úr öðrum bæklingi Lassalle. Með því að taka „járnharða launalögmálið" hans Lassalle upp á arma sína, hafa menn því játast rangri kennisetningu og röngum rökstuðningi hennar.

Í fjórða lagi er *aðeins ein* krafa um *þjóðfélagsmál* borin fram í stefnuskránni, krafan um ríkisstyrkinn hans Lassalle, alveg umbúðalaust í þeirri mynd, sem Lassalle stal henni frá Buchez. Og þetta er gert eftir að Bracke hefur með mikilli prýði sýnt fram á fánýti þessarar kröfu og eftir að flestir ef ekki allir ræðumenn flokks okkar í baráttunni við Lassallesinna sáu sig knúða til að andmæla þessum „ríkisstyrk"! Ekki gat flokkur okkar auðmýkt sig öllu meira. Alþjóðahyggjan er komin niður á stig Amands Göggs[1] og sósíalisminn niður á stig borgaralega lýðveldissinnans Buchez, er bar þessa kröfu fram *í andstöðu við sósíalista* sem mótleik gegn þeim.

Er bezt lætur gæti „ríkisstyrkur" í skilningi Lassalle verið ein ráðstöfun af mörgum til þess að ná því marki, sem hér er lýst með máttlausu tungutaki á þessa leið: „til þess að ryðja braut úrlausn hins þjóðfélagslega vandamáls", rétt eins og vér ættum enn eftir eitt fræðilega *óleyst* þjóðfélagsvandamál! Svo ef vér segjum: Þýzki verkamannaflokkurinn vinnur að afnámi launavinnunnar og þar með stéttamismunarins með því að koma upp samvinnuframleiðslu í iðnaði og landbúnaði jafnframt því, sem hann berst fyrir hverri þeirri ráðstöfun, er miðar að því að ná þessu markmiði – þá getur enginn Lassallesinni haft nokkuð á móti því.

Í fimmta lagi er alls ekki minnzt á skipulagningu verkalýðsins sem stéttar með tilstyrk stéttarsamvinnufélaganna. Og þetta er mikilvægt atriði, því að þetta eru hin raunverulegu stéttarsamtök öreiganna, þar sem þeir heyja dægurbaráttuna við auðvaldið og þar sem þeir fá sína þjálfun. Og nú á tímum, eins og við sjáum í París þessa stundina, tekst hinu versta afturhaldi alls ekki lengur að koma þeim á kné. Vegna þess hve mikilvæg þessi samtök eru orðin, einnig í Þýzkalandi, var að okkar dómi skilyrðislaust nauðsynlegt að minnast þeirra í stefnuskránni og ætla þeim rúm í samtökum flokksins, þar sem þess er kostur.

Allt þetta hafa okkar menn gert Lassallesinnum til geðs. Og hvaða tilslakanir hafa hinir gert? Þær einar að stefnuskráin skartar með allruglingslegum *kröfum, sem eru eingöngu lýðræðislegar* og margar hverjar hrein tízkufyrirbæri, eins og til að mynda krafan um „löggjafarvald beinlínis hjá þjóðinni", sem á sér stað

[1] Hann var einn af forustumönnum Friðar- og frelsissambandsins. – *Útg.*

í Sviss og er fremur til ógagns en gagns, ef það er þá til nokkurs. Að þjóðin færi með umboðsstjórnina – það væri þó nokkuð. Sömuleiðis vantar fyrsta skilyrði alls frelsis, að allir embættismenn beri ábyrgð á öllum embættisverkum sínum gagnvart sérhverjum þjóðfélagsborgara fyrir venjulegum dómstólum og samkvæmt almennum rétti. Ekki skal ég hafa fleiri orð um það, að kröfur um hluti eins og frjáls vísindi og samvizkufrelsi prýða sérhverja frjálslynda borgarastefnuskrá og koma nokkuð ankannalega fyrir sjónir hér.

Frjálsa lýðríkinu hefur verið breytt í frjálst ríki. Frá málfræðilegu sjónarmiði er það ríki frjálst, sem er frjálst gagnvart þegnum sínum, það er harðstjórnarríki. Það hefði átt að sleppa öllu talinu um ríkið, einkum nú eftir Kommúnuna, sem ekki var lengur ríki í eiginlegri merkingu. Við höfum nú fengið okkur fullsadda á því, að láta anarkistana núa okkur „lýðríkinu" um nasir, enda þótt sagt hafi verið berum orðum fyrst í riti Marx gegn Proudhon[1] og síðar í Kommúnistaávarpinu, að með þjóðfélagsskipan sósíalismans muni ríkið leysast upp og hverfa úr sögunni af sjálfu sér. Þar sem ríkið er einungis bráðabirgðastofnun, sem beitt verður í baráttunni, í byltingunni, til þess að halda andstæðingunum í skefjum með valdi, þá er það hrein endileysa að tala um frjálst lýðríki. Meðan öreigarnir *þurfa á* ríkinu *að halda,* þurfa þeir þess ekki í þágu frelsisins, heldur til þess að halda andstæðingunum í skefjum og jafnskjótt og hægt er að tala um frelsi, hættir ríkið að vera til í þeirri veru, sem hér um ræðir. Við mundum því leggja til að láta orðið „samfélag" koma allsstaðar fyrir *ríki,* og er þetta gamalt og gott þýzkt orð, sem vel getur komið í stað franska orðsins „kommúna".

„Að útrýma öllum þjóðfélagslegum og pólitískum ójöfnuði" er líka mjög varhugavert orðatiltæki í staðinn fyrir að segja: „að útrýma öllum stéttamismun". Milli tveggja landa, tveggja héraða, jafnvel milli tveggja staða, verður alltaf *nokkur* ójöfnuður í lífsskilyrðum manna, sem unnt er að draga úr, svo að hann komist niður í ákveðið lágmark, en ekki útrýma með öllu. Alpafjallabúar munu ætíð búa við önnur lífsskilyrði en hinir, sem eiga heima á flatlendinu. Sú hugmynd, að sósíalískt þjóðfélag verði ríki *jafnaðarins,* er einhliða frönsk hugmynd tengd kjörorðinu gamla um „frelsi, jafnrétti og bræðralag". Þessi hugmynd átti rétt á sér sem *stig í þróuninni* á sínum stað og sínum tíma, en eins og allt, sem einhliða er í sósíalískum kenningum fyrri tíma, verður hún að þoka, því eftir að málinu hefur verið gerð nákvæmari skil, er hún ekki til annars en að valda ruglingi.

[1] Hér er átt við bókina „Eymd heimspekinnar". – *Útg.*

Ég læt hér staðar numið, enda þótt ástæða væri til að gagnrýna hvert orð í þessari stefnuskrá, sem rituð er í bragðdaufum og merglausum stíl. Hún er af þeirri gerð, að verði hún samþykkt, getum við Marx *aldrei* lýst fylgi okkar við þann *nýja* flokk, sem rís upp af þessum grunni, og verðum að íhuga vandlega hvaða afstöðu við eigum að taka til hans, einnig opinberlega. Hafið í huga, að erlendis erum við gerðir ábyrgir fyrir öllu, sem þýzki Sósíaldemókratíski verkamannaflokkurinn segir og gerir. Það gerir Bakúnín í riti sínu „Stjórnmál og stjórnleysi", þar sem við verðum að taka ábyrgð á hverju óyfirveguðu orði, sem Liebknecht hefur sagt og skrifað frá því að „Lýðræðislegt vikublað" hóf göngu sína.[1] Menn ímynda sér, að við gefum héðan fyrirskipanir um allt, sem gert er, en þér vitið eins vel og ég, að það hefur varla komið fyrir, að við skiptum okkur af innri málum flokksins og þá einvörðungu til þess að leiðrétta, svo sem kostur var, skyssur, sem að okkar áliti hafa verið gerðar, og hefur þá *eingöngu* verið um *fræðileg* víxlspor að ræða. En þér hljótið sjálfur að sjá, að þessi stefnuskrá markar straumhvörf, sem vel gæti neytt okkur til þess að neita að taka á okkur nokkra ábyrgð á þeim flokki, sem viðurkennir hana.

Yfirleitt skiptir opinber stefnuskrá flokks minna máli en athafnir hans. En *ný* stefnuskrá er þó ævinlega fáni, sem opinberlega er dreginn að hún og umheimurinn dæmir flokkinn samkvæmt því. Þessvegna mátti það ekki koma fyrir, að hún fæli í sér afturför borið saman við Eisenachstefnuskrána, eins og hér hefur gerzt. Líka varð að hafa í huga, hvað verkamenn annarra landa mundu segja um stefnuskrá þessa, hvaða áhrif það mundi hafa að sjá allan hinn sósíalíska öreigalýð Þýzkalands krjúpa þannig á kné fyrir stefnu Lassalle.

Auk þess er ég sannfærður um, að sameining á *þessum* grundvelli mun ekki endast árið út. Mestu gáfumenn flokks okkar ættu að láta hafa sig til að þylja utanaðlærðar setningar eftir Lassalle um járnhart launalögmál og ríkisstyrk? Mér er til dæmis sem ég sjái yður í því hlutverki! Og ef þið gerðuð það, mundu áheyrendur ykkar blístra, svo þið fengjuð ekki hljóð. Og ég er viss um að Lassallesinnar munu halda jafn fast við *þennan* hluta stefnuskrárinnar og Gyðingurinn Shylock við sitt kjötpund. Það mun koma til skilnaðar. En þá höfum vér gert þá Hasselmann, Hasenclever, Tölcke og kumpána „heiðarlega" að nýju. Frá skilnaðinum munum vér koma veikari og Lassallesinnar sterkari. Flokkur vor hefur glatað pólitískum hreinleika sínum og aldrei aftur mun hann geta risið heilshugar gegn þeim glamuryrðum

[1] „Demokratisches Wochenblatt" (Lýðræðislegt vikublað) kom út á árunum 1868–1869 og var Liebknecht ritstjóri þess. – *Útg.*

Lassallesinna, sem hann hefur sjálfur letrað á skjöld sinn um hríð. Þegar Lassallesinnar halda því fram á nýjan leik, að þeir séu hinn eini sanni verkalýðsflokkur og að vorir menn séu borgarar, þá hafa þeir stefnuskrána til þess að sanna mál sitt. Allar sósíalískar ráðstafanir, sem þar um ræðir, eru *þeirra* framlag og flokkur *vor* hefur engu við bætt nema lýðræðiskröfum smáborgara, sem í þessari sömu stefnuskrá og einnig með samþykki hans eru taldir hluti hinnar „afturhaldssömu fylkingar".

Þetta bréf hefur legið hjá mér, þar sem þér verðið ekki látinn laus fyrr en 1. apríl til heiðurs Bismarcks á afmælisdegi hans og ég vildi ekki eiga á hættu að það tækist að hremma það, ef ég reyndi að smygla því. Einmitt þá kom bréfið frá Bracke, sem líka hefur þungar áhyggjur vegna stefnuskrárinnar og vildi fá að heyra skoðun okkar. Ég sendi honum því bréfið til þess að koma því áleiðis, svo að hann geti lesið það og ég þurfi ekki að skrifa allt draslið upp aftur. Auk þess hef ég sagt Ramm[1] sannleikann berum orðum og umbúðalaust. Liebknecht skrifaði ég aðeins stutt bréf. Ég get ekki fyrirgefið honum að hann skyldi ekki skýra okkur *með einu orði* frá öllu þessu máli, fyrr en það var orðið um seinan, enda þótt Ramm og fleiri héldu að hann hefði gert okkur grein fyrir því. Þetta hefur raunar alltaf verið háttur hans og þar af koma öll hin óskemmtilegu bréfaviðskipti, sem við Marx höfum báðir haft við hann. En í þetta skipti var þó vissulega of langt gengið og það *kemur ekki til mála að við verðum með í þessum leik.*

Reynið að haga svo til, að þér komið hingað í sumar. Að sjálfsögðu búið þér hjá mér og ef gott verður veður, getum við stundað sjóböð nokkra daga. Þér munuð hafa verulega gott af því eftir hina löngu fangelsisvist.

Vinsamlegast
yðar
*F. E.*

[1] Hermann Ramm var einn af ritstjórum „Lýðríkisins". – *Þýð.*

FRIEDRICH ENGELS

# Bréf til Kautskys

London 23. febrúar 1891

Kæri Kautsky!

Þú munt hafa fengið hamingjuóskir mínar, sem ég sendi í skyndi í fyrradag. Og nú kem ég aftur að sama heygarðshorninu, bréfinu frá Marx.[1]

Óttinn við, að það yrði vopn í höndum andstæðinganna, var ástæðulaus. Illgirnislegar aðdróttanir eru að vísu bornar fram í sambandi við hvaðeina, en yfirleitt urðu áhrifin á andstæðingana þau, að þeir stóðu agndofa af undrun vegna hinnar hlífðarlausu gagnrýni og hlutu að finna til þess, hvílíkum innri styrk sá flokkur býr yfir, sem getur leyft sér slíka hluti. Þetta er auðséð á andstæðingablöðunum, sem þú hefur sent mér (kærar þakkir!) og öðrum, er ég hef séð. Og í hreinskilni sagt var þetta líka tilætlun mín, þegar ég birti málskjalið. Ég vissi, að í svipinn mundi það koma mjög óþægilega við menn á stöku stað, en hjá því varð ekki komizt og sjálft efnið gerði betur en vega það upp að minni hyggju. Ég vissi, að flokkurinn hafði öll beinin til að þola það og ég gerði ráð fyrir að einnig nú mundi hann þola þetta hispurslausa málfar, sem talað var fyrir 15 árum. Ég þóttist vita, að með réttmætu stolti mundi hann skírskota til þessarar þolraunar og segja sem svo: Hvar er sá flokkur, sem hefur þor til að gera slíkt hið sama? Raunar létu menn það koma í hlut „Verkamannablaðsins" (Arbeiter Zeitung) í Saxlandi, Vínarblaðsins með sama nafni og blaðsins „Züricher Post".[2]

Það er fallegt af þér að taka á þig ábyrgðina af birtingunni í 21. tölublaði „Nýs tíma", en gleymdu ekki, að ég átti þó frumkvæðið og auk þess kom ég þér í þann vanda, að þér var með

[1] Hér er átt við „Athugasemdir við Gothastefnuskrána", sem birtar voru í „Nýjum tíma" (Neue Zeit). – *Útg.*

[2] Tvö hin fyrrnefndu voru sósíaldemókratísk blöð, en hið þriðja borgaralegt. – *Útg.*

nokkrum hætti nauðugur einn kostur. Þessvegna geri ég kröfu til að bera sjálfur höfuðábyrgðina. Það getur alltaf verið skoðanamunur um einstök atriði. Ég hef fellt niður og breytt öllu, sem þið Dietz[1] fóruð fram á og ef Dietz hefði gert athugasemdir við fleira, hefði ég líka sýnt alla þá lipurð, sem kostur var, en það hef ég ævinlega gert, þegar þið eigið í hlut. En um aðalatriðið er það að segja, að það var *skylda mín* að birta þetta jafnskjótt og stefnuskráin kom til umræðu. Og nú eftir framsöguræðu Liebknechts í Halle, þar sem hann tekur upp útdrátt úr bréfinu og fer feimnislaust með sumt sem sína eign, en andæfir öðru án þess að nefna heimildina, mundi Marx áreiðanlega hafa teflt frumritinu fram gegn þessari úrvinnslu, og sjálfum bar mér skylda til að gera það í hans stað. Því miður hafði ég málskjalið ekki í höndum þá. Ég fann það ekki fyrr en löngu seinna eftir langa leit.

Þú segir, að Bebel skrifi þér, að meðferð Marx á Lassalle hafi vakið úlfúð meðal gamalla Lassallesinna. Það getur vel verið. Þetta fólk þekkir ekki söguna, eins og hún gerðist í raun og veru og það virðist ekkert hafa verið gert til þess að fræða það um hana. Það er ekki mín sök, ef þessir menn vita ekki, að Lassalle á allan veg sinn því að þakka, að árum saman lét Marx honum haldast uppi að skreyta sig með niðurstöðum rannsókna sinna, eins og þær væru hans eigið verk, og auk þess að rangfæra þær vegna hinnar lélegu undirstöðumenntunar hans í hagfræðilegum efnum. En ég á að sjá um bókmenntalega arfleifð Marx og í þeirri stöðu hef ég líka mínar skyldur.

Í tuttugu og sex ár hefur Lassalle átt heima á spjöldum sögunnar. Honum hefur verið hlíft við sögulegri gagnrýni meðan undantekningarlögin voru í gildi, svo að nú er loks tími til kominn, að hún láti til sín heyra og að afstaða Lassalle til Marx verði gerð lýðum ljós. Ekki er hægt að gera þjóðsöguna, sem sveipar hina sönnu mynd Lassalle í móðu og hefur hann til skýjanna, að trúarlærdómi flokksins. Hversu mjög sem maður dáir verðleika Lassalle fyrir hreyfinguna, verður sögulegt hlutverk hans í þessu efni ávallt tvíþætt. Lýðskrumarinn Lassalle fylgir sósíalistanum Lassalle eins og skugginn. Bak við áróðursmanninn og skipulagsleiðtogann Lassalle sér maður ávallt manninn, sem stjórnaði Hetzenfeldt-málaferlunum. Allsstaðar er sama ófyrirleitnin í vali baráttuaðferða og sama dálætið á því að hafa illa ræmt og siðspillt fólk í kring um sig, sem hægt er að nota sem verkfæri eða útskúfa eftir atvikum. Ég er nýbúinn að líta yfir bréf hans til Marx. Fram til ársins 1862 var hann gagnrýnis-

[1] H. W. Dietz var einn af forustumönnum hægri arms þýzkra sósíaldemókrata og eigandi sósíaldemókratísks útgáfufyrirtækis í Stuttgart. – *Útg.*

laus og alveg einstaklega prússneskur lýðræðissinni með sterkum bónapartískum tilhneigingum, en þá snerist hann skyndilega af algerlega persónulegum ástæðum og hóf áróður sinn. Áður en tvö ár voru liðin, krafðist hann þess, að verkamenn tækju málstað konungdæmisins gegn borgarastéttinni og bruggaði launráð með Bismarck, sem var skyld manngerð, en það hlaut að leiða til hreinna og beinna svika við hreyfinguna, ef hann hefði ekki verið svo lánsamur að vera skotinn í tæka tíð. Í áróðursritum hans er hið rétta, sem hann tók upp eftir Marx, svo vandlega fléttað saman við útskýringar hans sjálfs, sem venjulega eru rangar, að naumast verður greint á milli. Sá hópur verkamanna, sem telur sig móðgaðan vegna dóma Marx, þekkir ekkert til Lassalle nema þessi tvö áróðursár og þau sér hann einnig gegnum litað gler. En hin sögulega gagnrýni getur ekki staðið endalaust með hattinn í hendinni frammi fyrir slíkum hleypidómum. Það var skylda mín að láta loksins af því verða að gera upp sakirnar með þeim Marx og Lassalle. Nú hefur það verið gert. Ég get látið það nægja í svipinn. Sjálfur hef ég auk þess annað að sýsla nú sem stendur. Og hinn hlífðarlausi dómur Marx um Lassalle, sem nú hefur verið birtur, mun einn út af fyrir sig hafa sín áhrif og gefa öðrum kjark. En yrði ég til þess neyddur, ætti ég aðeins einn kost: Ég yrði að gera upp sakirnar við Lassalle-þjóðsöguna í eitt skipti fyrir öll.

Það er dálaglegt að heyra, að uppi skulu vera raddir í þingflokknum um það, að „Nýr tími" skuli settur undir ritskoðun. Er þetta afturgengið alræði þingflokksins, sem tekið var upp á dögum andsósíalistalaganna og var þá nauðsynlegt og framkvæmt með prýði? Eða eru þetta eftirhreytur hins stranga skipulags von Schweitzers,[1] sællar minningar? Þegar hin sósíalísku vísindi Þýzkalands hafa verið losuð undan sósíalistalögum Bismarcks, þá er það í sannleika sagt bráðsnjöll hugmynd, að koma þeim aftur undir ný sósíalistalög, sem flokksstofnanir sósíaldemókrata semja sjálfar og framkvæma. Raunar er svo fyrir öllu séð, að hvaðeina hefur sín takmörk.

Ég var næsta ósnortinn af greininni í „Vorwärts".[2] Ég ætla að bíða eftir frásögn Liebknechts og svara síðan í eins vingjarnlegum tón og mér er unnt. Í „Vorwärts"-greininni þarf að leiðrétta nokkur atriði, þar sem farið er með rangt mál, og stað-

[1] Johann Baptist von Schweitzer var ritstjóri blaðsins „Social-Demokrat", sem Lassallesinnar gáfu út og forseti stjórnmálasamtaka þeirra, „Almenna þýzka verkamannafélagsins", frá 1867. – *Útg.*

[2] Í ritstjórnargrein aðalmálgagnsins „Vorwärts" 13. febr. 1891 tók flokksstjórnin opinberlega afstöðu til „Athugasemda við Gothastefnuskrána". Gagnrýni Marx var harðlega fordæmd og flokknum talið til gildis að hafa samþykkt stefnuskrána, þrátt fyrir athugasemdir Marx. – *Útg.*

festa nokkra sjálfsagða hluti. (Til að mynda er það ranghermt, að við höfum verið andvígir einingunni, að atburðirnir hefðu sýnt, að Marx hefði rangt fyrir sér o. s. frv.) Með því svari hef ég hugsað mér að ljúka umræðunum af minni hálfu, nema nýjar árásir og rangar staðhæfingar neyði mig til að halda þeim áfram.

Segðu Dietz að ég sé að vinna að „Upprunanum“.[1] En í dag skrifar Fischer mér og vill líka fá þrjá nýja formála!

Þinn
*F. E.*

Þýðing þessi er gerð eftir óbreyttu handriti Marx, sem enn er til, eins og það er prentað á frummálinu í úrvalsritum Marx og Engels, er gefin voru út í Moskvu 1950. Engels birti „Athugasemdirnar“ gegn vilja flokksforustunnar í þýzka Sósíaldemókrataflokknum. Kautsky var þá ritstjóri tímaritsins „Neue Zeit“, þar sem „athugasemdirnar“ birtust, og gerði Engels það honum til geðs að draga nokkuð úr ummælum Marx og fella niður, þar sem hann er hvassyrtastur, eins og hann getur um í formála. Hér er frumtextinn því nokkuð frábrugðinn Engelsútgáfunni.

Þá er þess að geta, að í 13. árgangi Réttar árið 1928 birtist lausleg þýðing mín á „Athugasemdunum“. Hér hefur verið reynt að koma frumtextanum nokkru nákvæmar og betur til skila á íslenzku bæði málsfarslega og efnislega, svo að þýðingin hefur tekið allverulegum stakkaskiptum á köflum.

*Þýðandi.*

---

[1] Engels á við 4. útgáfu bókarinnar „Uppruni fjölskyldunnar, einkaeignarréttarins og ríkisins“. – *Útg.*

KARL MARX og FRIEDRICH ENGELS

# Bréf

## Marx til Ludwigs Kugelmanns

London, 23. febr. 1865.

Mér fannst bréf yðar, sem mér barst í gær, mjög athyglisvert. Mun ég nú leitast við að svara hinum ýmsu atriðum, sem þér drepið á.

Ég skal þá fyrst gera stuttlega grein fyrir afstöðu minni til Lassalles. Er Lassalle hóf stjórnmálaferil sinn, lauk samskiptum okkar af eftirfarandi ástæðum.

1) Vegna raups hans og sjálfhælni auk óforskammaðs ritstuldar úr verkum mínum og annarra.

2) Vegna þess að ég fordæmdi pólitísk vinnubrögð hans.

3) Vegna þess að ég útlistaði það fyrir honum og „sannaði", hér í London, áður en hann hóf stjórnmálaherferð sína, að bein sósíalísk afskipti „prússneska ríkisins" væri tómt þrugl. Í bréfum sem hann skrifaði mér á árunum 1848 til 1863, svo og á fundum vorum, tjáði hann sig ætíð styðja þann flokk, sem ég er fulltrúi fyrir. Þegar hann samt sá fram á það að geta ekki fengið sínu framgengt með mér, ákvað hann að hreykja sjálfum sér upp sem „einræðisherra verkamanna" gegn mér og gamla flokknum. Þrátt fyrir þetta viðurkenndi ég verðleika hans sem áróðursmanns, þótt mér hafi litizt sá áróður æ tvíeggjaðri er leið að lokum hins skamma ferils hans. Hið sviplega fráfall hans, forn vinátta, tárvot bréf hertogaynjunnar Hatzfeldt, og vanþóknun á ósvífilegum skrifum huglausra borgarablaða um mann, sem þau höfðu skolfið fyrir, er hann var á lífi, – allt þetta kom mér til að birta stutta yfirlýsingu, vegna greinar Blinds vesalingsins. Hér var þó ekki um að ræða raunverulegt mat á gerðum Lassalles. (Hatzfeldt sendi Nordstern[1] yfirlýsinguna). Af framangreindum ástæðum og í þeirri von að fjarlægja viss öfl, sem mér virtust hættuleg, lofuðum við Engels að skrifa í blaðið „Der

[1] Nordstern (Norðurstjarna): blað sem kom út vikulega í Hamborg á árunum 1860–66 og studdi Lassalle.

Social-Demokrat",[1] (það hefur birt þýðingu á „Stofnskránni"[2] og að beiðni þess skrifaði ég minningargrein um Proudhon, er hann lézt). Við leyfðum svo Schweitzer að birta nöfn okkar meðal stuðningsmanna, eftir að hann hafði sent okkur eintak af stefnuskrá ritnefndarinnar og okkur þótt hún viðhlítandi. Þar að auki var öryggi að vita af Liebknecht í Berlín, en hann var óopinberlega í ritnefndinni. Það kom samt fljótt í ljós, – sönnunargögn féllu okkur í hendur – að Lassalle hafði í raun og veru svikið flokkinn. Hann hafði beinlínis samið um það við Bismarck (auðvitað án þess að hafa nokkra tryggingu undir höndum) að hann færi til Hamborgar í lok september 1864. Þar átti hann (ásamt vitfirringnum Schramm og handbendi prússnesku lögreglunnar, Marr að nafni) að „neyða" Bismarck til að innlima Slésvík-Holstein. Þ. e. að lýsa yfir innlimun héraðanna í nafni „verkalýðsins", o. s. frv. Bismarck lofaði í staðinn að koma á almennum kosningarrétti og beita örfáum sósíalískum skottulækningum. Verst er, að Lassalle skyldi ekki fá að leika þennan leik til enda. Þá hefði hann gert sig að algeru athlægi. Og það hefði komið í veg fyrir allar frekari tilraunir í þessa átt.

Lassalle rataði á þessa glapstigu, vegna þess að hann var „Real-politiker"[3] líkt og herra Miquel,[4] aðeins miklu stórbrotnari og háleitari. (Úr því ég minnist á Miquel, er rétt að geta þess, að ég var fyrir löngu búinn að sjá nógu vel í gegnum hann til að skilgreina fyrir sjálfum mér, hversvegna honum tókst að trana sér fram á hinu pólitíska leiksviði. Þjóðernisfélagið[5] var lítilfenglegum, hannóverskum lögfræðingi ágætis átylla til að hefja upp raust sína utan eigin veggja og láta hana hljóma um allt Þýzkaland. Með því að leika hinn „hannóverska" Mirabeau undir „prússneskum" verndarvæng, tókst honum að slá um sig í heimalandi sínu, Hannóver, með hinni útblásnu mynd af sjálfum sér.) Rétt eins og Miquel og núverandi vinir hans notfærðu sér hinn „nýja tíma", sem ríkisstjórnin boðaði, til að ganga í Þjóðernisfélagið og festa sig við „prússneska toppinn", eða ræktuðu yfirleitt „borgarstolt" sitt undir handarjaðri Prússa, þannig langaði Lassalle að leika af hálfu öreiganna hertogann af

---

[1] Social-Demokrat: Gefið út í Berlín frá árslokum 1864 af Lassallistanum Jóhann Baptist von Schweitzer. – *Útg.*

[2] Inauguraladresse: stofnskrá eða lög Alþjóðasambands verkamanna, er var stofnað 28. september 1864.

[3] „Raunsær" stjórnmálamaður.

[4] Johannes Miquel var prússneskur bankahöldur og síðar fjármálaráðherra. Var á yngri árum þátttakandi í Kommúnistabandalaginu.

[5] Nationalverein: flokkur þýzkra broddborgara, stofnaður haustið 1859 og stefndi að sameiningu allra þýzkra ríkja utan Austurríkis undir handleiðslu Prússa og studdi því Bismarck að málum. – *Útg.*

Posa við Filippus annan af Uckermark, með Bismarck í hlutverki milligöngumanns. Hann var aðeins að líkja eftir herramönnunum í Þjóðernisfélaginu. Munurinn var að þeir hétu á prússneskt afturhald í þágu millistéttanna, en hann tók höndum saman við Bismarck í nafni öreiganna. Herramennirnir í Þjóðernisfélaginu höfðu meiri afsökun en Lassalle, því borgaranum er tamt að meta þann ávinning „raunverulegan", sem nefi er næstur. Í reynd hefur hann slakað til við alla, jafnvel lénsherrana. Verkalýðsstéttin verður aftur á móti, eðli sínu samkvæmt, að vera einlæg í byltingarhyggju sinni.

Stórvirki í þágu öreiganna framið af Ferdinand Lassalle, þetta var vissulega freistandi hugsun fyrir jafn hégómlega veru og Lassalle. (Honum varð samt ekki mútað með tildri eins og embættisveitingu, borgarstjórn, eða því um líku). Í rauninni var hann of illa að sér um hin raunverulegu efnahagslögmál, samfara slíkum verknaði, að hann gæti verið sjálfum sér samkvæmur. Á hinn bóginn var þýzkur verkalýður það djúpt sokkinn vegna hinnar fyrirlitlegu hentistefnu, sem hafði fengið þýzku borgarastéttina til að leyfa öfugþróunina 1849–50 og horfa afskiptalaus á sljóvgun almúgans, að hann fagnaði auðvitað skottufrelsara, sem hét honum fyrirheitna landinu í einu stökki.

Jæja, svo að ég komi mér nú aftur að efninu. Ekki hafði Sócíaldemókratinn fyrr hafið göngu sína en augljóst varð að hverju stefndi. Hatzfeldt gamla ætlaði að framfylgja erfðaskrá Lassalles. Hún hélt uppi sambandi við Bismarck með aðstoð Wageners (hjá blaðinu Kreuzzeitung). Hún hét Bismarck fulltingi flokksins, blaðsins, o. s. frv. Það átti að kunngera innlimun Slésvík-Holsteins í Sócíaldemókratanum, og yfirleitt að líta á Bismarck sem velgerðarmann, o. s. frv. Þessi dálaglega ráðagerð fór út um þúfur, vegna þess að Liebknecht hélt til í Berlín og var í ritnefnd blaðsins. Við Engels vorum að vísu síður en svo ánægðir með ritnefndina, sem hélt uppi væminni dýrkun á Lassalle og daðraði af og til við Bismarck. Við töldum það samt þýðingarmeira að styðja blaðið, eins og sakir stóðu, og koma þar með í veg fyrir ráðagerð Hatzfeldt og algjöra tilslökun flokksins. Það var því „bonne mine a mauvais jeu" (skásti kosturinn) sem við tókum, þó við værum alltaf að skrifa ritnefndinni persónulega um nauðsyn þess að Sócíaldemókratinn spornaði gegn Bismarck engu síður en Frjálslynda flokknum. Við létum það meira að segja viðgangast, að Berndhard Becker, þessi tilgerðarlegi spjátrungur sem tekur mjög hátíðlega það hlutverk sem erfðaskrá Lassalles ann honum, bruggaði Alþjóðasambandi Verkamanna launráð.

Með tímanum urðu greinar Schweitzers í Sócíaldemókratanum

æ Bismarcksinnaðri. Ég hafði áður skrifað honum og haldið því fram að kleift væri að hræða framfarasinnana í sambandi við félagsheimildarmálið,[1] en prússneska stjórnin myndi aldrei undir nokkrum kringumstæðum fallast á að afnema algjörlega lögin um takmörkun félagsmyndana, þar eð slíkt myndi brjóta skarð í embættisvald ríkisins, gera verkamenn mynduga, grafa undan vinnuhjúareglugerðinni, afnema hýðingarvald aðalsins í sveitum landsins. Þetta myndi Bismarck aldrei fallast á, enda algjörlega ósamræmanlegt hinu prússneska embættismannaríki. Ég bætti því við, að felldi þingið félagsheimildalögin úr gildi, myndi stjórnin grípa til undanbragða til að viðhalda þeim. Hún myndi bera því við að félagsmálin þörfnuðust „róttækari“ aðgerða, o. s. frv. Allt þetta varð að veruleika. Og hvað gerði herra Schweitzer? Hann skrifaði grein fyrir Bismarck og réðst digurbarkalega á jafn „infiniment petits“[2] og Schulze, Taucher og aðra.

Ég álít að ásetningur Schweitzers og félaga hans sé góður. Gallinn er að þeir eru „raunsæismenn“. Þeir vilja taka tillit til ríkjandi aðstæðna og fallast ekki á að leyfa herra Miquel og hans líkum einum að njóta góðs af hentistefnu. (Þeir síðarnefndu þykjast hafa einkarétt á að blanda geði við prússnesku stjórnina.) Þeir vita að málgögn verkamanna og samtök þeirra í Prússlandi (og þar af leiðandi annars staðar í Þýzkalandi) eiga tilveru sína undir náð lögreglunnar, svo þeir vilja taka aðstæðurnar eins og þær eru, og gera ekkert til að hrella stjórnina; rétt eins og raunsæismenn „lýðveldissinnanna“ okkar, sem eru reiðubúnir að „sætta sig við“ Hohenzollern keisara. En þar sem ég er ekki „raunsæismaður“ höfum við Engels tekið þann kost að slíta öll tengsl okkar við Sócíaldemókratann, og höfum við gefið út yfirlýsingu þar að lútandi; (sem þér munuð sennilega geta lesið bráðlega í einhverju blaðanna).

Þér munuð jafnframt skilja, hversvegna ég get engu til leiðar komið í Prússlandi eins og er. Stjórnin hefur þverneitað að leyfa mér að snúa aftur til landsins sem prússneskum ríkisborgara. Ég myndi eingöngu fá að segja og skrifa það, sem herra Bismarck legði blessun sína yfir.

Ég kýs miklu fremur að starfa hér á vegum Alþjóðasambandsins. Áhrif þess á brezka öreiga eru bein og mjög mikilvæg. Við höfum komið á stað miklu róti vegna kröfunnar um almennan kosningarrétt, sem hefur hér auðvitað allt aðra þýðingu en í Prússlandi.

Þegar á allt er litið, hefur þetta „Samband“ staðið sig vonum framar, þ. e. hér, í París, Belgíu, Sviss og á Ítalíu. En í

[1] Koalitionsfrage.
[2] Óttaleg smámenni.

Þýzkalandi er sá hængur á, að við eigum í erjum við arftaka Lassalles, sem 1) eru fáránlega hræddir um að verða settir skör lægra og 2) vita að ég er algjörlega andvígur því, sem Þjóðverjar nefna „Realpolitik". (Það er þessi „raunveruleiki", sem veldur því hvað Þjóðverjar standa öllum siðmenntuðum þjóðum langt að baki.)

Hver sá er borgar einn skilding fyrir skírteini er fullgildur félagi í Sambandinu. Frakkar kusu þennan máta (sömuleiðis Belgar), vegna þess að landslög heimila þeim ekki að sameinast okkur sem „samtök". Þessu er mjög líkt varið í Þýzkalandi. Ég hef því ákveðið að biðja vini mína hér og í Þýzkalandi að mynda litlar deildir, hvar sem þeir eru búsettir – tala félaganna skiptir ekki máli – og láta hvern félaga kaupa sér enskt skírteini. Enska félagið er opinbert, þar af leiðandi er ekkert þessu til fyrirstöðu, jafnvel ekki í Frakklandi. Mér þætti vænt um, ef þér og þeir, sem fylgja yður að málum, hefðuð samband við London á þennan hátt.

## Marx til Ludwigs Kugelmanns

London, 9. okt. 1866

... Ég var ákaflega kvíðinn vegna fyrsta þingsins í Genf.[1] En það fór nú samt betur en ég bjóst við. Ítök okkar í Frakklandi, Englandi og Ameríku fóru fram úr öllum vonum. Ég gat ekki og vildi ekki fara sjálfur en ég skrifaði samt stefnuskrá fyrir ensku sendinefndina. Ég setti viljandi aðeins fram þau mál, sem hægt er að samþykkja umsvifalaust og allir verkamenn geta sameinazt um, jafnframt því sem þau styrkja og herða stéttarbaráttuna og skipulagningu verkamanna í stétt. Sendinefndin frá París hafði ekkert annað upp á að bjóða en innantómt hjal Proudhonista. Þeir babla um vísindi og vita ekkert. Þeir forsmá alla byltingarstarfsemi, þ. e. aðgerðir sem sprottnar eru af stéttarbaráttunni sjálfri, allar hnitmiðaðar, félagslegar hreyfingar, framkvæmanlegar einnig með pólitískri baráttu (t. d. lögboðin stytting vinnutímans). Þessir herramenn, sem í 16 ár hafa látið sér lynda hið ömurlegasta einræði og gera það enn, koma nú í nafni frelsis, stjórnarandstöðu og einstaklingshyggju, og boða í raun og veru ósköp venjulega borgaralega hagfræði, utan hvað hún er klædd hugsjónahjúpi Proudhons. Proudhon hefur haft mjög slæm áhrif. Uppgerðargagnrýni hans og barátta gegn

[1] Þingi 1. Alþjóðasambands verkamanna (Genf 3.–8. sept. 1866) lauk með algerum ósigri Proudhonista. Þingið samþykkti reglugerð þá fyrir sambandið, er Marx gerði uppkast að.

draumóramönnum (sjálfur er hann bara smáborgaralegur draumóramaður, en í draumórum manna eins og Fourier, Owen o. s. frv. er að finna hugboð um nýjan heim og hugmyndaríka túlkun á honum) laðaði fyrst stúdentana, „jeunesse brilliante", og spillti þeim. Verkamennirnir fylgdu í kjölfarið, sér í lagi í París, þar sem þeir vinna í munaðariðngreinum og eru mjög bundnir gamla hyskinu óafvitandi. Fáfróðir, hégómalegir, hrokafullir, símasandi og ofsalega þóttafullir voru þeir næstum því búnir að eyðileggja allt saman, því að fjöldi þeirra, sem kom á þingið, var í engu samræmi við félagafjölda þeirra. Ég mun ekki láta hjá líða að taka þá í karphúsið þegar ég skrifa skýrsluna.

Þing amerísku verkamannanna, sem var haldið í Baltimore á sama tíma, veitti mér mikla ánægju. Kjörorðið þar var skipulag baráttunnar gegn auðvaldinu, og þótt einkennilegt megi virðast þá báru þeir eins og af eðlishvöt fram flestar þær kröfur, sem ég hafði dregið upp fyrir þingið í Genf.

Umbótahreyfingin[1] hér, sem miðstjórnin hleypti af stað (quorum magna pars fui),[2] er nú orðin að ómótstæðilegri öldu. Ég hef haldið mig bak við tjöldin allan tímann, og skipti mér ekkert frekar af málinu, nú þegar það er komið af stað.

## Marx til Engels

Kæri Fred! London, 5. marz 1869

Meðlagt skjal barst mér í gær (þó það sé dagsett 27. febrúar)[3] Þú verður að senda mér það aftur um leið og þú ert búinn að lesa það, því að ég verð að leggja það fyrir stjórnina á þriðjudaginn kemur. Herramennirnir í „bandalaginu"[4] hafa þurft langan tíma til að koma þessu verki saman. Í reynd hefðum við heldur kosið, að þeir héldu sjálfir hinum „ótöldu liðsveitum" sínum í Frakklandi, Spáni og Ítalíu.

Bakúnín hugsar, ef við samþykkjum hina „róttæku stefnuskrá" hans, þá getum við blásið hana út og gert okkur samábyrga, þó ekki sé nema í litlum mæli. Ef við höfnum henni, þá verðum við úthrópaðir sem andbyltingarsinnar. Þar við bætist að ef við hleypum þessum herramönnum inn, þá mun hann sjá til þess að koma með alls kyns hyski sér til aðstoðar á þingið í Basel. Ég held við svörum á þessa leið:

1 Reform Movement: Þessi hreyfing barðist fyrir almennum kosningarrétti og leiddi til útvíkkunar hans 1867.
2 sem ég átti drjúgan þátt í.
3 Bréf miðstjórnar Bakúnista-samtakanna.
4 Átt er við Alliance de le Democratie Socialiste.

Samkvæmt 1. grein laganna er sérhverju verkalýðsfélagi, sem stefnir að sama markmiði þ. e. a. s. varðveitingu, viðgangi og fullu frelsi verkalýðsstéttarinnar heimil aðild. Þar eð þróunarstig hinna mismunandi iðngreina í hverju landi og verkalýðsins í hinum ýmsu löndum hljóta að vera mjög ólík, hlýtur hreyfingin að tjá sig á mjög ólíkan hátt fræðilega. Samræming aðgerða, sem Alþjóðasambandið kæmi til leiðar, skoðanaskipti hinna ýmsu málgagna eininganna í öllum löndum, og svo að lokum hinar beinu umræður á sameiginlegum þingum, munu smám saman skapa verkalýðshreyfingunni í heild sameiginlega fræðilega stefnuskrá.

Hvað varðar stefnuskrá „Bandalagsins", þá þurfi sambandsstjórnin ekki að leggja hana undir neitt próf. Stjórnin þurfi ekki að rannsaka, hvort stefnuskráin sé fullnægjandi vísindaleg tjáning verkalýðshreyfingarinnar. Hún þurfi aðeins að meta, hvort grunntónn hennar samræmist grunntóni Alþjóðasambands Verkamanna: hinni algjöru frelsun verkalýðsstéttarinnar.

Aðeins ein setning í stefnuskránni kynni að vera fölsk, grein 2: „elle veut avant tout l'égalisation politique, économique et sociale des classes".[1] Orðrétt túlkað sé „l'égalisation des classes" ekkert annað en „Harmonie du capital et du travail"[2] umskrifað, en það var það sem borgara-sósíalistarnir boðuðu. Það sé ekki hin rökfræðilega ógerlega „égalisation des classes"[3] heldur hið sögulega nauðsynlega „abolition des classes"[4] sem sé lokatakmark Alþjóðasambandsins. En það sé samt einsýnt af samhenginu, sem þessi lína er slitin úr, að hér er aðeins um pennaglöp að ræða. Sambandsstjórnin myndi verða algjörlega sannfærð, ef hægt væri að fá þessa línu, sem gæti valdið misskilningi, strikaða burt.

Að því undanskildu, þá sé það í samræmi við grundvallarreglur Alþjóðasambandsins að eftirláta hverri deild ábyrgð á stefnuskrá sinni. Það sé þess vegna ekkert því til fyrirstöðu að breyta deildum „Bandalagsins" í deildir Alþjóðasambandsins. Um leið og slíkt hefur gerzt, beri reglum samkvæmt að senda sambandsstjórninni skrá yfir yfirfærðar deildir um land, aðsetursstað og fjölda félagsmanna.

Þetta síðasta – liðskönnunin – mun nefnilega falla þessum herramönnum sérstaklega vel í geð. Skrifaðu mér um það, sem þú villt láta breyta í þessum drögum að svari, um leið og þú endursendir þetta bréf.

---

[1] Pólitískt, efnahagslegt og félagslegt jafnrétti stéttanna.
[2] Samræmi auðmagns og vinnu.
[3] Jafnrétti stéttanna.
[4] Afnám stéttanna.

## Marx til Bolte

London, 23. nóv. 1871

... *Alþjóðasambandið* var stofnað til að koma á fót raunverulegum baráttusamtökum verkalýðsstéttarinnar í stað sósíalískra eða hálfsósíalískra sértrúarhópa (sekta). Þetta sést á augabragði af upphaflegu stofnlögunum og ávarpinu. En Alþjóðasambandið hefði ekki orðið til, nema af því að rás sögunnar hafði þegar molað sértrúarhópana. Þróun sósíalískra sértrúarhópa og þróun raunverulegrar verkalýðshreyfingar stangast einatt á. Sértrúarhóparnir eru aðeins (sögulega) réttlætanlegir, meðan verkalýðstéttin er ekki þroskuð fyrir sjálfstæða sögulega hreyfingu. Um leið og hún hefur náð þessum þroska verða allir sértrúarhópar í raun og veru afturhaldssamir. Engu að síður hefur þetta almenna fyrirbrigði sögunnar endurtekið sig innan Alþjóðasambandsins. Það úrelta reynir að fóta sig við nýjar aðstæður og halda velli.

Saga Alþjóðasambandsins er *samfelld barátta miðráðsins* gegn sértrúarhópum og öðrum viðvaningum, sem reyna að halda velli innan sambandsins gegn raunverulegum baráttusamtökum verkalýðsstéttarinnar.

Proudhonistar (samhjálparmenn[1]) voru meðstofnendur Alþjóðasambandsins í París og höfðu taumhaldið fyrstu árin. Síðan komu auðvitað til sögunnar í andstöðu við þá kollektívistar, pósitívistar o. s. frv.

Í Þýzkalandi er það Lassalle-klíkan. Ég stóð í bréfaskriftum í tvö ár við þann endemis Schweitzer og sannaði honum óhrekjanlega, að félagssamtök Lassalles væru ekkert nema sértrúarhópur og því fjandsamlegur samtökum *raunverulegrar* verkalýðshreyfingar, sem Alþjóðasambandið berðist fyrir. Hann hafði sínar „ástæður“ til að skilja þetta ekki.

Í árslok 1868 gekk Rússinn Bakúnín í Alþjóðasambandið í því augnamiði að stofna innan þess *annað alþjóðasamband*, sem átti að heita *„Bandalag lýðræðissinnaðra sósílista“, með hann sjálfan sem leiðtoga.* Bakúnín – sem var gersneyddur allri fræðilegri þekkingu – ætlaði sér í þessum félagsskap að gerast fulltrúi *vísindalegs* áróðurs Alþjóðasambandsins og gera hann að sérgrein þessa *annars alþjóðasambands innan Alþjóðasambandsins.*

Stefnuskrá hans er yfirborðslega samansópað musl frá hægri og vinstri – *STÉTTAJAFNRÆÐI* (!), *afnám erfðaréttar* eiga að vera *frumatriði* sósíalískrar hreyfingar (Saint-Simonista blaður), *guðleysi* á að fyrirskipa öllum félögum sem trúaratriði o. s. frv.

[1] Samhjálparmenn: „Mutualistar“, en svo kölluðu Proudhonistar sig, af því að þeir settu efst á blað það sem þeir kölluðu „gagnkvæma hjálp“.

og aðalkreddan (proudhonista), *að halda sig utan stjórnmálabaráttunnar.*

Þetta barnagaman fékk áheyrendur (og hefur enn að vissu marki) á Ítalíu og Spáni, þar sem raunveruleg verkalýðshreyfing er mjög skammt á veg komin; svo og hjá nokkrum innantómum og framagjörnum kreddupokum í Sviss (franska hlutanum) og Belgíu. ...

... Stjórnmálabarátta verkalýðsstéttarinnar hefur að sjálfsögðu það lokatakmark, að ná pólitíska valdinu í hendur stéttarinnar. Til þess er auðvitað nauðsynlegt að undangengin samtök stéttarinnar, sem byggjast á hagsmunabaráttunni, hafi náð þroska að vissu marki. En í allri þeirri baráttu verkalýðsstéttarinnar, þar sem hún kemur fram *sem stétt* gegn ríkjandi stéttum og reynir að beita valdi með þrýstingi utanfrá, er þessi barátta pólitísk. Tökum dæmi. Tilraunir í einni verksmiðju eða innan ákveðinnar iðngreinar með verkföllum o. s. frv. til að þvinga atvinnurekendur til viðurkenningar á styttri vinnudegi er hrein hagsmunabarátta. Aftur á móti er barátta í því augnamiði að fá *lögfestan* átta stunda vinnudag *pólitísk barátta.* Það er einmitt á þennan hátt, sem *stjórnmálabarátta* verkalýðsins rís allsstaðar af hagsmunabaráttunni; þ. e. a. s. baráttu stéttarinnar fyrir hagsmunum hennar almennt og beiting þjóðfélagslegra þvingunarráðstafana til að fá þeim framgengt. Ef slík barátta hefur að forsendu ákveðið stig félagssamtaka er hún jafnframt tæki til að þroska þessi samtök.

Þar sem verkalýðsstéttin er enn ekki nógu langt á veg komin til að hefja lokaorustuna við sameinaða valdið, þ. e. a. s. hið pólitíska vald ríkjandi stétta, verður um fram allt að þjálfa hana til þess með stöðugum áróðri og andstöðu við pólitík ríkjandi stétta. Að öðrum kosti verður hún leiksoppur í þeirra hendi, svo sem septemberbyltingin í Frakklandi sýndi, og einnig er sannað að vissu marki af þeim leik, sem Gladstone & Co hafa í frammi á Englandi jafnvel fram að þessu. ...

## Engels til Theodors Cuno

London, 24. jan. 1872.

... Bakúnín, sem allt fram til ársins 1868 hafði verið með sífelldan undirróður gegn Alþjóðasambandinu, gekk í það, eftir að hafa beðið mikið afhroð á Friðarþinginu í Bern,[1] og byrj-

[1] Hér er átt við þing borgaralegra samtaka er nefndust League of Peace and Freedom og Bakúnin starfaði í fram til ársins 1868.

aði strax að brugga sambandsstjórninni launráð innan frá. Bakúnín heldur fram sérkennilegri kenningu, sem er sambland af Proudhonisma og kommúnisma. Kjarninn í skoðunum hans er sá, að hann lítur ekki á stéttamótsetninguna milli kapítalista og launþega sem aðal þjóðfélagsmeinið, – mein sem er bein afleiðing þjóðfélagsþróunarinnar, heldur er ríkisvaldið það, sem uppræta þarf. Allur þorri sósíaldemókratískra verkamanna aðhyllast þá skoðun okkar, að ríkisvaldið sé eingöngu tæki, sem ráðastéttirnar, landeigendur og kapítalistar, hafa skipulagt til að varðveita yfirráð sín. Bakúnín telur hinsvegar, að ríkið hafi skapað auðmagnið, sem kapítalistinn ráði yfir fyrir náð ríkisins. Þar sem ríkið sé aðalmeinsemdin, verði fyrst og fremst að afnema ríkið og auðvaldskerfið muni hrynja af sjálfu sér. Við segjum aftur á móti: Afnemið auðvaldið, þ. e. takið framleiðslutækin úr höndum fámenns hóps og ríkisvaldið mun falla af sjálfu sér. Þetta er grundvallarmunur. Án undanfarandi þjóðfélagsbyltingar er afnám ríkisins tóm firra. Afnám auðvaldsins er einmitt þjóðfélagsleg bylting og felur í sér algjöra breytingu á framleiðsluháttum. En í augum Bakúníns er ríkið aðalmeinið og ekkert má gera er gæti lengt líf þess. Skiptir þá engu máli hverskonar ríki það er, hvort það er lýðveldi, konungsríki eða eitthvað annað. Þar af leiðir að ekki má taka þátt í stjórnmálabaráttu af neinu tagi. Það væru hrein svik að gera nokkurn hlut stjórnmálalegs eðlis, og sér í lagi að taka þátt í kosningum. Þess í stað á að halda uppi áróðri, úthúða ríkinu og skipuleggja verkalýðinn. Þegar búið verður að sannfæra *alla* verkamenn, þ. e. meirihluta þjóðarinnar, á að setja alla yfirboðara af, afnema ríkið og endurskipuleggja þjóðfélagið á grundvelli Alþjóðasambandsins. Þetta stórvirki, sem er upphaf þúsund ára ríkisins, nefna Bakúnistar upprætingu þjóðfélagsins.

Þetta hljómar allt mjög róttækt í eyrum fólks, og er svo einfalt, að hægt er að læra það utanbókar á fimm mínútum. Þess vegna er það, að kenning Bakúníns hefur átt auðvelt uppdráttar á Ítalíu og Spáni meðal ungra lögfræðinga, lækna og annarra bókstafstrúarmanna. En allur þorri verkamanna mun aldrei fást til að trúa því, að opinber málefni séu þeim óviðkomandi. Þeir eru pólitískir í eðli sínu, og hver sá, sem reynir að telja þeim trú um, að þeim beri að láta stjórnmál afskiptalaus verður sjálfur látinn eiga sig. Að halda því að verkamönnum, að þeir eigi undir öllum kringumstæðum að sitja hjá í stjórnmálum, er að reka þá í faðminn á prestum og borgaralegum lýðræðissinnum.

Bakúnín heldur því einnig fram að Alþjóðasambandið hafi ekki verið myndað til íhlutunar í stjórnmálum, heldur til að leysa ríkisvaldið af hólmi strax og þjóðfélagið hefur verið upprætt.

Þess vegna verði skipulag þess að nálgast hið fullkomna þjóðfélag framtíðarinnar eða þá mynd sem Bakúnín gerir sér af því. Í þessu þjóðfélagi verður um fram allt ekkert vald, því að vald jafngildir ríki og ríki jafngildir algjöru meini. (Þessir ágætu menn taka auðvitað ekki fram, hvernig þeir ætla að reka verksmiðjur, stýra járnbrautum eða stjórna skipum án einhvers úrslitavalds, án óskiptrar stjórnar.) Vald meirihluta yfir minnihluta á líka að afnema. Sérhver einstaklingur, sérhvert samfélag er sjálfráða. En Bakúnín segir okkur ekki, hvernig samfélag, þó ekki sé nema tveggja einstaklinga, er framkvæmanlegt, án þess að hvor um sig fórni einhverju af sjálfsforræði sínu.

Og það verður líka að byggja upp Alþjóðasambandið eftir þessari fyrirmynd. Sérhver deild er sjálfráð og innan hverrar deildar sérhver einstaklingur. Til fjandans með ákvarðanir Basel-þingsins, sem veita sambandsstjórninni svo stórhættulegt vald að það gæti spillt sjálfu sér. Þótt þetta vald sé veitt af frjálsum vilja, verður að afnema það, einfaldlega vegna þess að það er vald.

Þetta eru í stuttu máli helztu atriði þessarar blekkingar. En hverjir börðust mest fyrir þessum ákvörðunum? Nú, hverjir aðrir en herra Bakúnín og félagar hans.

Þegar þessir herramenn sáu fram á að þeim myndi ekki takast að fá aðsetur stjórnarinnar flutt til Genfar, þ. e. í eigin hendur, gripu þeir til annarra bragða. Þeir stofnuðu „Alliance de la Democratie Sociale“ eða alþjóðlegt samband innan ramma stóra Alþjóðasambandsins, undir því yfirskini, eins og þér getið lesið í málgögnum Bakúnista á Ítalíu, „Proletario“ eða „Gazz(ettino) Rosa,“ að hinum blóðheitu latnesku þjóðum henti róttækari stefnuskrá en hinum köldu hæggerðu Norðurálfubúum. Þessi dálaglega ráðagerð mistókst vegna andstöðu sambandsstjórnarinnar, sem gat auðvitað ekki þolað annan alþjóðlegan félagsskap innan vébanda Alþjóðasambandsins. En Bakúnín og félagar hans eru samt ekki af baki dottnir og hafa reynt ýmislegt í laumi til að fá stefnuskrá sína samþykkta í stað stefnuskrár Alþjóðasambandsins. Á hinn bóginn hafa afturhaldsöflin allt frá Jules Favre og Bismarck til Mazziniz alltaf beint spjótum sínum að bjálfalegu skrumi Bakúnista, þegar þeir hafa ráðizt á samtök okkar. Þess vegna varð ég að gefa út yfirlýsingu 5. des. gegn Mazzini og Bakúnín, sem einnig birtist í Gazzettino Rosa.

Kjarninn af fylgi Bakúníns eru nokkrir tugir áhangenda í Júraölpunum, sem hafa á bak við sig tæplega 200 verkamenn. Í fremstu víglínu standa lögfræðingar, læknar og blaðamenn á Ítalíu, sem koma hvarvetna fram sem talsmenn ítalskra verkamanna. Það eru nokkrir af sama sauðarhúsi í Barcelona og Mad-

rid, í Lyons eða Brüssel, en þeir eru sjaldnast verkamenn. Hér er aðeins einn áhangandi þeirra, Robin að nafni.

Ráðstefnan, sem boðuð var í stað þings er ekki var unnt að halda vegna utanaðkomandi ástæðna, var átylla, sem þeir notuðu til að skera upp herör gegn sambandsstjórninni. Flestir af frönsku útlögunum í Sviss snerust á sveif með Bakúnistum, bæði af persónulegum ástæðum og svo fundu þeir sem Proudhonistar marga sama sinnis meðal Bakúnista. Óánægju minnihluta og óþekktra snillinga má auðvitað finna alls staðar í Alþjóðasambandinu og það var ekki að ástæðulausu að Bakúnistar byggðu traust sitt á þeim.

Nú sem stendur er þetta styrkleiki þeirra.

1. Bakúnín sjálfur – Napóleon þessarar herferðar.

2. 200 manns í Júraölpunum og 40–50 úr frönsku deildinni (í Genf).

3. Í Brüssel eiga þeir Hins, ritstjóra „Liberti", sem hefur samt ekki tekið opinbera afstöðu með þeim.

4. Hér styðja hann leifar frönsku deildarinnar frá 1871, sem við höfum aldrei viðurkennt og er þegar klofnuð í þrjá hópa, sem eiga í stöðugum deilum sín á milli. Auk þess má nefna um það bil 20 Lassallista, af sömu gerð og herra von Schweitzer, sem allir höfðu verið reknir úr þýzku deildinni (vegna tillögu þeirra að deildin gengi sem heild úr Alþjóðasambandinu). Þessir öfgafullu áhangendur miðstjórnarvalds og strangrar stjórnar falla alveg í kramið hjá stjórnleysingjum og sjálfforræðismönnum.

5. Á Spáni á Bakúnín fáeina persónulega vini og fylgjendur, sem hafa haft mikil áhrif á verkalýðinn, að minnsta kosti fræðilega séð, einkum í Barcelona. Spánverjar hafa samt mikla skipulagshæfileika og eru fljótir að koma auga á skipulagsveilur annarra. Að hvað miklu leyti Bakúnín getur vænzt árangurs þar verður því ekki ráðið fyrr en á þingi spönsku deildarinnar í apríl. Verkamenn verða þar í meirihluta, svo ég tel enga þörf á að vera svartsýnn.

6. Að lokum hafa Túrin, Bologne og Girgenti deildirnar á Ítalíu, að því er ég bezt veit, stutt tillöguna um að halda ráðstefnu fyrr en ætlað er.

Málgögn Bakúnista halda því fram að 20 ítalskar deildir hafi gerzt aðilar að Alþjóðasambandinu. Ég þekki ekkert til þeirra. Eitt er víst að forusta þeirra er svo að segja undantekningarlaust í höndum vina fylgismanna Bakúníns, sem eru mjög hávaðasamir. Nánari rannsókn mun sennilega leiða í ljós, að þeir hafa ekki mikið fylgi, því langflestir verkamenn á Ítalíu fylgja Mazzini, þegar til kastanna kemur, og munu gera það, meðan Alþjóðasambandið er bendlað við fráhvarf frá stjórnmálum.

Hvað sem því líður ráða Bakúnistar núna mestu í Alþjóðasambandinu á Ítalíu. Sambandsstjórnin ætlar ekki að kvarta undan því. Ítalir hafa rétt til að fremja allar þær firrur sem þá langar til og stjórnin mun aðeins hamla gegn þeim á friðsamlegan hátt. Þeir hafa líka fullan rétt til að lýsa yfir stuðningi við tillögu að flýta ráðstefnunni. Það verður samt að teljast afar undarlegt að deildir, sem eru nýgengnar í samtökin, skuli strax taka afstöðu í þessu máli, áður en þær hafa hlýtt á báða aðila að deilunni, því að ekki hefur verið hægt að senda þeim nein gögn. Ég hef sagt Túrindeildinni í ómyrku máli frá hinu sanna í þessari deilu og mun senda öðrum deildum, er hafa gefið út svipaðar yfirlýsingar, samskonar bréf. Hver slík yfirlýsing tekur í og með undir hinar fölsku ásakanir og lygar sem beint er að sambandsstjórninni í „Zirkular".[1] Í því sambandi er rétt að geta þess, að stjórnin mun bráðlega senda öllum deildum bréf viðvíkjandi þessu máli. Það eina, sem við myndum vilja biðja þig að gera, er að reyna að koma í veg fyrir þesshéttar yfirlýsingu frá Mílandeildinni þangað til bréfið berst henni.

Broslegast er að þessir sömu Túrinbúar og lýstu yfir stuðningi við Júrabúana og þar með saka okkur um valdníðslu, heimta nú allt í einu að við beitum enn meira valdi gegn Verkamannasambandinu,[2] keppinaut þeirra í Túrin en við höfum nokkurn tíma gert okkur seka um áður. Þeir vilja að við bannfærum Beghalli í blaðinu „Ficcanaso", sem er ekki einu sinni í Alþjóðasambandinu, og það, áður en við höfum hlýtt á mál Verkamannasambandsins.

Síðastliðinn mánudag sendi ég yður eintak af „Revolution Sociale" sem hefur að geyma bréf Júrabúanna, eitt hefti af „Egalite" frá Genf, (því miður á ég ekkert eftir af heftinu með svari „Comité Fédéral" í Genf, en hún er málsvari 20 sinnum fleiri verkamanna en Júrafólkið). Einnig fylgir eintak af „Volksstaat", til að sýna hvað Þjóðverjum finnst um þetta mál. Saxlenzki sambandsfundurinn – 120 fulltrúar frá 60 héruðum – lýsti einróma stuðningi við stjórn Alþjóðasambandsins. Á þingi belgísku deildarinnar (25.–26. des.) var krafizt endurskoðunar á lögum, en ekki fyrr en á lögboðnu þingi (í september). Við fáum daglega stuðningsyfirlýsingar frá Frakklandi, og hér í Englandi er auðvitað enginn jarðvegur fyrir þetta ráðabrugg. Stjórnin hefur síður en svo í hyggju að boða sérstakt aukaþing til þess að þóknast fáeinum uppivöðslusömum undirróðursmönnum.

Meðan þessir herramenn fara að öllu lögum samkvæmt mun

[1] Zirkular: Bréf sem Júradeildin sendi öllum hinum deildum Alþjóðasambandsins.

[2] Federazione Operaia.

stjórnin ekki amast neitt við starfsemi þeirra, enda mun svona sundurleit samsteypa fljótlega leysast upp aftur. Brjóti þeir hinsvegar í bága við reglugerðaratriði eða þingssamþykktir mun stjórnin umsvifalaust gera skyldu sína.

Ef þér hugleiðið þá staðreynd, að fólk þetta gerir samsæri á nákvæmlega sama tíma og verið er að skera upp herör tortryggni og haturs gegn Alþjóðasambandinu, hlýtur sú hugsun að hvarfla að yður að alþjóðlegir útsendarar hafi hönd í bagga. Það er líka hárrétt. Bakúnistar í Genf hafa valið Beziers, lögreglufulltrúa, sem bréfritara sinn. Tveir af höfuðpaurum Bakúnista, Albert Richard frá Lyons og Leblanc, voru hér á ferð og tjáðu verkamanni einum frá Lyons, Scholl að nafni, sem þeir sneru sér til, að eina leiðin til að steypa Thiers væri að koma Bónaparte aftur til valda. Sögðust þeir ferðast um á reikning Bónapartes til að halda uppi áróðri meðal flóttamanna fyrir endurreisn Bónapartes. Þetta er það, sem þessir herramenn kalla að skipta sér ekki af stjórnmálum. Blaðið „Neuer Social-Demokrat", sem þiggur styrk frá Bismarck, dansar á sömu línu. Ég læt það liggja milli hluta í bili, að hvað miklu leyti prússneska lögreglan er með í spilinu, en Bakúnín var mjög bendlaður við Nechayer málið. (Hann neitar því auðvitað, en við höfum rússnesku skýrslurnar undir höndum, og hann getur ekki villt um fyrir okkur, því bæði ég og Marx getum lesið rússnesku.) Nechajev er annaðhvort rússneskur flugumaður eða hagaði sér eins og hann væri það. Þar að auki á Bakúnín vingott við ýmsa grunsamlega Rússa.

Mér þykir ákaflega leitt að þér skylduð hafa verið sviptir stöðunni. Ég var búinn að skrifa yður sérstaklega að varast hvaðeina er gæti leitt til þess. Dvöl yðar í Mílan væri Alþjóðasambandinu miklu meira virði en þau takmörkuðu áhrif sem það hefur að koma fram opinberlega. Mörgu verður áorkað svo lítið ber á. Geti ég orðið að einhverju liði með því að útvega yður þýðingar eða annað þess háttar, er mér það mjög kært. Fræðið mig einungis um úr hvaða málum eða á hvaða mál þér getið þýtt og hvernig ég get aðstoðað yður.

Svo að lögreglusvínin hafa líka stolið myndinni, sem ég póstlagði. Ég sendi yður þá hérmeð aðra og ætla að biðja yður að senda mér tvær af yður. Önnur á að þjóna þeim tilgangi að fá ungfrú Marx til að gefa yður mynd af föður sínum (hún er sú eina, sem enn á nokkrar góðar eftir).

Ég ætla líka að biðja yður að vera á verði gagnvart öllum þeim sem viðriðnir eru Bakúnín. Allar klíkur eru í eðli sínu mjög samheldnar og fláráðar. Þér getið verið þess fullviss að hver sú upplýsing, sem þér veitið þeim, berst Bakúnín strax til eyrna. Eitt af grundvallarsjónarmiðum hans er, að efndir lof-

orða og því um líkt sé einvörðungu borgaralegir hleypidómar, sem allir sannir byltingarsinnar verði að fyrirlíta til framdráttar málefnum sínum. Í Rússlandi heldur hann þessu opinberlega fram, en í Vestur-Evrópu fer hann enn leynt með þessi fræði.

Skrifið mér sem fyrst. Ef vér getum komið í veg fyrir að Mílandeildin gangi til liðs við hinar ítölsku deildirnar væri það ákaflega gott.

Með bróðurlegri kveðju
yðar
F. Engels.

## Engels til Bebels

London, 28. okt. 1882

Ég las seinni greinina all losaralega, meðan tveir eða þrír voru að tala saman. Annars hefði ég kannast við frönsku áhrifin og þar með líka minn V(ollmar), af því hvernig hann gerir sér byltinguna í hugarlund. Þú hefur alveg skilið þessa hlið rétt. Þetta er hin umdreymda uppfylling kennisetningarinnar að öll afturhaldsöfl tilheyri sama pottinum. Öllum löglegum flokkum dembt í einn bing hér og sósíalistum í breiðfylkingu þar; stór úrslitaorusta, sigur á allri víglínunni í einu höggi. En svo einfaldir eru hlutirnir ekki í raunveruleikanum. Þar er þessu öfugt farið, eins og þú tekur fram. Bylting hefst með því að mikil meiri hluti þjóðarinnar og þar með taldir hinir löglegu flokkar safnast saman gegn stjórn, sem þannig er einangruð og bylta henni. Fyrst þegar hinir löglegu flokkar, sem kynnu að vera eftir, hafa leystst upp hver á fætur öðrum vegna deilna innan flokksins eða milli flokka, kemur hin mikla skipting V(ollmars) til sögunnar og þar með möguleikar á valdatöku. Ef við færum að ráði V(ollmars) og hæfum byltinguna á öfugum enda, myndi okkur ganga hörmulega ...

Í Frakklandi hefur sá klofningur orðið sem lengi var búizt við. Hin upprunalega samvinna milli Guesde og Lafarque annars vegar og Malon og Brousse hins vegar var óhjákvæmileg við stofnun flokksins, en Marx fór ekki í neinar grafgötur með það, að það stæði ekki lengi. Ágreiningsefnið er hreint grundvallaratriði. Á baráttan að vera stéttarbarátta öreiganna við borgarana eða á að fylgja hentistefnu (possibilisma, eins og það heitir í „sósíalískri“ þýðingu) og fella niður stéttarímynd hreyfingarinnar og stefnuskrá hennar svo fremi búast megi við fleiri atkvæðum, fleiri fylgjendum. Malon og Brousse voru fylgjandi því síðar-

nefnda og þar með var fórnað stéttarímynd hreyfingarinnar og klofningurinn gerður óhjákvæmilegur. Látum það gott heita. Öreigarnir þróast hvarvetna ásamt innbyrðis þrætum og Frakkland, sem nú er að byggja upp sinn fyrsta verkalýðsflokk, er engin undantekning. Í Þýzkalandi höfum við að baki okkar fyrsta áfanga innbyrðis deilna en aðrir eru framundan. Eining er ágæt, svo lengi hún varir, en til eru hlutir, sem hærra ber að meta. Og þegar fólk eins og Marx og ég höfum allt okkar líf átt í meiri erjum við fólk, sem þóttist vera sósíalistar, en nokkra aðra (því að við tókum borgarana bara sem stétt og höfum varla nokkurn tíma leyft okkur að eiga í höggi við einstaka borgara), þá er varla hægt að láta það á sig fá að hin óhjákvæmilega barátta hefur hafizt.

Ég vona að þú fáir þetta bréf áður en þú ferð í svartholið. Marx og Tussy biðja kærlega að heilsa. Marx er við fulla heilsu og fái hann ekki aftur brjósthimnubólgu, verður hann frískari næsta haust en hann hefur verið um árabil. Ef þú rekst á Liebknecht í „búrinu", eins og þeir kalla það í Bern, þá heilsaðu honum frá okkur öllum.

Þinn F. E.

## Engels til I. Sassúlitsj

Kæri borgari. London, 23. apríl 1885

Enn hef ég ekki svarað bréfi yðar frá 14. febrúar. Hér eru ástæðurnar, en þær eiga örugglega ekki rætur sínar að rekja til leti.

Þér báðuð mig að segja yður álit mitt á bók Plechanovs „Deilumál okkar".[1]

Til þess þyrfti ég að hafa lesið bókina. Og ég get lesið rússnesku án mikils erfiðis, ef ég fæst við það svo sem í viku tíma. En það líður oft langur tími milli þess sem ég kem því við og þá fer ég úr æfingu og neyðist til þess að læra hana að nokkru leyti að nýju. Þannig var því farið með „Deilumálin". Allur dagurinn fer í það að lesa handrit Marx fyrir ritara; á kvöldin kemur fólk og ekki er hægt að henda því einfaldlega á dyr. Svo þarf ég að lesa prófarkir, standa í miklum bréfaskriftum og að lokum bíða þýðingar á ítölsku, dönsku o. s. frv. á „Upprunanum", og fleira sem fólk biður mig að lesa yfir. Sá lestur er hvorki óþarfur né léttur. Allar þessar tafir hafa hindr-

[1] Nasjí rasnoglassija.

að mig í að komast nema aftur á bls. 60 í „Deilumálunum". Ef ég hefði þremur dögum á að skipa, myndi þetta lagast og þar að auki hefði ég þá dustað rykið af rússneskukunnáttu minni. Reyndar held ég, að það litla, sem ég hefi lesið af bókinni, nægi til að sýna mér sæmilega ágreininginn, sem hún fjallar um.

Fyrst verð ég að endurtaka það, að ég er stoltur af þeirri vitneskju, að rússneskt æskufólk hefur myndað flokk, sem opinberlega og umsvifalaust hefur gert hinar miklu hagfræði- og sagnfræði-kenningar Marx að sínum; flokk, sem algjörlega hefur hafnað öllum hefðum stjórnleysingja og *slava-vina,* sem fyrirrennarar þeirra höfðu skapað. Og Marx sjálfur hefði orðið alveg eins stoltur, ef hann hefði lifað eitthvað svolítið lengur. Þetta er framför, sem hafa mun mikla þýðingu fyrir byltingarþróun Rússlands. Að mínu viti er söguskoðun Marx grundvallarskilyrði hverrar samfelldrar og samkvæmrar byltingaraðferðar. Til þess að finna þá aðferð þarf aðeins að beita kenningunni á efnahagslegar og pólitískar aðstæður viðkomandi lands.

En til þess þarf að þekkja þessar aðstæður, og hvað mér viðvíkur, þá er ég ekki nógu kunnugur núverandi aðstæðum í Rússlandi til að teljast fær um að dæma þær aðferðir í smáatriðum, sem nauðsynlegt er að grípa til í það og það skiptið. Auk þess er mér svo að segja alls ókunn hin innri og leynilega saga rússneska byltingarflokksins, sér í lagi saga síðustu ára. Vinir mínir meðal Narodowolsanna[1] hafa aldrei talað um hana við mig. Og til þess að draga ályktun, er slíkt ómissandi.

Það sem ég veit eða tel mig vita um ástandið í Rússlandi, rennir stoðum undir þann grun minn, að það sé að nálgast sitt 1789. Byltingin hlýtur að brjótast út fyrr eða síðar; hún getur gerzt hvenær sem er. Undir þessum kringum stæðum er landið eins og sprengja, sem aðeins þarf að tendra. Einkum eftir 13. marz.[2] Þetta er ein af undantekningunum, þegar smáum hópi er kleift að gera byltingu, þ. e. a. s. kollvarpa með smá-olnbogaskoti kerfi, sem er orðið meir en lítið óstöðugt (svo ég noti líkingu Plechanovs), og með aðgerð, sem í sjálfu sér er ekki afdrifarík, að leysa úr læðingi þá krafta sem ekki verða tamdir. Nú, ef Blanquismi – sá hugarburður að kollvarpa heilu þjóðfélagi með tilstilli lítils hóps samsærismanna – hefur nokkurn tíma átt tilverurétt, þá hlýtur það að vera í Pétursborg. Þegar kveikt hefur verið í púðrinu, jötunninn leystur og orku þjóðarinnar breytt úr mögulegri í hreyfanlega (enn ein af eftirlætismyndum Plechanovs og mjög góð) þá munu þeir, sem sprengjuna tendruðu, verða sjálfir fyrir henni; hún er miklu öflugri en þeir

[1] Þjóðfrelsishreyfing Rússa.
[2] Alexander II var ráðinn af dögum 1. (13.) marz 1881.

sjálfir og leitar sér útrásar hvar sem hún getur eftir því sem efnahagsöfl og annað viðnám leyfir.

Segjum sem svo, að þetta fólk telji sér trú um að það geti náð völdum. Hvað sakar það? Ef það aðeins borar gatið, sem rýfur stífluna, mun beljandinn fljótlega upplýsa það betur. En ef draumórarnir af tilviljun léðu því yfirburða viljastyrk, hví skyldu menn þá ergja sig? Þeir sem hafa hrósað sér af byltingu, hafa alltaf hingað til séð, þegar rofaði til, að þeir vissu ekki hvað þeir gerðu, að hin orðna bylting leit allt öðru vísi út en sú sem þeir höfðu ætlað sér að gera. Hegel kallar þetta kaldhæðni sögunnar, kaldhæðni, sem flestar sögupersónur verða fyrir barðinu á. Tökum bara Bismarck sem dæmi, byltingarmann gegn vilja sínum, – eða Gladstone, sem að lokum hefur komizt í kast við sinn tilbeðna keisara.

Skoðun mín er sú, að aðalatriði sé að hrinda skriðunni af stað í Rússlandi til að bylting hefjist. Ég hef litlar áhyggjur af hvort það er þessi eða hinn hópurinn, sem það gerir, eða hvort það er undir þessu eða hinu merkinu. Yrði það hallarbylting, þá yrði henni sópað burtu næsta dag. Þar sem að loft er svo lævi blandið; þar sem byltingaröflin hafa safnazt saman í jafn ríkum mæli; þar sem efnahagur fólks gerir hvern dag öðrum þungbærari; þar sem öll þrep hinnar þjóðfélagslegu þróunar eru fyrir hendi, allt frá frumsamfélagi til nýtízku stóriðju og bankavalds; og þar sem öllum þessum mótsögnum er haldið saman af harðstjórn, sem ekki á sinn líka, harðstjórn, sem verður æ óbærari fyrir æsku landsins, er sameinar innborna gáfu þjóðarinnar og metnað, – ef þar er runnið upp nýtt 1789, þá mun 1793 ekki lengi að bíða.

Ég kveð yður hér með, kæri borgari. Klukkan er orðin hálfþrjú að morgni og ég mun ekki hafa neinn tíma á morgun, áður en pósturinn fer, til að bæta neinu við.

Skrifið þér mér á rússnesku, ef þér æskið þess heldur, en ég bið yður að minnast þess, að rússneskir skrifstafir eru ekki mitt daglega viðfangsefni.

Yðar af öllu hjarta
*F. Engels.*

# Engels til Gersons Trier
## (uppkast)

Kæri herra Trier. London, 18. des. '89

Þakka yður fyrir fróðlegar upplýsingar yðar frá 8. þ. m. Ef ég á að segja yður álit mitt á síðustu atburðum í Kaupmannahöfn,[1] sem þér urðuð fyrir barðinu á, ætla ég að byrja á atriði, sem ég er yður EKKI sammála um.

Þér hafnið gjörsamlega allri samvinnu við aðra flokka, jafnvel um stundar sakir. Ég er nógu byltingarsinnaður til að láta ekki algjörlega banna mér að nota þetta vopn við kringumstæður, þar sem notkun þess er bezt eða skást.

Við erum sammála um, að öreigarnir geta ekki komizt til valda (sem er okkar eina von um nýtt þjóðfélag), án byltingarátaka. Til þess að öreigarnir verði nógu sterkir til að sigra á úrslitastundu, þurfa þeir – það höfum við Marx boðað síðan 1847 – að stofna sérstakan flokk, aðskilinn frá öllum öðrum og í andstöðu við þá, flokk, sem er sér meðvitandi um stéttarstöðu sína.

Í því felst engu síður, að þessi flokkur geti notað aðra flokka um stundarsakir í eigin þágu. Í því felst um leið, að hann getur stutt aðra flokka um tíma, sé það beinlínis til hagsbóta fyrir öreigana, fyrir efnahagsþróunina eða í þágu stjórnmálalegs frelsis. Ég myndi styðja hvern þann í Þýzkalandi, sem raunverulega berðist fyrir afnámi ættaróðalsins og annarra leifa lénsskipulagsins, berðist gegn embættisvaldi, verndartollum, andsósíalistalögum og takmörkun á funda- og félagafrelsi.

Væru þýzki frjálslyndi flokkurinn eða danski vinstri flokkurinn ykkar raunverulega róttækir borgaraflokkar en ekki einungis aumkunarverðir blaðrarar, sem hnipra sig saman strax og Bismarck eða Estrup byrsta sig, væri ég alls ekki skilyrðislaust andvígur sérhverju samstarfi við þá í ákveðnum málum. Þegar þingmenn okkar greiða atkvæði með tillögu, sem kemur frá öðrum – og það hljóta þeir oft að gera – þá er þegar í því fólgið visst samstarf. Ég er þó aðeins hlynntur slíku, þegar það er óumdeilanlega okkur beinlínis í hag eða stuðlar að hinni sögulegu þróun landsins til efnahagslegrar og pólitískrar byltingar; en þessi stuðningur verður að svara kostnaði. Og einnig verður að vera tilskilið, að engum vafa sé undirorpið, að flokkur okkar sé

[1] Engels á við baráttu milli endurskoðunarsinna og vinstri manna hins Sósíalíska Verkalýðsflokks Danmerkur, er var stofnaður 1876. Árið 1889 rak aðalstjórn flokksins hinn byltingarsinnaða minnihluta úr flokknum, en hann stofnaði nýjan flokk, sem varð samt aldrei að fjöldaflokki öreiganna vegna einangrunarstefnu forustu hans.

flokkur öreigastéttarinnar. Ég álít að lengra megi ekki ganga. Þessa stefnu gat að líta fullmótaða þegar árið 1847 í *Kommúnistaávarpinu,* við fylgdum henni 1848, í Alþjóðasambandinu og hvarvetna.

Burt séð frá siðgæði – það er ekki hér til umræðu – finnst mér, sem byltingarsinna, allar aðferðir réttmætar, sem færa okkur nær lokatakmarkinu, hvort sem um valdbeitingu er að ræða eður ei.

Slík stefna krefst innsýni og staðfestu, en hvaða stefna gerir það ekki? Hún býður heim spillingarhættu, segja stjórnleysingjarnir og vinur okkar Morris. Já, ef verkalýðsstéttin er samsafn þorskhausa, lítilmanna og skækja, sem hver getur keypt, þá er víst bezt fyrir okkur að hætta þessu brölti strax, þá eigum hvorki við né öreigarnir neitt erindi á svið stjórnmála. Öreigaflokkurinn eins og allir aðrir flokkar, lærir mest af sínum eigin mistökum, og enginn getur sparað honum þau.

Að mínu áliti hafið þér rangt fyrir yður, þegar þér gerið taktískt atriði að grundvallarreglu. Og í mínum augum var þetta upphaflega aðeins spurning um leiðir (taktík). En röng taktík getur í vissum tilfellum endað þannig, að allar grundvallarreglur bíði skipsbrot.

Og þá eruð þér réttilega, að svo miklu leyti sem ég get dæmt um það, í andstöðu við baráttuaðferðir flokksstjórnarinnar. Danski vinstri flokkurinn hefur um árabil leikið auvirðilegan andstöðugrínleik og þreytist ekki á að staðfesta eigin vanmátt frammi fyrir umheiminum. Hann hefur fyrir löngu látið það tækifæri renna sér úr greipum að refsa fyrir stjórnarskrárbrotið – ef það var nokkurn tíma fyrir hendi – með vopn í hönd, og svo virðist sem stöðugt fleiri úr vinstri flokknum þrái sættir við Estrup. Mér virðist að með slíkum flokki geti raunverulegur öreigaflokkur enga samleið átt án þess, er til lengdar lætur, að skuggi falli á hinn síðarnefnda sem verkalýðsflokk. Að svo miklu leyti sem þér leggið áherzlu á stéttarímynd hreyfingarinnar til mótvægis við þessa stefnu, þá er ég yður sammála.

Hvað varðar meðferð aðalstjórnarinnar á yður og vinum yðar,[1] þá kom það að vísu fyrir í leynifélögunum á árunum 1840–51, að andstæðingar innan flokksins voru reknir jafn umsvifalaust; en það var óhjákvæmilegt hjá leynifélögunum. Ennfremur hefur slíkt átt sér stað, og það ekki ósjaldan, hjá ensku „physical force" Chartistunum undir einræði O'Connors. En Chartistahreyfingin var af ásettu ráði lauslega upp byggð, eins og nafnið sjálft bendir til. Þeir voru þess vegna undir einræðisstjórn

[1] Trier var einn af forvígismönnum vinstri armsins, sjá [1]).

og brottvikning var n. k. hernaðarráðstöfun. Á friðartímum minnist ég aðeins slíks gerræðis hjá Lassallistum undir strangri stjórn J. B. von Schweitzer. Von Schweitzer neyddist til þessa vegna grunsamlegs sambands síns við lögregluna í Berlín og flýtti þannig fyrir upplausn Almenna þýzka verkalýðssambandins.[1] Varla myndi nokkrum af þeim sósíalísku verkalýðsflokkum, sem nú eru – eftir að svo vel fór, að herra Rósenberg í Ameríku flýtti fyrir sjálfum sér – láta sér detta í hug að bregðast við andstöðu, sem upp er vaxin í eigin skauti, að dæmi danska flokksins. Líf og döfnun sérhvers flokks er undir því komin, að hægfara og róttækir armar myndast og berjast. En sá sem rekur þann róttækari stuðlar aðeins að viðgangi hans. Verkalýðshreyfingin á allt undir hvassri gagnrýni á líðandi þjóðfélag. Gagnrýni er lífsviðurværi hennar. Hvernig getur hún sjálf forðast gagnrýni, ef hún ætlar að kanna umræður? Krefjumst við þá málfrelsis til þess eins að afnema það í eigin röðum?

Ef þér æskið þess að birta þetta bréf í heild, hef ég ekkert á móti því.

Yðar einlægur,

## Engels til Pauls Ernst (uppkast)

Heiðraði herra. London, 5. júní 1890

Ég get því miður ekki orðið við bón yðar um að skrifa yður bréf, sem þér getið notað gegn herra Bahr. Það myndi steypa mér í opinberar deilur við hann sjálfan og til þess hef ég engan tíma. Það sem ég skrifa yður er þess vegna aðeins fyrir yður persónulega.

Auk þess ber ég ekkert skynbragð á það, sem þér kallið kvennahreyfinguna á Norðurlöndum. Ég kannast aðeins við nokkur leikrit Ibsens og get alls ekki dæmt um, að hve miklu leyti Ibsen ber ábyrgð á uppátækjum meira eða minna móðursjúkra borgaralegra og broddborgaralegra kvenstritara.

Það svið, sem vanalega er kallað *kvenvandamálið* er auk þess svo umfangsmikið, að því verða ekki gerð viðhlítandi skil í einu bréfi. Eitt er samt víst, að Marx hefði aldrei getað tekið sömu afstöðu og Bahr. Svo brjálaður var hann ekki.

Varðandi tilraun yðar til að fjalla um málið á grundvelli efnishyggju þá verð ég að leggja áherzlu á, að aðferð efnis-

[1] Allgemeine Deutsche Arbeiterverein.

hyggjunnar snýst í andhverfu sína, ef hún er ekki notuð sem leiðarljós heldur sem mót, er sögulegar staðreyndir eru síðan sniðnar eftir. Og mér sýnist jaðra við, að herra Bahr hafi rétt fyrir sér, að þér séuð sekur um þetta.

Þér steypið öllum Noregi og öllu því sem þar gerist í einn broddborgaralegan pott og sjóðið hann óhikað eftir skoðun yðar á þýzkum broddborgaraskap. Það er raunar tvennt, sem kemur í veg fyrir að slíkt sé mögulegt.

Í fyrsta lagi: Á sama tíma og ósigur Napóleons táknaði sigur afturhalds yfir byltingu í allri Evrópu (og hún reyndist eingöngu nægilegur ógnvaldur í heimalandi sínu, Frakklandi, til að valin var frjálslynd, borgaraleg stjórnarskrá, þegar röð og reglu var aftur komið á), þá notaði Noregur tækifærið til að koma á miklu lýðræðislegri stjórnarskrá en til var annarsstaðar í Evrópu á þessum tíma.

Og í öðru lagi hefur orðið meiri bókmenntaleg vakning í Noregi á síðustu tuttugu árum en í nokkru öðru landi að Rússlandi undanskildu. Hvort sem þeir eru broddborgarar eður ei, þá afkasta Norðmenn miklu meir á þessu sviði en aðrir og setja stimpil á bókmenntir annarra þjóða, ekki sízt Þjóðverja.

Þessar staðreyndir gera það að verkum, að ég álít það nauðsynlegt að kanna norskan broddborgaraskap að einhverju leyti út frá sérkennum hans.

Og þá munuð þér sennilega komast að raun um, að mjög verulegur munur er þar á. Í Þýzkalandi er broddborgarinn afkvæmi misheppnaðrar byltingar, staðnaðrar og niðurbældrar þróunar. Hann fékk í vöggugjöf sín einstæðu óeðlilega háþróuðu einkenni ragmennsku, einfeldni, hjálparleysi og framtaksleysi frá 30 ára styrjöldinni og afleiðingum hennar, þegar einmitt flestallar stórþjóðir þróuðust mjög ört. Þessi einkenni hafa loðað við þjóðina, einnig eftir að Þýzkaland tók aftur að rakna úr rotinu. Þessi eiginleiki var svo sterkur, að hann einkenndi allar þjóðfélagsstéttir í Þýzkalandi að meira eða minna leyti. Þetta var þjóðareinkenni, þar til verkalýðsstéttinni tókst loksins að brjótast úr þessum viðjum. Þýzki verkamaðurinn er einmitt svo óskaplega föðurlandslaus vegna þess, að hann hefur algjörlega varpað af sér einfeldni þýzka broddborgarans.

Þýzki broddborgaraskapurinn er þannig langt frá því að vera eðlilegt þróunarskeið heldur mjög ýkt skopmynd, brot af úrkynjun á sama hátt og pólski gyðingurinn er skopmynd gyðingsins. Enskir, franskir og annarra þjóða smáborgarar eru á engan hátt sambærilegir við hinn þýzka.

Í Noregi hafa hins vegar smábóndinn og smáborgarinn – svolítið blandaðir millistéttum líkt og í Englandi og Frakklandi á

17. öld – verið um aldabil stoðir þjóðfélagsins. Hér er ekki fyrir hendi þvingað afturhvarf til úrelts ástands vegna mistaka stórrar hreyfingar og 30 ára styrjaldarinnar. Landið hefur dregizt aftur úr vegna einangrunar og náttúruskilyrða, en þetta ástand var í fullkomnu samræmi við framleiðsluaðferðir og þess vegna eðlilegt. Það er ekki fyrr en nýverið, að stóriðja er farin að skjóta upp kollinum; en engin kauphöll er til, sem er mikilvægasta lyftistöng auðvaldsmiðmögnunar, og auk þess heldur hin gífurlega útþensla sjóverzlunarinnar aftur af þeirri þróun. Því að meðan gufan þjarmar að seglskipum hvarvetna annars staðar, þá hefur Noregur þanið seglskipaeign sína gífurlega og hefur nú, – ef ekki stærsta –, þá að minnsta kosti næststærsta seglskipaflota í heimi. Hann er að mestu leyti í eigu smá- eða miðlungsreiðara, líkt og til að mynda í Englandi í kringum 1720. Þar með er þó komin hreyfing á drumbinn og þessi hreyfing kemur líka fram í bókmenntagróskú.

Norski bóndinn var aldrei ánauðugur og það gefur þróuninni allt annan bakgrunn, líkt og í Kastilíu. Hinn norski smáborgari er sonur frjáls bónda og er þess vegna *maður* í samanburði við hinn vesældarlega þýzka broddborgara. Og að sama skapi er hin norska smáborgarakona hátt yfir hina þýzku broddborgarakonu hafin. Og hverjar svo sem villur t. d. leikrita Ibsens kunna að hafa verið, þá endurspegla þau samt veröld, sem að vísu er smá- og miðborgaraleg, en samt gjörólík þeirri þýzku veröld. Norðmenn hafa enn sjálfstæða lund og frumkvæði, þó að gerðir þeirra séu oft – utan frá séð – einkennilegar. Öllu þessu yrði ég að kynnast nánar, áður en ég felldi um það dóm.

En svo að við snúum okkur aftur að umræddum sauði, nefnilega herra Bahr, þá furða ég mig á því, að fólk í Þýzkalandi skuli taka hvert annað svona óskaplega hátíðlega. Fyndni og kímni virðast algjörlega bönnuð og þegnskylda að vera leiðinlegur. Annars mynduð þér örugglega líta nánar á „frú" herra Bahr, en hún er laus við alla sögulega þróun. Húð hennar hefur þróazt, því að hún hlýtur annað hvort að vera hvít eða svört, gul, brún eða rauð, svo að hún getur ekki haft mennskt skinn. Hár hennar hefur einnig þróazt, hvort sem það er hrokkið og ullkennt, krullað, strítt, svart, rautt eða ljóst. Þannig er það útilokað, að hún hafi mennskt hár. Hvað verður þá eftir, þegar þér hafið skorið burtu með húð og hári það sem hefur þróazt á árþúsundum og „frúin sjálf kemur í ljós". Hvað sjáum við? Einfaldlega apynju, anthropopitheca, og henni verður herra Bahr að sofa hjá, „alveg áþreifanlegri og gegnsærri" með hennar „náttúrulegu hvötum".

# Nafnaskrá

31. okt. 1870 í París, var í fangelsi á dögum Kommúnunnar, sat alls 36 ár í frönskum fangelsum og fangabúðum.

*Bleichröder,* Gerson (1822–1893), þýzkur fjármálamaður, bankastjóri í Berlín.

*Blind,* Karl (1826–1907), þýzkur blaðamaður, tók þátt í byltingunni 1848, síðar stuðningsmaður Bismarcks.

*Bloch,* Joseph, útgefandi tímaritsins „Sozialistische Monatshefte".

*Block,* Maurice (1816–1901), franskur hagfræðingur.

*Boguslawski,* Albert von (1834–1905), prússneskur herforingi og rithöfundur um hernaðarfræði.

*Boisguillebert,* Pierre (1646–1714), franskur hagfræðingur.

*Bolingbroke,* Henry St. John (1678–1751), enskur stjórnmálamaður.

*Bolte,* Friedrich, þýzkur sósíalisti, forustumaður í 1. Alþjóðasambandinu.

*Bónaparte.* Sjá Napóleon III.

*Bracke,* Wilhelm (1848–1880), þýzkur sósíaldemókrati.

*Bréa,* Jean-Baptiste-Fidèle (1790–1848), franskur hershöfðingi.

*Brentano,* Lujo (1844–1931), þýzkur hagfræðingur.

*Bright,* John (1811–1889), enskur stjórnmálamaður.

*Broglie,* Achille-Charles (1785–1870), franskur stjórnmálamaður, orleanisti, forsætisráðherra 1835–36.

*Brousse,* Paul (1854–1912), franskur sósíalisti, síðar anarkisti.

*Brunel,* Antonie-Mogloire (1830–1871), franskur liðsforingi í miðstjórn þjóðvarðliðsins og í Parísarkommúnunni, blanquisti.

*Bruno,* Giordano (1548–1600), frægur ítalskur heimspekingur, brenndur á á báli vegna ágreinings við kirkjuna.

*Brutus,* Marcus Junius (85–42 f. Kr.), rómv. stjórnmálamaður, stóð fyrir samsærinu gegn Cæsari.

*Buchez,* Philippe-Joseph (1796–1865), franskur lærisveinn Saint-Simons, boðaði „kaþólskan sósíalisma".

*Buchland,* William (1784–1856), enskur jarðfræðingur.

*Bugge,* Sophus (1833–1907), norskur málfræðingur, prófessor í Osló.

*Büchner,* Ludwig (1824–1899), þýzkur læknir, höfundur alþýðlegra rita um náttúrufræði og heimspeki.

*Böhme,* Jakob (1575–1624), Þjóðverji skósmiður í Görlitz, dulspekingur og heimspekingur.

*Cabet,* Étienne (1788–1856), franskur útópískur kommúnisti, höfundur að „Ferð til Íkaríu".

*Caligula,* Gajus (12–41), rómverskur keisari.

*Calonne,* Charles Alexandre (1734–1802), franskur stjórnmálamaður, fjármálaráðherra hjá Louis XVI. 1783–1787.

*Calvin,* Jean – Kalvín, Johan (1509–1564), fransk-svissneskur siðbótarhöfundur, höfundur svokallaðrar Kalvínstrúar.

*Capefigue,* Jean-Baptiste (1802–1872), franskur rithöfundur, sagnfræðingur og stjórnmálamaður.

*Carlier,* Pierre (1799–1858), lögreglu-amtmaður í París 1849–1851, bónapartisti.

*Carlyle,* Thomas (1795–1881), kunnur skozkur rithöfundur og sagnfræðingur.

*Carnot,* Lazare-Hippolyte (1801–1888), franskur stjórnmálamaður, fræðslumálaráðherra í bráðabirgðastjórninni 1848.

*Cartwright,* Edmund (1743–1823), enskur hugvitsmaður, bjó til fyrsta vélknúna vefstólinn.

*Caussidière,* Marc (1808–1861), franskur byltingarsinni, handverksmaður, tók þátt í uppreistinni í Lyon 1834, lögregluamtmaður í París febr.–maí 1848, flúði til London.

*Cavaignac,* Louis-Eugène (1802–1857), franskur hershöfðingi og stjórnmálamaður, hermálaráðherra maí–júlí 1848, barði niður júníuppreistina í París 1848.

*Chambord,* Henri-Charles (1820–1883), sonarsonur Karls X. konungsefni legitimista undir nafninu Henri V.

*Changarnier,* Nicolas A.-T. (1793–1877), franskur hershöfðingi, átti hlut að því að bæla niður júníuppreistina í París 1848.

*Charlemagne* – Karlamagnús – sjá *Karl* mikli.

*Diocleiton,* Gajus Aurelius Valerius (ca. 245–313), rómverskur keisari 284–305, kunnastur fyrir ofsóknir á hendur kristnum mönnum.
*Diodorus* Siculus (1. öld f. Kr.), grískur sagnfræðingur, samdi rit um sögu Austurlanda, Grikklands og Rómaveldis. í 40 bindum.
*Dionysios frá Halikarnassos* (1. öld f. Kr.), rómverskur sagnritari grískrar ættar.
*Disraeli,* Benjamin – Beaconsfield lávarður (1804–1881), kunnur brezkur stjórnmálamaður af gyðingaættum, leiðtogi Íhaldsflokksins.
*Dodwell,* Henry (d. 1784), enskur efnishyggju-heimspekingur.
*Douay,* Félix (1816–1879), franskur hershöfðingi, tekinn til fanga ásamt Napóleon III. hjá Sedan.
*Draper,* J. W. (1811–1882), amerískur náttúru- og sagnfræðingur.
*Duchâtel,* Charles (1803–1867), franskur embættismaður, verzlunarmálaráðherra 1834–1836, innanríkisráðherra 1839 og 1840–1848, orleanisti.
*Duclerc,* Charles T. E. (1812–1888), franskur blaðamaður og embættismaður, fjármálaráðherra maí–júní 1848, síðar bankastjóri „Crédit Mobilier", forsætisráðherra 1882–1883.
*Dufaure,* Armand-Jules (1798–1881), franskur lögfræðingur og embættismaður, forsætisráðherra 1876, 1877–1879, orleanisti.
*Duns Scotus,* nefndur *Doctor Subtilis* (ca. 1265–1308), frægur enskur heimspekingur og guðfræðingur.
*Dupin,* André-Marie (1783–1865), franskur lögfræðingur og stjórnmálamaður, forseti löggjafarþingsins eftir febrúaruppreistina 1848.
*Dupont de l'Eure,* Jacques-Charles (1767–1855), franskur stjórnmálamaður, forseti bráðabirgðastjórnarinnar 1848.
*Duprat,* Pierre-Pascal (1815–1885), franskur þingmaður og rithöfundur.
*Dureau de la Malle,* Adolphe (1777–1857), franskur sagnfræðingur.
*Duval,* Emile V. (1841–1871), franskur verkamaður, félagi í 1. Alþjóðasambandinu, í miðstjórn þjóðliðs Parísarkommúnunnar og hershöfðingi hennar, var tekin til fanga 4. apríl af Versaillehermönnum og skotinn.
*Dühring,* Eugen (1833–1921), þýzkur hagfræðingur og heimspekingur, dósent í Berlín.
*Dürer,* Albrecht (1471–1528), frægur þýzkur málari og svartlistarmaður.

*Engels,* Friedrich (f. 28. 11. 1820 í Barmen, d. 5. 8. 1895 í London), sonur verksmiðjueiganda, gekk í menntaskóla í Elberfeld, varð skrifstofumaður hjá föður sínum í Bremen 1838, hélt þar áfram sjálfsnámi, lagði einkum stund á heimspeki. Gekk í hóp frjálslyndra menntamanna, „Junges Deutschland", en yfirgaf þá 1839. 1841 ferðalag um Sviss og Ítalíu síðan herþjónusta í Berlín; sótti jafnframt fyrirlestra við háskólann og komst í kynni við unghegelíana; skrifaði gagnrýni á heimspeki Schellings. Fluttist til Manchester 1842, kynntist þar kjörum brezks verkalýðs og skrifaði síðan „Umrisse zu einer Kritik der National-ökonomie" (1844) og „Die Lage der Arbeiterklasse in England" 1845. Kynntist Marx í París 1844 og næstu ár, 1844–1848, unnu þeir saman m.a. að ritinu „Die Heilige Familie", og „Die deutsche Ideologie". Á þessum árum lögðu þeir grundvöllinn að hinum vísindalega sósíalisma. Í Brüssel tóku þeir að sér að semja „Kommúnistaávarpið" (1847–1848) fyrir „Bund der Kommunisten". Í byltingunni 1848 var Engels gerður útlægur frá París, fór til London, síðan til Þýzkalands og átti sæti í ritstjórn „Neue Rheinische Zeitung" (1848–1849). Tók þátt í pólitískri baráttu og uppreistinni í Baden, flúði til Sviss og hélt síðan til Englands. Var fyrst í London, síðan í Manchester þar sem hann dvaldist til 1870, er hann hélt aftur til London. Á þessum árum samdi hann ýms af merkustu ritum sínum svo sem „Anti-Dühring" (1877–78) og „Díalektík der Natur" (1875–1876). Hann tók þátt í stofnun Fyrsta alþjóðasambandsins 1864 ásamt Marx. Eftir dauða

ritið „Eymd heimspekinnar“ og 1847–48 samdi hann ásamt Engels „Kommúnistaávarpið“ (kom út 1848). Vísað úr landi í febrúarbyltingunni 1848, fór til Parísar og síðar Þýzkalands, var aðalritstjóri „Neue Rheinische Zeitung“ í Köln (1.6. 1848–19.5. 1849). Tekinn fastur í febr. 1849 og vísað úr landi, dvaldist í París fram að júníkröfugöngunni, þá vísað úr landi á ný. Fluttist til London og vann þar að höfuðriti sínu „Auðmagninu“ (Das Kapital). Fyrsta bindi þess kom út 1867, en Engels sá um útgáfu tveggja seinni bindanna að honum látnum. Marx var kvæntur Jenny von Westfalen (1814–1881) sem hann hafði heitbundizt sem ungur stúdent 1836. (Sjá Engels, Friedrich).

*Masaniello,* Tomaso Aniello (1620–1647), ítalskur fiskimaður, leiðtogi alþýðunnar í Napólí gegn stjórn Spánverja 1647.

*Mathieu de la Drôme,* Philippe-Antoine (1808–1805), franskur þingmaður 1848–1851.

*Mauguin,* Francois (1785–1854), franskur lögfræðingur og stjórnmálamaður.

*Maupas,* Emile (1818–1888), franskur embættismaður, lögregluamtmaður í París, bónapartisti.

*Maurer,* Georg Ludwig (1790–1872), þýzkur sagnfræðingur, rannsakaði félagshætti Germana til forna og á miðöldum.

*Mayer,* Julius Robert (1814–1878), þýzkur náttúrufræðingur.

*Mazzini,* Giuseppe (1805–1872), ítalskur stjórnmálamaður, barðist fyrir þjóðlegu sjálfstæði og sameiningu Ítalíu.

*Mehring,* Franz (1846–1919), þýzkur sósíaldemókrati, bókmennta- og sagnfræðingur, ritaði ævisögu Marx.

*Mendelssohn,* Moses (1729–1786), þýzkur heimspekingur.

*Menenius, Agrippa* (d. 493, f. Kr.), rómverskur patrísei.

*Metternich,* Clemens Wenzel (1773–1859), kunnur afturhaldsmaður, austurrískur kanslari, einn af forgöngumönnum Hins heilaga bandalags ríkja Evrópu.

*Mignet,* Francois-Auguste (1796–1884), franskur sagnfræðingur.

*Millière,* Jean-Baptiste (1817–1871), franskur vinstri Proudhonisti, blaðamaður, tók þátt í Parísarkommúnunni, skotinn af Versaillistum 26. maí 1871.

*Miquel,* Johannes (1828–1901), prússneskur bankastjóri, í æsku félagi í Kommúnistasambandinu, þingmaður 1887–90, fjármálaráðherra 1890–1901.

*Mirabeau,* Honoré-Gabriel (1749–1791), franskur stjórnmálamaður, barðist fyrir hagsmunum stórborgarastéttar og borgaralegs aðals í frönsku borgarabyltingunni.

*Molé,* Louis-Mathieu (1781–1855), franskur embættismaður og stjórnmálamaður, oft ráðherra, orleanisti.

*Moleschott,* Jacob (1822–1893), hollenzkur líffræðingur og heimspekingur.

*Mommsen,* Theodor (1817–1903), kunnur þýzkur sagnfræðingur, frjálslyndur stjórnmálamaður.

*Monk,* George (1608–1669), enskur hershöfðingi og stjórnmálamaður, fyrst konungssinni, síðan fylgismaður Cromwells.

*Montalembert,* Charles (1810–1870), franskur stjórnmálamaður og rithöfundur, leiðtogi kaþólska flokksins.

*Montalembert* Mac-René (1714–1800), hershöfðingi, franskur verkfræðingur.

*Montesquieu,* Charles (1689–1755), franskur rithöfundur um stjórnmál, hagfræði og félagsfræði.

*Moody,* Dwight (1837–1899), amerískur trúboði.

*Morelly,* franskur ábóti á 18. öld, útópískur kommúnisti.

*Morgan,* Lewis Henry (1818–1881), kunnur amerískur vísindamaður, sagnfræðingur og þjóðfræðingur um frumstæð þjóðfélög.

*Morny,* Charles-Auguste (1811–1865), franskur kauphallarbraskari og stjórnmálamaður, hálfbróðir Louis Bónapartes.

*Morton,* John (1821–1888), enskur búfræðingur.

# Orðalisti

Orðalistinn, sem hér fer á eftir, er saminn með hliðsjón af orðaskrám í bókum Brynjólfs Bjarnasonar, „Á mörkum mannlegrar þekkingar" og „Vitund og verund". Þá fylgir allur orðalistinn úr útgáfunni á „Uppruna fjölskyldunnar, einkaeignarinnar og ríkisins", Reykjavík 1951. Ennfremur er að sjálfsögðu tekið talsvert upp í listann af orðum beint úr ritsafni þessu.

*aðleiðsla* – induktion
*afleiðsla* – deduktion
*afstæðilegur* (afstæður) – relativ
*afstæður* – þ. Verhältnisse
*alger* – absolut
– hin algera hugvera – die absolute Idee
*alhæfing* – generalisering
*alsamur* – absolut identisk
*altækur* – general, universal
*andabyggja* – animismus
*andlag* (hugsunar, vitundar) – objekt, þ. Gegenstand (d. Denkens, d. Bewusstseins)
*áreiti* – stimulus
*aukavinna* – þ. Mehrarbeit

*blóðsifjafjölskylda* – þ. Blutverwandtschaftsfamilie
*blætiseðli* – þ. Fetischcharakter
*bræðralag* – þ. Phratrie

*eðlislægur* (í heimspekilegri merkingu) – þ. wesentlich
*efabyggja* – þ. Skeptizismus
*eigind* – kvalitet
*eignahagsskipan* – þ. Eigentumsverhältnisse
*eignaupptaka* – expropriation
*einbyggja* – monismi
*einkvæni* – þ. Monogamie, Einzelehe; sjá: Sérhjúskapur
*endurframleiðsla* – Reproduktion

*ferli* – þ. Prozess
*firring* – þ. Entfremdung
*fjölhjúskapur* – þ. Gruppenehe
*fjölkvæni* – þ. Polygamie
*fjölveri* – þ. Polyandrie
*framleiðni* – produktivitet
*framleiðsluafstæður* – þ. Produktionsverhältnisse
*framleiðsluhættir* – þ. Produktionsweise
*framleiðslutæki* – þ. Produktionsinstrumente
*framleiðsluöfl* – þ. Produktionskräfte
*frumlag* (í rökfræðilegri merkingu og gagnstætt hugtakinu andlag) – subjekt
*frumspeki* – þ. Metaphysik
*frumverund* – þ. Substanz
*frumþáttur* – element
*fylgilag* – þ. Hetärismus
*fyrirburðafræði* – þ. Phänomenologie
*föðurréttur* – þ. Vaterrecht
*föðurréttarhúsneyti* – húsneyti, þar sem föðurréttur ræður. Sjá: húsneyti.

*gagnkvæður* (nf. ft.) – þ. Antinomie
*gagnkvæði* (lo. gagnkvæður) – þ. logischer Widerspruch
*gildi, verðmæti* – þ. Wert

*gildisauki* (verðmætisauki) þ. Mehrwert
*gildiskjarni* – þ. Wertsubstanz
*gildisverund* (gildishluttekning) – þ. Wertgegenständlichkeit
*gróðahlutfall* – þ. Profitrate
*grunnhugtak* – kategori
*guðhyggja* – theismus

*hálfsiðun* – þ. Barbarei
*hálfsiðingjar* – þ. Barbaren
*handahófsmök* – þ. ungeregelter eða regelloser Geschlechtsverkehr
*handiðja,* (skipulagður handiðnaður) – þ. Manufaktur
*hluteðlislægur* – fysisk
*hlutfirrtur* – abstrakt
*hlutskynjun* – þ. Wahrnehmung
*hluttekja* – objektivation
*hluttækur,* (hlutbundinn) – konkret
*hlutvera* (í þekkingarfræðilegri merkingu) – objekt
*hlutveruhughyggja* – þ. objektiver Idealismus
*hlutverulegur* (hlutlægur) – objektiv
*hlutveruleiki* (hlutheimur) – þ. objektive Wirklichkeit (Welt)
*hlutverund* – þ. objektiv Seiendes
*hughyggja* – Idealismus
*huglægur* – subjektiv
*huglæg reynsluhyggja* – þ. idealistischer Empirismus
*hugtakagreining* – þ. Begriffsanalyse
*húsneyti* – þ. Hausgenossenschaft, þ. e. að stórfjölskyldur, 2–3 ættliðir, búa undir sama þaki – og kallast húsnautar, þ. Hausgenossen.
*hvörf* (hverfifletir – í díalektískri framvindu) – moment
*innsæi* (lo. innsær) – intuition
*innvenzl* – þ. Endogamie
*innvenzlaður* – þ. endogam

*jákvæði* – position

*karlræði* – þ. Männerherrschaft
*karlsift* = karlleggur
*kennisetning* – þ. Thesis, e. thesis
*kjarnefni* (til aðgreiningar frá hinu altækara hugtaki efni – materie) – þ. Stoff
*kvenleggsættsveit,* – þ. mutterrechtliche Gens, þ. e. ættsveit, þar sem ættin er aðeins rakin í kvenlegg samkv. móðurrétti.

*kvenræði* – þ. Weiberherrschaft
*kvensiftar-ættsveit* = kvenleggsættsveit. Sjá það.
*kynstofn* – þ. Rasse

*löggengi* – þ. Gesetzmässigkeit
*löghyggja* – determinismus

*markgildi* – þ. Grenzwert
*megind* – kvantitet
*meginregla* – þ. Prinzip
*megund* – þ. Potenz, Vermögen
*merkurneyti* – þ. Markgenossenschaft; *merkurnautar,* þ. Markgenossen; merkurskipan, þ. Markverfassung
*móthverfa* (einkum haft um innri andstæður) – þ. objektiver Widerspruch
*móðurréttur* – þ. Mutterrecht
*móðurréttarfjölskylda* – þ. Mutterrechts Familie, fjölskylda reist á móðurrétti eða ættarrakningu í kvenlegg
*mörk* – þ. die Mark, sbr. merkurneyti

*nafnlaun* – þ. Nominallohn
*nauðhyggja* – þ. mechanischer Determinismus
*neikvæði* – negation
*notagildi* – þ. Brauchswert
*nytjalaun* (reyndarlaun) – þ. Reallohn

*ósættanlegur* – þ. antagonistisch
*óvissukenning* (óvissuheimspeki) – agnosticismus

*parafjölskylda* – þ. Paarungsfamilie
*parahjúskapur* – þ. Paarungsehe
*púnalúafjölskyldan* – þ. Punaluafamilie

*raunvirkur* – þ. praktisch

*samanburðarályktun* – þ. Analogieschluss
*samsemd* (lo. samsamur) Identität
*samþjöppun* – þ. Konsentration
*sannreyna* (no. sannreynd) – þ. bewahrheiten
*sérhjúskapur* – þ. Monogamie, Einzelehe
*sérfjölskylda* – þ. monogamische Familie

*sértak* (sértækt hugtak) – Abstraktion
*sértækur,* (hlutfirrtur) – abstrakt
*sifjakerfi* – þ. Verwandtschaftssystem
*sjálfsvera* (í þekkingarfræðilegri og almennri heimspekilegri merkingu, gagnstætt hugtakinu hlutvera) – subjekt, þ. das Subjektive
*sjálfsveruhughyggja* – þ. subjektiver Idealismus
*sjálfsveruhyggja* – subjektivismus
*skiptagildi* – þ. Tauschwert
*skynreynd* – þ. Sinnesdatum
*staðflokkur* – þ. Ortstamm
*svörun* – reaktion
*sýnd* – þ. Erscheinung

*tvíhyggja* – dualismus
*tvöfaldur myntfótur* – e. bimetallism

*upphleðsla,* (auðsöfnun, samsöfnun auðmagns) – þ. Akkumulation
*útboðslið* – þ. Mobilgarde
*útvenzl* – þ. Exogamie
*útvenzlaður* – þ. exogam

*venzlaflokkur* – þ. Eheklasse
*verðund* (í annarri og þrengri merkingu en megund) – þ. Potenz
*verun* (vera, tilvera) – þ. Sein
*viðbragð* – reflex
*villimennska* – þ. Wildheit

*yfirskilvitlegur* – transcendent

*þekkingarfræði* – þ. die Erkenntnistheorie
*þjóðhagfræði* – þ. politische Ökonomie, Nationalökonomie
*þorpsfélag* – þ. Dorfsgenossenschaft, Dorfgemeinschaft

*ættfeðrafjölskylda* – þ. patriarchalische Familie
*ættflokkur* (ættbálkur) – þ. Stamm
*ættflokkungar* – þ. Stammgenossen
*ættsveit* – þ. Gens
*ættsveitungar* – þ. Gentilgenossen

*öreind* – þ. Elementarpartikel

# Frá útgefanda

Útgáfa þessi á úrvali úr ritum þeirra Marx og Engels styðst í meginatriðum við tveggja binda útgáfu þýzka hjá Dietz Verlag í Berlín. Þó vantar nokkuð á að allt sé tekið, sem í þeirri útgáfu er – og fleiru sleppt en í upphafi var ráðgert. Aftur á móti er aukið við tveim köflum úr „Auðmagninu" eftir Marx og nokkrum bréfum. Þá er niðurröðun efnis önnur. Til mála kom að leita víðar fanga í ritum þeirra Marx og Engels, en af því gat ekki orðið að þessu sinni.

Hér fara á eftir nöfn þýðenda og hvað hver hefur þýtt:

*Ársæll Sigurðsson* og *Hjalti Árnason:* „Launavinna og auðmagn" eftir Marx, með inngangi eftir Engels. (Upphaflega birtist þessi þýðing í Rétti, 16. árg. 1931 og sérprentuð sama ár. Ársæll endurskoðaði þýðinguna fyrir þessa útgáfu.)

*Ásgeir Blöndal Magnússon:* „Uppruni fjölskyldunnar, einkaeignarinnar og ríkisins" eftir Engels, ásamt formála og viðbæti. (Þessi þýðing kom út í bókarformi ásamt formála þýðanda hjá bókaútg. Neistar, Reykjavík 1951.)

*Ásgrímur Albertsson:* „Ræða flutt í afmælishófi People's Paper" eftir Marx, bréf frá Marx til Engels 16. apríl 1856, „Ávarp" og Bráðabirgðalög Alþjóðasambands verkamanna" eftir Marx og „Laun, verð og gróði" eftir Marx, 3. til 10. kafli.

*Brynjólfur Bjarnason:* „Athugasemdir við Gothastefnuskrána" eftir Marx, ásamt formála eftir Engels og bréfum – Marx til Brackes 5. maí 1875, Engels til Bebels 18.–28. marz 1875 og til Kautskys 23. febr. 1881. „Ludwig Feuerbach og endalok klassísku þýzku heimspekinnar" eftir Engels og „Um Feuerbach" eftir Marx. (Brynjólfur hafði áður þýtt „Athugasemdir við Gothastefnuskrána", kom sú þýðing í Rétti, 13. árg. 1928 og sérprentuð sama ár, ásamt formála þýðanda, en þessi þýðing hans er ný og gerð fyrir þessa útgáfu.)

*Eyjólfur R. Árnason:* „Leyndardómur upphaflegrar upphleðslu auðmagnsins" og „Söguleg þróunarstefna kapítalískrar upphleðslu", tveir kaflar úr „Auðmagninu" eftir Marx og „Laun, verð og gróði" eftir Marx, 11. til 14. kafli.

*Franz A. Gíslason:* „Borgarastríðið í Frakklandi" eftir Marx, ásamt inngangi eftir Engels, og tvö bréf frá Marx til Kugelmanns, 12. og 17. apríl 1871.

*Guðmundur Ágústsson og Eyjólfur R. Árnason:* „Blætiseðli vörunnar og leyndardómur þess", kafli úr „Auðmagninu" eftir Marx.

*Hjalti Kristgeirsson:* Formálinn að „Drögum að gagnrýni á þjóðhagfræði" eftir Marx og „Karl Marx: Drög að gagnrýni á þjóðhagfræði" I–II, bókarumsögn eftir Engels.

*Hjörleifur Guttormsson:* Formálinn að „Díalektík náttúrunnar“ eftir Engels og „Þýzka bændastríðið, formálar“ eftir Engels.
*Jóhann Páll Árnason:* „Stéttabaráttan í Frakklandi“ eftir Marx, ásamt formála eftir Engels.
*Jón Ingi Hannesson:* Bréf Marx og Engels, II. bindi bls. 343–365.
*Magnús Torfi Ólafsson:* Bréf Marx til Annenkovs 28. des. 1846, til Weydemeyers 5. marz 1852, til Engels 25. sept. 1857, bréf Engels til Schmidt 5. ág. 1890, til Blochs 21.–22. sept. 1890, til Schmidt 27. okt. 1890, til Mehrings 14. júlí 1893, til Starkenburgs 25. jan. 1894.
*Sigfús Daðason:* „Átjándi brumaire Lúðvíks Bónaparte“ eftir Marx, ásamt formála eftir Engels.
*Sigurður Ragnarsson:* „Karl Marx“ eftir Engels, „Þróun sósíalismans“ eftir Engels, ásamt formála höfundar að ensku útgáfunni 1892, „Formáli að fyrstu útgáfu 1. bindis „Auðmagnsins“ eftir Marx og hluti af „Eftirmála 2. útgáfu 1. bindis Auðmagnsins“ eftir Marx. („Þróun sósíalismans“ hefur áður verið þýdd á íslenzku, kom út á Akureyri 1928 í þýðingu Einars Olgeirssonar og Steinþórs Guðmundssonar undir titlinum „Þróun jafnaðarstefnunnar, draumsýn verður að vísindum“.)
*Sverrir Kristjánsson:* „Kommúnistaávarpið“ eftir Marx og Engels, ásamt formálum. (Þýðing Sverris kom út hjá bókaútgáfunni Neistar, Reykjavík 1949, með inngangi eftir þýðandann. Áður hafði komið út þýðing á „Kommúnistaávarpinu“ á Akureyri 1924 gerð af Einari Olgeirssyni og Stefáni Péturssyni.)
*Þór Vigfússon:* „Laun, verð og gróði“ eftir Marx, 1. og 2. kafli.

Þýðingin á „Ræðu Engels við gröf Marx“ er tekin úr Rétti, 37. árg. 1953, óvíst um þýðanda.

Skýringar við texta – aðrar en frá höfundum – eru ýmist frá þýðendum, gerðar eftir erlendum útgáfum eða teknar saman af útgáfunefnd. Nafnaskrá er samin með stuðningi af tveggja binda útgáfu á ensku, Moskvu 1958. Orðalistann hefur Svavar Gestsson tekið saman.

Í útgáfunefnd af hálfu forlagsins voru: Einar Olgeirsson, Eyjólfur R. Árnason og Kristinn E. Andersson.

# Efnisyfirlit